ÞORVALDUR GUÐMUNDSSON

# NOKKRIR FYRIRLESTRAR



REYKJAVÍK — FJELAGSPRENTSMIÐJAN — MCMXXI

# FORMÁLI

Þorvaldur Guðmundsson, höfundur fyrirlestra þeirra, sem hjer fara á eftir, fæddist að Marteinstungu í Holtahreppi hinum forna í Rangárvallasýslu 15. dag júlímánaðar 1868; voru foreldrar hans Guðmundur bóndi Þórðarson, er þar bjó, og Ragnheiður Vilhjálmsdóttir kona hans. Þau voru allvel efnum búin hin fyrstu búskaparár sín, en „harða vorið“, 1882, mistu þau nær allan sinn pening, og rjettu aldrei við eftir það, enda ljest Guðmundur eigi mjög löngu síðar, vorið 1889.

Þorvaldur ólst upp hjá foreldrum sínum og þótti snemma óvenju bókhneigður, og las alt, er hann náði til; langaði hann mjög „til að læra eitthvað á þeim árum“, en þess var enginn kostur fyrir sakir fátæktar, og var hann fermdur svo snemma sem verða mátti, svo að hann gæti komist til sjávar og ljett undir í búskapnum, því að alls þurfti við, ef bjargast skyldi heimilið hjálparlaust. Honum var því ekki kent annað en lestur og kver og lítið eitt að draga til stafs, en ekkert um það hirt, þótt skriftin væri með engu lagi og stafsetningin því lakari. En þótt „skólamentunin“ væri þannig af skornum skamti, reyndi Þorvaldur að bæta sjer það upp á annan hátt; hann var sjer mjög úti um bækur til lesturs, og er hann eldist, keypti hann sjálfur mikið af bókum og langt um efni fram, enda átti hann, þegar

hann fluttist að austan, fulla gríðarstóra kistu, og þótti það, og var líka, eins dæmi austur þar um þær mundir.

Eftir lát föður síns bjó Þorvaldur með móður sinni, og jafnan við lítil efni, uns hann fluttist til Reykjavíkur árið 1899; gerðist hann þá afgreiðslumaður hjá Sigurði Kristjánssyni bóksala, og dvaldist hjá honum síðan, þar til er hann misti heilsuna 1918, og varð það með þeim hætti, að hann varð máttlaus, og hefir verið með öllu ófær til vinnu síðan, enda lengstum naumast rólfær.

Þegar Þorvaldur var sestur að í Reykjavík, tók hann af alefli að safna bókum; eyddi hann í það hverjum eyri, er honum áskotnaðist, og það svo vendilega, að kalla mátti, að aldrei væri hann sæmilega haldinn að klæðum. En hverja bók, sem hann eignaðist, las hann vandlega og lærði að meira eða minna leyti, enda var minnið einkar gott og traust, en einkum las hann þó sögu og guðfræði. Hjelt nú Þorvaldur áfram að safna bókum, meðan til vanst, og átti að lokum um 1400 bindi, alt íslenskt, að heita mátti, og úrvalið úr því, er hjer á landi hefir verið gefið út fyrr og síðar, það er fáanlegt var, og sumt næsta torgætt. En er hann veiktist, varð hann að selja safn sitt.

Þorvaldur tók allmikinn þátt í fjelagslífi þessa bæjar, og var í ýmsum fjelögum. Og með því að þess varð skjótt vart, að hann var í fróðustu manna röð, einkum um sögu þessa lands, var hann oft beðinn að skemta með því að segja kafla úr sögunni, og urðu þá til fyrirlestrar þeir, er hjer birtast nú. Til samningar þeim hafði hann þær stundir, er afgangs urðu afgreiðslu og öðrum störfum, sem vinna þurfti á heimilinu, enda eru þeir flestir hripaðir upp á búðarborðinu eða í gluggakistu búðarinnar; kæmi einhver inn eða væri einhverju öðru að sinna, sópaði Þorvaldur öllu saman niður í skúffu,

en er aftur varð á milli, tók hann „þar til, er fyrr var frá horfið“. Það væri því þegar af þessari ástæðu lítt að undra, þótt fyrirlestrarnir væru nokkuð slitróttir og sundurlausir. En þess er enn fremur getanda, að höf. ætlaði aldrei að láta prenta þá, en samdi þá beinlínis með það fyrir augum að geta flutt þá sjálfur og aukið við og felt úr eftir því sem honum þótti við eiga, en brent síðan blöðin, enda fóru þá leiðina margir hinna fyrstu fyrirlestra hans. — En þótt fyrirlestrarnir sjeu þannig ekki nema svipur hjá sjón móts við það, er hann flutti þá sjálfur, þótti oss, kunningjum hans, er höfðum hlustað á þá eða fengið að lesa þá, rjett, að þeir kæmu fyrir almenningssjónir, og hvöttum því Þorvald til þess að gefa þá út; tók hann því allfjarri lengi vel, og kvaðst mundu hafa vandað betur til þeirra, ef hann hefði ætlað þeim lengra líf en einnar kvöldstundar, en loks ljet hann þó til leiðast, og er þá þessi saga til þess, að þeir koma nú út.

Um útgáfuna sjálfa get jeg verið fáorður. Jeg hefi einn, að kalla má, sjeð um hana, og hefir starf mitt einkum verið í því fólgið, að lesa prófarkirnar; hefi jeg lesið fyrstu próförk af allri bókinni, og aðra próförk frá bls. 129 og bókina út, en sjera Fr. Friðriksson las aðra próförk af fyrstu 8 örkunum. Samlestur annarar og þriðju prófarkar hefir prentsmiðjan annast, en Hafliði prentari Helgason hefir auk þessa farið yfir 3. próförk af síðari hluta bókarinnar. En þrátt fyrir allan þennan „lestur“ eru prentvillur býsna margar, og sumar allmeinlegar; hefi jeg tekið þær upp á lagfæringalista aftan við, og ættu menn að leiðrjetta, áður en bókin er lesin.

Að öðru en stafsetningu má kalla, að fyrirlestrarnir sjeu eins og höf. gekk frá þeim að upphafi, en þó hefi

jeg á stöku stað vikið við orði og setningu. Sjálfur er höf. svo farinn að heilsu, að hann gat enga aðstoð veitt við útgáfuna.

Óþarft þykir að láta fylgja heimildaskrá, því að þetta er alþýðubók en ekki vísindarit.

Sú er að lokum ósk höf., að námgjarn æskulýður þessa lands og aðrir þeir, er ekki eiga á betra völ, hafi jafnmikla ánægju af að lesa bókina og hann hafði gleði af að setja saman fyrirlestra sína.

Reykjavík, 10. des. 1921.

**Bogi Ólafsson.**

---

# Ingimundur Gamli.

Fyrirlestur fluttur í st. Bifröst nr. 43, 19. febr. 1904.

---

Heiðruðu reglusystkini!

Jeg á að tala hjer í kvöld um einn af hinum frægu landnámsmönnum fornaldarinnar, Ingimund Þorsteinsson, eða Ingimund gamla, eins og hann var vanalega kallaður. Það mætti sannarlega halda langa ræðu, ef lýsa ætti eins og vert er æfi þessa merkismanns. Það er alkunna, að margur af hinum frægu mönnum fornaldarinnar á glæsilega æfisögu, en þó fáir eins og Ingimundur. Hann er hin skýrasta fyrirmynd hetju og drenglyndis. Það dæmi, sem hann gefur, er svo fagurt og eftirbreytnisvert, að hver óspiltur unglingur, karl eða kona, ætti að taka sjer það til fyrirmyndar alla sína æfi. Jeg verð tímans vegna að vera mjög stuttorður og láta mjer nægja að geta örfárra atriða úr æfisögu hans.

Ingimundur fæddist, að því er ætlað er, kringum 850, í Raumsdal í Noregi, og voru foreldrar hans af hinum merkustu ættum komin. Faðir hans, Þorsteinn, var sonur Ketils Raums, en Þórdís móðir hans var dóttir Ingimundar jarls af Gautlandi. Bæði föður og móðurætt hans var því fræg fyrir hreysti,

göfuglyndi og fleiri mannkosti, er mikils þóttu verðir þá, eigi síður en nú.

Ingimundur er að eins barn að aldri, er sagan getur hans fyrst; það var þá er Ingjaldur af Hálogalandi, besti vinur föður hans, kom þangað að kynni sínu. Ingjaldi leist mjög vel á sveininn Ingimund og bauð honum fóstur, og var það þegið. Ingjaldur átti son, er Grímur hjet, á aldur við Ingimund. Brátt tókst vinátta mikil með sveinunum, svo að þeir sórust í fóstbræðralag, sem þá var títt. Snemma var Ingimundur þroskamikill, sem hann átti kyn til, og eins og þá var títt um allflesta höfðingjasyni og unga og efnilega framgjarna menn, lögðust þeir fóstbræður í hernað, er Ingimundur var 17 ára, en Grímur fóstbróðir hans nokkru eldri. Áður en Ingimundur lagði af stað, fór hann að finna föður sinn og beiddist af honum fjárframlags til fararinnar og mælti á þessa leið: „Gott fóstr hefir þú mér fengit, enn nú vil ek at þú fáiṛ mér skip ok vil ek herja í sumar, eftir hætti hinna fyrri frænda minna; em ek svá til aldrs kominn, at ek má vel slíkt starfa; ok vil ek kosta til þessar ferðar sjálfr ok þú, enn eigi fóstri minn; enn veit ek, at ek má hafa af honum slíkt er ek vil.“ Jeg hefi tekið upp þessi orð Ingimundar hjer, af því að mjer virðast þau marka svo skýrt stefnu þá, er hann fylgdi alla æfi síðan.

Sagan lýsir Ingimundi á þá leið, að hann reyndist brátt djarfur í allri framgöngu og góður drengur, hraustur til vopna og harðfengur, vinhollur, dreglyndur og góðgjarn og fastnæmur við vini sína, „ok svá mátti höfðingja bezt farit vera, sem honum var

í fornum sið.“ Ekki er þetta mælgismikið, en þó er það flest tekið fram, er góðan dreng má prýða; og það, sem mest er um vert, er að lýsing þessi á Ingimundi er sönn og í fullu samræmi við framkomu hans síðar, hvort heldur áttu í hlut vinir hans eða óvinir. Því mun hann jafnan verða talinn einn hinn merkasti og mikilhæfasti maður í fornum sið.

Upphaflega voru þeir að eins tveir fóstbræður, Ingimundur og Grímur, en svo kom sá þriðji til sögunnar, Sæmundur, er síðar nam Sæmundarhlíð í Skagafirði. Þessir kappar hjeldu saman í hernaði árin 867—871, og er þess getið um þá, að þeir hafi farið vel með hernaði sínum, aldrei rænt bændur eða friðsama menn, og sýnt miklu meiri mannúð og drengskap, en títt var á þeim tímum um flesta þá, sem í hernaði lágu. Víkingalífið hafði bjartar hliðar og dökkar, og fór það eftir því, hvernig þeir hjeldu á, sem með völdin fóru. Þess er og greinilega getið, að Ingimundur væri fyrir þeim öllum fóstbræðrum um allan skörungskap, ráðagerðir og vitsmuni, enda var fjelagsskapur þeirra hinn merkilegasti í hvívetna.

Haustið 872 stóð hin nafnfræga Hafursfjarðarorusta; en þau voru tildrög hennar, að Haraldur hárfagri hafði einsett sjer að leggja allan Noreg undir sig og gerast þar einvaldur konungur. Hafursfjarðarorustu lauk svo, að Haraldur hlaut frægan sigur og braut alla mótstöðumenn sína til hlýðni við sig eða stökti þeim á brott úr Noregi að öðrum kosti, og gerðist síðan einvaldur um endilangan Noreg, uns hann andaðist í hárri elli.

Jeg verð að víkja betur að þessum merkis viðburði sögunar, því hann hafði svo mikil áhrif á örlög Ingimundar og þeirra fóstbræðra. Áður en til orustu var lagt, bar þá Ingimund og Sæmund þar að, (Grímur var þá ekki með þeim), og voru þeir á heimleið úr hernaði, og höfðu sem endranær auð fjár og mannafla mikinn. Ingimundur vildi veita konungi lið, en Sæmudur ekki, og sýndist þá sitt hvorum og skildu í missætti nokkru. Sæmundur hjelt norður og heim, en Ingimundur lagði til orustu með konungi og barðist hraustlega að vanda. Svo sem fyr var sagt, vann konungur frægan sigur, og launaði stórmannlega öllum, er honum höfðu lið veitt, Ingimundi sem öðrum. Hann kvaðst og minnugur skyldu vera Sæmundar og hans drottinsvika, en Ingimundur tók málstað Sæmundar með fullri einurð, og kvað Sæmundi margt vel gefið.

Jeg verð nú að nema hjer staðar um stund og fara nokkrum orðum um þennan kafla æfi Ingimundar, því þeir hafa nokkrir verið, er honum hafa ámælt fyrir að veita konungi lið, og hafa talið, að hann með því hafi rjett einveldinu hjálparhönd, og lagt sinn skerf til að svifta þjóð sína sjálfstæði og frelsi. Því hefir einnig verið haldið fram, að honum hafi gengið til eigingirni að ná vinfengi konungs. Jeg fyrir mitt leyti get eigi felt mig við þessa skoðun, og virðist hún ólíkleg, og liggja til þess þær ástæður, er nú skal greina.

Áður en konungur lagði landið undir sig, ríkti fjöldi smákonunga í Noregi, og áttu þeir venjulega í endalausum erjum hver við annan, og var hver hönd-

in uppi á móti annari. Landið var herskátt mjög og umsetið af útlendum ránsmönnum, er oft veittu landsmönnum þungar búsifjar, en vegna innanlands óeirða voru engin samtök um að stökkva þessum óaldaflokkum á burt. Eitt öflugt vald vantaði, eina örugga stjórn yfir allri þjóðinni. — Jeg get mjer til, að Ingimundur — jafn stórvitur maður sem hann var — hafi sjeð og skilið, hversu ástatt var, og hvað öllum gegndi best. Þess má líka geta, að Haraldur var vel á veg kominn með að leggja landið undir sig, þegar Hafursfjarðarorusta stóð. Ekkert er því líklegra, en að Ingimundur hafi sjeð, hvert straumurinn stefndi, og hver endir hlyti á að verða, ef eigi stöðvuðust hinar þrotlausu innanlands óeirðir, en þess voru litlar líkur, nema með einveldi konungs, og hefir Ingimundi vafalaust verið full ljóst, hvað hagkvæmast yrði landinu í heild sinni, enda varð reyndin sú, að þá er Haraldur var orðinn einvaldur konungur, komst fullkominn friður á, og má í vissum skilningi segja, að þá fyrst byrji heildarsaga Noregs. — Jeg hefi nú orðið helst til langorður um þetta atriði; en vegna þess að mjer finst framkoma Ingimundar í þessu máli hafa verið misskilin af mörgum, vildi jeg láta mína skoðun í ljós.

Eins og áður er á vikið, skildu þeir Sæmundur og Ingimundur í Hafursfirði, í nokkrum styttingi; en jafnskjótt sem Ingimundur kom heim, fór hann á fund Sæmundar og tjáði honum, að konungur hefði þungan hug til hans, og ráðlagði honum að leita sem fyrst af landi burt, og þá helst út til Ís-

lands, svo konungur fengi engum hefndum komið fram við hann. Á Íslandi kvað hann landkosti vera góða, og fýsilegt þangað að leita. Sæmundi gat ekki dulist það drenglyndi, er Ingimundur sýndi honum með þessari framkomu, og varð honum þetta að orði: „Sýnir þú í þessu sem öðru trúskap þinn ok vingan, ok mun ek þetta ráðs taka,“ og það efndi hann, því hann fór til Íslands við fyrsta tækifæri.

Jeg verð nú að fara fljótt yfir sögu Ingimundar þau ár, sem hann dvaldi í Noregi eftir Hafursfjarðarorustu, til þess er hann fór alfarinn til Íslands vorið 890, en þess vil jeg þó geta, að hann fór í orlofi konungs, og þótti öllum hin mesta eftirsjá að honum; sagði konungur, að hann mundi hinn mesti sæmdarmaður „hvar landa“ sem hann yrði; en svo var hann vel látinn af alþýðu manna, að margir urðu til að fara með honum út til Íslnds, „bæði bændr ok lausir menn“. Þegar hann kom til Íslands fjekk hann hinar bestu viðtökur, enda voru fóstbræður hans báðir komnir út á undan honum. Grímur hafði reist bú á Hvanneyri með mikilli rausn; hjá honum var Ingimundur hinn fyrsta vetur, er hann var á landi hjer, en flutti norður um vorið; þá hafði Sæmundur numið alla Sæmundarhlíð í Skagafirði.

Fyrst nam Ingimundur land í Víðidal, en vorið 893 reisti hann bú mikið að Hofi í Vatnsdal, og gerðist þar brátt goðorðsmaður og mikill höfðingi. Heimili hans var fyrirmynd að rausn og allri háttprýði, enda var Vigdís kona hans, dóttir Þóris jarls þegjanda, hin mesta ágætiskona, sem hún átti kyn til.

Börn þeirra hjóna voru 6, 4 synir og 2 dætur, öll mikilsháttar og kynsæl hjer á landi, svo sem segir í Vatnsdælu og víðar. Sem dæmi þess, hvernig Ingimundur húsaði á jörð sinni, skal þess getið, að hann reisti hof 100 feta langt, og eftir því munu aðrar hans byggingar verið hafa. Hann var trúmaður mikill og leið ekki, að goðin væru óvirt, og hinn strangasti í öllu, er að átrúnaði laut. Annars er búskap hans og hjeraðsstjórn allri svo nákvæmlega lýst, þótt í fáum orðum sje, að auðsætt er, að hann hefir hlotið auðsæld mikla, og notið ástar og virðingar allra, er hann átti yfir að ráða. Svo var hann lánsamur, að hann mun mega telja hamingjudrýgri en flest önnur stórmenni fornaldarinnar.

Geta vil jeg þess, að það hefir orðið talsverður meiningamunur um það, hvers vegna Ingimundur hlaut viðurnefnið „gamli“; í sögu hans er eigi getið um ástæður fyrir því, svo jeg muni, en hins vegar hefir ýmislegs verið tilgetið. Mjer þykir líklegust sú tilgáta, að hann hafi hlotið þetta nafn vegna þess, að hann hafi snemma orðið öldurmannlegur ásýndum; aldursins vegna gat hann tæplega hlotið það; hann fæddist 850 og dó um 935, og varð því 85 ára gamall. Nú er það vitanlegt, að margir á þeim tímum náðu nokkru hærri aldri, án þess þó að það gæfi tilefni til auknefnis. Annars skal jeg engan úrskurð leggja á þetta atriði, þótt jeg hins vegar geti þessa, öðrum til umhugsunar; enda skiftir ekki allmiklu málið um viðurnefni þetta, nje um þau rök, er til þess liggja.

Þá komum við að því atriði í sögu Ingimundar,

er hefir gert mjer hann ógleymanlegan, og svo get jeg, að fleirum muni hafa farið, er sögu hans hafa lesið. Jeg á hjer við þá ráðstöfun, sem hann á banadægri sínu gerir banamanni sínum til lífs og undankomu; mig minnir, að sú ráðstöfun sje einstæð í Íslendinga sögum, þegar metnar eru allar ástæður.

Ingimundur var veginn á þrælslegan og níðingslegan hátt, og það af manni, sem átti honum alt gott upp að ynna, manni, sem hann hafði tekið húsviltan og hælislausan ásamt móður hans; þessi maður var Hrolleifur hinn mikli, bróðir Sæmundar, fóstbróður Ingimundar, og mun hans jafnan minst sem eins hins versta manns, er hjer á landi hefir búið.

Mikil deila og hörð var á milli Hrolleifs og Hofsverja, sona Ingimundar, og var orsökin yfirgangur og ofstopi Hrolleifs, enda þeir bræður sumir ekki allmiklir skapdeildarmenn. Þetta frjetti Ingimundur, lætur hann söðla hest sinn, og kveður svein sjer til fylgdar, og ríður niður að Vatnsdalsá, þar sem deilan stóð, og hyggur nú sem oftar að koma á sættum, en Hrolleifur tók máli hans illa og skaut að honum spjóti án þess aðrir yrðu varir við. Þegar Ingimundur fjekk lagið, skipaði hann sveininum tafarlaust að fylgja sjer heim, án þess að synir sínir yrðu varir við, hvernig komið væri. Hann komst heim með aðstoð sveinsins og var studdur frá hesti til öndvegis síns; braut hann af skaftinu spjótið, er stóð í gegnum hann, en meðan honum blæddi út mælti hann við sveininn á þessa leið: „Þú hefir mér lengi trúr verit, ger nú sem ek býðr þér; meiri ván

at ek krefja þik fás heðan af. Far þú nú ok seg Hrolleifi, at áðr morgin kemr, get ek at synir mínir þykkist eiga þangat at sjá eftir föðurhefndum sem hann er, ok gæti hann svá síns ráðs, at hann fari í braut áðr dagr komi; mín er eigi at betr hefnt, þótt hann deyi, enn mér samir at skjóta skjóli yfir þann, er ek hefir áðr á hendr tekizt, meðan ek má mæla, hversu sem síðar ferr." Eins og vænta mátti, urðu synir hans bæði hryggir og reiðir, er þeir vissu, hvernig komið var, en samt gátu þeir eigi annað en dáðst að góðgirnd föður síns, og varð elsta syni hans, Þorsteini, að orði: „Njóta mun faðir minn þess frá þeim, er sólina hefir skapat ok allan heiminn." Hrolleifr slapp því að sinni, þótt refsihönd þeirra Ingimundarsona næði síðar til hans; en þessi geisli kærleikans, sem þarna brýst fram í náttmyrkri heiðninnar, er svo skær, að hann verpur enn í dag ljósi inn í hug allra, sem þetta lesa. Jeg hefi lengi leitað í fornsögum okkar að hinu fegursta dæmi sannarlegs drengskapar; jeg fann mörg fögur dæmi, en ekkert, er að minni hyggju tekur þessu fram, og þegar jeg hefi rent huganum yfir æfisögu Ingimundar, hefi jeg jafnan numið staðar við þetta síðastgreinda atriði, og dómur minn um hann hefir þá orðið á þá leið, að Ingimundur gamli hafi verið einn af hinum allra merkilegustu og bestu mönnum sinnar tíðar, sakir mannkosta sinna margra og annara hæfileika, svo sem hreysti, rausnar, höfðingsskapar og drenglyndis. Hreysti sýndi hann hvervetna í orustum, enda var hann jafnan sigursæll. Höfðingsskapar hans og ósjerplægni getur sagan

víða; góðgirni og kærleika sýndi hann jafnt vinum sem óvinum. Trygð hans og staðfesta var órjúfandi við alla þá, er eitt sinn náðu vináttu hans; hins vegar hafði hann til skap og metnað, en kunni vel að stilla í hóf hvorutveggja, og varð það honum og alt til sæmdar. Hamingjumaður var hann mikill og nutu flestir góðs af, er við hann kyntust; hann var hreinlyndur, ótortryggur, ætlaði öllum gott. Nú get jeg, að sumir munu ætla, að hjer sje miklu oflofi hrúgað á Ingimund, og að hjer sje margt gripið mjög úr lausu lofti. En svo er ekki; og til þess að sýna, að jeg sje ekki einn um þennan dóm, tek jeg upp það, er Dr. Guðbrandur Vigfússon segir um Ingimund. Honum farast þannig orð: „Betri maður og meiri öðlingur hefir varla til Íslands komið.“ Fleiri hafa svipað um hann sagt, en jeg tók orð Dr. Guðbrands, því honum var aldrei borið það, að hann bæri lof á nokkurn mann að þarflausu. Jeg hefi lesið Vatnsdælu margoft síðan jeg var lítill drengur, og jeg les hana enn í dag með jafnmikilli ánægju sem þá. Söguhetjan, Ingimundur, hreif mig þá, og það gerir hann enn. Öll æfi hans, frá því er hann var lítill drengur, og alt til síðustu stundar, mætti verða ungum sem gömlum til fyrirmyndar, og geri jeg ráð fyrir, að allir mundu þess óska að fá jafngott orð að æfilokum sem Ingimundur hlaut. Og ef allir kappkostuðu þetta, mundi fyrirmyndunum fjölga á landi hjer, til sæmdar og blessunar landi og lýð.

---

## Hallgerður Höskuldsdóttir langbrók.

**Fyrirlestur fluttur í st. Bifröst nr. 43, 22. nóv. 1903.**

---

Fáar merkiskonur fornaldarinnar hjer á landi hygg jeg, að sætt hafi harðari og ómaklegri dómum en Hallgerður Höskuldsdóttir, enda hefi jeg frjett utan að mjer þessa dagana, að menn hugsuðu sjer til hreyfings hjer í kvöld, að mótmæla því, sem jeg segði um hana, því menn búast við og vona, að jeg muni líta á hana og æfistarf hennar á alt annan veg, en flestir hafa áður gert. Það skal líka tekið fram strax, að von ykkar mun rætast hvað það snertir. Jeg hefi aldrei getað samþykt þann dóm, sem margir hafa kveðið upp yfir henni. Og á hverju hafa menn reist þennan dóm? Hann hafa þeir reist á þeim skilningi, er þeir leggja í frásögn Njálu, þar sem getur Hallgerðar. Jeg hefi líka reynt að lesa og skilja þá fáu drætti, sem geymst hafa úr æfi Hallgerðar, svo vel sem mjer hefir verið auðið, en samt sem áður hefi jeg ekki getað komist að sömu niðurstöðu sem flestir aðrir. Vel kannast jeg við, að sagan hleður ekki allmiklu lofi á Hallgerði. Hún segir hennar lesti og kosti, og þó meira af því, sem miður er um hana; en konan var mikilhæf og merkileg að mörgu

leyti, eftir þeim skilningi, sem í þau orð voru lögð á þeim tímum; en jafnan geta skæðar tungur fundið þeim margt til lasts, er mjög láta til sín taka.

Það liggur þá hendi næst að líta í Njálu, og vita hvað hún segir, því hún er besta, eða rjettara sagt eina, heimildarritið um Hallgerði. En jafnframt verðum við að reyna að skilja sem best aldarandann og þann hugsunarhátt, sem þá var ríkjandi hjá flestum hinum meiri og merkari konum þeirra tíma.

Sagan getur Hallgerðar fyrst, þá er hún var barn að aldri, þegar þeir bræður, Höskuldur, faðir hennar, og Hrútur, talast við um hana. Er þar lýst þroska hennar og fegurð, en hins getið um leið, er Hrútur föðurbróðir hennar mælti til hennar smánarorðum og spáir henni illspám. Það er dálítið einkennilegt þetta, hvernig Hrútur kemur fram í garð bróðurdóttur sinnar, bæði þá og síðar. Vel getur verið, að þessum orðum hafi Hrútur mælt við bróður einn: „Ærit fögr er mær sjá ok munu þess margir gjalda. En hitt veit ek eigi, hvaðan þjófsaugu eru komin í ættir várar,“ en hitt er víst, að eigi eru þessi orð vingjarnleg, eða spádómurinn fagur, enda reiddist faðir hennar, og er eigi ólíklegt, að hún hafi fengið að kenna á því síðar.

Þegar sagan í annað sinn leiðir Hallgerði fram fyrir augu lesandans, þá er hún orðin fullþroska og gjafvaxta mær. Sagan minnist enn sem fyr á vöxt hennar og vænleik og bætir við þessum orðum: „Hon var örlynd ok skaphörð.“ Jeg get ómögulega verið sammála þeim, sem vilja telja þetta ein-

hverja hina ljótustu lýsingu, sem nokkurri íslenskri konu er gefin á allri söguöldinni. Jeg fæ ekki betur sjeð, en að þessi lundareinkenni sjeu nákvæmlega þau sömu sem hjá mörgum hinum mestu kvenskörungum þeirra tíma.

Þá skal jeg fara nokkrum orðum um uppeldi Hallgerðar, því að ganga má að því vísu, að hið sama lögmál hafi gilt um hana sem alla aðra, að uppeldið sje aðalundirstaðan undir framtíð hvers eins. Það verður því fyrst af öllu að skoðast sem orsök óhamingju hennar, að sá maður, Þjóstólfur, er hún var fengin til fósturs, var, að dómi sögunnar, að mörgu leyti hinn versti maður. Honum ber sagan það vitni, að hann væri Hallgerði enginn skapbætir, en hinsvegar hlaut hann, vegna stöðu sinnar, að hafa mikil áhrif á lífsstefnu hennar og skapferli.

Jórunn, móðir Hallgerðar, var, samkvæmt frásögn Laxdælu, skaphörð kona og óvorkunnlát. En þess skal síðar minst, hversu Höskuldur bjó við dóttur sína, svo að sjeð verði, hve vorkunnlátur og nærgætinn hann var henni. Mjer finst ekki ósanngjarnt að biðja þá, sem hjer eftir kunna að dæma Hallgerði sem harðast, að byrja á því, að líta með sanngirni á uppeldi hennar, en ganga ekki þegjandi fram hjá því, eins og mótstöðumenn hennar virðast hafa gert hingað til. Það gæti orðið til þess, að þeir hugsuðu sig tvisvar um, áður en þeir kvæðu upp áfellisdóminn.

Fyrsta hjónaband Hallgerðar var hvorki ánægjulegt nje langgætt, enda ekki við því að búast, eins og til þess var stofnað. Nafna mínum, Þorvaldi,

er þannig lýst, að hann hafi verið skapbráður maður, mikill á lofti og fáa talið sína jafningja. Enn fremur virðist mega ráða af sögunni, að hann og Óspakur faðir hans hafi verið fjeglöggir menn og harðdrægir, og heimili þeirra ekki orðlagt fyrir risnu og höfðingsskap, þótt efni væru nóg.

Þegar Þorvaldur leitar ráðahags við Hallgerði, þá dettur honum ekki í hug, að spyrja um vilja hennar sjálfrar nje samþykki. Honum var það nóg, að faðir hennar var máli hans fylgjandi. Um afstöðu hennar sjálfrar þykir honum auðsjáanlega litlu máli skifta. Öðru vísi var Ólafi pá farið, þegar hann fjekk Þorgerðar Egilsdóttur, og enn fleirum á þeim tímum, enda reyndist sá ráðahagurinn best, er vilja og samþykkis brúðarinnar var leitað jafnframt eða fengið fyrir fram. — Þorvaldur hefir talið sjer sigurinn vísan, ef faðir Hallgerðar væri sjer fylgjandi, og því talið það litlu máli skifta, hvað hún kynni að segja eftir á. Og von hans um vilja föður hennar í þessu efni varð honum heldur ekki að lygi.

Höskuldur fastnar Þorvaldi Hallgerði án vilja hennar sjálfrar og vitundar. Og þegar hún svo eftir á fær að vita, hvernig komið er og átelur föður sinn stillilega fyrir þá ónærgætni, er hann hafi sýnt henni í þessu máli, þá svarar hann: „Ekki legg ek svá mikit vit ofmetnat þinn, at hann standi fyrir kaupum mínum, ok skal ek ráða en ekki þú, ef okkr skilr á.“

Þannig var þá stofnað til fyrsta hjónabands Hallgerðar. Sagan minnist ekki á sambúð þeirra um

veturinn, og má ætla, að hún hafi verið vandræðalaus, að minsta kosti verður það sjeð að Hallgerður ávann sjer ást og virðingu hjúa sinna, enda eru það þarfir þeirra, sem hún flytur við bónda sinn, þegar þeim hjónum verður sundurorða; en ekki fæ jeg sjeð, að hún, í það skifti, geri meiri kröfur til bónda síns, en hver húsmóðir og eiginkona hefir gert og gerir enn þann dag í dag, nefnilega, að fá eitthvað til að skamta sér og fólki sínu. Og þegar þess er gætt, að heimili foreldra hennar var orðlagt fyrir rausn, bæði við verandi og farandi, þá má ætla að hún hafi ekki unað því vel að hafa hjú sín svöng og líða sjálf.

Hvernig tekur nú Þorvaldur bóndi þessum umvöndunum konu sinnar? „Ekki fekk ek nú minna til bús, en varnt var, ok endist þó alt á sumar fram.“

Sje tekið hæfilegt tillit til aldarandans og efna þeirra feðga, þá sýnir þetta svar hans, að hann hefir verið það, sem nú væri kallað á góðu sveitamáli hreinn og beinn búrsnati. Enda virðist svar Hallgerðar benda á þá átt: „Ekki fer ek at því, þó at þú hafir svelt þik til fjár ok faðir þinn.“ Samræðan endaði með því, eins og við vitum, að Þorvaldur laust hana högg og skildi við hana særða og grátandi. Þá smán gat Þjóstólfur fóstri hennar ekki þolað fyrir hennar hönd, og hefndi með því að vega Þorvald. En þótt Þorvaldur væri veginn, þá er þó eigi saga fyrsta hjónabands Hallgerðar öll sögð, eða afleiðingar þess. Henni er beinlínis kent um víg Þorvalds, án þess þó að sagan geti heimilda þeirra, er sá dómur er reistur á. Merkilegt er það,

að áður Hallgerður fer alfarin heim til föður síns, eftir víg Þorvalds, þá kallar hún saman alt heimilisfólk sitt og gefur því gjafir, „ok hörmuðu hana allir.“ Þessi orð sögunnar sýna, hvernig húsmóðir hún hefir verið hjúum sínum. Þá eru líka merkileg svör þau, er Höskuldur faðir hennar gefur Óspaki, er hann leitar bóta fyrir víg sonar síns. Höskuldi farast þannig orð: „Eigi drap ek son þinn, ok eigi réð ek honum bana.“ Þessu mótmælir Óspakur ekki, og þar eð hann getur eigi Hallgerðar, má ætla, að hann hafi álitið hana saklausa af vígi sonar síns eða að minsta kosti ekki þorað að halda fram sök þeirri, er óvildarmenn hennar báru á hana.

Þá kem jeg að mið-hjónabandi Hallgerðar, þeim hluta æfi hennar, er hamingjusólin er hæst á lofti. Hún er Glúmi gefin með fúsum vilja og samþykki hennar sjálfrar. Glúmur er henni hinn besti eiginmaður og virti hana og elskaði. Með honum lifir hún sínar sælustu stundir, máske hinar einu ánægjustundir æfi sinnar. Þegar óheilladísirnar senda henni Þjóstólf, húsviltan og hælislausan, hvað er það þá annað en kvenleg meðaumkun, trygð og höfðingsskapur, er knýr hana til að sjá aumur á honum og skjóta skjólshúsi yfir hann? En hún gleymir þó eigi þeirri ást og tiltrú, sem hún ber til bónda síns. Viðræður þeirra hjóna við það tækifæri sýna ljóslega, hve innilega þau hafa unnað hvort öðru, og borið virðingu hvort fyrir öðru, og hafa jafnan borið ráð sín saman.

Þegar Þórarinn, bróðir Glúms, falar af honum jörðina Varmalæk, ef hann lifi Glúm, þá sýna þau

orð, er Hallgerður leggur til þeirra mála, að hún hefir virt og metið Þórarinn, enda er hann og merkilegur maður, að dómi sögunnar, en þau sýna líka það, að Glúmur hefir haft hennar ráð í flestu, er hann gerði, og staðfestir þetta þá skoðun mína, að hjónaband þeirra hafi verið hið ástúðlegasta, og hún hafi í öllu komið fram eins og góðri húsfreyju mátti vel sæma.

En hamingjusól Hallgerðar gekk snemma til viðar, því þótt hún ætti auði og upphefð að fagna með síðasta manni sínum, virðist þó svo, sem hennar sanna gleði og gæfa hafi með Glúmi til grafar gengið. Við vitum af sögunni, að hjónaband þeirra Glúms og Hallgerðar var stutt. Hann fjell fyrir exi Þjóstólfs. Og við vitum líka, að Hallgerði varð dauði Glúms að hinum mesta harmi, og að hún gerði það eina, sem í hennar valdi stóð, til þess að hans yrði hefnt, að senda Þjóstólf í opinn dauðann til Hrúts föðurbróður síns. Hrútur, sem ekki lagði neitt út á betra veg fyrir henni, viðurkendi þó, að ekki væri hún sek í dauða Glúms, („saklaus er hún af vígi Glúms“); verður eigi betur sjeð, en að orð Rúts sanni tvímælalaust sakleysi hennar. Og því má það furðulegt heita, að þeir, sem mest hafa hallmælt Hallgerði, hafa ekki með einu orði minst á mið-hjónaband hennar, þótt það sje augljóst af sögunni, að þá einu stund æfi sinnar nyti hún sín til fulls. —

Þá er að minnast á þriðja og síðasta hjónaband Hallgerðar, það hjónabandið, sem sagan dvelur lengst við, og mest hefir verið ritað um og orðið hefir henni

mest til ámælis, enda mestur vandinn um að dæma, ef rjett skal dæmt.

Jeg ætla því að litast dálítið um og sjá, hvernig ástatt er í hjeraðinu, sem Hallgerður flytur nú í. Við þekkjum flest almannaróminn; hann er fljótur í förum, enda fer hann víða, og þegar hann á annað borð hefir tekið einhvern fyrir til lofs eða lasts, þá er hann vanalega nokkuð þungur á metunum. Það fjekk Hallgerður að reyna. Út af vígi Þorvalds var hún orðin nokkurs konar vargur í vjeum í augum almennings. Þótt sagan beri það ekki með sér, að hún hafi valdið þessu vígi, þá benda þau orð, er Þórarinn mælir við Glúm bróður sinn, þegar hann ætlar að biðja hennar, á þann orðróm, sem gengið hefir í hjeraðinu. Og það eru talsverð líkindi til, að henni hafi einnig verið kent um víg Glúms í fjarlægari hjeruðum. Annað eins hefir almannarómurinn megnað, þegar hann hefir tekið sig til. Það er langur vegur vestan úr Dalasýslu og austur í Rangárvallasýslu, en þó er hann ekki svo langur, að ekki hafi verið hægt að vera búinn að bera þangað fjölda af sögum um Hallgerði, sumar, ef til vill, sannar, og auðvitað miklu fleiri ósannar; og allar þær sögur gátu haft og hlutu enda að hafa hin víðtækustu áhrif á aðstöðu Hallgerðar, þegar hún kom austur, því eftir þeim mundi öll alþýða mynda sjer skoðun um hana, áður en hún kæmi sjálf á vettvang, og fjekk hún því ekki tækifæri til að kynna sig perósnulega. Það gerði gæfumuninn. En hverjir gengu þá best fram í því að flytja slíkar sögur?

Hrútur og Njáll hafa „heiðurinn“ af því. Sagan

getur þeirra fyrst allra manna, sem ljetu uppi álit sitt og lýsingu á Hallgerði við Gunnar. Annar gerir það þegar Gunnar biður hennar; hinn þegar honum er boðið í brúðkaupið. Og sú lýsing er alt annað en fögur og gat því eigi leitt til góðs, þar sem um jafnskapbráðan mann var að ræða og óvitran sem Gunnar var, enda sýnir sagan seinna, hver árangurinn varð. Það er athyglisvert, hvernig þessir menn verða til þess að búa menn undir komu hennar, það er að segja, að eitra fólkið svo gegn henni, áður hún kemur, að hún eigi þess engan kost að verða metin að verðleikum, er hún kemur austur. Og þegar þangað er komið, tekur fjöldinn við. Þá kemur upp hver óhróðurssagan af annari, og öllum er þeim trúað. Hvernig stendur nú á þessu? Hvers vegna legst nú almenningsálitið á móti henni? Til þess liggja víst ýmsar orsakir, en þær tel jeg líklegastar, er nú skal greina: Gunnar var óskabarn hjeraðsins og að ýmsu leyti mannkosta maður, en stórfrægur fyrir hreysti sína og líkamlega atgjörfi. Hallgerður aftur á móti var óþekt austur þar nema af orðróm þeim, er áður er á minst; var því við því að búast, að henni yrði kent um alt það, er áfátt var í sambúð þeirra Gunnars. Á hinn bóginn bar Bergþórshvols-fólkið ægishjálm yfir alt hjeraðið, og þar átti hún jafnan sína skæðustu mótstöðumenn, og er auðvelt að skilja af orðum Njáls, að því hefir verið alt annað en vel við að fá þangað í sveit jafnmikilhæfa konu sem Hallgerði; en fyrir því má ætla, að það hafi rægt hana óspart, meðan hún var enn vestra, og eigi látið á sjer standa síðar, að

leggja út á verra veg hvað eina í fari hennar, er nokkurs tvímælis gat orkað. Það bætir heldur ekki um, að hún og Rannveig tengdamóðir hennar áttu ekki skap saman, og verður víst eigi sjeð, að Hallgerður hafi átt sök á því framar en Rannveig. Með þetta alt fyrir augum, virðist mjer sem aðstaða Hallgerðar á Hlíðarenda-heimilinu hafi verið erfið og vandasöm, og hefði mátt ætla, að Gunnar sýndi henni nokkra nærgætni í stað þess að draga jafnan taum Bergþórshvols-fólksins, og það stundum ærið fólsklega, að því er mjer sýnist. Alt þetta verður að meta, ef dómurinn um Hallgerði á ekki að verða hreinn og beinn sleggjudómur. Nú er það víst, að heimurinn launar stundum gefins veittar velgerðir með fúlu vanþakklæti, og það fjekk Hallgerður að reyna. Farandkonurnar, sem hún af kærleik sínum og góðsemd sá aumur á, láta ekki sitt eftir liggja. Flökkukerlingarnar, þessar snapvísu veiðibjöllur, hvað gera þær, þegar Hallgerður er búin að láta þeim alt það í tje, sem íslensk gestrisni getur best veitt? Þá snúa þær við henni bakinu, og fara ofan til Bergþórshvols. Þar gera þær úlfalda úr mýflugunni, og þvaðra þar alt það ilt, sem andskotinn og illgjarnt hugarfar blæs þeim í brjóst. Stallsystur þeirra, sem Mörður sendi seinna út Hallgerði til ótila, viðurkendu þó, að hún hefði reynst þeim drengur hinn besti. Það gátu þær ekki af henni dregið, að hún hefði gefið þeim mest o. s. frv.

Um viðskifti Bergþóru og Hallgerðar þarf jeg engin orð að hafa, því sagan tekur þar af öll tvímæli og sýnir svo greinilega, að Bergþóra átti upp-

tökin, því það var eigi smáræðis svívirðing, er hún bjó Hallgerði, með því að skipa henni virðingarsætið mesta um stund, en láta hana þá þoka, er önnur kona kemur til, er að vísu virðist eigi hafa verið virðingarkona meiri en Hallgerður, nema síður væri, því Hallgerður var fremst allra virðingarkvenna, er í því boði voru að Bergþórshvoli. Þar að auki voru brotin á henni hin helgu gestarjettindi, og sú tillátsemi, sem þeim er að jafnaði samfara. En móðgun þoldu fyrirkonur fornaldarinnar lítt, þær er nokkuð var í spunnið, án þess hefndir kæmu fyrir. Má í því sambandi minnast á Þórlaugu konu Guðmundar ríka, þá er henni var boðið vatnið seinna en sessunaut hennar í veislunni á Bægisá. En Guðmundur bóndi hennar varð fljótari að taka upp þykkjuna fyrir hennar hönd, og reyndist henni alt annar og meiri drengur, en Gunnar Hallgerði í veislunni á Bergþórshvoli.

Ekki getur sagan um eitt einasta dæmi þess, að Hallgerður hafi breytt neitt svipað þessu, þegar Bergþóra var hennar gestur.

Þá vil jeg minnast lítið eitt á samvistir þeirra Gunnars. Jeg hefi áður drepið á, að undirstaða sú, sem þeir Rútur og Njáll lögðu að hjónabandi þeirra, hafi verið lögð af miklum illvilja og hatri í garð Hallgerðar, og þá jafnframt Gunnari til óhagræðis. Með því vitni, er þeir báru Gunnari um æfi hennar, tókst þeim undir eins að gera hana að meira eða minna leyti tortryggilega í augum hans, því Gunnar virðist eigi hafa verið mjög vitur maður, og hætti til þess helst mikið að láta Njál hugsa

fyrir sig, og dansa eftir hans pípum. Og þótt Gunnar segði eigi skilið við hana, sem þó hefir ef til vill verið tilgangur Njáls með róginum, þá sýnir sagan, að hin hræðilegu ummæli Njáls, „af henni mun alt ilt standa, þegar hún austur kemur,“ hafa grafið um sig óþyrmilega í huga hans, og má það heita furðulegt hamingjuleysi og viskubrestur að láta róginn svo glepja sig, að persónuleg kynning fái þar engu um þokað; er það og svo, að þótt sagan taki fram marga góða kosti Gunnars, þá sýnir hún þó jafnframt, að hann hafði sínar veiku hliðar, eins og fleiri menn, því auk þess, sem þegar er sagt, virðist hann hafa verið bæði auðtrúa og fljótfær, svo að meira ilt hefði af hlotist, ef Njáll hefði ekki borgið honum. Í sambúðinni við Hallgerði vantaði hann þá stillingu og gætni, er honum var nauðsynleg, ef alt hefði átt að fara vel, og kemur hvorttveggja þetta átakanlega fram í boðinu á Bergþórshvoli, er hann ræðst á Hallgerði með fruntalegu orðbragði, í stað þess að fulltingja henni sem honum var skylt, og er auðsætt, að hann metur hana minna en fólk það, er mestan þáttinn mun hafa átt í að rægja hana eystra, áður en hún kom. En þetta lætur hann sjer eigi nægja, heldur ber henni jafnframt á brýn, að hún sje ófriðsöm á sínu eigin heimili. Og það, að hann tekur þykkjuna upp fyrir Bergþóru, sýnir, meðal annars, að rógur Njáls hefir verið búinn að blinda hann, því víst verður ekki af sögunni ráðið, að þá hafi nokkur snurða verið á sambúð þeirra af hennar tilverknaði.

Þá vil jeg minnast á hörmulegasta atvikið og um leið það, sem verstar afleiðingar hafði, en það var það, þegar Gunnar laust hana kinnhestinn. Það er auðvitað, að margt hafi þeim milli borið, sem sagan minnist ekki, til þess tíma, er Gunnar laust hana kinnhestinn. Það hafa sumir sagt, að kinnhesturinn væri refsing á Hallgerði af Gunnars hendi fyrir það, að hún ljet taka matinn í Kirkjubæ. Jeg vil ekki mæla bót því óhappaverki, en þó má geta þess hjer, að altítt var, að þá er þeir vildu eigi selja, er nóg áttu, var tekin upp hjá þeim björg og hey eða annar forði og lagt verð fyrir; hefði því hjer mátt hafa þá aðferðina, og hefði enda vafalaust verið gert, ef höfundur Njálu, hver sem hann nú kann að vera, hefði verið vinveittur Hallgerði í frásögninni. En á hinn bóginn hafði Hallgerður ærnar sakir á þá Kirkjubæjar-menn, því þeir höfðu skapraunað Gunnari og svívirt hann á allan hátt, en hún hafði tekið þykkjuna upp fyrir hans hönd (sbr. það, er hún sagði, að það sjáist þá, hvort hann flýði þá grátandi), og þeir höfðu enn árjettað viðskiftin með því að svíkja Melkólf inn á þau; en hann var óráðvandur þræll, þótt þeir leyndu löstum hans. Viðskifti Gunnars við þá Kirkjubæjar-menn verða þess valdandi, að hann slær hana kinnhestinn, án þess að jeg vilji halda því fram, að hann komi sem refsing frá Gunnari í mattöku málinu. En hitt vildi jeg segja, að framkoma Gunnars gagnvart Hall gerði í þetta sinn virðist mjer alveg dæmalaus. Að minsta kosti minnist jeg ekki, að í öllum fornsögunum okkar sje nokkuð svipað að finna, einkum

þegar þess er gætt, hvaða orð hann velur henni um leið. Þau sýna, að hann missir alla stjórn á sjálfum sjer, og verður það vart metið honum til sóma, hversu sem menn annars vilja líta á aðfarir Hallgerðar við Kirkjubæjar-menn. Og ef við enn gætum þess, að fátt mundi í þann tíma teljast meiri svívirðing við konu, en sú, að slá hana í andlitið í viðurvist fjölda gesta, og bæta svo smánarorðum ofan á, þá mætti furðulegt þykja, ef slíkt hefði ekki hinar alvarlegustu afleiðingar í för með sjer, ef skapstór kona átti í hlut. Eða hvernig haldið þið, að Bergþóru gömlu hefði orðið við, ef á hana hefði verið lögð svipuð hirting? En þetta athæfi Gunnars er, sem betur fer, einsdæmi í sögunni. Því að þótt Gunnari væri, ef til vill, vorkunn, þá var hegningin illa lögð á, og næsta fávíslega og fruntalega.

Það er hægara að hugsa sjer en lýsa tilfinningum Hallgerðar, þegar hún fejkk höggið, og ekki blandaðst mjer hugur um, að hún hafi þá strax ásett sjer að hefna þess, og það jafnvel þótt það kostaði Gunnar lífið, þótt hún yrði að bíða lengi, uns tækifæri byðist; og á þetta virðast benda orð hennar sjálfrar. En tækifærið bauðst, segir sagan, þegar Gunnar biður hana um hárlokkinn, og hún hikaði þá ekki við að neita honum um hann. Hverjar afleiðingar það hafði, segir höfundur Njálu oss, frá sínu sjónarmiði; en hitt má vera öllum ljóst, er söguna lesa af nokkrum skilningi, að sá hluti Njálu er hinn mesti hjegómi og þvættingur, því Gunnar gat eigi fremur varist með boganum, er þakið var af skálanum, en hann hefði getað í bardaganum við

Rangá. En hversu sem þetta er, þá var sú venja jafnan, að hefndir kæmu fyrir misgerðir, ef nokkur dugur var í þeim, sem fyrir áverkanum varð, og því virðist mjer, að kinnhesturinn Gunnars og neitun Hallgerðar, geti fallist í faðma og treysti jeg mjer ekki að skera úr því, hvort sekara sje, ef mælt er á þeirrar tíðar mælikvarða.

Eftir fall Gunnars segir lítið af Hallgerði; hennar er getið við og við, en þar er alt málum blandað og enn óáreiðanlegra, að mjer virðist, en í hinum fyrri hluta sögunnar, þótt satt sje það að vísu, að sagan hallar á Hallgerði, hvar sem því verður við komið. Hallgerður fer til Grjótár til Þorgerðar dóttur sinnar og er mjög líklegt, að hún hafi dáið hjá henni, því að sagan segir að hún hafi búið að Grjótá eftir dauða manns síns. Þá geta munnmæli þess, að Hallgerður hafi flutst suður á eignarjörð sína, Lauganes og dáið þar í góðri elli. Hvort sú tilgáta er rjett, skal jeg láta ósagt, en hitt vitum við, að Hallgerður átti jörðina Lauganes. —

Og að lyktum örfá orð um Hallgerði. — Hún var kona fögur og tíguleg, mikil vexti, (eins og nafnið langbrók bendir til). Hár hennar var fagurt og svo mikið, að hún mátti hylja sig í því. Hjá henni fór saman fegurð og frjálsleg framkoma. — Þannig var sú kona, sem lang-þyngsta og harðasta dóma hefir fengið. Jeg held, að engin kona hafi verið meira misskilin. Í lifanda lífi kunnu fæstir að meta hana rjett. Og síðan hún dó, hefir hún verið hrakyrt í hugsunarleysi, af mörgum þeim, sem ekki hafa nent að rannsaka æfisögu hennar eða lesa með

nokkrum skilningi það, sem geymst hefir um hana. Hallgerður hafði sína kosti og galla, eins og hver mikilhæfur maður, karl eða kona, hefir jafnan haft og mun jafnan hafa. En hún var hreinskilin og djarflynd, og það sýndi hún strax í föðurgarði; hún fór aldrei í manngreinarálit, sagði jafnan sannleikann, hver sem í hlut átti. Hún leynir Gunnar engu, þegar hann ber upp við hana bónorðið. Það er ekki minsti vafi á því, að hún hefir unnað Gunnari mjög í fyrstu, því hún hafði næma tilfinningu, en maðurinn sjálegur í besta lagi. Þess vegna fellur henni svo þungt, þegar hann dregur um of taum þeirra, sem henni voru óvinveittir, enda átti hún að rjettum lögum þar til fulltingis og varnar að sjá, er Gunnar var. Hún var glaðlynd og aðlaðandi, skemtin í viðræðum og naut virðingar og ástar hjúa sinna. Hún var rausnarleg og gjafmild við snauða menn og mátti ekkert aumt sjá, og gaf stórmannlega. Marga fleiri kosti hafði hún, er konu máttu prýða, að þeirrar aldar sið. Á hinn bóginn er eigi því að neita, að hún gat verið harðlynd og hefnigjörn og sást lítt fyrir, hvernig hún kom hefndum fram, en svo var fleirum farið í þann tíð, þeim er merkiskonur þóttu þá, og mikils eru metnar enn í dag. Enn fremur var hún langrækin og stríðin nokkuð. Að hún hafi verið ótrú bónda sínum og lauslát, verður ekki ráðið af sögunni. Það eru engin rök fyrir þeim áburði, þau er nokkurs sjeu metandi, því Njála segir frá öllu þess háttar sem ómerkilegum orðasveim, og ber af henni jafnharðan. Þá hafa nokkrir haldið því fram, að hún hafi verið fram úr

hófi óráðvönd. — Hún eggjaði að vísu þrælinn til að taka með leynd matvæli í Kirkjubæ, en á það má líta á annan veg, enda hefi jeg getið þess hjer að framan, og þess er og gætandi, að matartakan er það eina, sem sagan greinir af því tæi. Guðrún Ósvífursdóttir ljet stela motrinum og virðist hafa virðing af enn í dag.

Í sambandi við hefnigirni hennar má taka það fram, að íslenskar mikilsháttar konur á hennar tímum voru svo skapi farnar, að vera annað hvort vinir eða óvinir þeirra, er þær áttu við að skifta; svo virðist þeim að minsta kosti oftast lýst í sögum vorum. Þar var eigi margt um millivegina. Og í þeirra hóp telst Hellgerður, eins og áður er sagt. Hún var metnaðargjörn og hún kannaðist við það með fullri hreinskilni svo sem ættarfylgju sína (sbr.: Mikill er metnaðr, o. s. frv.). En það, sem úrslitum rjeði, var það, hversu forlögin voru henni hörð og grimm. Hefði uppeldi hennar verið öðru vísi en það var, og fóstri hennar jafngóður drengur, sem hann var ótrauður til víga, og hefði henni enn fremur verið sýnd meiri blíða og nærgætni af foreldrum, en ráða má af sögunni að verið hafi, þá er líklegt að margt hefði farið öðru vísi en fór. Og hefði ekki ýms atvik orðið svo að segja samtaka um að gera henni ómögulegt að njóta sín, þá er líklegt að saga hennar hefði orðið alt önnur en hún varð.

Í stuttu máli sagt, hefði ekki óhamingja hennar sjálfrar, og rógur öfundarmanna hennar verið jafn furðulega samtaka að láta henni alt snúast til tjóns,

vanvirðu og sorgar, þá hefði Hallgerður orðið alt önnur í hugum margra, en hún varð, og er enn í dag. Jeg vil því að endingu óska þess, að menn vildu rannsaka sem best æfisögu hennar, áður en þeir kveða upp dóma sína, athuga öll tildrög viðburða, orsakir og afleiðingar. Jeg get hugsað mjer, að margur hefði felt mildari dóm um hana en hann hefir gert, ef að hann hefði byrjað á því, sem reyndar á jafnan að byrja á: að kynna sjer vendilega alla málavexti, áður dómur sje upp kveðinn; er þá að minni hyggju vafalítið, að öll önnur hefðu orðið dómsúrslitin. Jeg hika ekki, að öllu athuguðu, að telja hana hjer eftir sem hingað til með hinum fremstu og merkustu konum fornaldarinnar, og jeg fulltreysti því, að sú komi tíð, að menn láti Hallgerði njóta sannmælis og dæmi hana rjettar en verið hefir. Það er sannarlega mál til komið, að minning hennar fái að njóta meiri sanngirni en hingað til hefir átt sjer stað, og vil jeg í því trausti og með þeirri áskorun ljúka máli mínu.

---

# Kjartan, Bolli og Guðrún.

**Fyrirlestur fluttur í st. Hlín nr. 33 7. des. 1906.**

---

Heiðruðu fjelagsmenn!

Finst ykkur ekki, eins og mjer, að þau atriði, sem sagan hefir að geyma um æfi þeirra þriggja: Kjartans, Bolla og Guðrúnar, sje eitt með því mikilfenglegasta og um leið áhrifamesta, sem leitt er fram á sjónarsviðið úr lífi fornmanna á því tímabili? Jeg fyrir mitt leyti verð að játa, að æfisaga Guðrúnar og viðureign Kjartans og Bolla hreif og hertók huga minn, er jeg á unga aldri las hana, og hið sama get jeg sagt enn í dag. Og hvers vegna? Vegna þess, að í fari þeirra virðist koma fram alt það, sem hrifið getur huga manns og fest athyglina við söguna, frá byrjun til enda, ýmist með sárri sorg og angurblíðu, eða þá með djúpri alvöru út af hinum hörmulegu örlögum, er verða hlutskifti allra þriggja söguhetjanna. Ekki ætla jeg mjer þá dul, að jeg geti rakið öll þau rök, er liggja til þess, að æfi þeirra varð svo sem sagan greinir. En ekki get jeg heldur orðið þeim mönnum samdóma, er fella þungan dóm um þau Bolla og Guðrúnu, en alsýkna Kjartan, og vilja gera úr honum bæði dýrðling og píslarvott.

Mjer hefir fundist, og finst enn, að það sje margt, sem þurfi að taka til vandlegrar íhugunar, áður en slíku sje snarað framan í áheyrendurna, hvort sem þeir eru margir eða fáir.

Jeg hafði nú aldrei ætlað mjer, að tala hjer um æfi þeirra Kjartans, Guðrúnar og Bolla,, en hagnefnd stúku þessarar hefir af visku sinni skipað mjer að gera það, og þótt jeg reyndar viti vel, að mjer sje ofvaxið að tala um þetta efni, vildi jeg þó eigi með öllu skorast undan skipun hennar. Jeg skal því nú víkja að sögunni, og reyna að tína það til, er hún greinir, og sjá síðan, hvað af því má læra um hvert fyrir sig af áðurgreindum söguhetjum.

Vorið 960 flutti Ólafur pá bú sitt að Hjarðarholti í Laxárdal. Haustið áður hafði hann látið húsa þar bæ mikinn og vandaðan. Ólafur var kvæntur Þorgerði Egilsdóttur frá Borg á Mýrum. Hún var kvenskörungur mikill, sem hún átti kyn til. Bræður Ólafs voru þeir Bárður og Þórleikur. — Ólafur og Bárður komu vel skapi saman, en alt öðru máli var að gegna um Þórleik; þar fjell alt stirðara á millum.

Ólafur pá bar af flestum samtíðarmönnum sínum að allri atgjörfi. Gerðist hann því brátt mikill hjeraðshöfðingi og ástsæll af flestum, enda hjelt Höskuldur faðir hans honum fram í hvívetna. Er svo af sögunni að sjá, sem Bárður hafi unað því vel, en Þórleikur miður. Haustið 972 deyði Höskuldur faðir þeirra, og hafði hann skömmu fyrir andlát sitt látið kalla sonu sína fyrir sig, og vildi hann láta Ólaf vera jafnan til arfs við þá bræður, sem skilgetinn væri. Bárður var því samþykkur, en Þór-

leikur aftók það með öllu. Samt fjekk Höskuldur því ráðið, að Ólafur hlaut úr eigu hans tvo hina bestu kjörgripi: sverðið konungsnaut og gullhring mikinn, hvorttveggja hinar mestu gersemar. Litlu síðar andaðist Höskuldur, og þótti að honum mikill mannskaði.

Þegar Höskuldur var látinn, fjekk Ólafur því til vegar komið, að þeir samþyktu að halda næsta sumar erfi mikið eftir föður sinn, og var til þess boðið virðingarmönnum um alt land á alþingi næsta sumar. Það erfi hefir annað mest verið hjer á landi og sátu það 900 manns í hálfan mánuð, og voru allir virðingarmenn með gjöfum út leystir.

Þeir bræður Bárður og Höskuldur skiftu með sjer arfi þannig, að Bárður fjekk Höskuldsstaði, en Þórleikur lausafje alt. Þórleikur bjó á Kambsnesi. Honum fæddist sonur, er Bolli var nefndur. Þeim sveini bauð Ólafur fóstur, til að mýkja skap bróður síns og þektist Þórleikur boðið. Var síðan góð vinátta með þeim bræðrum. Fór Bolli heim í Hjarðarholt, og unnu þau Þorgerður og Ólafur honum sem sonum sínum.

Árið 970 fæddist Ólafi sveinn sá, er nefndur var Kjartan, eftir Mýr-Kjartani Írakonungi, afa sínum. Er sveininum Kjartani lýst svo forkunnarvel, að jeg get ekk stilt mig að taka þá lýsingu upp hjer orðrjetta, þótt jeg reyndar viti, að þið kunnið hana öll, eins vel og jeg. Hún er á þessa leið:

„Kjartan Ólafsson vex upp heima í Hjarðarholti. Hann var allra manna fríðastr þeirra er fæðst hafa á Íslandi. Hann var mikilleitr ok vel farinn í and-

liti, manna bezt eygðr ok ljóslitaðr; mikit hár hafði hann, ok fagrt sem silki, ok fell með lokkum; mikill maðr ok sterkr eftir því sem verit hafði Egill móðurfaðir hans eða Þórólfr. Kjartan var hverjum manni betr á sik kominn, svá at allir undruðust, þeir er sá hann; betr var hann ok vígr enn flestir menn aðrir; vel var hann hagr ok syndr manna bezt; allar íþróttir hafði hann mjök umfram aðra menn; hverjum manni var hann lítillátari, ok vinsæll, svá at hvert barn unni honum. Hann var léttúðigr ok mildr at fé.“

Þannig hljóðar þá þessi fáorða og gagnorða lýsing. Jeg vildi ekki sleppa henni, því að hún er nauðsynleg í sambandi við það, sem á eftir kemur.

Í þann tíma, er sagan gerðist, bjó að Laugum Ósvífur Helgason og Þórdís kona hans. Þau áttu mörg börn, og þó að þau komi flestöll við söguna, þá er það að eins eitt þeirra, sem jeg ætla að minnast á, nefnilega Guðrún dóttir þeirra. Þegar sagan leiðir Guðrúnu fyrst fram fyrir augu lesandans, lýsir hún henni um leið svo fagurlega, að jeg man ekki til, að jeg hafi sjeð aðra lýsingu henni jafnfagra eða fegri í öllum sögunum okkar, og er þá langt til jafnað, því mörg er þar lýsingin fögur og góð af ýmsum konum fornaldarinnar. Jeg tek hana því upp hjer orðrjetta:

„Guðrún hét dóttir þeira; hon var kvenna vænst, er upp óxu á Íslandi; bæði at ásján ok vitsmunum. Guðrún var kurteis kona, svá at í þann tíma þótti alt barnavípr, þat er aðrar konur höfðu í skarti

hjá henni. Allra kvenna var hon kænst ok bezt orði farin; hon var örlynd kona.“

Jeg held nú, að í þessari stuttu lýsingu sje flest það tekið fram, sem konu mátti prýða, að þeirrar aldar sið. Hjer eru taldir allir þeir kostir, sem yngispiltarnir gengust fyrir í þá daga, og gera raunar enn þann dag í dag; það eru þeir kostirnir, sem vanalega voru taldir þungir á metunum, þegar leita skyldi ráðahags, enda verður ekki með sönnu sagt, að Guðrúnu yrði manns vant, sem enn mun sagt verða.

Í landareign Lauga voru heitar eða volgar laugar, og er líklegt, að þær hafi verið eitthvað lagaðar til þess, að synda mætti í þeim, því að í þann tíð var mikil áhersla lögð á sundíþróttina, og gerðu menn sjer laugar víða þar, er því mátti við koma. Nú er landslag á Laugum orðið svo breytt frá því, sem þá var, að varla verður með vissu sagt, hvernig þar hefir hagað til þá, en hitt er víst, að ungir menn sóttu þangað til sunds úr nágrenninu. Sagan getur þess, að Kjartan fór til Lauga og fylgdi Bolli honum jafnan. Þar æfði Kjartan sundíþróttina, sem hann varð síðar frægur fyrir, í viðureign sinni við Ólaf konung Tryggvason.. Vinátta mikil var millum þeirra Ólafs og Ósvífurs, og þá engu minni millum Þórdísar og Þorgerðar.

Þar sem nú Kjartan var einhver hinn gerfilegasti maður, er upp fæddist á Íslandi um þessar mundir, og Guðrún með sama hætti hverri konu fremri, þá er það að vonum, er sagan getur þess að öllum hafi þótt það hið mesta jafnræði, er þau voru. Þau voru þess vegna „gefin hvort öðru“, ekki einungis

af foreldrunum, heldur og öllum almenningi út í frá í hjeraðinu.

Það verður nú samt ekki af sögunni ráðið, að þau hafi látið sig neinu skifta þann orðróm almennings, eða að hann hafi átt við rök að styðjast. En hitt er víst, að gjarnan vildu þau vera saman, er þau voru aðskilin, svo sem ungmennum er títt, þeim er oft leika sjer saman, og vel fellur á með; þótt þeim hafi ekki lengi verið ljóst sjálfum, hvað seiddi þau hvort að öðru, enda var Kjartan varla eldri en 10 ára, er Guðrún var 15 vetra gefin Þorvaldi Halldórssyni frá Garpsdal, þvert á móti vilja sínum, enda varð það hjónaband ekki langgætt, að því er ráða má af sögunni. Síðar var Guðrún gift Þórði Ingunnarsyni með fullu samþykki, enda fór vel á með þeim. En hann druknaði næsta vetur eftir brúðkaup þeirra, og var nú Guðrún ekkja öðru sinni, og þó að eins 18 ára að aldri og í blóma lífsins.

Jeg hefi áður á það minst, að Kjartan hafi verið þroskamikill, og snemma borið af öðrum sínum samtíðarmönnum. Faðir hans mat hann langt um fram alla sonu sína og allir dáðust að yfirburðum hans. Hann var útvalið óskabarn hamingjunnar, öll sín uppvaxtarár; um það ber sagan ljósan vott. Máltækið segir, að það þurfi sterk bein til að þola góða daga, og svo reyndist hjer. Það gat varla hjá því farið, að slíkt dálæti, er Kjartan naut, hefði skaðleg áhrif á hann, og vekti hjá honum þá hugsun, að hann væri hafinn yfir fjöldann, enda virðist mjer sagan sýna það æ betur eftir því, sem fram líður á hana; er það vafalaust eðlilegt, að Kjartan

fyltist ofmetnaði af öllu því lofi, er á hann var hlaðið, en jafnframt sýnir það þó, að hann hefir að þessu leytinu verið undir sömu syndina seldur sem aðrir og því ekki alfullkominn framar en aðrir dauðlegir menn. Hann hafði, eins og allir menn, sínar mannlegu ástríður, sínar sterku og veiku hliðar. Og einmitt vegna þess, að mörg hin sterku einkenni ættar hans voru sameinuð í honum, og það í ríkum mæli, þá hefði uppeldi hans þurft að vera öðruvísi en það var, ef vel hefði átt að fara.

Af sögunni sjáum við, að þó að bæði föður- og móðurætt hans væru mikilsháttar um hreysti og annað atgerfi, þá höfðu margir ættmenn hans ýmsa galla.

Höskuldur, faðir Ólafs, þótti ærið skapbráður og óvæginn, og þótt hann eignaðist þá konu, sem um það leyti þótti vera einhver bestur kvenkostur í Borgarfirði, hjelt hann hjákonu til elju rigs við hana. Hrútur bróðir hans var ör til ásta, það sýna viðskifti hans við Gunnhildi konungamóður. Um Hallgerði föðursystir Kjartans, var sú saga sögð, að hún hefði næmt auga fyrir fríðleik piltanna, og það eftir það, er hún var gift í þriðja sinn. Mjer virðist sagnaritarinn líka einmitt vera að lýsa þessu ættareinkenni hjá Kjartani, þar sem hann minnist á, að Kjartan sje „léttúðigr“. Þá er annað, sem kemur snemma í ljós hjá Kjartani, og það er, hvað honum er ógjarnt að taka nokkurt tillit til tilfinninga og vilja þeirra, er næstir honum stóðu. Á þetta rekum við okkur hvað eftir annað, og afleiðingar þess verða stundum hinar alvarlegustu. En þetta alt virðist vera að kenna

uppeldi hans. Hinu er síst að neita, þótt þessi ljóður væri á ráði hans, að hann hafði ærnar gáfur, stillingu og aðra mannkosti, svo að í daglegri umgengni við aðra menn vekur hann aðdáun og virðing allra, er honum kyntust. Prúðmenska hans og framkoma öll hefir hlotið að vera frábær og aðlaðandi. Það sjáum við, að þegar hann dvelur í Noregi, þá sitja allir og standa, Íslendingar, eins og honum líkar best.

Um Bolla, fóstbróður Kjartans, er sagan öllu fáorðari, en segir þó svo mikið, að hægt er að sjá, að hann hefir verið honum næst um fríðleik og atgerfi, og það svo mjög, að samtíðarmenn hans þóttust sjá Þorstein rauða endurborinn í honum; en hann þótti öllum fremri að hreysti um sína daga. Í sögunni er þess oftlega getið, hversu vel hafi farið með þeim fóstbræðrum, Kjartani og Bolla. Samkomulag þeirra í æsku er svo ástúðlegt, að unun er að lesa um það. Það kælir alls ekki hugarþel Bolla á þeim árum, þótt hann heyri Kjartan alstaðar tekinn fram yfir sig. Honum er það þá hin mesta gleði að þjóna Kjartani sem best og gera veg hans sem mestan, og þótti honum þá gott, er hann var talinn ganga honum næstur.

En þó að þetta gengi nú svona til, á æskuárunum, þá sór Bolli sig þó svo í ættina, að ætla mátti, að hann leitað sjer þess frama, er hann mátti frekastan fá, með aldri og þroska. Sagan segir, að fósturforeldrar hans hafi unnað honum sem sonum sínum. En hún bætir því við, að þau hafi unnað Kjartani fram yfir þá alla. Til hans og framtíðar hans horfði

ekki einungis Hjarðarholtsheimilið staðföstum vonaraugum, heldur og alt hjeraðið.

Það hefir áður verið vikið að því, að þegar Guðrún varð ekkja eftir Þórð Ingunnarson, væri hún að eins 18 ára gömul, og hafi þá borið af öllum samtíðarkonum sínum að fríðleik og hverskyns atgjörfi, andlegri og líkamlegri. Enn fremur mintist jeg á það, að Kjartan vandi stöðugt komur sínar að Laugum; fyrst sótti hann þangað leiki sem drengur, en síðar meir æfði hann þar sund, og jafnan var Bolli með honum.

Mjer skilst nú sagan á þá leið, að Kjartan hafi þá fyrst farið að snúa huga sínum þangað, sem Guðrún var, er hún var orðin ekkja eftir Þórð, og að það sje þá, að hin forna vinátta, er með þeim hafi verið í æsku, snúist upp í ást, og sá ásetningur fest rætur hjá þeim, að þau skuli eigast síðar meir. Það kann máske einhverjum að þykja það undarlegt, að Kjartan vakti ekki undir eins opinbert bónorð við hana, og fastnaði sjer hana, eins og þá var kallað. Mjer finst það atferli hans mjög eðlilegt, og skal jeg leitast við að gera nokkra grein fyrir þeirri skoðun minni. Fyrst var nú það, að Kjartan var mjög ungur, en þó hygg jeg, að hitt hafi ráðið meiru, að hann hefir, að þeirrar aldar sið, viljað vera búinn að vinna sjer nokkuð til frama áður. Hann þekti svo vel metnað hennar og skapsmuni; vissi, að sá maður, sem hún gæfi hönd sína, yrði áður að hafa unnið eitthvert stórt afreksverk, ef hann skyldi eiga virðingu hennar og traust. Hitt

var og, að þótt hann væri ættstór og fagur, og faðir hans auðugur, þá var hann þó enn staðfestulaus, en átti það hins vegar nokkurnveginn víst, að taka við hjeraðsstjórn, er stundir liðu fram, því að bæði var hann elstur allra sona Ólafs, og átti þar að auki ástsæld og virðingu flestra að fagna, fjær og nær. —

Svona get jeg mjer, að ástatt hafi verið, að minsta kosti um Kjartan þann tíma, sem tilhugalíf þeirra Guðrúnar stendur sem hæst. En því miður höfðu forlögin ákveðið þeim alt annað hlutskifti, en ástríka sambúð í farsælu hjónabandi.

Vorið 996 dregur upp hið fyrsta ský á vonar- og hamingjuhimni þeirra. Kjartan kemur þá einn dag sem oftar til Lauga, og er vel fagnað að vanda. Hann segir þá Guðrúnu, að hann hafi fastráðið að fara utan, og leita sjer fjár og frama. Henni verður illa við þessa frjett, og þykir hann hafa ráðið þetta nokkuð fljótt, og sömu skoðun höfðu þeir látið í ljós Þorsteinn móðurbróðir hans og Ólafur faðir hans. Guðrún er ekki margorð, en þó má vel skilja ásökun hennar, er hann hefir ráðið þetta á óvart frændum og vinum. Hann biður hana að láta sjer ekki mislíka þetta, „ek skal gera annan hlut, svá at þér líki vel.“ Guðrún var fljót til svars og mælti: „Entu þetta; því at ek mun brátt yfir því lýsa,“ og kvaðst hún vilja fara með honum utan. Mjer finst, að í þessari bæn Guðrúnar liggi miklu meira, en kemur fram í orðunum, en margan mundi gruna, og er því líkt sem hún hafi hugsað sitt mál vandlega, þó að tíminn til andsvars væri stuttur. Hún vill fara með

Kjartani, og hvers vegna? Jeg hygg vegna þess, að hún veit, að hún hefir lífsreynslu og mannþekkingu miklu meiri en hann. Hún þekti Kjartan allra manna best; þekti hans veiku og sterku hliðar; vissi öllum betur, hvers hann þurfti að gæta, og hvað hann þurfti að varast, og hún taldi það ekki eftir sjer að fylgja honum, og styðja hann að öllu því, er hún mátti, og leggja sitt líf við hans líf. Og enn segir hún honum óbeinlínis, að þegar hann sje farinn af landi burt, hafi hún ekkert að lifa fyrir, því alt sje með honum horfið, (sbr.: „því ekki ann ek Íslandi").

En þó að undarlegt megi virðast, þá neitar Kjartan henni um þessa bæn, og sannast því hjer, að jafnan ber til hverrar sögu nokkuð. Skilnaður þeirra varð að þessu sinni, sá, er við vitum. Hann bað hana að bíða í þrjá vetur, en fjekk ekkert loforð, og kveðjurnar urðu stuttar. Þannig varð skilnaður þeirra, og varð þeim eigi síðar auðið að endurnýja vináttumál sín; en svo er að sjá, sem báðum hafi liðið illa, bæði verið óánægð.

Mjer blandast ekki hugur um, að alt þetta hefði farið öðruvísi, ef Kjartan hefði að þessu sinni látið að vilja Guðrúnar. Jeg lít svo á, að þessi ferð Kjartans til Lauga, sje upphaf hinnar hörmulegu viðureignar þeirra síðar, og fæ jeg ekki betur sjeð, en að framkoma Kjartans hafi verið óheppileg, þegar þess er gætt, hvernig ástatt var á milli þeirra. Honum mátti vera það ljóst, að hann átti hjer við unnustu sína að skifta, sem ekki mundi biðja hann annars en þess, sem báðum mætti til góðs verða,

og sem þar að auki var vön að fá vilja sínum framgengt. Svo vel mátti hann þekkja hana. Hins vegar þykist jeg vita, að Guðrún hafi ásett sjer að bíða hans hinn tilsetta tíma og efna við hann öll þau heit, er hún í hjarta sínu hafði unnið honum, — og hann henni á sama hátt.

Mjer þykir ekki ólíklegt, að Guðrún hafi hugsað líkt og Tullur prestur, þegar hann kvaddi Núma: „Þegar þú kemur þar í Róm,“ því eins og sagan sýnir, að hún bar kvíðboga fyrir framtíð unnusta síns, eins sýnir hún líka, að kvíði hennar var ekki ástæðulaus. Kjartan sótti að vísu virðingu og frama á konungsfund, en hann sótti þangað líka annað um leið, því víst virðist einsætt af sögunni, að hugsanir hans og skap hafi breyst allmikið í þessari utanför; og það má vera hverjum ljóst, af frásögn Laxdælu, að ekki átti Guðrún hug hans óskiftan þá stund, er hann dvaldi í Noregi, að minsta kosti eigi altaf. Það þurfti nú vafalaust hvöss járn, til að standa fast á þeim ís, sem Kjartan stóð á í Noregi, enda sjest og best, að járnin reyndust honum illa, og ísinn ærið háll. Kjartan virðist hafa verið mjög reikull í ráði um það, hvort hann ætti heldur að fara út til Íslands, og kvongast Guðrúnu, eða setjast að í Noregi og ganga að eiga Ingibjörgu, systur Ólafs konungs Tryggvasonar. En eins og við vitum, þá voru það siðaskiftin, sem rjeðu úrslitum í því máli, og eigi ólíklegt, að Kjartan hefði unað sjer allvel í Noregi, þótt farbannið hefði heft för hans lengur. Kjartan virðist hafa hugsað eitthvað á þá leið, að yrði konungsvilja framgengt á

Íslandi, þá mundi hann fara, og setjast þar að; ef öðruvísi færi, þá að ílengjast í Noregi, og eiga Ingibjörgu. — Nú urðu úrslitin þau, að Íslendingum þeim, er konungur hafði haldið, var gefið heimfararleyfi vorið 999, að fjórum undanskildum, og var Kjartan einn þeirra. Síðustu orðin, er Kjartan talar við Bolla fóstbróður sinn, þegar þeir eru að skilja, er Bolli fer heim, sýna, að Kjartan vill eigi, að til Íslands frjettist um kunningskap hans og Ingibjargar. Hann talar og fátt um Guðrúnu. Svör þau, er Kjartan gaf Bolla, er hann var á förum heim, eru mjög á reiki og óákveðin.

Jeg tel víst, að Bolla hafi ekki til hugar komið, að leita ráðahags við Guðrúnu, eftir að hann vissi, að hugir þeirra Kjartans fóru að hneigjast saman, uns hann sá hvað fara gerði um Kjartan í Noregi. En nú er bæði líklegt, að Bolli hafi vitað um skilnað þeirra Guðrúnar, er Kjartan sigldi, og vel mátti honum vera kunnugur samdráttur Kjartans og Ingibjargar, og því er sennilegt, og enda víst, að hann hafi farið af Noregi fullviss þess, að Kjartan mundi aldrei til Íslands leita. Þegar Bolli er kominn heim til Íslands, líður ekki á löngu, áður en hann hefur upp bónorð við Guðrúnu; fyrst við hana sjálfa, og seinna við fóstra sinn, og þótt henn fengi ekki sem bestar undirtektir, þá fór svo um síðir, við eftirsókn hans og atbeina Ósvífurs, að þau giftust haustið 999.

Flestir hafa ámælt Bolla fyrir þá fljótfærni, að hann beið ekki til næsta vors, eða þar til útsjeð var um, hvort Kjartan kæmi eða ekki. En mjer

finst honum vera nokkur vorkunn um þetta mál. Hann mátti vita það, hverja þýðingu það hlyti að hafa á þetta hans mesta áhugamál, þegar sú frjett bærist út til Íslands, að Kjartans væri eigi framar hingað von. Honum mun hafa verið það ljóst, að margir mundu verða til að biðja Guðrúnar, sem auð og mannaforráð höfðu fram yfir hann, og því hefir hann ekki viljað bíða og eiga, ef til vill, á hættu að missa konunnar, og þó að hann hafi fundið, að þetta væri fljótráðið, þá hefir ástin, sem vanalega er eigi mjög skarpskygn, byrgt honum alt útsýni nema það eitt að ná takmarkinu.

Sagan sýnir, að sú barátta er hörð og löng, sem Guðrún þreytir við sinn innra mann, áður en hún sættir sig við hlutskifti sitt, og gengur að eiga Bolla. Það er fyrst eftir að faðir hennar hafði lagt mjög eindregið að henni, og enda skipað henni að eiga Bolla, að hún lætur undan, en hve nærri hún hefir tekið sjer þetta, það sýnir sagan best.

Vorið 1001 kemur Kjartan til Íslands, og fær strax við skip fregnina um gjaforð Guðrúnar. Ekki verður sjeð, að hann tæki sjer frjettina all-nærri, enda var það samkvæmt aldarandanum, að kasta ekki öllu utan á sig. Menn gátu fundið til, án þess að þeir mæltu æðru eða kvörtuðu. Jeg vil geta hjer eins dæmis, er mjer virðist sýna, að fregnin hefir eigi gengið honum nærri.

Á meðan þeir voru við skip, Kjartan og Kálfur fóstbróðir hans, gerði rok mikið, svo þeir urðu að ganga betur frá festum skipsins; en á meðan þeir

voru að því, rannsökuðu þær vöruna, Þuríður systir Kjartans og Hrefna systir Kálfs, er báðar voru þangað komnar til að hitta bræður sína. Þær finna moturinn góða, sem Ingibjörg gaf Kjartani með þeim ummælum, að hann gæfi Guðrúnu hann að bekkjargjöf. Hrefna faldar sjer með honum og í sama bili kemur Kjartan þar að. Bæði orð Kjartans og öll atvik, er hann sjer Hrefnu með motrinum, verða eftir sögunni að skoðast, ef ekki sem bónorð, þá að minsta kosti stórt spor stigið í þá átt, enda bað hann hennar litlu síðar.

Það er fyrst eftir að hann er búinn að sitja heimboðið að Laugum, að hann tekur ógleði mikla, og er líklegt, að hann hafi þá sjeð og skilið, hvers hann hafði mist. Það er og í því boði, að Bolli gerir sjer alt far um að sýna Kjartani sem mesta vináttu og sóma, svo sem jafnan hafði hann áður gert. Hann velur Kjartani þá gripi, er hann átti besta í eigu sinni, en Kjartan hafnar þeim, á móti vilja og ráði föður síns. Hvað Guðrúnu snertir, þá lítur svo út, sem hún taki sjer miklu nær en Kjartan, hversu komið var. Enda er líklegt, að henni hafi ekki fallið það ljett, hve fljótt Kjartan kvongast eftir að hann kemur heim. Eftir sögunni að dæma, hefir mikið djúp verið staðfest á milli Guðrúnar og Hrefnu, hvað fríðleik og aðra hæfileika snerti. Sjálfur fann Kjartan þann mismun, en að öðru leyti er þess getið, að Hrefna væri góð kona, og að með henni og Kjartani tækist góðar ástir.

Sá, sem les söguna í fyrsta sinn, fram til þess er Kjartan er í þann veginn að halda brúðkaup

sitt, hefir ástæðu til þess að ætla, að alt muni nú fara vel, en hann þarf eigi að lesa miklu lengra til að sjá, að alt annað er í nánd.

Haustboðið í Hjarðarholti slær eins og svörtu striki yfir alla sátt og samlyndi milli Hjarðhyltinga og Laugamanna. Þá gerir Kjartan Guðrúnu þá skapraun, sem hann mátti vita, að ekki yrði látin ógoldin, og það er eftirtektarvert, að hann velur á hana það vopnið, er hann vissi, að best mundi bíta, og það finst mjer fremur benda til þess, að hann hafi hugsað á hefnd heldur en sættir, þótt hitt sje mjer ekki eins auðsætt, hvers hann átti að hefna, því eins og þegar er getið, hafði Guðrún aldrei lofað að bíða hans, og eigi hafði hann heldur hagað sje svo ytra, sem hann væri all-vel minnugur orða sinna við Guðrúnu, er þau kvöddust. Þá hefst ófriðurinn og ekkert er sparað frá beggja hálfu; verður þá gripahvarfið og fleira, sem ekki er nauðsyn upp að telja fyrir þeim, sem þekkja söguna vel. Þó er það ein hefnd, sem jeg vil ekki ganga þegjandi fram hjá, því hún er all-einkennileg.

Eftir jól safnar Kjartan að sjer mönnum, og urðu þeir 60 saman. Með þessum flokki fer hann til Lauga, tekur allar dyr og strengir heimamenn inni, svo enginn getur farið þarfinda sinna eða náð til salernis. Þetta þótti hin mesta svívirðing, enda líkaði og Ólafi, föður Kjartans það illa, og spáði, að ilt mundi af hljótast.

Jeg veit ekki, hverjum augum menn líta alment á þetta atferli Kjartans, en það skal jeg hreinskilnislega játa, að þessi ferð hans þykir mjer einhver

hin ógeðslegasti þátturinn í allri sögunni, og honum í alla staði ósamboðinn. Hann, þetta einstaka prúðmenni, sem var átrúnaðargoð allra í hjeraðinu, maðurinn, sem allra manna var líklegastur til hjeraðshöfðingja, og var þar að auki sönn fyrirmynd um trúrækni og alla fagra framkomu, — hann gerðist hvatamaður og foringi fyrir þeim leiðangri, sem vera mun einsdæmi í öllum fornsögunum. Að minsta kosti man jeg ekki eftir, að nokkur annar hafi lagt svona lagaða refsingu á mótstöðumenn sína.

Samkvæmt hugsunarhætti forfeðra vorra og þeirra lýsingu, sem sagan gefur af Kjartani, hefði jeg miklu fremur búist við því, að hann hefði farið með hernaði á hendur Laugamönnum. Það var hvorttveggja, að föður hans sagði þungt hugur um þessa ferð, enda rættist það síðar.

Vorið eftir, 1003, þröngvar Kjartan Þórarni til að bregða jarðarsölu, er hann var búinn að fullgera við Bolla. Með því gerði hann Bolla annaðhvort húsviltan eða hjeraðsrækan. Annaðhvort urðu þau Bolli og Guðrún að rýma hjeraðið, eða láta til skarar skríða um opinberan ófrið. Við vitum, að þau tóku þann kostinn, sem öllum gegndi verst, enda taka nú vandræðin að aukast fyrir alvöru, og er Kjartan veginn skömmu síðar um sumarið, og mun flestum verða það víg minnistætt, sem einu sinni hafa um það lesið.

Þannig lauk þá æfi þess manns, er mestur var talinn glæsimaður allra Íslendinga, er þá voru uppi. Hann var að eins 33 ára gamall, er hann fjell, til mikils harms fyrir ekki að eins vini hans og vanda-

menn, heldur má svo að orði kveða, að Ísland hafi grátið prúðmennið, eins og goðin grjetu Baldur forðum.

„Mikit er at Kjartani kveðit ok kyni hans, ok mun óhægt við forlögum þeirra at gera,“ mælti Ólafur konungur Tryggvason, þegar hann í síðasta sinni horfði á eftir Kjartani. Jeg get vel hugsað, að margur hafi endurtekið þau orð í huga sjer, er hann lauk við að lesa æfisögu Kjartans, því að forlög hans eru mikil og sorgleg. En það allra sorglegasta er það, að hann fellur á hádegi æfinnar, í blóma lífsins, og hvað það var, sem dró hann til dauða; hver sá var, sem veitti honum síðasta sárið, og svo hverjar afleiðingar dauði hans hafði. Alt þetta gerir það að verkum, að fall Kjartans Ólafssonar hefir alt fram á þennan dag, og mun verða meðan land er bygt, talið einn hinn sorglegasti atburður, er fornsögur vorar greina, og er þá langt jafnað, þótt reyndar sje löngum sami „endir á Íslendinga sögum.“

Jeg get ekki látið hjá líða, að minnast sjerstaklega á Ólaf, föður Kjartans, því að hann er óefað mesta göfugmennið, sem Laxdæla getur um. Hversu oft vill hann ráða fyrir Kjartan, honum til góðs, en fær því ekki framgengt. Honum segir þungt hugur um samdrátt Kjartans og Guðrúnar, því hann þekti bæði svo vel, og vissi, að þau áttu ekki skap saman, og að þau mundu ekki bera gæfu saman. Öll framkoma hans — söguna út — er aðdáanleg. Hann þreyttist aldrei á að ganga á milli með sáttaboð. Framkoma hans við Bolla, eftir að Kjartan er veginn, sýnir betur en alt annað, að hann var sann-

arlegt göfugmenni. — Hann andaðist þrem árum síðar en Kjartan, 1006; mæddur af sorg og söknuði.

Ef jeg ætti nú að lýsa framar minni skoðun á söguhetjunum þremur, sem hjer hafa verið gerðar að umtalsefni, virðist mjer Bolla mest vorkunn verið hafa; verður eigi betur sjeð, en að hann hafi tregastur gengið til stórræðanna. En nú get jeg, að mörgum muni þykja þessi skoðun mín ærið undarleg, og því vil jeg reyna að gera grein fyrir því, sem jeg reisi hana á.

Jeg held, að varla geti nokkur lesið svo söguna, eftir að Kjartan kemur frá Noregi, og þangað til hann er veginn, að ekki fái hann mikla samúð með Bolla. Það eru þungar átölur, sem Guðrún veitir honum, er hún frjettir, að Kjartan er kominn til landsins, öllum á óvart, og engri konu bundinn, og frá þeim tíma má segja, að honum sje bakaður eldurinn báðum meginn. Annars vegar er ást hans til fósturforeldra sinna og þakklætisskuld sú, sem hann stendur í við þau, enn fremur fóstbróðir hans og frændi, sem hann hafði unnað manna mest, en verið svo óhamingjusamur að brjóta af sjer, þótt jeg, eins og áður er sagt, geti ekki kent Bolla um úrslitin. Hins vegar stóð kona hans og alt skyldfólk hennar, eggjandi hann á allan hátt á móti Kjartani. Samt sem áður stóðst hann þá eggjan lengi vel. Hann gekk á móti Kjartani og vildi fagna honum sem vinur vini, þegar Kjartan kom frá Noregi; hann valdi honum þær gjafir, er hann átti bestar. Það má nærri geta, að honum hefir fallið þungt, þegar Kjartan neitar að þiggja þær, enda hefir hann

þá og vitað, að lokið var vináttunni; hefir Bolli þá að líkindum sjeð framtíðarviðskifti þeirra fyrir. Hann er leyndur gripastuldinum, svo hann ekki hindri hann. Öllum óvingjarnlegum orðum, sem töluð eru í garð Kjartans, mótmælir hann, og þegar engin mótmæli komast að lengur, þá velur hann þögnina.

Jeg vildi að þeir menn, sem harðast hafa dæmt Bolla fyrir síðustu förina, er hann fór á móti Kjartani, vildu lesa Laxdælu betur en þeir virðast hafa gert, og þá eigi síst viðræður þeirra Guðrúnar sama morguninn, sem vígið var framið. Mjer skilst, að honum hafi verið sá kostur vænstur, að halda á stað á eftir bræðrum hennar. Hann var kvongaður Guðrúnu, og samkvæmt aldarandanum gat varla stærri svívirðing hent hann, en að hún gengi frá honum vegna hugleysis hans gagnvart óvinum hans. Aðstaða hans þann morgun, minnir á Gunnar konung, þegar Brynhildur eggjar hann á móti Sigurði Fáfnisbana. Síðasta ráðið, sem Bolli grípur til, til þess að hjálpa Kjartani, er það, að hann skríður upp á hæðina til að reyna að vara hann við fyrirsátinni, og má varla kenna honum um, þótt óheilladísir þeirra fóstbræðra vörnuðu þess, að sú bending kæmi að tilætluðum notum. Að vísu varð Bolli til þess að veita Kjartani banasárið, eftir að Kjartan hafði eggjað hann fram til liðs öðrum hvorum, og er það síst furða, þótt hann snerist ekki gegn mágum sínum. En víst er um það, að eftir á hefir hann óskað, að hann hefði veitt sjer það sár sjálfum, og með síðasta andvarpi Kjartans virðist ánægju-

og gleði-sól Bolla ganga til viðar. Úr því virðist honum kærkomnara hel en líf, enda var þess og skamt að bíða, að hann hnigi í valinn fyrir vopnum óvinanna; hann fjell árið 1007, þá á besta aldri. Þannig lauk æfi hans.

Hvað Guðrúnu snertir, þá er það víst, að hún lætur ekki sitt eftir liggja að eggja til stórræðanna. Samt sem áður verður þó vel að gæta allrar sanngirni, áður en dómur er feldur um hana. Fyrst er þá þess að geta, að skapferli hennar er á þá leið, að hún varð annað hvort að elska eða hata. Þar var enginn millivegur. Frá hennar sjónarmiði hafði Kjartan búið þannig við hana, að henni mun hafa þótt ólíft samhjeraðs við hann, og er hann flutti eigi bústað sinn, varð hann að falla.

Viðræður hennar við Bolla, þegar hann kemur heim frá vígi Kjartans, sanna það, að henni lá þung sorg á hjarta og hana bar hún æ síðan, því aldrei virðist hún hafa getað gleymt Kjartani. Það sýna orð hennar, er hún mælti við Bolla son sinn, er hann spurði hana, hverjum af fjórum mönnum sínum hún hefði unnað mest. Þá svaraði hún: „Þeim var ek verst, er ek unna mest.“ — Svarið er svo greinilegt, að um það þarf engin orð að hafa. Annars er það ánægjulegt, að fylgja Guðrúnu í anda hinn síðari hluta æfi hennar og sjá, hve ant hún lætur sjer um, að bæta fyrir hvert misstigið spor.

Tímans vegna verð jeg að fara fljótt yfir sögu.

Sumarið 1007 var Bolli veginn, maður hennar. Óvinir hans komu að honum óvörum, þar sem þau voru í seli. Guðrún var ein inni hjá honum, þegar

óvinirnir tóku hús á þeim. Bolli bað hana þá að ganga út, svo hún sæi ekki viðureignina. Hún kvað honum ekki mundi verða mein að sjer. En fyrir bæn hans gekk hún til lækjar, og tók að þvo ljereft sín. Þegar þeir höfðu unnið á Bolla, gekk Guðrún í veg fyrir þá, og spurði þá vandlega, hvernig farið hefði. Helgi Harðbeinsson gekk að henni og þerði blóðið af spjótinu, er hann hafði unnið á Bolla með, á blæjutröfum hennar. En þó þessi skapraun væri þung, sá henni enginn bregða.

Vorið 1008 flytur hún að Helgafelli og stjórnar þar síðan stórbúi um langt skeið með mikilli rausn. Hún ljet smíða þar kirkju, og fleiri framkvæmdir hafði hún með höndum á þeim árum. Árið 1010 giftist hún í fjórða sinni, og átti Þorkel Eyjólfsson, er þá var mestur virðingarmaður á Vestfjörðum og hinn ágætasti maður. Veislan skyldi vera að Helgafelli sex vikum fyrir vetur, og vildi Guðrún sjálf allan kostnað hafa. Þeir komu með sextíu manns, brúðguminn og Snorri goði. Og er sagt, að allir riðu í skrautklæðum og söðlar og annað væri hið glæsilegasta. Guðrún tók á móti þeim með hinni mestu rausn og hafði fyrir fult hundrað manns tólfrætt. Voru það hinir fremstu menn hjeraðsins auk frænda hennar og vina. Fyrsta kvöld veislunnar sýndi Guðrún, hvílíkur skörungur hún var. Vinkona hennar, Þórdís todda, hafði sent henni sekan mann, Gunnar Hlífarson. Vildi Þorkell bóndi Guðrúnar taka hann þá um kvöldið og lífláta, er hann þekti hann, en Guðrún tók af skarið svo vel, að Þorkell gaf honum ekki einungis grið, held-

ur og haffært skip með öllum útbúnaði, og sigldi Gunnar því skipi til Noregs vorið eftir.

Þau Guðrún og Þorkell áttu einn son, er Gellir hjet. Varð hann hinn mesti maður og bjó að Helgafelli eftir föður sinn. Tvo syni átti Guðrún með Bolla, og urðu báðir frægir menn.

Það mætti líkja æfi Guðrúnar við langan dag. Morguninn er bjartur og fagur; um dagmálaskeið æfi hennar fara skýin að dragast saman, með fyrsta hjónabandi hennar, og um hádegið skellur stormurinn á, og óveðrið helst alt til þess, er út tekur að halla æfidegi hennar; þá birtir til, og úr því er bjart og fagurt yfir æfi hennar, og því fegurra, sem lengur líður og kvöldskuggarnir lengjast, uns sólin gengur til viðar. Það er hressandi, eftir storminn og stríðið í fyrri köflum sögunnar, að lesa frásöguna um síðustu ár Guðrúnar. Þorkell er henni hinn ástríkasti eiginmaður, og hún honum hin hjartfólgnasta kona. Hún gerist nú og trúkona mikil. Kirkja er reist að Helgafelli, og ljós þau, er Gestur spaki sá í anda rétt fyrir andlát sitt, taka nú að loga þar með skærri birtu. Nú bætir hún, eftir því sem verða má, fyrir undangengnar yfirsjónir og hún uppsker líka. Hún nýtur ástar, ekki einungis , sambúðinni við eiginmann og þrjá efnilega syni, sem alt gera henni til ánægju, heldur nýtur hún og hinnar innilegustu umhyggju og ástar hjá sonardóttur sinni, Herdísi, sem hún tók til sín á fyrsta ári, og mátti aldrei af sjá, enda skyldu þær ekki fyr en dauðinn skyldi þær. — Nú átti hún að eins

eina mótlætisskúr eftir. Það átti fyrir henni að liggja, að sjá á bak fjórða og síðasta eiginmanni sínum. Þorkell bóndi hennar druknaði á Breiðafirði á skírdag 1025, er hann var að flytja kirkjuvið mikinn, þann er hann hafði sótt til Noregs sumarið áður Guðrún harmaði hann mjög, en bar sig þó vel. Gelli syni sínum fjekk hún búið í hendur er hann var fjórtán ára, enda var hann hinn mannvænlegasti. Sjálf leitaði hún sjer huggunar í trúnni, og nam hún allra kvenna fyrst hjer á landi saltarasöng og dvaldi oft um nætur í kirkjunni á bæn, og fylgdi henni þangað mærin Herdís. Hún varð fyrsta einsetukona hjer á landi og andaðist háöldruð að Helgafelli. Dánarár hennar er eigi full-kunnugt.

Jeg hefi þá rakið nokkur atriði úr æfi þeirra þriggja, Kjartans, Bolla og Guðrúnar. Jeg hefi viljað sýna jafnframt, hvern skilning jeg legg í söguna, með þeim ályktunum, sem jeg hefi leyft mjer að draga. Það er ekki mitt að dæma, að hve miklu leyti þær ályktanir eru rjettar. En úr því að mjer var falið að flytja þetta erindi, taldi jeg mjer skylt, að láta þá skoðun uppi, er jeg teldi sannasta og rjettasta, og rökstyðja hana eftir mætti. Hitt skal fúslega játað, að mig skortir hæfileika, lærdóm og tíma til að gera þetta eins vel og jeg hefði óskað, og nauðsynlegt var. En jeg treysti því, að þið afsakið það, sem miður er og færið alt til betri vegar fyrir mjer. Og jeg hefi það mjer til afsökunar, að jeg hefi gert þetta eins vel og þekking mín og aðrar ástæður leyfðu.

---

## Kristnar merkiskonur í fornöld.

### Fyrirlestur fluttur í K. F. U. K. 23. des. 1910.

---

Háttvirtu fjelagssystur!

Jeg hefi valið að yfirskrift þeim orðum, er jeg ætla að tala hjer í kvöld: „Kristnar merkiskonur í fornöld“.

Margar ykkar munu kannast við fyrirlestur, sem hr. Einar Hjörleifsson flutti í hitteðfyrra, um skapstórar konur í fornöld; en eigi ætla jeg að tala um þær konur hjer í kvöld. Jeg ætla hjer að tala um kristnar merkiskonur, af því að þið, sem hjer eruð saman komnar í kvöld, hafið á alveg sjerstakan hátt tekið eilífðarmálin á stefnuskrá ykkar. Og mjer er ánægja að hefja máls í fjelagi ykkar, því mjer sem öðrum er það mesta gleðiefni að vita, að þið allar, er gengið hafið í K. F. U. K., hafið sýnt það í öllu og sannað, að þið trúið enn þeim sannindum, sem okkur var öllum eitt sinn kend, í okkar góða og gamla barnalærdómi, að kristindómurinn og kristna trúin væru æðst og fullkomnust allra trúarbragða. Hann er gamall þessi sannleikur, en hann hefir þó staðið óhaggaður í meira en nítján aldir, og sá hygg jeg að sje vitnisburður sögunnar,

staðfestur af reynslunni, að hvar sem kristindómurinn hefir verið kendur hreinn og ómengaður, þar hefir hann verið þjóðfjelaginu lyftistöng til framfara, frelsis og sigurs, og fært því sanna hamingju og blessun. Hverjum þeim, sem orðið hefir fyrir áhrifum kristindómsins og gert hann gildandi fyrir líf sitt og alla starfsemi, hefir hann veitt þrek og þolgæði í hverskyns mótlæti, hættum og í hörmungum, og gætt hann mildi, mannúð og kærleika í viðskiftum hans við aðra.

Það hefir löngum þótt brenna við, að þar sem trúnni hefir á einhvern hátt hnignað hjá þjóðunum, þar hefir jafnan hamingjusól þjóðarinnar eða einstaklingsins verið óðum að lækka. Það skiftir í þessu sambandi minstu máli, hvort hnignunin hefir stafað af innbyrðis trúardeilum, flokkadráttum eða efasemdum eða trúarofsóknum, því þegar lotning og alvara er horfin, en kæruleysi og lítilsvirðing eða þá ofstæki komið í staðinn, þá stendur eyðileggingin jafnan fyrir dyrum.

Það er næsta eftirtektarvert, hve vendilega allir efasemda- og vantrúarpostular þessara tíma, hliðra sjer hjá því að minnast þess, sem að minni hyggju, er mikilvægasta atriðið í æfisögu mannkynsins, sem sje, áhrifa kristindómsins á líf þjóðanna alt frá fyrstu tíð og fram á þennan dag. En kristindómurinn verður að vera sannur og lifandi, og með þeim orðum á jeg við þann kristindóm, sem trúað er með lifandi sannfæringu, eins og hann er kendur í guðs opinberaða orði, en ekki hinn, sem sniðinn er eftir eigin geðþótta vísindanna og aldrei getur

orðið sjálfum sjer samkvæmur eða neinum til blessunar.

I.

Jeg vil nú biðja ykkur, háttvirtu fjelagssystur, að hverfa í anda með mjer til ofanverðrar níundu aldar og öndverðrar tíundu, og vita hvað sagan segir um þetta efni. Tíminn er naumur, og get jeg því að eins minst á tvær konur, er þá voru uppi, og þá væri vel, ef mjer hefir hepnast að velja konurnar, sem fegurst eftirdæmi geta gefið ykkur í þessu fjelagi. Tímarnir, sem þær lifðu á, konurnar, sem jeg mun nú bráðum nefna, voru baráttu- og stríðs-tímar, en þær voru líka sterkar í trú sinni þessar konur. Þær ljetu ekki hugfallast, þótt stormarnir æddu og öldurnar risu hátt, og þess vegna náðu þær friðsælli höfn um síðir. Sú konan, er jeg minnist hjer á fyrst, var Unnur Ketilsdóttir, eða eins og hún hefir venjulega verið nefnd, Unnur djúpúðga.

Nálægt 830 bjó ríkur og ættstór höfðingi í Raumsdal í Noregi, er Ketill hjet, flatnefur. Hann átti Ingveldi, dóttur Ketils veðurs, og var hún talin mikil ágætis kona. Þessi hjón áttu mörg börn er öll voru mikil fyrir sjer og tóku snemma rjetta trú. Elstur barna þeirra var Björn hinn austræni, er fór til Íslands og bjó í Bjarnarhöfn í Helgafellssveit. Helgi bjólan var annar; hann nam Kjalarnes. Dætur Ketils voru þær Þórunn hyrna, Jórunn mannvitsbrekka og Unnur djúpúðga. Um uppvöxt og æsku Unnar er fátt að segja, en af sögunni þykir þó mega ráða, að

hún hafi hlotið hið besta uppeldi, því foreldrar hennar voru mikilhæf og merkileg.

Haraldur hárfagri hafði unnið það heit, að leggja allan Noreg undir sig og verða einvaldskonungur. En til þess að efna þetta heit, varð hann að kúga til hlýðni við sig alla fylgiskonunga og höfðingja, sem höfðu völd í Noregi. Þá, sem veittu mótstöðu, svifti hann völdum eða tók af lífi. Þegar Ketill frjetti þetta athæfi konungs, heimti hann til sín frændur og vini, og tjáir þeim tiltektir konungs. Kvað hann það nú eitt fyrir liggja, að allir yrðu samtaka. Hann kvað það áform sitt, að yfirgefa ættland og óðul, svo hann hjeldi lífi og frelsi. Gerðu allir góðan róm að máli hans, og kusu að fylgja honum og hlíta hans forsjá. Þá sló hann upp veislu mikilli og gifti að því boði Þórunni dóttur sína Helga magra, er seinna nam Eyjafjörð. Eftir það skildust menn og fóru synir hans og tengdasynir út til Íslands með alt sitt lausafje, en sjálfur hjelt hann vestur um haf og Unnur dóttir hans með honum. Komu þau skipi sínu við Skotland og fjekk Ketill þar góðar viðtökur, og staðfestist þar og náði brátt vináttu manna og virðing mikilli.

Skömmu eftir að Unnur kom vestur, giftist hún herkonungi þeim, er Ólafur hjet; áttu þau einn son, Þorstein að nafni. Hjónaband þeirra varð mjög stutt, því Ólafur fjell skömmu síðar í orustu á Írlandi. Bjó þá Unnur eftir það um stund á Katanesi við mikla rausn. Þorsteinn sonur hennar var mjög bráðger og hinn mesti hermaður; lá hann í hernaði, og eignaðist að lokum hálft Skotland og

gerðist konungur þar yfir. Stóð þá hagur þeirra mæðgina með miklum blóma, uns Þorsteinn var svikinn í trygðum og drepinn af Skotum árið 891.

Það var ekki smáræðisvandi, sem Unnur var nú stödd í. Þorsteinn ljet eftir sig 7 börn, öll ung, og Unni gat ekki dulist, að þau voru stödd í hinum mesta voða. Hún vissi, að óvinirnir mundu ekki láta hjer staðar numið, heldur reyna að ná lífi allra barnanna, til þess að eyða hinni útlendu ætt, svo að eigi þyrfti þaðan ófrið að óttast. En auk þess var og tengdadóttir hennar, og fleira skyldulið, sem henni var ant um. Faðir hennar var nú löngu andaður. En einmitt þá, þegar háskinn er mestur, framkvæmir hún það stórvirki, er hvergi finst annars eins getið um nokkra konu þeirra tíma, og væri það ærið eitt til að halda á lofti nafni hennar. Hún lætur með leynd smíða knörr einn ákaflega stóran, og að því búnu kallar hún til sín alla vini og frændur og segir þeim, að hún ætli af landi burt með allan fjárhlut sinn, og bjarga þannig lífi sínu og allra þeirra, er henni vilja fylgja. Gerðu allir góðan róm að máli hennar, og fólu sig hennar forsjá. Hún tók nú að sjer alla framkvæmd og gerðist foringi fararinnar; fylgdu henni margir göfugir menn, auk barna, þræla og ambátta. Öllum þessum hóp kom hún úr klóm óvinanna, og slapp með heilu og höldnu, ásamt fjárhlut öllum, af landi burt, án þess óvinir hennar næðu að hindra hana eða veita henni eftirför. En sagan getur þessa verks Unnar, sem einsdæmis, er útlend kona fær svo rösklega haldið hlut sínum fyrir ofurefli óvina, er vafalaust vildu hana feiga og skuldalið hennar, og

hafa munu haft alla viðleitni, að láta engan hennar manna útlendan, karl eða konu, ganga úr greipum sjer.

Unnur komst farsællega til Orkneyja, og hitti þar stúlku eina hertekna; var sú af göfugum ættum, en þjáð mjög í þrældómi. Unnur keypti henni lausn með ærnu fje, og með því skilyrði, að hún þjónaði Þuríði tengdadóttur sinni ekki ver, en hún hafði þjónað drotningu þeirri, er hún hafði áður verið hjá. Sýnir þetta, hverja meðferð Unnur hafði á tengdadóttur sinni. Í Orkneyjum gifti hún elstu sonardóttur sína hinum göfugasta manni. Eftir það hjelt hún til Færeyja og gifti þar aðra sonardóttur sína. En af þessum sonardætrum hennar eru komnar hinar merkustu ættir í hvorumtveggja eyjunum. Þá lýsir hún yfir því, að hún ætli til Íslands; og vildu engir við hana skilja. Ferð hennar gekk vel, og kom hún út hingað vorið 892; hún braut skip sitt á Víkursandi, en menn björguðust allir, og svo fjárhlutur.

Helgi bróðir hennar, sem þá bjó á Kjalarnesi, fór á fund hennar og bauð henni til sín og hálfu liði hennar. Er sagt, að hún hafi horfið þaðan hið bráðasta, og þótt Helga fara hið lítilmannlegasta. Þegar Björn bróðir hennar frjetti til ferða hennar, kunni hann svo vel skaplyndi systur sinnar, að hann fór á fund hennar með fjölmenni miklu, og bauð henni til sín með öllu hennar liði. Lét Björn flytja öll hennar föng til sín og veitti henni og mönnum hennar um veturinn með mikilli rausn. Um vorið fór Unnur landkönnunarferð um Breiðafjörð og Dali alla, og setti bú mikið í Hvammi í Hvammssveit.

En er hún hafði búið um sig, sem henni líkaði, heimti hún til sín alla þá, er henni höfðu fylgt, og mælti, að nú skyldu þeir taka umbun verka sinna; kvað hún eigi skorta föng til að launa þeim góðvilja þeirra við hana; og þau orð sín efndi hún. — Manni þeim, er Kollur hjet, gifti hún sonardóttur sína, og gaf þeim Laxárdal allan; kostaði hún og brúðkaup þeirra með mikilli rausn. Mönnum sínum öllum gaf hún lönd, og þrælum frelsi og fje. Sonarbörnum sínum, þeim er enn var óráðstafað, fjekk hún öllum hina bestu staðfestu; eru frá þeim komnar miklar ættir og margir göfugir menn, svo sem Kjartan Ólafsson, Gunnlaugur ormstunga og fleiri.

Þá vil jeg enn fara nokkrum orðum um síðustu 8 ár hennar. Þessi ár eru æfikvöld hennar, og virðist það bæði bjart og fagurt.

Sagan er að vísu fáorð um þessi árin, en þó bregður þar upp þeirri mynd af henni, er rjeði því, að jeg byrjaði með hennar nafni í kvöld hjer í K. F. U. K.

Sagan lýsir Unni á þá leið, að hún hafi verið kona kristin vel og trúkona mikil. Hún hafði bænahald á hólum þeim, er síðan heita Krosshólar, því þar setti hún niður krossa sína. Hún gerði þá ráðstöfun, að þar skyldi hana grafa, sem sjór fjelli yfir, því hún kvaðst ekki vilja liggja í óvígðri mold, þar sem hún væri skírð kona.

Það er vel þess vert, að veita því eftirtekt, að þessi fræga merkiskona, er svo miklu hafði áleiðis komið um dagana, er fyrsta konan, sem sagan getur um, að verið hafi vel kristin, skírð og trúuð, og

þetta er rúmum hundrað árum áður en kristni kemur hingað í landið. Og þetta er kannske meira þrekvirki, en margur mundi ætla, að halda trú sinni hreinni og lifandi um langan aldur, innan um heiðið fólk, því það er alkunna, að þegar svo er ástatt, hættir mörgum við að gerast blandinn í trúnni, eða gleyma skapara sínum með öllu.

En það er eins og einkunnarorð Unnar hafi jafnan verið þessi: „Jeg og mitt hús munum þjóna drotni.“ Hún byrjar öll sín störf með bænargerð, og að lokum reisir hún bænahús, og er þar á bæn jafnan. Og vel get jeg trúað þeim ummælum, að jafnan sæi hún ljós mikið í Hvammi og segði, að þar mundi síðar kirkja verða reist. En þótt landið mætti heita alheiðið langa lengi eftir hennar daga, voru þó jafnan nokkrir menn kristnir í hennar ætt, svo sem Örlygur, er kirkju ljet gera að Esjubergi, og bræður hennar; nefna má og Kirkjubæjarmenn, og marga fleiri, sem dreifðust víða um landið.

Unnur virðist hafa verið hin mesta trúkona, eins og þegar er ávikið. Hún var og djúpvitur og ráðholl, svo að menn sóttu til hennar heilræði hvaðanæfa; er það næsta fágætt í fornsögum vorum, að konur nyti þvílíks trausts, þótt merkar væri og mikilsháttar; og því athyglisverðara er þetta, þegar þess er gætt, að Unnur var annarar trúar en flestir aðrir hjerlandsmanna um hennar daga. Slíks trausts aflaði hún sjer hjer, þótt landsmenn munu verið hafa yfirleitt seinteknir og eigi vanir að hrapa að neinu; og alt varð að ráði, er hún rjeð, því að með alúð og kærleika leit hún á og leysti hvers manns vandræði, er til hennar leitaði.

Eitt hið síðasta, er sagan greinir frá Unni, eru viðræður þeirra Ólafs feilan og hennar, og eru þær á þessa leið: „Óláfr feilan var yngstr barna Þorsteins. Hann var mikill maðr ok sterkr, fríður sýnum ok atgervismaðr enn mesti; hann mat Unnr um fram alla menn, ok lýsti því fyrir mönnum, at hon ætlaði Óláfi allar eignir eftir sinn dag í Hvammi. Unnr gerðist þá mjök ellimóð, hon kallaði til sín Óláf feilan ok mælti: „Þat hefir mér komit í hug, frændi, at þú munir staðfesta ráð þitt ok kvænast.“ Óláfr tók því vel ok kveðst hennar forsjá hlíta mundu um þat mál. Unnr mælti: „Svá hefi ek helzt ætlat, at boð þitt muni vera at áliðnu sumri þessu, því at þá er auðveldast at afla allra tilfanga, því at þat er nær minni ætlan, at vinir várir muni þá mjök fjölmenna hingat, því at ek ætla þessa veizlu síðasta at búa.“ Óláfr svarar: „Þetta er vel mælt; en þeirar einnar konu ætla ek að fá, at sú ræni þik hvárki fé né ráðum.“

Jeg hefi tekið upp þenna kafla hjer, af því mjer virðist hann lýsa einkar vel, hvernig samlyndið hefir verið á milli þeirra: Er annars vegar ást sú og umhyggja, er hún ber fyrir frænda sínum, og hins vegar virðingu hans fyrir ömmu sinni; og sviplík þessu má áætla, að umhyggja hennar hafi verið fyrir öðrum þeim, er á hennar vegum voru. — Þetta sama haust gekk Ólafur að eiga Álfdísi Konálsdóttur, að ráði ömmu sinnar. Hafði Unnur allan kostnað við brúðkaup þeirra, og að upphafi veislunnar, gaf hún Ólafi allar eignir sínar, fastar og lausar; því næst kvaddi hún gestina og árnaði öllum

góðs, og gekk til hvíldar, en daginn eftir fann Ólafur hana örenda í sænginni. Var þá í senn drukkið erfi hennar og brúðkaup hans. — Þannig lauk þá æfi þessarar konu, sem fremsta má telja í flokki merkiskvenna fornaldarinnar.

Unnur djúpúðga skín eins og skær stjarna á næturhimni heiðninnar, og boðar komu betra dags. Hún stendur þar trúföst og dygg; hún biður, trúir og vonar, og vonin rættist; dagurinn kom, þótt lengi yrði að bíða hans; ljós fagnaðarboðskaparins rann upp um síðir, þá er Unnur hafði hvílt í gröf sinni um hundrað ár.

## II.

Þá vil jeg nú þessu minnast annarar merkiskonu kristninnar, sem hundrað árum seinna kemur fram á sjónarsvið sögunnar. Sagan ber víða fagurt vitni þess, hve kristindómurinn hefir fegrað og fullkomnað hamingju þeirra, er notið hafa þessa heims gæða, og borgið þeim frá þeim ofmetnaði, harðýðgi og hroka, er stundum hefir viljað fylgja þeim, er auðs og upphefðar hafa notið í þessum heimi. Dæmi þessa eru mörg, en þó eru hin miklu fleiri, sem sýna kraft og sigur trúarinnar, þegar heimilisböl eða aðrar sorgir og andstreymi ber að höndum.

Þegar jeg hafði lofað að flytja hjer erindi í kvöld, tók jeg að leita í fornsögum vorum að þeim konum, sem ættu þá æfisögu, er best fjelli saman við anda og tilgang fjelags ykkar. Einkum langaði mig

mjög til að geta leitt í anda fram fyrir yður sannkristna móður, sýna yður móðurástina heyja baráttu sína við óhamingjuna; við vald myrkranna; og, ef verða mætti, láta yður sjá, hvernig hún sigrar alt, og heldur velli. — Það er ekki mitt að dæma um það, hvernig valið hefir tekist, en konan, sem eg ætla nú að gera að umtalsefni, er Ásdís Bárðardóttir, húsfreyja, að Bjargi í Miðfirði.

Ásdís var sonar-sonardóttir Inga gamla á Hofi í Vatnsdal; hins göfugasta manns. Hún fjekk þegar á unga aldri hið besta uppeldi hjá Þorkeli kröflu á Másstöðum í Vatnsdal, er þá var mikill hjeraðshöfðingi, og látið hafði primsignast af Friðriki biskupi.

Ásdís þótti vera hinn besti kvenkostur norðanlands, sakir mannkosta, fríðleiks, ættgöfgi og auðlegðar. Það mátti því ætla, að henni yrði ekki manns vant, enda varð sú raunin á. Árið 990 giftist hún Ásmundi Þorgrímssyni frá Bjargi; þótti hann þá hinn vaskasti maður í því hjeraði, og framaður mjög í kaupferðum og vell-auðugur. Sama ár sem þau giftust, tóku við við búi að Bjargi, og bjuggu þar síðan með mikilli rausn. Ári seinna fæddist þeim sonur, sem kallaður var Atli, og árið 996 annar, er Grettir hjet, eftir móðurfrænda sínum; enn fremur eignuðust þau hjón dætur tvær, Þórdísi og Rannveigu, er báðar fengu besta gjaforð. Yngsta barn þeirra var Illugi; bar hann strax á unga aldri af flestum jafnöldrum sínum. Við fæðing Grettis má svo kalla, að byrji áhyggju- og rauna-ár Ásdísar,

því Grettir var bellinn mjög og ódæll þegar í æsku, og hafði því lítið ástríki af föður sínum. Þetta var Ásdísi mikið áhyggjuefni, því stundum gekk missætti þeirra feðga svo langt, að til hennar kasta kom um að ganga á milli þeirra. Vildi hún, að Ásmundur sýndi syni sínum meiri nærgætni og umhyggju en hann gerði, og að Grettir væri á hinn bóginn föður sínum ástúðugri og hlýðnari en hann var; en af sögunni verður ekki sjeð, að þeir hafi látið mjög að orðum hennar um þetta. Vorið 1011 verður sá atburður, er líklegt er að gengið hafi nærri Ásdísi: Grettir var sekur ger um víg þess manns, er Skeggi hjet, og varð lögum samkvæmt að fara utan um tíma; var Grettir þá fimtán ára gamall. Nú átti hann engin fararefni; og varð því að leita á náðir föður síns, en fjekk þar kuldaleg svör. Faðir hans minti hann á óhlýðni hans og bellibrögð við sig og neitaði honum um fararefni, utan hafnesti, er hann ljet Gretti fá, og lítið eitt af vaðmálum. Geta má nærri, hvernig Ásdísi hefir líkað sá útbúnaður, enda ljet hún það í ljós, þegar hún kvaddi Gretti.

Grettir bjóst nú af stað, er hann hafði talað við föður sinn; kvaddi alla heimamenn, og báðu hann flestir vel fara, en fáir aftur koma. Móðir hans fylgdi honum úr garði. Hún mælti: „Eigi ertu svá af garði gerr, frændi, sem ek vilda, svá vel borinn maðr sem þú ert; þykki mér þat mest á skorta, at þú hefir ekki vápn, þat er neytt sé, enn mér segir svá hugr um, at þú munir þeira við þurfa.“ Brá hún þá undan skikkju sinni sverði einu góðu ok

vel búnu. „Sverð þetta átti Jökull föðurfaðir minn ok hinir fyrri Vatnsdælar, ok var þeim sigrsælt; vil ek nú gefa þér sverðit, ok njót vel.“ Grettir þakkaði henni gjöfina og kvað sjer þykja þetta beri gjöf en aðrir fjármunir. Síðan kvaddi Ásdís hann innilega og árnaði honum allra heilla.

Í þessari ferð aflaði Grettir sjer fjár og frama, enda urðu ekki aðrar ferðir honum til hamingju síðan, þótt mörg yrði til frægðar. Tveim árum síðar fór hann enn utan og má segja, að frá þeirri stund falli hver mótlætisaldan annari stærri yfir Ásdísi og heimilið að Bjargi. Um það bil, sem Grettir er að ríða úr hlaði, tekur Ásmundur faðir hans banasótt sína, og andast nokkru seinna. Atli tekur nú við búsforráðum með móður sinni; var hann hinn efnilegasti maður, og líklegur til mikils þroska, ef honum entist aldur til. En forlögin höfðu nú annað ákveðið, því þetta sama sumar var hann veginn á sviksamlegan og níðingslegan hátt, alsaklaus, í bæjardyrunum að Bjargi, svo að segja fyrir augum móður sinnar. En þótt hann yrði móður sinni sem öðrum, mjög harmdauði, þá stilti hún harm sinn vel, og lét gera útför hans mjög virðulega. Var hann grafinn í kirkju að Bjargi við hlið föður síns.

Nú festi Ásdís alla sína framtíðarvon á Gretti, því Illugi sonur henar var enn barn að aldri. Hún vissi ekki annað, en að Grettir dveldi í Noregi við mikla sæmd. En með vorskipunum fjekk hún þ áhörmulegu fregn, að hann, óskabarn hennar, væri sakaður um hinn hræðilegasta glæp, væri orðinn brennuvargur; en brennuvargar voru taldir hinir verstu glæpa-

menn, þá sem nú. Grettir var sakaður um að hafa brent inni sonu Þóris í Garði, og með þeim fjölda saklausra manna. En hamingjuleysi Grettis og bráðlyndi hans ollu því, að honum tókst ekki að hreinsa sig af þessum áburði, og var hann nú á alþingi gerður sekur skógarmaður, og var það sú hin þyngsta refsing, sem á lýðveldistímanum varð lögð á nokkurn mann. Og þótt sagan skýri svo frá bruna Þórissona, að augljóst er, að Grettir átti þar að engan hlut, losnaði hann aldrei úr sekt þessari, uns hann var drepinn á 20. sektarári sínu, einmitt þá er nokkur von var þess, að af mundi ljetta bráðlega óhamingjufári því, er elt hafði hann allan síðari hluta æfi hans.

Við þessa frjett og sèktardóm Grettis hverfur gleði- og ánægjusól Ásdísar húsfreyju að Bjargi, og verður nú dapurt löngum á heimilinu upp frá þessu. En þó fer heldur að rofa til undir æfikvöld Ásdísar, og verður skinið fagurt, þegar það loksins kemur.

„Langar nætur, litlir dagar, hýrir draumar, horfin þrá“; þannig hefir eitt af góðskáldum Íslendinga lýst raunastundum þeirra, sem orðið hafa að fylgja til grafar framtíðarvonum sínum. Og þetta var nú orðið hlutskifti þessarar mæddu konu, því þegar Grettir kom út til Íslands, sumarið 1016, varð hann að fara huldu höfði, þar til hann um hánótt kemur að Bjargi. Honum voru allar dyr kunnar á þessum bæ, en í þetta sinn leitaði hann bakdyranna, og voru þær ólokaðar, og gekk hljóðlega inn í skálann, og sváfu allir, utan móðir hans, er ein vakti. Hún settist upp hljóðlega, og mintist við hann, og

bljes við mæðilega, og mælti: „.... en svipul verðr mér sonaeignin; er sá nú drepinn, er mér var þarfastr, enn þú útlægr gerr ok óbótamaðr; enn hinn þriðji er svá ungr, at ekki má at hafast.“ Ekki rekur Ásdís raunir sínar lengi, en öllum verður það ljóst, sem þessi orð hennar heyra, að þungt þykir henni horfa, og dapurt um að litast. Það hefir mörg íslensk kona átt um sárt að binda fyr og síðar, en jeg hygg, að allir þeir, sem lesa æfisögu þessarar konu vandlega, verði að játa, að hún hafi ekki borið ljettustu byrðina. Því hver einasti dagur, öll þau 20 ár, sem Grettir var í sekt, hafði henni nýjar áhyggjur, nýjar sorgir, að færa; en bænir hennar og trú færðu henni líka huggun og kraft með hverjum komandi degi; og mjög þurfti hún á styrk að halda, því að oft leitaði Grettir til hennar, þegar ný vandræði báru honum að höndum og fokið var í öll skjól; og þótt hún ekki gæti, eins og hún sagði sjálf, liðsint honum, eins og hún vildi, þá stóð honum þó móðurfaðmur hennar jafnan opinn.

Sagnaritari einn, sem minst hefir á Grettir, hefir komist svo að orði: „Í 20 ár var öllu þjóðfjelaginu sigað á hann, sem hundi á varnarlaust dýr, og síðustu árin var hann hvergi óhultur um líf sitt, nema þær stuttu stundir, er hann hallaði, sekur og þreyttur, höfði sínu að brjósti móður sinnar.“ Og eigi verður betur sjeð, en að þetta sje rjett. Skógarmanni gat engi liðsint svo, að ekki stofnaði hann sjálfum sjer í hættu um leið, og stundum máttu enda fleiri gjalda.

Síðasta fundi þeirra mæðgina gleymir eng-

inn er lesið hefir, því að bæði er hann einhver fegursti kaflinn í fornsögum vorum, og jafnframt einn hinn sorglegasti, er jeg minnist að hafa lesið. Um þann fund hafa margir rætt og ritað, en mjer fyrir mitt leyti finst skáldinu sjera Matthíasi hafa tekist þeirra best, í Grettisljóðum, en sjálfum honum virðist þó sem hann hafi ekki farið svo með þetta efni, sem það á skilið, og hann vildi hafa gert. Og hvers vegna hefir þá þessi stutti kafli sögunnar orðið öllum svona örðugt viðfangsefni? — Mjer virðist orsökin vera sú, að einmitt í þessum kafla birtist móðurástin í allri sinni tign, og offrar á altari sjálfsafneitunarinnar því, sem hún átti dýrast og best, og af því að móðurástin er ímynd kærleika drottins sjálfs, þá verða hugsanir mannanna, þegar honum skal lýsa, vanmáttugar, og tunguna vantar hæfileg orð. Það væri til lítils fyrir mig, að reyna að lýsa með mínum eigin orðum síðustu fundum þeirra Grettis og Ásdísar, er hún kveður hann og Illuga síðasta sinni. Til þess skortir mig alt það, er hafa þarf: mentun, tíma og orðfæri. En hitt má jeg gera, að taka hjer upp orð sögunnar sjálfrar, er hún lýsir skilnaði þeirra, enda eigið þjer þá hægra um að dæma eftir á.

Orð sögunnar eru á þessa leið:

Haustið 1038 var svo komið, að Grettir átti hvergi höfðu sínu að að halla, en þá benti Guðmundur ríki honum á Drangey sem örugt vígi, og mundi hann þar aldrei verða sóttur; en þá var Gretti orðið svo mikið mein að myrkfælni sinni, að hann kvaðst það eigi vinna til lífs sjer, að vera einn, en allir, sem

hann hafði áður tekið, höfðu svikið hann, og nú var svo komið, að hann gat engum treyst. Hann leitaði nú sem fyr til móður sinnar, og tjáði henni vandræði sín. Illugi bróðir hans var nærstaddur viðræður þeirra. Hann var þá frumvaxta, og afbragð jafnaldra sinna. Honum hefir verið þannig lýst, að hann væri hin göfugasta hetja, og hin fegursta fyrirmynd öllum ungum mönnum, og þegar Grettir hafði tjáð móður sinni vandræði sín, tók Illugi til máls: „Ek man fara með þér, bróðir, enn eigi veit ek, at þér sé fylgd í mér, utan þat, at trúr man ek þér vera ok eigi renna frá þér, meðan þú stendr uppi, ok gerr veit ek, hvað um þik líðr, ef ek fylgi þér.“ Grettir mælti: „Þú ert svá manna, at mér er mest gleði at, ok ef móður minni væri eigi í móti skapi, vildi ek gjarna, at þú færir með mér.“ Ásdís mælti: „Þá er svá nú komit, at ek sé, at tvennum vandræðum gegnir; ek þykkjumst eigi Illuga missa mega, enn ek veit, at svá mikil atkvæði eru at um hagi Grettis, at hann verður eitthvert ór at ráða; enn þó at mér þykki mikit fyrir at sjá á bak ykkr báðum sonum mínum, þá vil ek það þó til vinna, ef Grettir væri þá nærr, enn áðr.“ Hún fjekk þeim þá lausafje mikið, og bjuggust þeir þá til ferðar. Leiddi Ásdís þá úr garði, og áður en þau skildu, mælti hún: „Nú farit þit þar, synir mínir tveir, ok mun ykkarr samdauði verða; ok má engi renna undan því, sem honum er skapat; man ek hvárigan ykkar sjá sinni síðan. Látið nú eitt yfir ykkr ganga, enn eigi veit ek, hverja heill þit sækit þangat í Drangey, enn þar munu þit beinin bera, ok margir munu

þar fyrirmuna ykkr þarvistar; sjáit þit vel fyrir svikum; enn vápnbitnir munu þit verða, enn undarlega hafa mér draumar gengit. Gætið ykkarr vel við gerningum; fátt er rammara en forneskjan.“ En er hún hafði þetta mælt, grjet hún mjög. Þá mælti Grettir: „Grát þú eigi, móðir; þat skal sagt, at þú hafir sonu átt, enn eigi dætur, ef vit erum með vápnum sóttir ok lif vel ok heil.“ Eftir þat skildust þau. — Þannig skildust þá ástvinir þessir, og sáust eigi framar hjerna megin. Ásdís sneri nú heim að Bjargi, og fann þar „sitt hús í eyði látið,“ og hún grjet.

Það er mjög fögur mynd af kristinni móður, sem Matthías Jochumsson sýnir oss í Grettisljóðum sínum, þar sem hann lýsir Ásdísi og skilnaði mæðginanna, er hún heldur heim til Bjargs. En sagan gerir þó betur; hún sýnir okkur Ásdísi sem kvenhetjuna miklu, sem trúin hefir gert svo sterka, að hún getur nú látið hverja þá fórn af hendi, sem vera skal. Og þess var heldur eigi langt að bíða, að hún yrði að inna af hendi þá fórnina, sem öllum konum fornaldarinnar mun hafa fallið þyngst að offra, en það var fyrirgefningarfórnin, og þar kemst Ásdís svo langt, að mjer vitanlega hefir engin íslensk kona jafnlangt komist. Árið 1031 ljetu báðir synir hennar lífið fyrir slægð og vjelum óvina sinna, er sóttu þá bæði með vopnum og fjölkyngi.

Þorbjörn öngull, einhver hinn versti maður, er sagan getur um, tekst loks að ráða þá af dögum; en það lætur hann sjer ekki nægja, heldur heggur hann höfuðið af Gretti dauðum, og hafði þó áður

svívirt lík hans. Þorbjörn hafði með sjer höfuð hans til lands og lagði í salt í útibúri sínu um veturinn, en um sumarið, þegar hann fer til þings, tekur hann höfuðið og hefir með sjer. Þegar hann kemur vestur í Miðfjörð, frjettir hann, að fátt karlmanna sje heima að Bjargi. Hann ríður skyndilega heim þangað, með flokk sinn, og gengur með fjölmenni þessu í stofu. Ásdís húsfreyja sat á palli. Hann setti höfuðið fyrir framan hana og kvað um leið vísu, þar sem hann svívirti Gretti dauðan. Slíka skapraun hefir engin íslensk kona þolað fyr eða síðar. Það var skaplegra, þótt grimmúðlegt væri, er Helgi Harðbeinsson þerði sverð sitt á blæjutröfum Guðrúnar Ósvífursdóttur, er hann hafði verið að vígi Bolla, en þó hefndi hún þess grimmilega seinna. Það var hugraun, þegar brennu-Flosi reið með flokk sinn í Tungu, og tróð illsakir við Ásgrím Elliðagrímsson, — en hvorttveggja þetta verður lítilvægt, er það er borið saman við þá skaupraun, sem Ásdísi var þarna gerð.

Hvernig kom nú Ásdís fram gagnvart Þorbirni? Hún sat kyr, og sá henni enginn bregða, og er Þorbjörn hafði kveðið vísuna, kvað hún aðra í móti og getur þess, að öðruvísi mundu farið hafa viðskifti Önguls og sona hennar, ef hann hefði sótt þá sem góðum dreng sómdi, og hann mundi innan skams fá að svara fyrir verk sín. En áður en Öngli tækist að hefja fjárránsdóm eftir Illuga, sást margra manna reið til Bjargs; voru það vinir og frændur Ásdísar, sem komnir voru til liðs við hana, og vildu þeir þegar veita Þorbirni atgöngu og drepa hann,

en hún, aðili málanna, varnaði þess. Hún fól honum hefndina, sem rjettvíslega dæmir; hún vildi, að drottinn og lög landsins dæmdu í milli sín og hans, og hana iðraði þess heldur ekki, að hún breytti þannig.

Jeg hefi þegar tekið það fram, að heldur hafi tekið að rofa til hjá Ásdísi hin síðustu ár æfi hennar, og skal jeg nú minnast á það nokkru nánar.

Hún hafði jafnan verið svo vinsæl, að meðan Grettir var í sekt, höfðu óvinir hans aldrei áreitt hana. En nú, er hann var veginn, rísa allir hjeraðsmenn upp, sem einn maður, jafnt vinir Grettis sem óvinir, og votta henni vináttu og veita henni lið. Frjettin um framkomu hennar við Þorbjörn, flaug um öll hjeruð; þetta dæmi, sem hún þarna gefur, höfðu forfeður vorir aldrei þekt fyr; en það sigrar hugi þeirra; allir votta henni samhygð sína. Hún verður ung í annað sinn, þótt sjötíu ár hefði hún á baki. Hún tekur sig upp og ríður til alþingis, og hefir hina mestu ánægju og sóma af förinni.

Við skulum ganga nær og virða fyrir oss, það sem gerst hefir á alþingi 1032. Það er fögur og tilkomumikil sjón að sjá Ísleif Gissurarson, er seinna varð fyrstur biskup hjer á landi; ungan að aldri, en fagran og íturvaxinn, standa á Lögbergi, þróttmikinn með eldfjöri andans, halda þrumandi ræðu, og í nafni kristinnar trúar lýsa hermdarverkum Þórbjarnar, og í nafni þeirrar sömu trúar fá Gretti leystan úr sekt, en Þorbjörn dæmdan sekan skógarmann, og svo mikil áhrif hafði ræða hans, að þetta var samþykt af þingheimi með lófataki, en

jafnhliða þessu er oss sýnd í Grettisljóðum önnur mynd. Hún er á þessa leið:

Enn upp á hábergið horfði
af Hlaðbúðarvirkinu k o n a;
tíguleg tók hún til máls,
társtokkinn, brosandi þó:
„Heimtið nú Háfeta vorn,
því heim skal og búa til erfis:
Gott eiga garparnir nú,
Grettir og Illugi minn!“
Þar stóð hún Á s d í s hin ítra
enn þá með beinvaxnar herðar:
„Grátið ei látinna líf,
lifa skal afrek og frægð.“ —

Og Ásdís fór heim og bjó til erfis, því Ísleifur safnaði að sjer vöskum mönnum og sótti lík þeirra bræðra og þeir voru veglega grafnir að Reykjakirkju, en höfuð Grettis að kirkju að Bjargi. Og nú naut Ásdís ellinnar í friðsælli ró hjá dóttur sinni að Bjargi, uns hún andaðist nokkru fyrir miðja elleftu öld.

Ætlun mín, með því að tala hjer í kvöld um kristnar merkiskonur í fornöld var þessi: Við hrósum að maklegleikum frægð forfeðra vorra, en oss gleymist það oft, að formæður vorar áttu sína frægðarsögu og hún stendur sannarlega ekki að baki sögu forfeðra vorra. Það gleymist oft að geta þess, að margt hið besta og lofsverðasta, sem eiginmaðurinn framkvæmdi, gerði hann að áeggjan konu sinnar, og mörg stórvirkin, er maðurinn fjekk unnið, voru að þakka áeggjan unnustu eða systur eða móður. Menn dáðst að trúarþreki Grettis, en gleyma Ásdísi móð-

ur hans; þó hefir henni verið borið þetta vitni af einum gáfaðasta Íslendingi: „Hún Ásdís átti kærleik, sem aldrei kólnaði, trú, sem aldrei þreyttist eða hætti að biðja, meðan tungan hrærðist og hjartað sló,“ og svo bætir hann þessu við: „Og Íslands mesta framtíðarhamingja væri það, ef allar íslenskar mæður gætu lært að biðja fyrir hverjum auðnulausum Gretti, sem vilst hefir út á braut óreglu og auðnuleysis.“ — Nú lít jeg svo á, að K. F. U. K. hafi sett sjer það mark og mið, að vinna að þessu mesta framtíðarmáli fósturjarðarinnar; og Íslands mesta hamingja á komandi tíð er það, að starfsemi K. F. U. K. nái fullum sigri, blómgist og blessist, og undir þá ósk mína er hver sannur Íslendingur, sem elskar þetta land, skyldur að taka, því svo mikið sem á því ríður fyrir komandi kynslóðir þessa lands, að eiginmaðurinn og faðirinn sje kristinn maður, þá skiftir hitt þó meiru, að móðirin sje sannkristin kona. Móðurknjen eru hvers manns fyrsti skólabekkur, og um leið sá hollasti. Mestu menn heimsins hafa vitnað það, og þakkað guði fyrir, að á þeim bekk hafi þeir lært þann vísdóm, sem gerði þá, það sem þeir urðu síðar meir. Bænir móðurinnar er hið besta veganesti, sem nokkrum getur hlotnast, þegar lagt er af stað út í heiminn, og guði sje lof, að margur sonur og mörg dóttir þessa lands hefir fengið þessa gjöf frá trúaðri kristinni móður; og þótt sum hafi um stund vilst út á veglaust hjarnið, þá eru þess þó dæmi, að þau hafa fyrir kraft móðurbænarinnar tekið sig upp og leitað til föðurhúsanna, og þótt þau hafi þá fundið æskuheimili sitt í eyði látið, af því að sú höndin

var styrðnuð, er að því hlúði og leiddi þau á vormorgni æskunnar, og móðurhjartað, sem sló svo heitt af ást til þeirra alt til hinstu stundar, var hætt að slá, þá rættist þó á þeim í æðsta skilningi, að bænir móðurinnar voru þeim til hjálpar og frelsis, því þar sem andi móðurinnar nú átti heima, dvaldi nú hugur þeirra. Því móðurbænin, móðurástin og móðurminningin orkaði því, að sonur og dóttir höfðu lært að lifa kristilega.

Að síðustu vildi jeg segja ykkur, sem gengið hafa í K. F. U. K.: Trúið því, að svo framarlega sem þið í kærleika starfið í þessu fjelagi og kastið ekki ykkar örugga móð, þá kemur sú stund, að þið munuð blessa þann dag, er þjer genguð í þetta fjelag, því fyrir starfið munuð þjer hljóta sæmd, en aðrir blessun, og þótt óvíst sje, að nöfn ykkar komist inn í árbækur sögunnar, þá má ykkur það á sama standa, ef þau eru rituð í lífsins bók á himnum, og það er ykkur meiri sæmd og hamingja, en allar árbækur heimsins geta ykkur veitt.

Og þótt svo kunni að fara, að starfsemi ykkar mæti misskilningi, fái ekki þau laun, sem hún á skilið, þá látið ykkur það í ljettu rúmi liggja, því að drottinn metur starfið og hann blessar það einnig hjer í heimi, með gjöf góðrar samvisku, og þá andlegu sjereign fær enginn frá ykkur tekið.

Svo gefi þá drottinn ykkur öllum náð og kraft til að starfa í þessu fjelagi, sjálfum ykkur til sæmdar, guðs ríki til eflingar og Íslandi til blessunar.

---

# Heitstrengingar ungra manna í fornöld.

Fyrirlestur fluttur í Ungmennafjelagi Reykjavíkur 25. okt. 1907.

---

Háttvirtu tilheyrendur!

Jeg mun hafa lofað kunningja mínum, sem er meðlimur í þessu fjelagi, að koma hjer í kvöld, og segja ykkur eitthvað það, sem jeg hjeldi, að þjer hefðuð nokkurt gagn og gaman af. En er til framkvæmda skyldi koma, þá fann jeg mjög til vanmáttar míns; til þess þó að gera nokkra úrlausn, er jeg nú hingað kominn, og hefi hugsað mjer að segja nokkuð frá heitstrengingum ungra manna í fornöld, en mjög verður það þó í molum. — Efninu hefi jeg skift þannig:

1. Hvernig heitstrengingar urðu til,
2. Hversu þær fóru fram,
3. Hverja þýðingu þær höfðu og
4. Hvers vegna jeg geri þær að umtalsefni í þessu fjelagi.

Heitstrengingar voru eðlileg afleiðing af lyndiseinkunnum fornmanna. Það lá svo ríkt í hug þeirra að vinna nokkuð, sem leitt gæti þá til frægðar og frama. Það þótti hverjum dugandi dreng sjálfsagð-

ara og nauðsynlegra en flest annað að geta staðið þar í þjóðfjelagsfylkingunni, er mest reyndi á, og að láta sjer ekki í augum vaxa þá erfiðleika og hættur, er á vegi þeirra urðu. Frægðarlöngunin og föðurlandsástin skipuðu efstu sætin, og hver óspilltur æskumaður fornaldarinnar hlaut því að keppa að því að afla sjer sem bests orðstírs. En áður en jeg minnist á heitstrengingarnar sjálfar, verð jeg að víkja ögn að veislum og mannfagnaðar samkomum, eins og þær tíðkuðust þá, því þær hrundu af stað mörgum heitstrengingum, þótt hins vegar yrðu margar heitstrengingar til án þeirra.

Um heimboð og minni háttar samsæti er fátt að segja. Þau kostaði auðvitað sá, er bauð, og voru þá boðnir einungis vinir og vandamenn. Þó gátu oft haustboð og jólaboð verið fjölmenn, einkum þá er hjeraðshöfðingjar áttu hlut að málum. Og í hópi þeirra boða verður að telja þau, er festaröl var drukkið, svo og brúðkaup og erfi. Öðru máli var að gegna um blótveislur. Þrjú voru höfuðblót haldin á ári hverju: hið fyrsta að veturnóttum (haustblót); annað blót, sem ýmist var kallað jólablót, þorrablót eða miðsvetrarblót. Auðvitað voru stundum höfð bæði jólaboð og miðsvetrarblót. Merkilegt er það, að í miðsvetrarblótum er blótað til ársældar og gróðrar, en líklega stendur það í sambandi við tímamótin (áraskiftin). Sumarblót var haldið í byrjun hvers sumars, og var kallað sigurblót, enda stóð það í sambandi við herferðir og siglingar þær, er menn áttu þá í vændum. Ekki byrjaði sumarblótið ætíð á sama degi, heldur fór það eftir því, hvenær ísa

leysti, og hvernig viðraði. Í blótveislum þessum var ekkert sparað, er aukið gæti gleði manna, enda er þess getið, að þar hafi verið etið hraustlega og drukkið fast. Skal jeg láta sjálfa söguna lýsa þessum veislum fyrir okkur.

Í sögu Hákonar góða, er haustblótum lýst á þessa leið: „Þat var forn siðr, þá er blót skyldi vera, at allir bændr skyldu þar koma, sem hof var, ok flytja þannug föng sín, þau er þeir skyldu hafa, meðan veizlan stóð. At veizlu þeiri skyldu allir menn öl eiga; þar var ok drepinn allzkonar smali ok svá hross, en blóð þat alt, er þar kom af, þá var þat kallat hlaut, ok hlautbollar þat, er blóð þat stóð í, ok hlautteinar, þat var svá gert sem stöklar, með því skyldi rjóða stallana öllu saman, ok svá veggi hofsins útan ok innan, ok svá stökkva á mennina en slátr skyldi sjóða til mannfagnaðar; eldar skyldi vera á miðju gólfi í hofinu ok þar katlar yfir; skyldi full um eld bera, en sá er gerði veizluna ok höfðingi var, þá skyldi hann signa fullit ok allan blótmatinn. — Skyldi fyrst Óðins full — skyldi þat drekka til sigrs ok ríkis konungi sínum — en síðan Njarðar full ok Freys full til árs ok friðar .... þar næst Braga full; menn drukku ok full frænda sinna, þeira er heygðir höfðu verit, ok var þat minni kölluð.“ — Svipaða lýsingu þessari má finna í flestum Íslendingasögum (G. Súrsson, Sæbóli), og má af því ráða, að blótin hafa farið fram hjer á landi mjög á sama hátt sem með öðrum Norðurlandaþjóðum á því tímabili. Lýsinguna á jólaveislu Hákonar jarls þekkið þið öll af hinu ágæta kvæði Gr. Thom-

sens, og því sleppi jeg henni hjer. Svo sem áður er á vikið, var blótað að sumarmálum til sigurs, og þá leitað frjetta, hversu ganga mundi um ókomna tíð. Þá höfðu og einstakir menn blót heima hjá sjer, sbr. Vatnsdæla, 25. kap., bls. 62, og kemst þar Þorsteinn Ingimundarson þannig að orði: „.... nú mun Ljót, móðir hans, blóta í móti sumri, sem hún er vön að þeirra sið, enn þá mun eigi fram koma hefndin ef áður er framið blótið.“ Sumarmálablót voru bæði fjölmenn og mikill glaumur og gleði samfara þeim. Erlendis stóðu þjóðhöfðingjar fyrir þeim blótum. Hjer á landi hafa hofgoðar sjeð um alt, er að þeim laut. Má af sögunum ráða, að þau voru fjölmenn og stórmannlega veitt. Fyrst af öllu var sjeð um, að munngát og mjöður væri nógur til, og þótti mikið við liggja, að hvorugt þetta skorti. Í hinum almennu blótveislum hjer á landi mun veislan hafa verið haldin í hofunum sjálfum, og hefir hver gestur að líkindum kostað sig sjálfur. Húsbændur ljetu leysingja sína og þræla, er blótið sóttu, flytja föng og fjenað, og skyldu þeir annast öll sláturstörf og matargjörð. Þess er getið, að allir ættu þar öl saman, og mun því hafa verið komið þannig fyrir, að ker eitt mikið var fylt sameiginlega af öllum, og stóð það vanalega að innanverðu við aðaldyr veisluskálans, til hægri handar, er inn var gengið. Þeir menn, er þann starfa höfðu á hendi, að bera öl um bekki alla, þá er drykkja var hafin, sóttu allir í þessa sameiginlegu lind. Þegar allir voru til sætis komnir, stóð upp hofgoðinn eða sá, er fyrir veislunni stóð, og bauð alla velkomna og lýsti griðum; þótti þá miklu skifta,

að honum mæltist vel og skörulega. En allir hlýddu til með fjálgleik miklum og hátíðlegum svip, og djúp þögn ríkti um endilangan salinn. Síðan var til matar tekið. Ekki er þess getið, að margrjettað hafi verið, og verður helst ráðið, að aðalrjetturinn hafi verið kjötið af fórnardýrunum, þó líklegt sje, að fleiri grasa hafi kent, í sumum boðum að minsta kosti. Þegar máltíð var lokið, voru leyfar brott teknar, og borinn inn drykkur. Var þá að upphafi drukkið minni Óðins alföður, og þó fyrst helgað, og gerði það hofgoði, með því, að gera geirsmark yfir bikarnum, og mælti síðan fyrir minni konungs. Hjer á landi var mælt fyrir minni þjóðveldisins eða landsins. Þá kom minni Þórs, og var á líkan hátt drukkið, þó með þeirri breytingu, að Þórsmarkið (hamarsmarkið) kom fyrir geirsmarkið. Þá var mælt fyrir minni hreysti og hernaðar. — Þessu næst var drukkið minni Freys og Njarðar til auðs og ársældar. Enn var drukkið minni Feyju, því að hún var goða mest tignuð af sveinum og meyjum og bænheyrði oft, ef trúa má ástarsögum fornaldarinnar. Síðast var drukkið Bragafull, og mun nánar vikið að því síðar, því undir því minni fóru fram allar heitstrengingar. Þegar þar er komið veislunni, að drukkin hafa verið öll venjuleg minni, hefst hin almenna eða svo nefnda sveitadrykkja; greindust þá í sundur umræður, og ræddu menn þá í flokkum, sumir um lög, aðrir spurðust tíðinda eða sögðu frjettir, nokkrir drukku tvímenning, og voru það jafnan ungir menn og meyjar, er sátu út af fyrir sig og drukku. Tvímenningsdrykkja var þýðingarmikil, því venjulega

leiddi hún til þess, að þau, sem hana drukku, buðu sumum, er þar voru staddir, nokkru síðar að drekka festaröl sitt.

Nú hefi jeg orðið svo langorður um hinar almennu blótveislur og get því orðið því stuttorðari um hinar einstöku veislurnar, og það því fremur, sem jeg hefi í öðru erindi vikið að þeim áður. (Sjá hjer á eftir fyrirlestur: Kvonbænir o. s. frv.).

Þá er næst að minnast á heitstrengingar, og hvernig framgjarnir æskumenn fornaldarinnar unnu þær. En nokkuð eru skiftar skoðanir um það, hvernig þær fóru fram, einkum þó, hvað felst í orðunum, „að stíga á stokk og strengja heit“. Líklegust þykir mjer tilgáta þeirra, sem ætla að orðin „að stíga á stokk“ sjeu dregin af því, að þeir, sem heitin unnu, hafi stigið upp á sjerstakan stokk, er til þess hafi verið hafður, að vinna heitin á, því að víða er þess getið, að: hann steig á stokk, eða hjó sverðinu í stokkinn, stakk spjótinu í stokkinn, og hóf upp heitstrengingu sína, o. s. frv. Hinsvegar sjáum vjer af Hervararsögu, að heitstrengingar fóru ekki æfinlega fram á sama hátt. Þannig er sagt frá því, að Heiðrekur konungur blótaði gölt þann, er mestan fjekk; skyldi hann gefa Frey; kölluðu þeir hann svo helgan, að yfir hans burst skyldi sverja um öll stórmál; skyldi svo þeim gelti blóta að sónarblóti; jólaaftan skyldi leiða sónargöltinn í höllina fyrir konung: lögðu menn hendur yfir burst hans, og strengdu heit sín. — Af þessum orðum má sjá, að heitstrengingar fara fram á misjafnan hátt, en það skiftir varla mjög miklu máli. En um hitt er meira vert, hvert

var innihald heitstrenginga, og hversu þær voru efndar.

Með því að ættartölubækur vorar segja, að við Íslendingar sjeum komnir af Hálfsrekkum, þá þykir mjer vel fallið, að Ungmennafjelag Reykjavíkur heyri, hvernig ungmennafjelag Hálfsrekka vann heit sín og efndi þau. Í Fornaldarsögum Norðurlanda (II. bd. 10. kap.) er þannig að orði komist: „Eftir um várit var Hálfr 12 vetra gamall, ok var engi maðr jafn mikill eða jafnsterkr sem hann; þá bjóst hann at fara í hernað“ og þeir fjelagar; gerðu þeir með sjer heit það, að enginn skyldi fara, er eigi fengi hafið frá jörðu stein einn mikinn, er stóð í garðinum, eða væri hann bernskari en 12 vetra, og vera skyldi hann hreystimaður, svo aldri kviði eða mælti æðru, „eða brygði grönum fyrir sára sakir“. Enginn skyldi hafa lengra sverð en álnar, svo nær skyldi ganga. Þeir ljetu gera söx, svo að höggin skyldu stærri vera Engum skyldi sár binda fyr en að jafnlengd annars dags. Ekki skyldi hertaka konur eða börn; var þá leitað um ellefu fylki og fengust 12 í fyrstu. Þeir voru 18 sumur í hernaði, og tjölduðu aldrei á skipum og hálsuðu aldrei segl fyrir ofviðri. Þeir höfðu aldrei á skipi fleiri en 60. Hálfur fjekk eitt sinn í hafi storm mikinn; skip þeirra varð ei ausið. Þá var til ráðs tekið að hluta menn fyrir borð, en þess þurfti eigi, því að hver bauð sínum fjelaga fyrir borð að fara. En er þeir stigu fyrir borð, mæltu þeir: „Strálaust er fyrir stokknum“. Þeir voru Hálfsrekkar kallaðir, og voru hinir nafnfrægustu hreystimenn fornaldarinnar fyrir sín afreksverk.

Eins og sjá má af sögunum, unnu menn sínar fyrstu heitstrengingar ungir að aldri. Þegar þeir í æsku voru að æfa íþróttir sínar og leika, miðaði alt að því að gera þá hrausta og harðfenga, svo að þeir bæru af mótstöðumönnum sínum og óvinum síðar meir.

Þá tíðkuðust þær heitstrengingar með ungum mönnum, er þeir tóku við mannaforræði, að vanda hjeraðsstjórn sína sem best, og gæta rjettar og laga gagnvart þeim, sem þeir áttu yfir að ráða. Sú var enn ein heitstrenging ungra manna, er stóð í sambandi við ráðahag þeirra. Æskumenn fornaldarinnar, þeir er dugandi menn vildu heita, þóttust þurfa að vinna sjer nokkuð til ágætis, áður en þeir staðfestu ráð sitt. Yngismenn þeirra tíma voru vanalega vandir að vali, er leita skyldi ráðahags. Þeir ljetu sjer ekki nægja lausafregn eina um þá konu, er þeir ætluðu að kvongast. En er þeir höfðu á kveðið, hvar niður skyldi koma um ráðahaginn, lögðu þeir alt kapp á að fá þeirrar konu, er þeir höfðu lagt hug á, og lögðu þá líf og fje í sölurnar, ef svo vildi verkast, og læt jeg mjer nægja í þessu sambandi að geta um eina merkilega heitstrenging Haralds hárfagra, er hann vann það heit að leggja undir sig allan Noreg, til að ná þeim ráðahag, er hann óskaði, og mun ykkur öllum kunnugt, að heitið efndi hann að fullu í Hafursfjarðarorustu 872, og kvongaðist nokkru síðar heitmey sinni, Gyðu Eiríksdóttur.

Í Hervarar sögu er sagt frá, að jólaaftan einn í Bólm strengdi Angantýr þess heit að bragarfulli,

sem venja var til, að hann skyldi eiga dóttur Ingva konungs að Uppsölum, Ingibjörgu, þá mey, er fegurst var og vitrust á danska tungu. Sú heitstrenging kostaði hann lífið, eins og kunnugt er. Þá má og geta þess, að oft fóru fram heitstrengingar í erfisdrykkjum. Einnar þess kyns heitstrengingar er getið í Ynglingasögu, 36. kap., og er hún á þessa leið: „Ingjaldr konungr lét búa veizlu mikla at Uppsölum, ok ætlaði at erfa Önund konung, föður sinn; hann lét búa sal einn, engum mun minna eða óvegligra, en Uppsalr var, er hann kallaði sjö-konungasal; þar voru í gjör sjö hásæti. .... Til þess erfis komu margir konungar, og var þeim öllum skipað í hinn nýja sal, og var þá eitt hásæti autt, er Ingjaldur hafði búa látið. Öllu liðinu var skipað í hinn nýja sal. Sú var venja í þann tíma, þar er erfi skyldi gera eftir konunga eða jarla, þá skyldi sá, er erfið gerði, og er til arfs skyldi leiða, sitja á skörinni fyrir hásætinu alt þar til er inn væri borið það full, er kallað var Bragafull; skyldi þá standa upp á mót Bragafulli, strengja heit og drekka af fullið síðan. Þá skyldi leiða hann í hásæti, er átt hafði faðir hans; var hann þá kominn til arfs alls eftir hann. Nú var svo gert hjer, og þá er Bragafull kom inn, stóð Ingjaldur upp, tók við dýrshorni miklu; strengdi hann þá heit, að hann skyldi auka ríki sitt hálfu í hverja höfuðátt eða deyja ella; drakk af síðan af horninu. Þessi lýsing, þótt stutt sje, sýnir bæði, hversu heitstrengingar og erfisdrykkjur fóru fram.

Um erfisdrykkjur og heitstrengingar hjer á landi

í heiðnum sið veit jeg, að ykkur er kunnugt, og að þær stóðu ekki þeim að baki, er konungbornir menn hjeldu í öðrum löndum. Hjaltasynir höfðu 1200 manns í sínu boði, og synir Höskulds Dalakollssonar 900 manns, og voru allir virðingarmenn útleiddir með gjöfum.

Tími vinst mjer ekki til þess að minnast á heitstrengingar þær, er ungir menn og gamlir gerðu hjer, eftir það er kristni kom í landið, bæði við brúðkaup og erfi, svo og er hættur bar að höndum, svo sem drepsóttir og hallæri, en hins vil jeg geta, að þá er heitin voru unnin, þótti jafnan svo við bregða, að drepsóttin stöðvaðist og óáraninni linti. Það væri efni í lengra mál, en hjer verður flutt í kvöld, að rekja þetta alt ítarlega, uns sagnir þrjóta, og skal því þess eins getið hjer, hve mikla áherslu hver maður, ungur sem gamall, lagði á það að heitin væru haldin, og ynt af hendi. Hver ungur maður taldi það hina helgustu skyldu sína að halda orð sín og eiða, og þá ekki síst heitstrengingar sínar, enda voru þær taldar jafnhelgar sem eiðar, enda lauk hver heiðinn maður heitstrenging sinni með þessum orðum: „svo hjálpi mjer Freyr og Njörður og Áss hinn almátki." Með kristninni breyttist eiðurinn, svo sem auðvitað er, en að öðru leyti var breytingin lítil; orðheldnin og virðing fyrir sjálfum sjer stóðu óhögguð sem áður, og kæmi það fyrir, sem nálega er eins dæmi, að nokkur gengi frá heitstrengingu sinni, þá átti þjóðin öll sameiginlega það vopnið, er beittara var tvíeggjuðu sverði, en það var fyrirlitningin, er þeir

sættu, er orð sín rufu eða eiða, og sýnir þetta, hve hugsunarhátturinn var hreinn og óspiltur hjá íslensku þjóðinni yfirleitt á blómaöld lýðveldisins. Það er að minni hyggju undirróður útlendinga, missir stjálfstæðisins, og síðan erlend kúgun, sem mestan þáttinn hafa átt í að spilla hugsunarhætti og siðferði þjóðarinnar.

Hverja þýðingu höfðu nú heitstrengingarnar fyrir einstaklinginn og þjóðlífið í heild sinni? Hvað þá sjálfa snerti, sem strengdu heitin, þá vitum við, að afleiðingarnar voru að vísu ekki alt af heillaríkar, en hinu má eigi heldur gleyma, að ærið oft lögðu þær grundvöllinn undir hamingju þeirra og frægð. Það er ekkert vafamál, að heit þau, sem hinir ungu menn unnu, þegar þeir voru að læra og æfa íþróttir, hafa hjálpað þeim til að ná því frægðartakmarki, sem þeir margir náðu síðar meir. Margir ungir menn, er hjer áttu við þröngan kost að búa í æsku, unnu það heit, ef ekki í heyranda hljóði, þá með sjálfum sjer, að fara utan og afla sjer fjár og frama, svo sem gerði Víga-Glúmur og fleiri. — Heit það er Haraldur Hálfdánarson vann til þess að geta fullnægt skilyrði því, er Gyða setti honum, leiddi til þess, að hann eignaðist Noreg allan. Að því er tekur til þeirra heita, er ungir menn unnu hjer á landi, þá miða þau öll að því, að efla hamingju þeirra sjálfra og ættjarðarinnar.

Það er kunugt, að krögt var af ræningjasnekkjum um höf og víkur og voga á víkingaöldinni; gerðu þeir hinn mesta usla, bæði um strand-

högg og rán kaupskipa. En þá voru jafnframt aðrir víkingar, er vel fóru með hernaði sínum, og lögðu það helst fyrir sig að eyða slíkum óaldarflokkum, og strengdu þess heit að hreinsa höfin af slíku illþýði, friða strendur landanna og verja landsbúa fyrir strandhöggum og öðrum ótila af slíku tæi. Þeir, sem þessi heit unnu og efndu, yntu þannig hið þarfasta verk af hendi, og þeim var það að þakka, að kaupmenn gátu siglt í friði með varning sinn, og stundað atvinnu sína óáreittir sjer og þjóðinni til blessunar.

Þá er ungir menn tóku við stjórn og goðorði eftir feður sína, strengdu þeir heit við öndvegi föður síns, áður þeir settust í það, að vanda sem best alla hjeraðsstjórn, hafa lög landsins í heiðri og gæta þeirrar skyldu, er heimilislífið lagði hverjum húsföður á herðar. Þegar vjer dáumst að þeirri rjettsýni og ráðspeki, sem kemur fram í löggjöf og dómum landsmanna á blómaöld Íslands, virðist mjer mega ætla, að heitstrengingar hafi átt ærinn þátt í því, að landinu var stjórnað með þeirri snild, sem sagan sýnir, að gert var á gullöld landsins. Auðvitað má geta því nærri, að ekki hafi allar heitstrengingar verið til blessunar, og hefi jeg þegar getið þess hjer að framan; skal jeg því til sönnunar að eins minna á heitstrengingar Jómsvíkinga og Ingjalds konungs (samanber hjer að framan). En sem betur fer, er þess konar heitstrenginga ekki mjög oft getið, og eigi man jeg eftir neinni af því tæi hjer á landi á blómaöld Íslands.

---

Jeg hefi valið þetta umræðuefni hjer í kvöld vegna þess, að heitstrengingar eru svo merkur þáttur í fornsögum vorum, og því ætla jeg, að það sje þess vert, að þetta fjelag hvarfli huga frá öðrum störfum um stund, og íhugi þetta efni. Mjer er það kunnugt, að þessi fjelög hafa tekið sumt það upp á stefnuskrá sína, sem ungir menn í fornöld töldu sín áhugamál. Og hvað væri þá eðlilegra, en að þeir vildu líka kynnast lífi þeirra og hugsunarhætti sem allra best. En honum má kynnast af heitstrengingum þeirra og framkvæmdum. Þið sjáið ungmenni fornaldarinnar að hinum svo nefndu sveinaleikum vinna það heit að koma næsta dag, ef þeir hafa beðið lægra hlut að leikum, og jafna þá sakirnar. Enn sjáið þið þá síðar á þroskaskeiði sínu vinna það heit að afla sjer fjár og frama með því að sækja heim útlendra þjóðhöfðingja og reyna andlegt atgjörvi sitt og líkamlega hreysti. Og þið sjáið þá efna þessi heit, bera kongsgersemar á herðum sjer og örmum, er þeir hafa þegið að launum fyrir skáldskap og íþróttir. Þið sjáið unga menn taka við föðurleyfð sinni og vinna þess heit, að feta dyggilega í fótspor föður síns, nema framar megi verða, uppfylla allar þær skyldur gagnvart þjóðfjelaginu, sem þjóðarrjetturinn og landslögin leggja honum á herðar. Og þeir efna þessi heit sín, er þeir hafa tekið við mannaforræði: Þeir dæma mál manna í hjeraði og á þingi með sanngirni og rjettsýni, vernda eignir undirmanna sinna, sækja og verja rjett þeirra lifandi og mæla eftir þá dauða, annast konur þeirra og börn, ef fátækar voru.

Jeg ætla mjer ekki þá dul, að jeg hafi brugðið

hjer upp í kvöld sæmilegri mynd af þessum þætti lífs forfeðra vorra. En jeg vildi þó vekja athygli ykkar á honum. Sjálf getið þið með tíð og tíma aflað ykkur frekari fróðleiks um þetta efni, er finna má í fornsögum vorum.

Það, sem jeg vildi að þið bæruð úr býtum af þessum fundi vorum, eru endurminningar um hin fögru fordæmi, sem æfi mikilmenna fornaldar vorrar er svo auðug af, enda mætti þá svo verða, að þau hvetti mörg ykkar til meiri framkvæmda og dugnaðar, en þið hafið þegar sýnt. Því hafi jeg skilið rjett lög ykkar og stefnu, þá dylst mjer ekki, að í þeim er margt, er minnir á áhugamál hinna fornu frænda ykkar, því það eru velferðarmál ættjarðarinnar annarsvegar ,er þið hafið tekið upp á stefnuskrá ykkar; og hinsvegar er það og tilgangur fjelaga ykkar að auðga andann að nytsamlegum fróðleik og styrkja líkamann til hverskyns karlmensku og hreysti. — Það er hin uppvaxandi kynslóð, sem framtíð hvers lands er undir komin, og því heilbrigðari sem æskulýðurinn er andlega og líkamlega, því bjartara er yfir framtíð landsins. Þið hafið sagt stríð á hendur öllu því, sem er fjandsamlegt íslensku þjóðerni, tungu og hreysti, og öll hafið þið svarið, að verða að minsta kosti ekki ættlerar. Nú er bardaginn hafinn til verndar því, sem þjóðin á dýrmætast í eigu sinni. Vopnin eru að vísu ekki öll hin sömu sem í fornöld, en aldarandinn krefst og að nokkru breyttra tækja í baráttunni. — Heitstrengingar fornmanna voru oftast fagrar, en brotgjarn minnisvarði hefðu þær þó orðið, ef efndanna hefði orðið

vant. Nú er frægð þeirra geymd yður til eftirbreytni, og ef þið takið það, sem best er og fegurst í lífi fornaldarmanna, ykkur til fyrirmyndar, mun ekki hjá því fara, að uppskeran verður fögur, er fram líða stundir, því af verkunum þekkjast menn fyr eða síðar.

---

# Drykkjuskapur Íslendinga á fyrri öldum.

**Fyrirlestur fluttur í st. Bifröst nr. 43, 9. marz 1906.**

---

Heiðruðu tilheyrendur!

Nú eru alvarlegir tímar, þótt verri kunni að vera í vændum. Skýin eru að dragast saman yfir höfðum vorum, er að því höfum unnið að fá öllu áfengi útrýmt úr þessu landi. Óveðursskýin dökkna æ meir og meir, og sá andvari, sem móti hefir blásið hingað til, virðist nú vera að aukast, og stormurinn getur skollið á þá og þegar. Bardagi verður nú senn hafinn, sá er enda skal með sigri vorum og algerðu aðflutningsbanni, eða — ósigri og alveldi Bakkusar og andbanninga.

Á slíkum tímamótum sem þessum þarf því hver okkar að vera vakandi á verði, og gera sjer sem ljósast, hvað fram hefir farið í þessu landi fyrr á tímum, og sjá í hvaða sambandi það stendur við það, sem nú er að gerast og fram á að komast; mætti þá verða, að fleirum skildist, að hjer er ekki um neitt hjegómamál að ræða.

Það er ekki neinn nýr, óþektur farfugl, sem heimsótt hefir þessa eyju, henni til tjóns og skemda, er vjer viljum nú á brottu stökkva með öllu. Það er

hinn gamli og skæði ránfugl, Bakkus, illfyglið og óheillafylgjan alkunna, er hingað flæktist með forfeðrum okkar, er þeir komu og tóku að byggja landið; og það er hann, sem síðan hefir öld eftir öld herjað á líf og eignir íslenku þjóðarinnar. Það er hann, óvinurinn mikli, sem hjer er um að ræða. Það er hann, er vjer templarar höfum risið gegn, og viljum nú fá dæmdan óalandi og óferjandi. Og þenna dóm viljum vjer fá staðfestan, ekki af fámennri lögrjettu, heldur af því alþingi Íslendinga, er hefir alla þjóðina að baki sjer, þar sem öll landsins börn sitja í dóminum, og eru sammála. Og hvers vegna viljum vjer þetta? Af því að það er á okkar vitorði allra, að aðflutningsbann er hið eina, sem dugar. Það hefir reynsla liðinna alda þegar sýnt oss.

Jeg ætla í kvöld að tala um drykkjuskap manna hjer fyr á öldum; ætla jeg því að draga hjer saman nokkur dæmi úr sögu landsins. En tíminn er skammur, og því, verða dæmin fá, en jeg býst þó við, að þau verði ærið umhugsunarefni þeim, sem ant er um velferð þessarar þjóðar.

Það er auðvitað sorgarsaga, sem jeg ætla að segja hjer í kvöld, því að það er víst, að ef vendilega væri metinn allur sá hörmungaskattur, sem Bakkus hefir lagt á þessa þjóð frá upphafi Íslandsbygðar og fram á þennan dag, þá er hann einhver hin ægilegustu gjöld, er lögð hafa verið á þessa þjóð.

Saga vor hefst, eins og gefur að skilja, með byggingu landsins, og saga drykkjuskaparins hefst samtímis, því víst voru forfeður vorir engir eftirbátar í víndrykkju, fremur en „í öðrum íþróttum“. Þeir

gengu sem kunugt er rösklega að hverju sem var, og þeir af þeim, er á mála gengu hjá Bakkusi, reyndust honum traustir og öruggir liðsmenn; og sagan ber þess ljósastan vottinn, að þeir voru margir. Og svo sem forfeður vorir báru oft af erlendum mönnum að hreysti, er um var að ræða vopnaviðskifti eða aðrar íþróttir, þannig reyndust þeir og ílögumiklir og þrautseigir, er kappdrykkju skyldi þreyta, og vöktu með þessu oft á sjer eftirtekt og aðdáun útlendra stórhöfðingja. Stundum kom það og fyrir, að þeir fengu borgið lífi sínu og fjelaga sinna með því að sigra að sumbli, svo sem Egill Skallagrímsson, er flestum sínum samtíðarmönnum var talinn ílögumeiri við drykk, enda hafa víndýrkendur jafnan til hans vitnað, og talið honum sæmd í því, hve vel hann þoldi að drekka. En Egill mun átt hafa marga sína líka, þvíað drykkju mátti kalla upphaf og endir alls mannfagnaðar á þessum tímum.

Varla var svo fáment þing eða samkoma, að ekki væri fyrst af öllu um það hugsað að afla sjer nógra vínfanga. Þar við þótti mest liggja. Þess er oft getið í sögum vorum, að þegar halda skyldi brúðkaup eða erfi, þá var ekki síst fyrir því sjeð, að eigi skorti drykk. Það er því all-líklegt, að Hjaltasynir hafi þurft að viða vel að sjer, er þeir erfðu föður sinn og höfðu 1200 manns í boði, og litlu minna mun hafa dugað sonum Höskulds Dalakollssonar að erfi því, er þeir efndu til eftir föður sinn, því þeir höfðu sem kunnugt er níu hundruð manns; en þess er getið um bæði erfin, að alt hafi enst prýðilega, þótt þau stæðu hálfan mánuð. Þá áttu og hinar mörgu

og fjölmennu blótveislur og aðrar þess kyns samkomur mikinn þátt í að auka drykkjuskapinn, enda hvatti sjálf trúin (ásatrúin), menn til að sýna hreysti við drykkju ekki síður en að vígum eða leikum, því alstaðar þótti hreystin og þolið ómissandi. Það var því síst furða, þótt menn væru nokkuð þorstlátir, enda var æðsta takmarkið við lok æfinnar þetta: að setjast að drykkju í Valhöll með Óðni og einherjum. Hver samkoma var því vanalegast sett með því að drekka full goðanna, og endaði á skilnaðarskálinni, áður en menn kvöddust. Og það voru ekki gosdrykkir, er menn þá hrestu sig á. Um það taka sögurnar af öll tvímæli, og sýna ljóslega, að karlar vildu ekki jafnan drekka mysu eina.

Nú hefði mátt ætla, að með kristnitökunni hefði orðið á þessu breyting til batnaðar, en það er öðru nær. Þeir, sem lesið hafa Sturlungu, hafa vafalaust tekið eftir því, að ekki átti bindindi upp á pallborðið þá, enda ekki við að búast með þeim ofsa og óstjórn. er þá drotnaði á landi hjer í flestum greinum. Og þar sem höfuðból goðanna og annara magtarmanna voru miðdepill og meginstöðvar drykkjuskaparins í heiðni. þá verður sú breyting á, að þegar kemur fram á Sturlungaöld og þaðan í frá, verða biskupsstólarnir og konungsgarðurinn Bessastaðir aðalaðseturstaðir Bakkusar. Og frá þeim stöðum hljóma „Evans messurnar“ hæst, en þótt margir ríkismannagarðar leggi og drjúgan skerf til Bakkusdýrkunarinnar. En vjer megum og ekki gleyma því, að þær frjettirnar, sem vjer höfum frá þessu tímabili, greina ljósast frá atburðum, er gerast á ofangreindum höf-

uðbólum. En af öllum þorra manna er fátt eitt sagt. En þar sem fortjaldið er dregið frá, þar sjest, að ekki hefir ástandið verið glæsilegra hjá alþýðunni, og sannast hjer, sem oftar: „Hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það.“ Þess vil jeg þó geta, að sumir biskupar vorra voru hinir mestu reglumenn, þótt þeir fengju litlu til vegar komið í bindindisáttina.

Menn segja, að syndin hefni sín sjálf, og eigi er hitt síður alkunna, að „syndir feðranna koma fram á börnunum í þriðja og fjórða lið.“ Þetta eru sígild sannindi, sem altaf eru að rætast, þar sem áfengi er um hönd haft. Bakkus leggur skatt á þá, sem hann veitir stundaránægju; og sú snara, sem hann hefir eitt sinn brugðið um háls drykkjumanninum, er ekki að jafnaði þaðan tekin, fyr en hann hefir borgað hinn síðasta skilding sinn og oft miklu meira, enda ósjaldan látið lífið líka. Þennan sorglega sannleika hefir reynsla liðinna alda staðfest, og enn í dag staðfestist hann alstaðar, þar sem ekki hefir tekist að útrýma „ógæfunni miklu.“

Jafnvel þá er myrkur grúfði sem svartast yfir allri sagnfræði hjer, og fátt eitt var skráð af tilburðum, finnast þó nokkur dæmi, er sanna þetta, og eru þó vafalaust hin miklu fleiri, er engar sagnir greina. Jeg hefi helst hugsað mjer, að taka þau dæmin, er almenningi væru síður kunn, en sleppa hinum, er kalla má, að hvert barn þekki.

Árið 1298 er Möðruvallaklaustur stofnað af Jörundi Hólabiskupi, er vera þótti mikill skörungur. Þess er getið, að „bræðurnir“ (munkarnar) væru ódælir

og miklir fyrir sjer. Haustið 1316, tveim nóttum eftir krossmessu, brennur klaustrið og kirkjan, hvorttveggja til kaldra kola, og orsök brunans er talin sú, að kvöldið áður en bruninn varð, komu bræðurnir utan af Gáseyri og voru drukknir mjög, og brúkuðu svall mikið; kviknaði í tjöldum nokkrum, og breiddist eldurinn fljótt út, og brann klaustrið og kirkjan með mestöllum skrúða og „ornamentum“. Mannbjörg var, og enginn meiddist, en munkunum var skipað á vist, og stóð svo um hríð. Þegar Lárentíus Kálfsson er orðinn biskup nokkrum árum síðar, tóku „bræðurnir“ að heimta, að klaustrið yrði reist á ný; urðu út úr því miklar deilur milli þeirra og biskups (Möðruvallamál). Hins vegar má taka það fram, að Lárentíus var hinn siðavandasti biskup sinnar tíðar og bindindismaður. Bannaði hann alt drykkjuslark, bæði heima á stólnum og í öllu sínu biskupsdæmi, þar sem hann mátti því við koma. En stundum varð hann að leggja talsvert í sölurnar fyrir það. Af þeim, sem veittu honum mestan mótþróa, má hjer nefna tvo: Snjólf prest Sumarliðason og Uppsala-Hrólf. Þeir gerðu honum alt til skapraunar, er þeir máttu, og hvöttu þá Möðruvalla-„bræður“ til óhlýðni við hann; slógust þeir oftar en einu sinni upp á biskup með ójöfnuði, og 1326 varð biskup að flýja undan þeim, og þótti víst sá fótur sinn fegurstur, er hann slapp ómeiddur, enda voru þeir augafullir og viti sínu fjær. Biskup vann að vísu Möðruvallamál, en það var fleira, sem honum bar til mótgangs. Einkasonur hans, Árni, varð hinn mesti óreglumaður, og lagðist í drykkjuskap

og slark, er hann átti að framast erlendis; kom svo heim til föður síns, og varð honum til mikillar mæðu; fleira mæddi og biskup, svo sem yifrgangur drykkjuslark og ofsi þeirra stórhöfðingja, er þá voru uppi, enda var hjer þá agaleysi mikið.

Árið 1321 varð Skurð-Grímur biskup í Skálholti, sat þrjá mánuði á stóli og eyddi þrem hundruðum hundraða fyrir stólnum í drykkjuskap og óhófsveislur. Viðurnefnið er mælt, að hann hafi fengið fyrir það að hafa látið skera 300 fjár um sumarið, meðan kaupmenn sátu í höfnum. Óþarft er að geta hjer um veislur hans og aðra úttekt. Um haustið fór hann hjeðan alfarinn, og þótti hin mesta landhreinsun að; má og nærri geta, hvílíkt dæmi hann hefir gefið klerkastjett og alþýðu þessa lands um bindindi og aðra hófsemd.

Árið 1362 var Grundarbardagi. Upphafsmenn hans voru þeir Smiður Andrjesson og Jón Guttormsson Skráveifa, er voru mestu drykkjumenn og þóttu djarftækir til kvenna; enda voru þeir illa þokkaðir af allri alþýðu manna. Í einni af yfirreiðum sínum komu þeir að Grund í Eyjafirði, og vöktu þar sem annars staðar óspektir með drykkjuslarki sínu. En háttalag þeirra og framkoma þar varð þeim dýrkeypt. Smiður misti höfuð sitt niður í mjólkurtrog húsfreyju, en Jón var laminn til bana með járnrekum, er hann ætlaði að bjarga lífi sínu með því að skríða út um kamarsaugað og flýja. Báðir höfðu menn þessir mikil völd og kölluðust hirðstjórar. Má nærri geta, er æðstu embættismenn landsins ljetu sjer

sæma svona framferði, að almenningur hafi að einhverju leyti fetað í fótspor þeirra.

Saga Jóns biskups Gerrekssonar er svo alkunn, að óþarft er að geta hennar hjer; nefni jeg því að eins það, að bæði hann sjálfur og sveinar hans týndu lífinu fyrir sakir ills athæfis þeirra við landsfólkið; er það til marks um, að ærnar hafi þótt sakir á hendur þeim, að enginn treystist eftir þá að mæla; en sagnaritarinn telur drykkjuskap sveina hans og þjónustumanna, svo og kvennafar, verið hafa höfuðorsök all þessa ófagnaðar.

Haustið 1481 heldur Jón lögmaður Sigmundsson hið fyrra brúðkaup sitt í Víðidalstungu. Þar varð svo mikið uppþot við drykkju, að til víga leiddi, og hafði Jón allmikil óþægindi af því síðar, því þótt hann væri saklaus sjálfur, þá notuðu þó óvinir hans það slys, er þar varð, síðar meir sem vopn gegn honum, en það hefðu þeir ekki getað, ef hann hefði ekki óbeinlínis gefið tilefnið með því að veita vínið, enda mjög ólíklegt, að nokkurt uppþot hefði orðið, ef eigi hefði vín verið þar um hönd haft.

Árið 1498 var veginn Páll Jónsson, og var þessi sökin: Páll bjó að Skarði á Skarðsströnd, og var bæði ættstór og auðugur. Hann bað þeirrar stúlku, er Guðný hjet, af góðum ættum; en hennar hafði áður beðið Eiríkur sonur Halldórs ábóta á Helgafelli, og hún eigi viljað sinna því ráði, en hjetst nú Páli. Þessu reiddist Eiríkur mjög. Páll hafði vín mikið, og flutti á mörgum hestum að norðan, en á Sölvamannagötum gerði Eiríkur honum fyrirsát, og hjó niður fyrir honum ölið, svo að það spiltist alt,

og fjekk Páll ekki að gert að því sinni. Aftur efndi hann til vínkaupa og kvongaðist nokkru síðar. En af öllu þessu efldist hinn mesti fjandskapur milli þeirra og lauk á þá lund, að Eiríkur safnaði að sjer hinum verstu mönnum, og fór að Páli og tók hann af lífi, eftir hreystilega vörn Páls. Var þá agasamt um Vesturland og drykkjuöld mikil.

Árið 1504 deyði Torfi Jónsson sýslumaður í Stóra-Klofa á Landi. Öll æfisaga hans, það sem geymst hefir af henni, er drykkjuskaparsaga, og sýnir ljóslega, að hann hefir verið einhver hinn mesti óreglumaður sinnar tíðar, enda var og jafnan margt þess háttar manna á heimili hans, þeirra, er ekki munu hafa átt sjer hæli annarstaðar fyrir sakir óreglu og ójafnaðar; en Torfi veitti þeim fulla vernd og tók þá í sína þjónustu. Sumir segja, að Torfi hafi dáið á Fíflholtaþingi af drykkjuskap, árið 1504, og varð kona hans, Helga, að kaupa honum dýrt leg að Skálholti, því þar hafði hann kosið sjer legstað, en Stefán biskup kallaði hann hvorki húshæfan nje kirkjugræfan, og litlu betri en þá, „er farga sjálfum sjer,“ og galt hún með líki hans ærið fje í dýrgripum og jörðum.

Árið 1514 er Stefán Jónsson biskup staddur í biskupsveislu í Viðey; urðu þá sveinar hans ærið druknir og sinnaðist mjög. Þá varð Erlendur sá, er síðar varð lögmaður, og þá var fremstur sveina biskups og honum harla kær, saklausum manni að bana; tók biskup sjer það nærri, því að auk vígsins var framin klaustursaurgun, sem var mjög alvarlegt brot, og varð biskup að bæta vígið miklum

bótum, til þess að halda virðingu sinni, og fá Erlend frá sökum.

Eftirmaður Stefáns á Skálholtsstóli varð Ögmundur Pálsson. Hann var fyrri hluta æfi sinnar skipstjórnarmaður, og eftir því sem honum er lýst, stórtækur á flest og þótti sopinn góður. Sjest þetta meðal annars, er hann gekk á konungsfund til þess að sækja um biskupsembættið, er hann hresti hug sinn með því að drekka þrjá drykki í nafni heilagrar þrenningar, og gekk svo glaður fyrir konung; er og um hans daga mikill drykkjuskapur á stólnum, en biskup hrepti sömu laun sem flestir þeir, sem víni eru vinveittir. Frændi hans, og önnur hönd í mörgu, Eyjólfur Kolgrímsson, var oflátungur mikill og ærið drykkfeldur. Þegar biskup vísiteraði um Borgarfjörð í hinsta sinni, sumarið 1538, tók hann veislu að vanda í Reykjaholti; höfðu sveinar hans þar drykkjuslark mikið, og var Eyjólfur fremstur í flokki. Dag þann er þeir riðu þaðan, var Eyjólfur drukkinn mjög og leitaði á menn, en allir viku sjer undan ofstopa hans. Hann hafði spjót mikið í hendi, og veifði því í allar áttir, og stakk oddinum óvart í kvið sjer, svo að nærri gekk út um bakið, og varð það hans bani. Harmaði biskup hann mjög, enda var hann þá orðinn gamall og ellimóður, og mátti þetta slys heita upphafið að mótlæti því, sem honum mætti hin síðustu ár æfi hans, og varð því þyngra sem nær dró andláti biskups, og hafa víst fáir biskupar þessa lands mætt öðrum eins mótgangi á æfikvöldi sínu sem Ögmundur Pálsson.

Árið 1504 hjelt Björn Guðnason í Ögri, er einna

mestur var höfðingi vestanlands á sinni tíð, veislu mikla, og skemtu menn sjer vel; var fólkinu skamtað vín á milli máltíða, því að þá var ensk sigling mikil hingað og vín nóg; var veislan fjölmenn, og óspart drukkið, en höfðingjar sátu við drykkju og skemtu sjer daga alla.

Ekki voru brúðkaupsveislurnar fyrirferðarminni á þessu tímabili, að því er til tekur víndrykkjunnar, og skal hjer nefnt eitt dæmi að eins. Vorið 1530 gifti síra Einar á Staðastað Guðlaugu dóttur sína enskum manni, sem Robert hjet; var veisla haldin á Rifi, en þar lágu 9 skip ensk, og gaf hvert þeirra eina tunnu víns til veislunnar; stóð hún í hálfan mánuð, og var veitt hið kappsamelgasta sem geta má nærri.

Lítum vjer til Hólastiftis, verður þar hið sama fyrir oss. Jón biskup Arason var gleðimaður og óspar á vínveitingar, enda eru um hans daga margar drykkjuveislur haldnar á Hólum. En ilt eitt hafði hann af víninu, engu síður en Ögmundur biskup. Rafni, tengdasyni Jóns biskups, verður vínið beinlínis að líftjóni, og það á hinn ömurlegasta hátt, því að hann kúgar í ölæði eða hræðir svein sinn til að bera vopn á sig, en sú viðureign veldur dauða lögmanns. Fráfall Rafns var biskupi hið mesta tjón, því lögmaður hafði stutt hann sem best mátti hann. En þess þurfti biskup mjög við, er hann átti í erjum við volduga óvini. Við drykkju var það og, að biskup fastrjeð að láta til skarar skríða um afskifti sín af Skálholtsstifti. Þá var það og í sama skiftið, að þeim sinnaðist Ara og honum, og Ari tók þá

ákvörðun að fylgja föður sínum, þótt hann sæi það fyrir, að það mundi kosta líf þeirra allra. Af sögunni virðist mega ráða, að allmikill drykkjuskapur hafi átt sjer stað, bæði heima á Hólum og í yfirreiðum Jóns biskups, hin síðustu misseri, er þeir feðgar lifðu og frömdu mest stórvirki. Að vísu voru það sveinar þeirra, er óspektirnar vöktu og mest drukku, en ábyrgðina bera þeir þó, biskup og synir hans. Meðferð sveina biskups á Úthlíðarhjónunum sumarið 1550 er hin svívirðilegasta, og var auðvitað notuð af óvinum biskups til þess að ófrægja hann, þótt hann ætti þar að engan hlut. En hitt er og nokkurn veginn víst, að varla hefði þetta atvik borið við, ef vínið hefði ekki verið þar sem endranær upphaf og endir alls ófagnaðarins. Enn má geta þess, að ekki er líklegt, að Daði í Snóksdal hefði gengið úr greipum þeim, ef þeir hefðu verið allsgáðir á Staðastað haustið 1549, er þeir handtóku Martein biskup, og höfðu nær höndum tekið Daða líka, en urðu þá helst til háværir, er vínið tók að svífa á þá, svo að Daði komst að ráðagerðum þeirra, og gat borgið sjer. Jón biskup taldi það og hina mestu óhepni sína, að þá mistu þeir af Daða, og að því varð honum sem síðar kom fram.

Í sambandi við það, sem nú hefir verið sagt, mætti minnast á Þorláksmessn á sumri, er haldin var í Skálholti með miklu fjölmenni. Þær samkomur höfðu vanalega mikinn drykkjuskap í för með sjer, og í námu sambandi við þær stóðu hinar illræmdu smalabúsreiðar, en á þær hefi jeg minst á öðrum stað ásamt hinum nafntoguðu Jörfasamkomum,

sem altaf höfðu meiri og minni drykkjuskap í för með sjer, enda sýnist þetta þrent fara þar saman: dans, drykkjuskapur og lauslæti. En þessu hefi jeg lýst í erindi því, er jeg nefndi „Dansinn", og því er því slept hjer.*

Þegar dregur fram undir siðaskiftin, fer að bera á því, að sjálfur konungsgarðurinn Bessastaðir sje ekkert fyrirmyndarheimili um reglusemi og bindindi, og sumir hirðstjórarnir og umboðsmenn þeirra komu þá ekki svo fram sem stöðu þeirra sæmdi: Diðrik frá Minden, umboðsmaður Klausar hirðstjóra frá Mervitz, er svo híbýlaprúður, að hann oftar en einu sinni flýgur blindfullur á sóknarprest sinn og skriftaföður, Einar Ólafsson í Görðum, og spanaði aðra til óspekta. Þetta athæfi Diðriks gekk svo úr hófi fram, að síra Einari, sem ekki var með öllu óvanur tuski, þótti þó nóg um viðtökur kirkjubóndans, og tók það ráð að hóta honum því að lesa upp æfisögu hans við Þingvallakirkju, að áheyrandi öllum þingheimi, þá er fjölmenni væri þar sem mest. Er sagt, að Diðrik hafi ekki kært sig um að heyra þann lestur, og batnaði þá nokkuð samlyndi hans og prests, og hætti prestur við að framkvæma hótun sína.

Árið 1606 kom hingað til landsins höfuðsmaðurinn Herluf Daa, og boðaði samstundis til sín að Bessastöðum Jón Jónsson lögmann; ljet lögmaður ekki þá ferð undir höfuð leggjast, og reið þegar suður til höfuðsmanns, er tók honum vel, og var drukk-

---

*) Sá fyrirlestur er nú glataður.

ið ærið fast. Sagt er, að höfuðsmaður hafi þá heitið lögmanni fylgi sínu til að jafna á Guðbrandi biskupi Þorlákssyni. En til þeirra efnda kom þó ekki. Lögmanni var fylgt dauðadruknum um kvöldið til tjalds, en morguninn eftir fanst hann dauður í sæng sinni.

Stundum urðu veitingar höfuðsmanna sannkölluð hefndargjöf gestunum. Herluf Daa höfuðsmaður var engi vinur Odds biskups, og er mælt, að hann hafi gert tilraun til að koma eitri í bikar biskups, er þeir sátu að drykkju á Bessastöðum, en biskup sakaði ekki. Mörgum varð konungsgarðurinn eins þröngur útgöngu, og hann hafði reynst víður inngöngu. Þannig mátti Hallgrímur Hallgrímsson á Víðimýri þakka hamingjunni að sleppa þaðan óhrakinn. Hallgrímur var hávaðamaður og ofstopi við vín, og þá stundum laus höndin, ef því var að skifta, enda hendi hann sú slysni, að spretta fingri að höfuðsmanni Henrik Bjelke. Mundi það tiltæki hafa orðið honum ærið dýrt, ef ekki hefði bæði mágur hans, Brynjólfur biskup, og fleiri friðað fyrir hann við höfuðsmann.

Í öðru sinni var þar norðlenskur bóndi gestkomandi, og drakk með umboðsmanni höfuðsmanns. Sá hjet Jón, að auknefni kallaður titlingur; tók umboðsmaður að stríða bónda með þessu viðurnefni, uns honum varð skapfátt, og rak umboðsmanni löðrung, og varð að bæta miklu fje. Slíkar skærur milli landsbúa og höfuðsmanns voru algengar í konungsgarði í þann tíð, nokkurs konar aukageta eða árjetting við annan beina og viðskifti Bessastaða-

manna við landsfólkið. Hins vegar sönnuðu þeir Bessastaðamenn málsháttinn: „Sá vill ekki eiga fiskinn, sem ekki tímir að sjá af beitunni í hann.“

Kópavogsfundurinn 1662 sýnir ef til vill betur en alt annað, hvað gott við Íslendingar höfum haft af víninu; en af því að jeg hefi lítilsháttar getið þessa fundar áður, sleppi jeg að fara nánar út í það mál hjer (sjá síðar).

Árið 1632 var Gísli Oddsson kosinn biskup í Skálholti. Hann var mjög vel gefinn maður og bráðgáfaður, en ákaflega drykkfeldur, og var svo mikið orð á gert, að það barst til eyrna konungi, og er mælt, að Gísli hafi orðið að bera af sjer þann áburð frammi fyrir konungi og ríkisráði hans, er hann fór utan til þess að taka biskupsvígslu. — Hverjum þeim, sem les æfisögu Gísla biskups Odssonar, hlýtur ósjálfrátt að renna til rifja, hversu fljótt hann fellur í valinn af völdum vínsins. Að eins 7 ár sat hann á stóli, og andaðist á besta aldri, 1639. Hann var svo mikið ljúfmenni, að allir, sem hann þektu, hörmuðu hann. En þótt menn vissu, hver var sök vanheilsu hans og dauða, þá verður ekki sjeð, að menn skipuðust við það til batnaðar, eða gerðust hófsamari um vínnautn, því að eftir hans daga kemst drykkjuskapur Íslendinga í almætti sitt, og er þá eins og vínið sje búið að gagnsýra íslensku þjóðina. Á seinni hluta 16. aldar er uppi Hallur skáld Magnússon; var hann vel gefinn og talinn skáld gott, en óreglumaður svo mikill, að í annála er fært, og segir sagan, að 1601 drykki hann sig í hel. Þá er þess og getið, að „1665 drekka 6 menn sig í hel, og

er þá mikil drykkjuöld hjer á landi.“ Stuttort er þetta, en þó má af því ráða, að því er líkast, sem öll þjóðin sje að láta bugast af völdum vínsins, enda er svo talið, að þá hafi drykkjuskapurinn komist á sitt hæsta stig og á næsta tímabili þar á eftir, alt fram að 1755. Árið 1755 heldur Bjarni Halldórsson sýslumaður á Þingeyrum jólaveislu, og fyrsta jólakvöld gekk upp hálftunna af brennivíni. Boðið stóð í marga daga, svo líklegt er, að öll kvöldin hafi eyðst mikið; var þó mikið hallæri það ár um Norðurland.

Þeir sem lesið hafa sögu Odds lögmanns Sigurðssonar þekkja vel, hversu til gekk hjer á landi í það mund, svo að eigi þarf að lýsa því hjer; að eins vil jeg þó geta þess, að þótt sumir haldi því fram, að það tímabil sje svartast í sögu lands þessa um drykkjuskap, þá er það engan veginn víst, því að sagnir fara að verða gleggri en áður um hvað eina, er til ber, þegar kemur fram á 18. öld. Líklegt er þó, að straumurinn hafi þá borist hingað frá Danmörku enn öflugar en áður, því þar var þá hin mesta drykkjöld, og má vel segja, að eftir aldarandanum þóttu áflog og ofdrykkja vottur höfðingsskapar og harðfengis. „Sá, sem ekki drekkur, hann er öllum mönnum athlægi,“ er alkunnugt orðtak frá þeim dögum. Þetta mundi þykja ótrúlegt nú, ef ekki væru nægar sannanir til að sýna, að svona var nú litið á þessi mál í það mund, og ef við höfum þetta hugfast, má oss ekki undra, þótt mörgum yrði hætt við falli, og eigi megum vjer heldur dæma einstaklingana of hart, því að hvað

getur hættulegra en svona hugsunarhátt hjá meiri hluta landsbúa. Að vísu eiga sjer stað heiðarlegar undantekningar, en þeirra gætir þó næsta lítið.

Jón biskup Árnason í Skálholti er sá fyrsti um langt skeið, er rís gegn ofdrykkjunni. Hann bæði reit stjórninni um þetta mál, og sendi umburðarbrjef um land alt, og heitir á menn til liðsinnis, og það er talið víst, að hann hafi gert gagn mikið, því þegar kemur fram yfir miðja 18. öld, fer drykkjuskapurinn mjög að minka, þótt mikið vanti enn á að vel sje. Í yfirliti yfir 18. öldina farast Espólín orð á þá leið, að þá hafi orðið hryðjur minni, er fram yfir miðja öldina leið, við það að drykkjuskapur minkaði mikið, og þekking tók að vaxa, enda urðu hermdarverk nær engin. Drykkjuskaparsögu 19. aldarninar þekkjum vjer öll vel, og sömuleiðis raddir þeirra, er ljetu til sín heyra bæði í Fjölni og víðar bindindinu til liðs. Ennfremur voru bindindisfjelög stofnuð nokkuð víða hjer úti um land. En tregt gekk að breyta hugsunarhættinum, og þótt margur legði bindindinu liðsyrði, þá lifði brennivínsdrykkjan Paradísarlífi í huga mikils hluta þjóðarinnar, alt þangað til Goodtemplarareglan kemur til sögunnar.

---

Jeg hefi þá hjer að framan minst nokkuð á drykkjuskap Íslendinga á liðnum öldum. Mjer er það full-ljóst, að þetta er mjög ófullkominn samtíningur, en mjer er það nokkuð til afsökunar, hve heimildir eru óljósar og sundurleitar, enda vantar

allar hagfræðiskýrslur um þessi efni, en þær eru þó eitt hið nauðsynlegasta heimildarrit og traustasta, þar sem þær eru til. Þá er og tími minn takmarkaður hjer, og eins og þið vitið, verð jeg fleira að sýsla en að bóklegum iðnum. Jeg hefði auðvitað getað tekið nokkur dæmi í viðbót, en þessi verða að nægja. Að lokum vil jeg lítið eitt minnast á þá breytingu, sem orðin er á hugsunarhætti þjóðarinnar, að því er tekur til vínnautnar, og hverju sú breyting er að þakka.

Það er jafnan talið erfitt og óþakklátt verk að ráðast á rótgrónar venjur og eldgamlan hugsunarhátt. Aldarandi og hugsunarháttur höfðu reist Bakkusi hið traustasta vígi í huga þjóðarinnar, og virtist sá kastali hvorki árennilegur nje auðunninn. En þá kemur Goodtemplarareglan hingað til landsins, og hefur starfsemi sína með því að ráðast á hugsunarháttinn, og þótt hún hafi ekki enn þá unnið fullkominn sigur, þá hefir henni samt orðið býsna mikið ágengt. Jeg vil ekki að þessu sinni geta allra þeirra erfiðleika, er þeir áttu við að stríða, sem fyrst hófu þessa baráttu hjer. Menn litu óhýru auga til fjelags þessa, og margur, sem á þeim dögum gekk í fjelagið, sætti óvirðulegum orðum, og það oft hjá vinum og vandamönnum. Menn höfðu á takteinum ótal sögur um fjelagið. Jafnvel hin „heimulega“ störf þess voru notuð sem grýla til þess að fæla menn frá fjelaginu. Enginn ungur piltur gat talið sig mann með mönnum, ef hann gat ekki aurað saman í rjettapelann sinn, og komið í rjettirnar mátulega glaður, svo að sjá mætti, að hann væri „hýrð-

ur víns af tári". Hugsunarhætti gömlu mannanna get jeg best lýst í fám orðum með smásögu, sem gerðist í mínu ungdæmi. Hún er svona:

Gamall og velmetinn bóndi austur í Holtum var jafnan vanur að fá 8 potta kút fyrir hver einustu jól. En eina jólaföstu gengu svo mikil illviðri, að Þjórsá var alla föstuna skarp-ófær fjalls og fjöru milli, svo að kúturinn komst hvergi. Gamli maðurinn gat ekki á heilum sjer tekið, og eftir því sem hann síðar sagði sóknarpresti sínum, kvaðst hann ekki hafa sjeð glaðan dag öll jólin, því þau hefðu bókstaflega talað farið fyrir ofan garð og neðan hjá sjer.

Svona voru nú gömlu mennirnir innrættir í þann tíma. Nú telur enginn maður sjer sæmdarauka í því að láta sjá á sjer vín, því þótt sumir geti ekki að sjer gert að drekka, þá vilja þeir þó sem minst láta á því bera, og að sem flestum sje það hulið. Nú þykja þær samkomur hollastar og affarabestar, er vín er hvergi nærri, og ekki heyrist annars getið, en að gömlu mennirnir haldi sínar hátíðir með eins ómengaðri gleði nú eins og áður, meðan alt flaut í áfengi og brennivíni. En þó finst mjer það skifta mestu, hverjum augum menn nú orðið alment líta á Regluna og starfsemi hennar hjer á landi. Mjer er óhætt að fullyrða, að fjöldi manna viðurkennir starfsemi hennar og góðan tilgang, og þeir eru margir meðal íslensku þjóðarinnar, sem meta að rjettu starf hennar í þarfir þjóðfjelagsins og óska fjelaginu góðs gengis, enda þótt þeir hafi ekki enn þá skipað sjer undir merki hennar. Í þessu

er okkar sigur fólginn, því svo mikið sem sumum þykir um það vert, að fá sem flestar stúkur stofnaðar, þá er hitt þó hverjum hugsandi templar gleðiefnið mesta, hve mikið Reglunni hefir orðið ágengt í því að breyta hugsunarhætti þjóðarinnar sjálfrar. Þegar við berum saman drykkjuskap fyrri alda og þessara tíma, og þó einkum hugsunarháttinn fyrrum og nú, að því er snertir vínnautn, þá sjáum við, að það er ekkert smáræði, sem Goodtemplarareglan hefir til vegar komið í þessu landi. Því vitanlega eru það templarar, sem hrópað hafa um nauðsyn bindindisins ár og síð, uns hróp þeirra hefir að lokum náð til eyrna almennings, og jeg vona, að þess verði ekki langt að bíða, að svo komi málum, að þjóðin þekki sinn vitjunartíma, og svari þessu hrópi með algerðu aðflutningsbanni, og því segi jeg: vel sje þeim, er fyrstir brutu ísinn og hófust handa gegn áfenginu. Starf þeirra er svo nytsamt, að öll þjóðin á þeim skuld að gjalda, og henni hefir hún þá fyrst að fullu lokið, er hún hefir gert óheillakarlinn Bakkus algerlega útlægan úr þessu landi.

Og nú vil jeg að endingu geta þess, hvers vegna jeg hefi gert drykkjuskap fyrri alda að umræðuefni hjer í kvöld. Mjer fanst, að það ætti að geta orðið oss þarft umhugsunarefni, jafnframt því sem það getur gefið oss tækifæri til að líta til liðinna tíma og bera saman mismuninn þá og nú. Og munurinn er mikill. En við þurfum að gera meira. Við þurfum að vekja hjá oss þann staðfasta ásetning að skiljast ekki fyr við bindindismálið, en það hefir

unnið algjörðan og efalausan sigur, því þótt mikið sje þegar að gert, er þó enn mikils á vant, að takmarkinu sje náð, og eigi megum vjer heldur gleyma því, „að eigi er minni vandi að gæta fengins fjár en afla.“ Nú er þannig ástatt, að orustan stendur sem hæst, og því er þess sannarlega full þörf, að heita á hvern dugandi meðlim Reglunnar, karl og konu, að starfa sem ósleitilegast. Sá fjandi, er við nú erum að berjast við, er og verður til síðustu stundar svo skæður, að alls mun við þurfa, en jeg þekki enga lögeggjan gegn honum hvassari en sögu hans sjálfs. Meðferð hans á íslensku þjóðinni frá öndverðu og alt fram á vora daga, er svo ægileg, að geti hún ekki hitað neinum um hjartaræturnar, þá veit jeg ekkert, sem dugar og þá getum við lagt árar í bát nú þegar. Saga drykkjuskaparins hjer á landi er rauna- og hörmungasaga, en saga bindindisins er aftur á móti sannkölluð gleði- og sigursaga hverjum góðum dreng, en báðar þessar sögur, hvor við annarar hlið, ættu að vera hverjum hugsandi manni og konu hollar og lærdómsríkar hugvekjur, jafnt þeim, sem eru utan stúku sem hinum, er templarar kallast. Hin fyrri sagan bregður upp fyrir oss skýrri mynd af því böli, er vínnautnin hefir haft í för með sjer fyrir börn þessa lands á liðnum öldum, og hvílkt hörmungafarg lá á þjóðinni, og hver nauðsyn var á hjálp. Saga bindindisins sýnir oss hins vegar, að þeir menn, er af náungans kærleika gengu fyrstir í fjelag vort og tóku á sig þau óþægindi, er því voru samfara, breyttu vel og viturlega; og þeir, sem fyr og síðar hafa skipað

sjer undir merki Reglu vorrar, hafa valið hið góða hlutskiftið, og starfi þeir þar sem góðir liðsmenn, mega þeir að vísu vænta góðs og gleðilegs árangurs af starfi sínu.

Sækjum því allir fram í fylkingu með sameinuðum kröftum; sækjum allir fram undir merki Reglunnar og hopum hvergi á hæli; „aldrei að víkja“ sje orðtak vort, þar til fullur sigur er fenginn, og vjer getum sagt: „Nú er alþjóð frelsuð frá böli ofdrykkjunnar, því að nú er algert innflutningsbann fengið, og þjóðin mun kunna að meta verkanir þess og skilja þær.“ Drottinn gefi, að þessi vor sameiginlega ósk rætist sem allra fyrst.

---

# Kvonbænir, festar og brúðkaup á landi hjer fyr og síðar.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 8. febr. 1912.

---

Finst ykkur það ekki eiga hálf illa við, að einn af elstu piparsveinum þessa bæjar, í elstu stúku* þessa lands, hefji umræður um þetta þrent: kvonbænir, festar og brúðkaupsveislur, eins og þetta fór fram á landi hjer frá því í fornöld og til vorra daga? Auðvitað tek jeg það fram, að jeg get því miður ekki talað af eigin reynd um þessi mál, því án þess að jeg ætli beinlínis að skrifta hjer í kvöld, þá verð jeg að lýsa yfir því hátíðlega og hreinskilnislega, að jeg hefi ekki stigið eitt einasta spor í aldingarði ástarinnar, enn sem komið er. Hins vegar treysti jeg því, að allir rjettsýnir og skynsamir fjelagsmenn skilji, að með því að lesa og íhuga hugðnæm efni, geta menn kynst málunum sæmilega, þótt vitanlega jafnist fátt við reynsluna í þessu efni sem öðrum.

Fyrsta spurningin verður þá þessi: hvað var það, sem í fyrstu hratt af stað hjónabandinu, og gerir

---

* Fyrirlestur þessi var áður fluttur í st. Verðandi.

það enn í dag? Jeg hygg, að það sje þessi eilífa rödd, sem aldrei þagnar og sífelt hefir uppi sömu orðin: „Það er ekki gott, að maðurinn sje einn.“ Jeg held, að það hafi verið þetta, sem knúði ungu piltana af stað til kvonbæna fyr á tímum, og knýr þá enn í dag út í sama leiðangurinn.

Það hefir verið sagt, og víst með sannindum, að forfeður vorir gætu verið oss fyrirmynd í svo mörgu, og að vísu finst mjer, að þeir geti verið það í því efni, sem hjer verður vikið að í kvöld. Það er einkum þrent, er mjer fellur vel í þessu kvonbænastarfi þeirra: það fyrst, að þeir leita sjaldan ráðahags fyr en þeir eru svo efnum búnir eða svo settir að öðru leyti, að þeir geti boðið konunni sæmilegt og sjálfstætt hús og heimili. Í öðru lagi vildu þeir hafa unnið sjer nokkuð til frama og fjár, ef svo mátti verða, svo að sýnt væri, að þeir væru svo að manni, að þeir gætu gegnt hinum margvíslegu störfum, er þjóðfjelagið legði þeim á herðar, og með ráðdeild og karlmensku klofið öldur örðugleikanna. Í þriðja lagi má geta þess, að yngispiltar í fornöld hröpuðu ekki að því að kvongast; þeir ljetu sjer ekki nægja lauslega afspurn af þeirri stúlku, er þeir ætluðu að eiga. Þeir vildu þekkja hana persónulega, ef unt var, kynnast skapferli hennar og vera sannfróðir um það, hvern mann húa hefði að geyma. Tækist þeim þetta ekki, urðu þeir að láta sjer nægja lýsingu þeirra manna, er þeir virtu og trúðu sem sjálfum sjer, því að þekkingin var fyrsta sporið til virðingar, en án virðingar gátu þeir ekki hugsað sjer, að ástin gæti lifað. Enn var það þrent, sem

einkum var lagt á vogina, er ráðahags skyldi leita: að kona væri fríð, búin mannkostum, auði gædd og atgjörfi. Væri alt þetta fyrir hendi, lögðu þeir af stað og fluttu mál sitt með því kappi og festu, er einkendi þá, og kostuðu alls kapps um að ná þeim ráðahag, er þeir höfðu ætlað sjer, og hættu ekki, þótt við nokkuð mótdrægi væri að etja. Hins vegar voru yngismeyjar ekki eins eigingjarnar og stássmeyjar vorra tíma, og lögðu venjulega að eins tvent á metin: fríðleik og hreysti. En sá pilturinn, er skaraði fram úr í þessu tvennu, fór sjaldan bónleiður „til búðar“ úr kvonbænaförinni. Honum var sigurinn jafnan vís.

Nú má vera, að einhver hugsi á þessa leið: voru ekki á fornum tímum miklir örðugleikar á fyrir unga fólkið að kynnast, er heima átti í fjarlægum hjeruðum? Jú; það hagaði nokkru öðruvísi til þá en nú, og að minsta kosti var Reykjavík ekki orðin önnur eins miðstöð trúlofana og giftinga sem nú er hún; eigi var heldur sími, eða þá póstar til að flytja ástarbrjefin. Erfiðar voru samgöngur á sjó og landi, og enginn skóli að sækja í Reykjavík, hvorki fyrir pilta nje stúlkur; engin templarastúka heldur til. En þrátt fyrir alla þessa annmarka, rættist þó furðanlega úr. Sannaðist þar hið fornkveðna, að vísu með dálítið breyttri merkingu: „að hvert land bjargist við sín gæði.“ Sveinar og meyjar fengu að sækja alþingi með feðrum og frændum, svo og blótveislur og aðrar fjölmennar mannfagnaðarsamkomur; voru því ærin tækifæri til að sjást og kynnast. Þó tel jeg það síðast, sem ef til vill varðaði

mestu, en það voru hin fjölmennu íþróttamót, sem iðulega voru haldin um land alt, og þau voru jafnan sigursæl í ástamálum. Piltar þóttust jafnan sannfærðir um það, er heim kom, hvað þessi eða hin stúlkan hefði af þeim kostum, er þeim þóttu mestu máli skifta.

Þegar þeim þótti tími til kominn, brugðu þeir feðrum sínum á einmæli, og hófu mál sitt á því að vekja athygli þeirra á aldri sínum og þroska ljetu þeir þá og í ljós löngun sína til mannaforræðis, og kváðu tíma til þess kominn, að þeir staðfestu ráð sitt. Þá gáfu þeir og jafnframt í skyn, hvert hugur þeirra stefndi um kvonfangið; og væri nú faðirinn samþykkur, heimti hann til sín frændur sína og vini, tjáði þeim, hvað í efni væri; lagði síðan af stað, ásamt syni sínum, með fríðu föruneyti, og þótti þá mikið undir, að alt væri sem best búið og sem ríkmannlegast. Venjulegast vakti faðirinn bónorðið fyrir hönd sonar síns, og gekk frá öllum samningum fyrir hans hönd. Ef erindið gekk að óskum, voru festar ákveðnar, og hve langar þær skyldu vera. Síðan var festaröl drukkið, og fór svo hver heim til sín. Sá tími, er leið frá því er festaröl var drukkið, til þess er brúðkaup fór fram, var kallaður festartími, og sat þá mærin í festum.

Það hefir verið skoðun margra, að stúlkur í fornöld hafi engu ráðið um gjaforð sín, en orðið að hlýða andmælalaust vilja feðra sinna og annara forráðamanna. En þetta er ekki með öllu rjett, og skal jeg því til sönnunar draga nokkur dæmi. Vorið 958 kemur Ólafur Höskuldsson úr siglingu sinni,

og ríður til alþingis ásamt föður sínum, og biður hann að flytja bónorð fyrir sína hönd við Þorgerði Egilsdóttur að Borg. Höskuldur gerði svo, en fjekk þau svör hjá Agli, að það væri á einkis manns færi að fá Þorgerðar án vilja hennar; kvaðst þó skyldu bera málið upp við hana. En sagan sýnir, að gamli maðurinn hafði rjett fyrir sjer. Þorgerður veitti afsvar, en þegar Ólafur flutti bónorðið sjálfur, og karlarnir komu hvergi nærri, þá var eigi fyrirstaðan hjá henni, enda fóru festar fram samstundis. Nefna má annað dæmi. 1027 kom út til Íslands Ísleifur Gissurarson, og hafði prestvígslu. Hann var flestum mönnum fríðari sýnum, og talinn lærðastur allra Íslendinga, og bráðungur, að eins 21 árs gamall. Þá bjó Þorvaldur bóndi að Ásgeirsá í Víðidal, höfðingi mikill og ríklundaður. Hann átti dóttur, er Dalla hjet, og þótti sá bestur kvenkostur á Norðurlandi og þótt víðar væri leitað. Ísleifur reið norður og hugði á ráðahag við Döllu; hafði hann frítt föruneyti, og kom að Ásgeirsá snemma dags, og var sólskin á og sunnan vindur. Hann gerði boð fyrir Þorvald bónda, og hóf upp bónorðið. En Þorvaldur veitti afsvar, en bauð honum að þiggja þar beina fyrir sig og sveina sína, er hann mætti bestan veita. Ísleifur hafnaði því, og sneri brott með sveinum sínum. Er mælt, að Dalla stæði uppi á heystakki og hygði vandlega að formanni fararinnar, og grunaði, hvert erindi hann mundi hafa haft, og hver endir á hefði orðið. Hún gekk þá skyndilega fyrir föður sinn, og frjetti það, er hann hafði þá sýslað. Dalla mælti þá: En jeg hefi þann metnað,

faðir, að jeg vil eiga þann besta mann, og með honum þann son, er göfgastur mun verða á þessu landi. Ljet Þorvaldur Ísleif stöðva ferð sína, og ná ráðahagnum. Ísleifur átti Döllu, en sonur þeirra var Gissur biskup, er ágætastur þótti sinna samtíðarmanna. Dalla varð þannig hin fyrsta biskupsfrú þessa lands, og móðir Gissurar biskups. Hún dó öldruð í Skálholti, og verður jafnan getið meðal merkustu og ágætustu kvenna þessa lands.

Á síðari hluta 16. aldar bjó Jón Bjarnarson, sonarsonur Jóns biskups Arasonar, að Holtastöðum í Langadal. Árið 1591 reið Oddur biskup Einarsson norður og bað Helgu, dóttur Jóns. Jóni varð ógreitt um svör, en bauð biskupi inn, meðan hann hugsaði málið. Það vildi biskup ekki þiggja, og gekk Jón þá hvatlega inn og í herbergi það, sem dóttir hans sat í við hannyrðir sínar, og tjáði henni formálalaust, að biskupinn í Skálholti væri kominn til að biðja hennar, og spurði, hverju skyldi svara. Hún kvað ekki vera í kot vísað, og bað segja, að hún tæki honum. Þar með var þeim teningi kastað.

Guðbrandur Hólabiskup átti fjögur börn, er úr æsku komust; var eitt þeirra Kristín. Mjög jafnaldra henni var Ari, sonur Magnúsar prúða, sýslumanns í Ögri við Ísafjörð. Hann þótti manna vænlegastur sinna jafnaldra, og svo stór vexti, að hann var talinn annar stærsti maður á landi hjer í þann tíma. Sumarið 1594, er Ari var 18 ára, er mælt, að hann safnaði 18 jafnöldrum sínum þeim, er röskvastir voru í hjeraðinu; skyldu allir hafa eins lita hesta og hann, og vera sem best búnir að öllu. Var

förinni heitið norður að Hólum að biðja Kristínar dóttur Guðbrands til handa Ara. Nú segir eigi af ferðum þeirra fjelaga, uns þeir komu til Hóla; gerði Ari boð fyrir biskup og flutti erindi sitt sitjandi á hestbaki. Biskupi hefir líklega þótt tign sinni misboðið, því hann veitti afsvar. Ari sneri við hesti sínum, og reið í brottu með fjelögum sínum, og varð fátt um kveðjur. Kristín dóttir biskups var stödd í lofti því, er uppi var yfir hinni nýju „studiu“, er svo var kallað; sá hún út um gluggann og virti flokkinn fyrir sjer, og leist vel á formann fararinnar. Þegar hún sá þá halda burtu svo skyndilega, gat hún sjer til, hvert mundi verið hafa erindi þeirra, og hver svör hefði í móti komið. Hún gekk þá fyrir föður sinn, og kvað hann hafa misráðið mjög að vísa Ara frá; flutti hún svo mál sitt, að biskup ljet skjóta hesti undir mann; náði sá Ara fram á Vindárdal, bar honum kveðju biskups, er bað hann innilega að hverfa heim aftur á staðinn. Ari þektist boðið, og varð sá endir á þeirra málum, að hann fjekk Kristínar.

Jeg hefi tekið þessi dæmi til þess að sýna, að stúlkur á þeim tímum ljetu víst til sín taka, er ræða var um gjaforð þeirra, og sýna dæmi þessi jafnframt, þótt fá sjeu, hverju þær komu til vegar í þessum efnum. Það, sem einkennir kvonbænir forfeðra vorra er hispursleysi og einurð; þeir vilja engir vonbiðlar vera, og höfnuðu öllum beina, uns þeir vissu erindislokin; og virðist mjer skifta hjer nokkuð í tvö horn við það, sem nú á sjer stað, og mætti ef til vill nokkuð marka breytinguna, sem nú

virðist vera orðin á skaplyndi manna um það, er til þeirra mála tekur. Hitt er annað mál, hvort sú breyting er til batnaðar.

## II.

Eins og þegar er á vikið, þýddu orðin, „að sitja í festum“ það tímabil, er leið frá því, er festar fóru fram til þess er brúðkaupið var haldið. Mjer er sagt, að þessi stund sje nú kölluð tilhugalíf. Oft gat festartíminn orðið langur í fornöld, stundum 3 ár eða enn lengri. Voru orsakir oft þær, að maður þótti of ungur og óreyndur. Vanalega rjeðu biðlar sjálfir tímanum, en stundum feður og ráðamenn stúlkunnar eða og stundum stúlkurnar sjálfar, eins og þá er Höskuldur Hvítanessgoði varð að ná goðorði til þess að geta fengið Hildigunnar, svo að fullnægt yrði metnaði hennar og Flosa. Varð hann að bíða uns tækifæri gafst.

Geti ungir menn í fornöld verið oss fyrirmynd um hreinskilni og prúðmensku í kvonbænum, þá eru þeir það ekki síður um trygð og staðfestu í tilhugalífinu. Þótt þeir færu land úr landi til að leita gæfu og gengis, kemur þeim ekki til hugar að bregða heiti við unnustu sína; að minsta kosti eru þess fá dæmi í sögum vorum, að ungir menn yrðu heitrofa við unnustu sína.

Hvert, sem lífsstraumurinn bar þá, leitaði hugurinn jafnan heim til Íslands, heim til konunnar, sem þeir höfðu gefið hönd sína og hjarta. — Til þess að sýna, að nú sje þetta nokkuð breytt, að minsta

kosti stundum, skal jeg skjóta hjer inn í eftirfarandi sögukorni: Fyrir rúmum 20 árum, kyntist jeg manni suður með sjó, sem hafði tvívegis trúlofast, setið í festum svo sem mánaðartíma í hvort skifti, og svo trúlofaðist hann í þriðja skiftið, og kvongaðist hálfum mánuði síðar. Þegar hann var spurður, hví hann hefði svo mjög hvatað brúðkaupinu, sagðist hann hafa mátt til, því að kötturinn hafi legið í pokanum, meðan festar stóðu yfir milli hans og fyrri stúlknanna.

## III.

Þá kem jeg að þriðja og þýðingarmesta atriðinu í þessu máli, sjálfum brúðkaupssiðunum. Um brúðkaupssiði er svo margt að segja, að ef fara skyldi ítarlega út í það mál, myndi þolinmæði ykkar allra vera lokið, áður en jeg væri hálfnaður með erindi mitt. Til þess nú að verða ekki of langorður, mun jeg því að eins minnast á, hvernig brúðkaup fóru fram á söguöld vorri, á 17. öld og frá 1800 og fram á þennan dag.

Brúðkaupin og brúðkaupssiðirnir voru nátengdir öðrum þjóðsiðum Íslendinga, og svo dýrmætur samningarjettur einstaklinga þjóðfjelagsins, að þeim vildi engi breyta. Þessi athöfn hjelst því óbreytt í öllum hjeruðum landsins mjög lengi, þótt annars mætti segja, að sinn væri siður í hverri sveit, og þegar ýmsir siðir tóku að breytast á landi hjer, hjelst þó þessi siður enn lengi óbreyttur. Brúðkaup voru lengi vel skoðuð, frá sjónarmiði trúar og kirkju, þýð-

ingarmikil athöfn, er sýna bæri alla helgi og lotningu, og þá eigi síður frá borgaralegu sjónarmiði. En svo voru brúðkaupin jafnan þjóðleg og gleðileg athöfn. — Brúðkaupsdagurinn var talinn þýðingarmesti dagurinn í æfi mannsins og um leið sá dagur, er skifti þjóðfjelagið afar miklu. Þið kannist við þann sið, eða öllu heldur þann rjett, sem haldist hefir fram til þessa tíma, að þegar brúðgumi og brúður voru sitt í hvoru prestakalli, þá var það prestur brúðarinnar, sem skyldi gefa þau saman. Þetta voru ævagömul forrjettindi, og sami siður gilti í rauninni frá landnámstíð, því áður landið yrði kristið, var brúðkaupið haldið að heimili brúðarinnar ,en ekki brúðgumans, og faðir hennar eða forráðamaður gekst fyrir öllu og hafði tilkostnað allan. Að vísu eru undantekningar frá þessari reglu sem öðrum, og man jeg nú í svipinn eftir þremur undantekningum; en þær vöktu svo mikla athygli, að þær voru færðar í letur. Þegar Ólafur, fóstursonur Unnar djúpúðgu fær Ásdísar, er brúðkaupið haldið á heimili hans. Og þá er Ólafur Höskuldsson kvongast, var brúðurin færð vestur, og veislan haldin að Höskuldsstöðum; og svo var enn, er Gunnar á Hlíðarenda kvongaðist Hallgerði, þá var brúðkaupið haldið að Hlíðarenda. Það er sannast að segja, að brúðkaupsveislur í fornöld voru bæði fjölmennar og ríkmannlegar og kappsamlega veitt. Fyrst af öllu var hugsað um að afla vínfanga, því að mikið þótti við liggja, að ekki skorti drykk. Þá var og hitt, að bjóða til virðingarmönnum, og það þótt sá væri ættsmár, er kvongaðist. Fátækur vinnudrengur Guðmundar

ríka lagði mjög fast að Guðmundi að heiðra brúðkaup sitt og sækja það að Bægisá; veitti Guðmundur honum þetta, þótt óljúft væri, því húsráðandinn á Bægisá var enginn vinur Guðmundar. En Guðm. fór þó eigi að síður til boðsins, eftir að brúðguminn hafði sagt honum, að gleði sín og sæmd lægi við, að hann kæmi.

Þegar boðsmenn tóku að drífa að garði, þótti vel hlýða, að húsbóndi stæði fyrir dyrum úti ásamt nánustu frændum sínum og heimafólki, búnu sem best mátti verða; skyldi þá alt, er við þurfti, vera til reiðu af hans hendi, veisluskáli altjaldaður, öndvegi búið og langeldar kyntir og ljós tendruð, ef vetur var á. Forráðamaður gekk til brúðguma, mintist við hann og leiddi hann í veislusalinn og skipaði í öndvegi hið næsta sjer. Síðan var mönnum raðað í sæti eftir mannvirðingum. Konur sátu sjer á palli. Þegar allir voru í sæti komnir, reis húsráðandi upp úr sæti sínu, bauð alla velkomna og lýsti griðum; hlýddu allir á með mikilli lotningu og þótti miklu skifta, að honum segðist vel. Því næst var matast. Ekki munu rjettir hafa verið mjög margir, en sjeð var um, að gnótt væri alls þess, er fram var borið. Konur gengu um beina, eins og sjá má af Njálu, er þær Bergþóra og Þórhildur önnuðust alla matargerð í brúðkaupi Gunnars. Þegar máltíð var lokið, var sest að drykkju; var þá fyrst drukkið minni Óðins, og signt af húsráðanda, og þá annara goða í venjulegri röð. Að Bragafulli fóru fram heitstrengingar, og reið þá brúðguminn sjálfur venjulega á vaðið. Þá hófust ýmiskonar skemtanir, og stóðu jafnlengi

boðinu ,en það hjelst oft í marga daga. Þá er ríkismenn höfðu boð inni þessa kyns, voru allir leystir út með gjöfum. Síðan hjelt svo hver heim til sín, en hjónin nýgiftu settust um kyrt „og tókust með þeim ástir góðar“. Á þeim orðum endar oft lýsingin á brúðkaupum fornaldarinnar.

Nú hleyp jeg yfir langt tímabil og skal nú þessu næst lýsa brúðkaupum, eins og þau tíðkuðust á 17. öld.

Gísli lögmaður Hákonarson í Bræðratungu var höfðingi mikill. Kristín dóttir hans var heitin Þorláki Skúlasyni, biskupi á Hólum. Skyldi brúðkaupið halda í Bræðratungu, og var boðsfólkið mörg hundruð manns. Þá er boðsfólkið átti skamt ófarið til staðarins, var numið staðar, og stigu menn af hestum og biðu þeirra, er ókomnir voru. En er allir voru komnir, er líklegt þótti að sækja mundu boðið, var enn stigið á bak, og nú hófst hin svokallaða brúðgumareið, er lengi tíðkaðist um land alt, er heldra fólk giftist. Brúðgumareiðin var með þeim hætti, að tveir og tveir riðu samsíða fet fyrir fet heim á staðinn. (Varð þetta því býsna löng lest, er boðsfólk var margt). Og er þeir fremstu voru komnir heim á staðinn, steig brúðgumi sjálfur á bak hesti sínum, er var ljós á lit, og bar af flestum að stærð. Á hægri hönd brúðguma reið svaramaður hans, Oddur biskup Einarsson, en til vinstri handar Halldór lögmaður Ólafsson í Skriðu; var boðsfólk þá alt af baki komið, og skipaði sjer í tvær raðir og riðu svo þessir þrír menn í gegnum alla mannþyrpinguna, og stigu af hestum við svokallað stóra port. Þar

tók herra Gísli á móti þeim, og var þá kirkjuklukkum hringt hátíðlega. Gísli lögmaður leiddi brúðguma sjer við aðra hlið en Odd biskup við hina til kirkju, en allur hópurinn kom á eftir hátíðlega og hljóðlega. Þar hlýddu menn tíðum, er framdi sóknarprestur brúðguma, en að því búnu var beini framreiddur, og mönnum því næst vísað til sængur, og sváfu næstu nótt. Daginn eftir hófst brúðkaupið fyrir alvöru. Þegar dagsmörk sýndu, að hádegi var komið, var til kirkju gengið, en þó áður hringt tilhlýðilega. Hjónavígslan fór fram á venjulegan hátt, og að henni lokinni var öllu fólki til sætis vísað í afarstórum sal, er allur var tjaldaður dýrindis vefnaði; sátu þar allir fyrirmenn, en þeir, er minni háttar þóttu, í öðrum herbergjum. Lögmaður stýrði öllu sjálfur með aðstoð margra manna, en annars má geta þess, að í öllum meiri háttar veislum á þeim tíma, var einn siðameistari (frammistöðumaður); skyldi hann gæta góðrar reglu, og hafa eftirlit með öllu; voru til þessa starfa valdir prófastar eða rosknir og ráðsettir prestar; en í þessari veislu, sem hjer er lýst, verður helst svo sjeð, að lögmaður hafi sjeð um alt sjálfur. Í þessari veislu var margt öðruvísi en áður var. Með kristnitökunni var hætt að drekka minni goðanna, en í þess stað drukku menn minni Krists, Maríu meyjar, Mikjáls höfuðengils og ýmsra dýrlinga. En þetta breyttist enn við siðaskiftin. Nú var drukkið minni biskupa, lögmanna og annara virðingarmanna. Lögmaður var gleðimaður, og ljet alla skemta sjer sem best líkaði; stóð veislan í marga daga og var kappsamlega veitt.

Síðasta dag veislunnar kom fyrir alvarlegt atvik. Oddur biskup hafði látið færa tjald sitt út fyrir tún, og svaf þar með sveinum sínum; þótti þar rólegra en heima á staðnum. Síðasta dag veislunnar, að morgni, gekk lögmaður að tjaldi biskups með hressingu, og sá, að biskup svaf vært. Lagði hann hægt hönd sína á kinn biskups; en hann vaknaði við, og mælti: „Nú gerðir þú illa að vekja mig, því að mig var að dreyma um brottför mína af þessum heimi.“ Lögmaður svaraði í gamni: „Þið guðfræðingar hugsið um eilífðina jafnt í svefni sem vöku.“ Biskup mælti: „Satt er það að vísu, herra lögmaður, en þegar jeg er allur, skaltu hugsa um ráð þitt. En þess bið jeg þig, að þú standir yfir gröf minni, og ausir einni reku moldar á kistu mína.“ Hjet lögmaður þessu, og hófu þá umræður um annað efni. Biskup reyndist sannspár. Hann lagðist skömmu síðar banalegu sína. Fylgdi lögmaður honum til grafar, moldjós hann, en tók það sama kvöld þá sótt, er leiddi hann til bana litlu síðar. Lögmaður leiddi flesta boðsmenn sína út með gjöfum, og þótti ekki önnur veisla stórmannlegri þá en þessi.

Geta vil jeg um tvo siði, er lengi mjög voru tíðkaðir í öllum brúðkaupum, þótt báðir væru óvinsælir. Annar var sá, að drekka vítabikarinn, hinn að bjóða upp hjónasængina. Vítabikarinn var þannig drukkinn: Maður var til settur að bera fullan vínbikar fyrir hvern einasta karlmann, og telja upp öll víti hans; best þótti, að það væri gert í bundnu máli. Skyldur var hver og einn að taka því vel, sem sagt var, og tæma bikarinn; var mörgum

þetta þó harðla óljúft, því að vítin voru hjá sumum heldur óvinsæl, og þegar bikarinn kom til síðasta mannsins, var hann oft svo fyrirkallaður, að hann gat ekki bætt neinu á sig; þó varð jafnan góð skemtun úr öllu saman. Þá var hinn siðurinn, að bjóða í hjónasængina, ekki vinsæll, síst hjá kvenþjóðinni. Þegar tími þótti til kominn að ganga til svefns fyrsta veislukvöld, fylgdu vinkonur brúðarinnar henni til svefnherbergis, og þegar hún var háttuð, fóru þær burt. Skömmu síðar kom brúðguminn, og með honum hópur nánustu vina hans; varð hann nú að setjast á stól í svefnherberginu, en sá sem fremstur var í förinni, tók að bjóða í rúmið, sem brúðurin var háttuð í. Brúðguminn bauð í móti, og var alt boðið, fast og laust, sem fjemætt var, en hvort sem brúðguminn var ríkur eða ekki, varð hann þó hæstbjóðandi að lokum; var þá klappað og gengið á burt, en hann hjelt sænginni og því sem í var.

Árið 1767 fór hin síðasta brúðkaupsveisla fram í gamla stílnum, hjer á landi, og var hún haldin í Reykholti, þegar Eggert Ólafsson lögmaður kvongaðist. Hann ljet ríða brúðgumareið og drekka vítabikar. Eggert var mikill skartsmaður, en síðasta dag veislunnar klæddist hann íslenskum búningi til þess að alt skyldi fara saman og líkjast sem mest hinum fornu siðum.

Loks vil jeg þá minnast á brúðkaup, eins og þau fóru fram frá því um 1800 og fram á vora daga, sem nú lifum. Flest af því, sem jeg tíni til, gerðist í mínu ungdæmi.

Áður hefi jeg drepið á brúðkaup þau, er höfðingjar hjeldu. Nú vil jeg lýsa brúðkaupum, eins og þau gerðust, er alþýðumenn kvæntust. Eins og allar götur lágu til Rómaborgar, þannig lá og gata þess, er kvongast vildi, fyrst til stúlkunnar að biðja hennar og síðan til prestsins að biðja hann að lýsa. Jeg sje það í helgisiðabókinni, að þeir hafa klipt af lýsingarformúlunni þessi orð: „Á hann að segja til þess í tíma, eða þegja síðan.“ Nú getur enginn framar lýst meinbugum. En það mun verið hafa nálægt 1830, að það bar við, er lýst var í Kirkjuvogskirkju í Höfnum suður, að stúlka sú, er Elínborg hjet, spratt upp úr sæti sínu í kirkjunni, er prestur hafði lokið lýsingu, og kvaðst lýsa meinbugum á þessu hjónabandi, því að N. N., er hann lýsti með, hefði verið lofaður sjer; og máli sínu til sönnunar sýndi hún presti og söfnuði stóran og skrautlegan silkiklút, er hún kvað fyrverandi unnusta hafa gefið sjer í trygðapant. Prestur bað hana sitja og þegja, svo ekki yrði hneyxli í söfnuðinum. Eftir messu kallaði hann hana og þann, sem hann hafði lýst með, fyrir sig. og mátti maðurinn gjalda 10 ríkisdali til þess að sleppa.

Þegar liða tók á lýsingar, en þær tóku þrjár vikur, tók brúðgumi að draga að veislukostinn. Ef hann var ungur og óráðinn, leitaði hann ráða til manna, sem lögðu niður fyrir honum, hve mikið þyrfti af hverri tegund, er þeim hefði verið sagt, hve mörgum ætti að bjóða. Gamlir og reyndir menn í þessum hlutum vissu, hvað hver kálfur eða kind

væri margir málsverðir. Sama máli gegndi um vínföng, kaffi o. s. frv. — Nú var næst að tala við prestinn að nýju og dagsetja.

Þá var að fá búrkonu, og var ein látin duga, ef fáment var, ella voru fleiri hafðar; voru jafnan til þess valdar þær konur, er kunnar voru að hreinlæti og kunnáttu í matargerð. Því næst varð að fá frammistöðumenn, en til þess voru kjörnir reglusamir og dugandi menn. Þeir sáu um að tjalda veislusalinn; var þá að sumarlagi búinn til „skans“ eða tjaldbúð, en að vetri til var klædd innan stór skemma, ef ekki voru næg stofuhús. Frammistöðumenn sáu um að skipa mönnum í sæti, báru mat og vín um borð og buðu gesti velkomna, og sögðu fyrir um siði, og voru því embætti þessi vandasöm. Oft var það nokkrum erfiðleikum bundið að draga að borðbúnað, og varð að fá hann víða að; höfðu því flestir, er áttu borðbúnað, „sitt mark“ á diskum, dúkum, hnífum o. s. frv., því ella hefði orðið erfitt að greina eignir í sundur og senda hverjum sitt að veislulokum. Ekki stóð alveg á sama, hver dagur viku var valinn. Mest traust höfðu menn á laugardegi eða föstudegi, en reyndar mátti nota alla daga vikunnar, nema miðvikudag og mánudag; hjá þeim þótti sjálfsagt að sneiða í lengstu lög, ef alt átti að fara vel í hjúskapnum. Nú var eftir að ríða um hjeruð og bjóða, og tók þá heldur að vandast málið. Menn voru margir veislukærir og viðkvæmir, ef einhver var eftir skilinn, og gat af slíku athugaleysi hlotist óvinátta eða fjandskapur, er þykkjuþungir stórbokkar áttu í hlut. Enn varð þess og að

gæta að bjóða ekki of seint, t. d. daginn áður; var slíkt boð kallað „hundaboð“, og töldu flestir virðingu sinni til muna misboðið, er svo var mála við leitað, og sóttu eigi slík boð. En þótt menn væru veislukærir, vildu þó fáir fara óboðnir, því „boðflennur“ voru síst aufúsugestir, en á hinn bóginn gat maður farið í stað annars, er forföll hafði, og var eigi amast við slíkum gestum, svo hljóðbært yrði þá þegar, en heldur þótti það þó framasemi, og stappa nærri „boðflennu“-förum. Þegar brúðkaupsdagurinn rann upp, var fyrst af öllu gætt til veðurs, því að það var almenn trú, að svo yrði „hagurinn sem dagurinn.“ Væri nú þoka á, varð hjónabandið meinlaust og gagnslaust. Ef óveður var, þá var ósamlyndi víst. Döggfall eða úðaregn var víst merki þess, að margir mundu afkomendur verða. En best þótti heiðríkja og logn; varð þá hjónabandið friðsælt og gleðiríkt. Snemma tóku menn að búa sig til kirkju, og valdi þá hver, það sem hann átti fegurst af klæðum. Þá voru og reiðskjótar eigi valdir af verra tæinu, og oft var farið greitt. Þegar til kirkjunnar kom, var öllum gefið kaffi og með því, og þeim vín, er það vildu; enda dvaldist mönnum oft við kirkjuna. En er flestir höfðu fengið nægju sína, tóku þær konur, er til þess kunnu, að skauta brúðurinni; en þá gekk prestur með brúðguma og svaramenn til kirkju til að gera kaupmálann. Ákvað brúðgumi þá, hve mikið hann gæfi konu sinni í morgungjöf; en morgun- eða bekkjargjafir tíðkuðust lengi (sbr. Laxdælu), og voru sumar stórmannlegar, aðrar lítilsháttar og enn stund-

um engar. Vestur á Skarði á Skarðsströnd gaf maður konu sinni pottkönnu fulla af silfurspesíum og 50 hundraða jörð í bekkjargjöf. Væri morgungjöfin fasteign, var hún óskift eign konunnar, ef hún lifði mann sinn. Vitanlega var ekki að ræða um stórmannlegar morgungjafir, er fátækt fólk gekk í hjónaband. — Það stóðst venjulega á, að lokið var samningsgerð og brúðurin var tilbúin, og þá hófst brúðargangan. Röðuðu sjer nú allir á hlaðinu fyrir framan bæjardyr kirkjustaðarins, og var röðin tvísett, og raðað eftir mannvirðingum. Fyrst gengu sex meyjar og leiddust tvær og tvær. Þá kom brúðurin, og leiddi prestkonan hana; þá brúðguminn, og leiddi hann hreppstjórinn eða að öðrum kosti helsti maður í boðinu. Þá komu yngismenn og yngismeyjar og leiddust tvö og tvö; og þá bændur með konur við hlið sjer; en einstaklingar ráku lestina. Þessa röðun sá jeg aldrei, en hitt er víst, að svaramenn leiddu brúðhjónin á brúðarbekk, og stóðu að baki þeim á meðan vígsla fór fram, og settust síðan í sæti sín að vígslu lokinni. Brúðargangur var með öllu lagður niður fyrir austan, er jeg var um fermingu. Þegar kemur fram um 1800 er tekið að haga öllu til líkt og hjer gerist nú, þó var reyndar nokkur munur í sumum atriðum. Fremstur var brúðgumi og leiddi hann svaramaður hans, annaðhvort faðir hans eða hreppstjóri. Næst kom brúðurin, og leiddi hana svaramaður hennar; þá vildarkonur hennar tvær og tvær, og þá skyldfólk beggja, og þá hver af öðrum. Að gönguhraðinn hafi ekki verið mikill, má marka á því, að Jón Thorodd-

sen segir, að vegurinn frá bæjardyrunum á Hvoli hafi verið þrjátíu faðmar, en svo hægt var gengið, að herlið hefði á sama tíma farið tvær rastir vegar, og get jeg vel trúað þessu, því að furðu-hægt var farið í þeim brúðargangi, sem jeg sá oftar en einu sinni. Hins vegar skal jeg geta þess, að brúðargangurinn var ekki eins framinn alstaðar. Sumstaðar var honum hagað á þessa leið: Meðan fólkið þokaðist á brúðarganginum út í kirkjuna, var klukkum hringt og sungið versið: „Inngang bæði og útgang minn“. Þegar í kirkju kom, tók hver sjer sæti. Bekkur var settur fyrir miðjum kórnum; var hann klæddur ábreiðu glitofinni, og tvær sessur á. Leiddu svaramenn brúðhjónin þangað til sætis, brúðgumann sunnanvert, en brúði norðanvert á bekkinn. En þá hófst hjónavígslan með sálminum: „Heimili vort og húsin með.“ Þá var sungið versið: „Fyrsta brúður“ o. s. frv., og að því loknu flutti presturinn ræðu sína, og var stundum um það kvartað, að prestur ljeti það skiljast í ræðu sinni, ef hann vissi eitthvað misjafnt í fari brúðhjóna, og var því jafnan illa tekið, sem von var, af þeim, er hlut áttu að máli. Vanalega tókst brúðhjónunum vel að svara spurningunum, en þó varð síðasta spurningin stundum vafamál nokkuð sumum. Sálmur var sunginn á eftir. Út úr kirkjunni gengu brúðhjónin fyrst og leiddust, síðan vandamenn þeirra, og þá hver af öðrum; því nú var ekki brúðargangurinn til hindrunar neinum, og var nú lagt á hesta, og haldið til veislustaðar. Hafi menn riðið greitt til kirkju, þá riðu menn nú enn hraðara frá henni, því að nú

vissu allir, að undir vín og vistir var að róa. Tóku frammistöðumenn í móti öllum og skipuðu í sæti, og þótti vera bæði vandasamt verk og þó óvinsælt, því að margir eru líkt skapi farnir og Hallgerður, og vilja ekki vera hornrekur, og tók þetta langan tíma, er boð voru fjölmenn, og gat oft komið summum óþægilega. Til voru þeir menn, er höfðu þann sið að svelta sig, áður þeir færu í veislur. Í ungdæmi mínu var sögð saga af bónda, er þessa venju hafði; en eitt sinn varð honum hált á því. Snemma á jólaföstu var hann boðinn í erfisdrykkju, og hóf hann nú föstuna daginn áður, og át ekkert utan ljettmeti. Um morguninn ljet hann flóa handa sjer grábland, og hjelt svo af stað til kirkjunnar. Færð var ill og líkfylgdin kom ekki fyr en um miðmunda; klakhögg var mikið í garði og ræða löng. Það var því tekið að rökkva, þegar öllu var lokið við kirkjuna, og nú var um langan veg að sækja þangað, sem veislan átti að standa, og þá var enn eftir sætaskipun frammistöðumanna. Þeir hröpuðu að engu, og var því langt af dagsetri, er allir voru sestir. En þá var eftir að syngja borðsálminn. Borðsálmurinn, „Faðir á himnahæð,“ var full 9 vers, og var að þessu sinni sunginn mjög hægt, og seimurinn dreginn óspart. Gamli maðurinn sýndi frábæra stillingu þar til kom fram í áttunda versið, þá brast hann alla þolinmæði og hrópaði svo hátt, að hærra ljet en söngurinn: „Hjerna vantar spón.“ Geta má nærri, hversu lauk söngnum að þessu sinni.

Til þess að gefa ykkur hugmynd um, hvað var á borðum í brúðkaupsveislum, skal jeg geta þess,

að bóndi einn, er setið hafði í meiri háttar veislu, var spurður degi síðar, hvað hefði verið í veislunni. Hann svaraði á þessa leið: Vellingur og sætsúpan, saltfiskurinn, plokkfiskurinn, blautfiskurinn og nýýsan. Forna kjötið, hangna kjötið, gamla kjötið, kalda kjötið, sauðakjötið, saltkjötið, kálfskjötið og steikin. Skipsbrauð og skonrok, þrælabrauð og kex og allir skapaðir hlutir. Allskonar áfengir drykkir, kaffibrauð, brennivín og kringlur o. s. frv.

Athyglisvert er, að í þessa skýrslu, sem þó er allnákvæm, vantar þann rjettinn, sem annars var aldrei látinn vanta í brúðkaupsveislum, nefnilega lummurjettinn; á honum endaði máltíðin. Hálfkyndugt atvik heyrði jeg talað um í æsku í sambandi við þennan rjett. Maður einn, sem var óvanalega veislukær, varð snögglega lasinn um það bil, sem verið var að bera leifarnar af borðum. Frammistöðumenn báðu þrjá eða fjóra unga menn að fylgja honum til baðstofu. Á leiðinni veittu þeir því eftirtekt, að lummubleðlar voru að detta úr vösum hans. Heimtu þeir þá saman á leiðinni, og er þeir höfð hagrætt honum sem best, gerðu þeir af forvitni sinni leit í vösum hans; segir sagan, að þeir hafi samtals fundið yfir tuttugu bleðla með sykri og sírópi. Manninum batnaði, en ekki veit jeg, hvort honum var skilað aftur þessum fjársjóð.

Eftir að menn höfðu matast, og sálmurinn eftir máltíð hafði sunginn verið, var púnsið borið inn. Hjelt þá prestur ræðu; mælti fyrir brúðhjónabollanum, brúðhjónaskálinni. Óhlutvandir menn sögðu, að ræða sumra presta hefði farið eftir þeim von-

um, sem þeir gerðu sjer um „pússunartollinn“, en sumir brúðgumar greiddu hann með örlæti. Maður sá, er Þórður hjet, hafði grun um, að prestur tæki hann svo háan sem föng væru á; lagði hann því á borðið 4 spesíur fyrir brúðgumann og sagði svo hátt, að allir heyrðu: „Þetta gef jeg þjer nú Stefán minn, og vona, að það nægi handa prestinum þínum.“ — Þegar staðið var upp frá borðum, skemtu menn sjer við söng og ýmsa leika; hjelst þessi skemtun að vetrarlagi venjulega til dags, og var þá búist til heimferðar. Mest þótti koma til þeirra brúðkaupa, er haldin voru á vorin. Maður, sem víða hafði farið erlendis og margt sjeð og heyrt, sagði: „Íslensku brúðkaupsveislunum gleymir enginn, sem þær hefir sjeð, og þeirra ánægjusól skín skærast á vorin.“ Jeg hygg, að hver sá, er setið hefir brúðkaupsveislu að vori til, þegar íslensk náttúra tekur höndum saman við íslenska rausn og gleði, telji þá stund eina hina ánægjulegustu stunda æfi sinnar.

Jeg get ekki stilt mig um að minnast ögn á þau brúðkaup, sem nú eru haldin hjer í bæ upp á síðkastið. Samt eiga vitanlega undantekningar sjer stað, sem í mínum augum eru ánægjulegri; en þær eru svo sorglega fáar. — Það er þá fyrst, að fólk fyrirlítur heilaga kirkju; því nú þykir það fínt að láta gefa sig í hjónaband við rúmstokkinn. Sú var þó tíðin, að þessi athöfn var talin meðal hinna merkilegustu, er fram fóru í kirkjum þessa lands. En nú læðist fólk, er rökkva tekur, til einhvers af klerkum höfuðstaðarins, og er svo sagt, að lítið

sje um söng við þessi tækifæri, og enn minna um ljósadýrð, og fái eigi þeir, sem þó er boðið, að vera viðstaddir. Jeg vil ekki vanþakka það, sem mjer hefir verið gott gert í veislum hjer, en aldrei fæ jeg þó gleymt blessaðri kláfskjötssteikinni, sem jeg fjekk svo oft í sveitaboðunum áður fyr, líkt og fór Þorsteini matgogg forðum; og hálf-þunt er blessað súkkulaðið, og miklu veigameiri hinar rammefldu matarveislur liðinna tíma. — Þegar jeg ber nú saman fortíð og nútíð í þessu efni, þá finst mjer, að mjög hafi virðing fyrir brúðkaupum sett ofan frá því sem áður var. Taki þó enginn orð mín svo, að eigi bæði viti jeg og viðurkenni, að brúðkaupin áður fyr hjer á landi höfðu sínar skuggahliðar; en það var reyndar víninu að kenna, því þá fór hófið út um þúfur. En er öllu var vel í hóf stilt, og það var að minsta kosti stundum, fór alt fram með spekt og gleði. Öll erum við sammála um það, að það skifti minstu fyrir framtíð hverra brúðhjóna, hvort veisla er ríkmannleg eða ekki. Hitt, er mestu ræður um framtíð þeirra, er dugur þeirra sjálfra, og hve heppin þau hafa verið í valinu. Vera má, að um sje að kenna bölsýni minni og ókunnugleik, að mjer virðist nú bera meira á „mislukkuðum“ hjónaböndum en áður var. Nú er þess getið býsna oft, að ein eða önnur hjón eigi ekki lund saman. En skyldi þetta ekki koma til af því, að piltar nú á dögum hrapa stundum inn í hjónabandið af meira bráðræði og fyrirhyggjuleysi, en áður var í fornöld. Vel skal vanda, það sem lengi á að standa; og vel þarf því

að ríða þann hnút, sem enginn skal leysa svo að sköpum fari nema dauðinn einn.

Loks vil jeg biðja ykkur að afsaka, að jeg valdi það umræðuefni, er jeg er ykkar allra ófærastur að tala um, og drap jeg á það í innganginum. En mjer datt þetta í hug til þess að eyða með því tímanum, þótt jeg viti vel, að Reglan hefir eigi enn þá tekið þessi mál upp á stefnuskrá sína. En jeg hygg, að við höfum gott af því að leita stundum umræðuefna utan bindindismálanna eða hinna svo kölluðu stúkumála; vil jeg nú lúka máli mínu með þeirri ósk, að þið afsakið þennan ófullkomna samtíning minn.

---

## Lárentíus biskup.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 11. okt. 1915.

---

Tímarnir sem við lifum á, mega með rjettu kallast byltinga- og breytingatímar; þeir eru tímar sundrungar og tvídrægni. Ósamlyndið og sundrungin er sú óheilla-dís, sem Íslendingum hefir fylgt frá fyrstu tímum og fram á þennan dag. Allir þekkjum vjer það innbyrðis ósamlyndi, sem nú um langt skeið hefir skift okkar litlu þjóð í ýmsa flokka um hinar og aðrar stefnur í stjórnmálum, en út í þá sálma skal eigi farið hjer í kvöld. Meira áhyggjuefni eru mjer þær árásir, sem nú eru gerðar á kirkju og kristindóm.

Jeg lít svo á, og það munum við allir gera, sem kristnir viljum heita að meira en nafni til, að við sjeum allir stríðsmenn Jesú Krists og kirkju hans, og við vitum, að Kristur er hennar andlegur konungur og herra, og að drottinn vor og frelsari ætlast til þess af oss, að vjer reynumst allir trúir málefni hans og höldum fram með djörfung sannindum hans heilaga orðs, og hrekjum, hver í sinn stað, orð þeirra, sem á móti honum mæla.

Jeg tel víst, að borist hafi yður til eyrna vel flest-

um raddir þær, sem einmitt nú á þessum efasemda- og vantrúar-tímum eru svo háværar og varpa vilja rýrð á þá líknarstarfsemi og menning, sem kristin trú og kirkja guðs hefir flutt með sjer um liðnar aldaraðir og flytur enn.

Við heyrum því haldið fram nú á þessum vantrúardögum, að kirkjan hafi verið og sje enn í dag andvíg öllu frelsi, allri mentun, allri menning, og skeytingarlaus um andlega og efnalega velferð alls almennings. Sú mynd, er þessir menn bregða upp af áhrifum trúar og kirkju, sýnir, að þeir telja kristna trú og kirkju guðs einskonar andlegan steingjörfing eða lifandi eftirmynd verstu harðstjóra, er uppi hafa verið fyrr og síðar.

Mjer dettur nú ekki í hug að halda því fram, að kirkjan hafi aldrei stigið skakt spor, bæði hjer á landi og annars staðar, en dómurinn er jafn ósanngjarn og ranglátur fyrir það, og ekki síst, þegar hann er kveðinn upp svona undantekningalaust. Jeg vil nú spyrja: Hvernig eigum við að taka þessum dómi? Hvernig ber oss sem kristnum mönnum að líta á þessar myndir, sem boðberar vantrúarinnar bregða upp af starfsemi kirkjunnar fyrr og síðar? Eigum við að þegja við þessum ósanngjörnu árásum, svo sem komi þær oss ekkert við? Jeg segi nei, og aftur nei. Þótt við hlustum á þessa menn og virðum fyrir oss röksemdir þeirra, mega þær ekki, og eiga ekki heldur að veikja trúarvissu vora eða koma oss til að örvænta, heldur hljóta þær þvert á móti að styrkja oss í trúnni, er vjer berum þær saman við guðs opinberaða orð, eins og okkur er það geymt og gefið í

bók bókanna; og við eigum líka eftir megni að kynna okkur sögu kirkjunnar alt í frá dögum postulanna og fram til vorra daga, og mun oss þá skiljast, hve vönd vantrúin er að virðingu sinni, og hve ráðvandlega hún notar sögulegar heimildir.

Það væri nóg umræðuefni hvert einasta fundarkvöld í þessu fjelagi í allan vetur og miklu lengur, ef segja ætti frá öllum þeim mönnum kirkjunnar, sem fært hafa einstaklingum og heilum þjóðum ljós trúar og siðgæðis; sem lutu niður að hinum föllnu og veiku og þerðu tárin og fægðu sárin; og þeir, er þessi miskunnarverk hafa unnið, eru margir, konur jafnt sem karlar, einnig á voru landi, og kraft sinn og fórnfýsi fengu þeir frá Kristi, sem er uppspretta hins eilífa kærleika. Æfisaga þessara manna ætti að vera okkur þarft umhugsunarefni, því okkur hlýtur að vera gleðiefnið mesta að rannsaka og skoða guðs starfandi stjórn og kraft í æfistarfi slíkra manna.

Í kvöld ætla jeg að minnast stuttlega eins þeirra manna, sem framarlega stóð í flokki þeirra, sem barist hafa fyrir kirkju Krists hjer á landi. En fyrst verð jeg að lýsa stuttlega tímunum, sem hann lifði og starfaði á, svo auðveldara verði að sjá, hvort sá dómur sje rjettur um íslensku kirkjuna, að hún hafi undantekningarlaust verið andvíg mentun og menning, ofsótt þá menn, er lítið traust áttu, notað auð sinn til óhófs, og ekkert lagt til líknarstarfsemi. Jeg ætla hjer í kvöld að líta lauslega yfir 70 ára bil í sögu lands vors, og reyna að sýna ykkur, hvaðan kemur sú litla menning, er landsins börn fá þann tíma.

Tímabilið frá 1260—1330 er alt annað en glæsilegt í sögu Íslands. Ofsi, eigingirni og sundrung landsmanna á Sturlungaöldinni, hafði leitt yfir þjóðina hinar mestu hörmungar. Menn bárust á banaspjót; landið flóði í blóði sinna eigin barna, og þá eru framin svo hræðileg hermdarverk í brennum og öðrum hryðjuverkum, að slíks eru eigi dæmi fyrr nje síðar; orð og eiðar eru einkis metin; saklausum konum og varnarlausu fólki er misþyrmt á níðingslegasta hátt, og svona mætti lengi telja.

Þessum hörmungum ljettir nú að vísu af þjóðinni 1262, en þar fyrir kom, eins og við vitum, afsal frelsis og fornra landsrjettinda. Þjóðin var komin undir erlent ok. Hákon konungur hafði dyggilega notað sjer innanlands ófriðinn á Íslandi, og nú, þegar landsmenn höfðu játast undir yfirráð hans, fengu þeir að kenna á umboðsmönnum hans, og þá ekki síðar á eftirkomendum konungs og umboðsmönnum þeirra. Árásirnar á hina fornu löggjöf lands vors hefjast nú hver af annari.

Árið 1265 sendi Magnús Hákonarson Íslendingum nýja lögbók, en þeir þverneituðu að taka við henni, en á árunum 1271—73 var loks „Járnsíða“ lögtekin eftir að henni hafði verið breytt að ýmsu leyti að vilja landsmanna, enda hafði konungur ekki vald til að setja hjer lög, nema samþykki alþingis kæmi til. Þó voru landsmenn mjög óánægðir með þessa lögbók, og var því eftir ósk þeirra tekin saman ný lögbók, og komu þeir út með hana Loðinn Leppur, gæðingur konungs, og Jón Einarsson lögmaður, og var bókin við hann kend og köll-

uð „Jónsbók“, eða „Jóns lagabók“. Ekki gekk nú heldur greitt að fá þá bók samþykta, og nú fengu landsmenn sjálfir að heyra það á alþingi, hvernig konungsvaldið leit á sjálfstæði þeirra.

Loðinn Leppur kvað það furðu djarft, að búkarlar gerðu sig svo digra, að þeir hugðu að skipa lögum í því landi, sem konungur ætti einn að ráða, og kvað nú við annan „tón“, en þegar Hákon konungur og sendlar hans voru að ginna landsmenn til að láta frelsi sitt.

1286 stefndi Eiríkur konungur utan 40 manna úr fjórðungi hverjum og öllum handgengnum Íslendingum til landvarnar í Noregi móti Svíum; kvað konungur þannig að orði, að Noregsmenn þyldu eigi, að Íslendingar hefðu náðir og kyrsetu, en Norðmenn stæðu jafnan í leiðangri. Þó varð ekki af utanför þessari, af því að Svíar hættu við ófriðinn, en þetta sýnir ásamt fleiru, hvernig kjör landsmanna voru, eftir að þeir höfðu glatað sjálfstæði sínu. Þá máttu landsmenn á þessu tímabili sæta þungum búsifjum í fjárkröfum; umboðsmenn konungs voru djarftækir í þeim efnum, þótt Álfur úr Króki, eða Krók-Álfur, væri einna illræmdastur þeirra allra.

1301 sendi Hákon konungur Álf út hingað með fullu valdi, og gerist hann strax á alþingi svo ósvífinn í kröfum sínum, að landsmenn telja framið á sjer sáttmálsbrot; sýndi alþingi þá samtök góð, og varð Álfur að fara af landi burt við svo búið. En hann hugsaði Íslendingum þegjandi þörfina þegar út kæmi til Noregs, enda rægði hann þá og kærði

óspart fyrir konungi, og fjekk því til vegar komið, að konungur skipaði hann með fullu valdi yfir Austur- og Norðurland. Hann kom til Íslands 1305 og hefir víst hugsað sjer til hreyfings að jafna á Íslendingum. Hann byrjaði stjórn sína hjer með ofstopa miklum; kallaði hina bestu menn á landi hjer útlaga, þræla og öðrum illum nöfnum. Þoldu landsmenn illa slíkt atferli og fóru með flokk á hendur honum; misti hann þá kjarkinn og flýði af landi burt við lítinn orðstír.

Ísland hefir oft fengið að kenna á því, að ógæfu þess verður alt að vopni. Ofan á útlenda kúgun bætast innanlands óeirðir; var hjer þá ærið agasamt, þótt ekki ræki til slíkra hörmunga í manndrápum sem áður höfðu verið. Höfðingjar rökuðu saman auði, en alþýða lifði við sult og örbyrgð. Sem dæmi þess, hvernig ástandið var og samheldni landsmanna um þessar mundir, má geta þess, að árið 1300 legst alþingi niður, hættir að koma saman „fyrir þjóstu sakir“, að kallað var, og er eigi háð aftur fyr en um 1320.

Þá var siðferði manna litlu betra nú en á sjálfri Sturlungaöldinni. Höfðingjar sumir hjeldu hjákonur, og tjáði ekki á móti að mæla. Á þessum tímum sátu þeir á biskupsstóli Árni Þorláksson í Skálholti (Staða-Árni, d. 1298), og Jörundur Þorsteinsson á Hólum (d. 1313). Báðir voru þeir skörungar miklir hvor á sinn hátt, en hugsuðu þó meira um sinn hag en að verjast konungsvaldinu. Árni ljet sjer annast um að auka rjett kirkjunnar, og samdi Kristinrjett þann, sem að sumu leyti gildir enn í

dag. Jörundur stofnaði klaustur, og á fyrri biskupsárum sínum hjelt hann skóla og var í flestum greinum hinn stjórnsamasti. En er biskupa þessara misti við, gátu veraldlegir höfðingjar vaðið uppi sem þeim líkaði.

Það er athyglisvert, að á þessu tímabili er veraldlegir höfðingjar gangast sem mest í gegn og vilja gera hver öðrum alt það ilt, er þeir mega, lifa í sukki og svalli og eyða fje í óhófi og láta sig lítt eða alls ekkert skifta hag alþýðu, þá er eins og drottinn sjálfur taki í taumana, því þá kemur fram á vígvöllinn sá maður kirkjunnar, er færir þjóðinni andlegt ljós og líf, og ver lífi og fje til hjálpar fátækum mönnum og hrumum. Þessi maður er Lárentíus Kálfsson, biskup á Hólum í Hjaltadal.

Frá því er jeg las fyrst um æfistarf hans, hefi jeg álitið hann skærasta ljósið á himni íslensku kirkjunnar á umræddu tímabili, og þetta ljós lýsir, þótt mannsins sjálfs missi við; það lýsir í bókum þeim, er hann ritaði; það lifir í hugum hinna mörgu lærisveina, er hann fræddi og mentaði, og það lifir í þakklátum hugum þeirra, er hann hjálpaði og líknaði, og enn í dag ber æfistarf hans birtu inn í huga hvers einasta manns, er kynnir sjer störf Lárentíusar með nákvæmni og samviskusemi. Í K. F. U. M. verður ekki frá öðru fegurra sagt en æfi þess manns, sem þegar á barnsaldri helgar líf sitt guði og frelsara sínum, og fylgir æ síðan í öllu æfistarfi sínu orði drottins alt til sinnar síðustu stundar. Skal jeg nú drepa á nokkur helstu æfiatriði hans.

Kálfur hjet maður, og var systurson Þórarins prests á Völlum í Svarfaðardal. Hann var kvæntur Þorgrímu Einarsdóttur, er komin var af Illuga þeim, er gaf Hóla í Hjaltadal guði til dýrðar. Þau hjón bjuggu að Efra-Ási í Hjaltadal, og voru fátæk mjög. Má af sögunni ráða, að Þórarinn prestur, sem var ríkur og hinn mesti ágætismaður, hafi hjálpað þeim mikið og verið þeirra stoð í flestu.

Frá því er sagt, að árið 1267 færi Þorgríma kynnisför til Valla; var hún þá þunguð. Dreymdi hana þá, að hún væri komin til Hóla í Hjaltadal einhvern hátíðisdag, „er mikil sókn var til staðarins.“ Mannfjöldi var þar svo mikill, að hún þóttist varla mega komast í kirkjudyrnar. Þótti henni þá maður, bjartur ásýndum, koma úr kirkjunni, taka í hönd henni og leiða hana inn eftir gólfinu, en allir rýmdu til hliðar. Hún staðnæmdist fyrir innan háaltarið, og þótti henni þá fylgdarmaður sinn fá sjer hnýti nokkuð hart, vafið innan í líndúk, og mæla: „Þetta skaltu eiga, Þorgríma, og geyma vandliga.“ Hún þóttist sýna hnýtið Þórarni presti, er henni þótti þar staddur, og leysti klútinn, og var þar í stórt biskupsinnsigli og grafið á biskups-líknesi, og þóttist hún geyma síðan og þótti vænt um. Nokkrum dögum síðar tók Þorgríma sótt — að líkindum þar á Völlum — og fæddi, eftir miklar þrautir, sveinbarn mikið og fagurt. Þetta var á Lárentíussmessu. Sveinninn var fyrst með litlu lífsmarki og hugðu flestir, að hann mundi bráðlega deyja. Þórarinn prestur bað mjög innilega fyrir lífi sveinsins, og gerði það heit, ef hann lifði, að þá skyldi hann

Lárentíus heita, eftir hinum heilaga Lárentíusi, og halda helgan hans messudag alla æfi með föstum og bænahaldi.

Sveinninn lifðnaði við, og var skírður Lárentíus; tók prestur hann til uppfósturs og reyndist honum sem sínu eigin barni. Sveinninn var mjög bráðþroska og þótti snemma sýna mikið næmi og andlegan þroska. Þórarinn prestur var trúmaður mikill og bænrækinn mjög; vandi hann sveininn snemma á að bera virðingu fyrir guðs orði, og ljet hann jafnan vera hjá sjer, þegar hann baðst fyrir. Þannig var í æsku Lárentíusar lagður grundvöllurinn að bænrækni hans, er hann iðkaði svo mjög síðar og hafði af andlegan stuðning og blessun.

Til er smásaga ein, er gerðist þar á staðnum, þegar Lárentíus hefir að líkindum verið 8—10 ára gamall. Saga þessi varð svo hjeraðsfleyg, að samtíðar-sagnaritarar færðu hana í letur og telja sanna.

Þórarinn fóstri hans var lærdómsmaður mikill og klerkur góður. Söfnuðust til hans ungir menn á haustum, og kendi hann þeim vel. Það bar til eitt haust um kvöld, að námspiltar þeir, sem hjá presti voru, er margir voru ærslafullir, komust í kirkjuna og gerðu þar leik með hávaða miklum. Lárentíus kastaði þá einhverju, og kom það á líkneski Maríu meyjar, er stóð í kirkjunni, og braut laufin af ríkisvendinum, er hún hjelt á. Sem nærri má geta, urðu drengirnir mjög óttaslegnir, er þeir sáu, hvernig komið var; þó höfðu þeir ekki hugmynd um, að harðast mundi á því tekið, að þeir hefðu haft kirkjuna sjálfa að leikhúsi. Nú bættist það

við, að prestur kom sjálfur í kirkjuna og sá, hvernig komið var; urðu sveinarnir nú að segja honum sannleikann: að Lárentíus væri hinn seki. Prestur mátti ekki mæla um stund, svo tók hann sjer þetta nærri. En um síðir kvað hann upp í þeirra áheyrn þann dóm, að Lárentíusi skyldi refsað á næsta degi, og skyldi hann sæta húðstrýking þeirri, er hann mætti mesta þola, svo að honum yrði líft; kveðst prestur verða að refsa honum svo harðlega til friðþægingar fyrir svo stóra synd, og hinum öllum leikbræðrum hans til viðvörunar. Kvað hann sjer falla þetta þungt, en rjettlætið yrði að hafa sinn framgang. Um dóm hinna er ekki getið. Þegar Lárentíus heyrði þennan dóm fóstra síns, ljet hann sjer ekki bregða, en gekk rólegur upp að altarinu, kraup þar niður og gerði bæn sína upphátt með svo miklum innileik, að allir hlýddu til hugfangnir. Bað hann drottinn þess fyrst af öllu að fyrirgefa sjer þetta brot sitt og gefa sjer hugprýði og þrek til að þola þá hegningu, er hann verðskuldaði fyrir þessa og allar aðrar æskusyndir sínar; en umfram alt bað hann þess, að guð vildi svo mýkja hjarta fóstra síns, að hann fyrirgæfi sjer, því hans vanþóknun gæti hann ekki borið. Síðast bað hann þess, að þetta brot sitt mætti verða öllum til viðvörunar og blessunar. Að lokinni bænagerðinni gekk hann glaður og hress til fóstra síns, en fóstri hans faðmaði hann að sjer, og kvaðst enga hegning eiga til að leggja á hann, því nú væri hann þess fullviss, að drottinn ætlaði hann til stórra hluta fyrir ríki sitt og kirkju hjer á landi, hefði hann

einkis manns bæn heyrt slíka sem hans, hvorki fyr nje síðar.

Lárentíus ávann sjer hylli og virðingu allra jafnaldra sinna og allra, sem honum kyntust á þessum árum, fyrir ástúð sína, bænrækni og góða hegðan; fóstri hans unni honum sem syni sínum, og mátti ekki af honum sjá.

Þegar Lárentíus var 16 ára, bar honum að höndum það mótlæti, að fóstri hans og velgerðamaður andaðist og faðir hans skömmu síðar, og var mælt, að hann dæi af harmi eftir Þórarinn prest.

Lárentíus stóð nú uppi einmana og fjelaus, því móðir hans var svo fátæk, að hjá henni gat hann ekki leitað styrks til frekara náms. En hann treysti á handleiðslu drottins, og hún brást honum ekki. Jörundur biskup, sem frjett hafði um hæfileika þessa unga manns, tók hann heim að Hólum, og setti hann þar í skóla haustið 1283. Námið í skólanum stundaði Lárentíus af svo miklu kappi, að sagan segir, að virðing formanna hafi aukist á honum skjótlega, en piltar þeir, sem miður stunduðu lærdóm sinn, öfunduðu hann og höfðu lestur hans og bænrækni að háði og spotti. — Það var jafnan viðkvæðið, er þeir mættu honum, að þarna færi biskupsefnið, og annað þessu líkt honum til skapraunar; en aldrei ljet hann sem hann heyrði slíkt. Hins vegar var hann jafnan reiðubúinn að hjálpa þeim og leiðbeina, er það vildu þiggja.

Svo kom um síðir, að hann vann með kærleika sínum ást og virðingu allra skólabræðra sinna, og sætti ekki framar aðköstum af þeirra hendi. Á skóla-

árum sínum lagði hann sig mjög eftir að yrkja andleg ljóð á latínu; varð honum það svo tamt, að hann varð svo hraðkveður á latínu sem talaði hann móðurmál sitt. Allar hinar lægri vígslur tók hann ungur og fulla prestvígslu 1289, er hann var 22 ára gamall. Það ár veitti biskup honum skólameistaraembættið, og er það líklega einsdæmi, að jafn ungum manni væri trúað fyrir svo vandasömu starfi. En vitnisburður sögunnar sannar, að þótt Lárentíus væri ungur, þá rækti hann þetta embætti með samviskusemi og rjettlátri stjórn, gerði öllum jafnt undir höfði, hver sem í hlut átti, og hvort heldur foreldrar þeirra og vandamenn voru ríkir eða fátækir. Hann vandaði um alla ljettúð og óreglu við pilta án þess að fara í manngreinarálit, og tók einungis tillit til hæfileika, mannkosta og reglusemi; lærðu piltar því að elska hann og virða sem kennara sinn.

Skólameistaraembættinu gegndi Lárentíus fram til 1293; þá veitti biskup honum Háls í Fnjóskadal. Hjelt hann þann stað í eitt ár, en af því hann undi þar ekki, fjekk hann Hafliða prest Steinsson til þess að vera ráðsmaður fyrir sig, og mun hans hjer síðar nánar getið verða.

Árið 1294 veitti biskup Lárentíusi orlofsbrjef til utanfarar, er honum skyldi verða vegur til meiri frama, og gaf honum meðmælingarbrjef til erkibiskups, er þá sat í Niðárósi. Sá hjet Jörundur, lærður maður vel og skörungur mikill. Ferðin til Noregs gekk Lárentíusi vel; hjelt hann fyrst á konungs fund, og tók konungur við honum vel.

Dvaldist Lárentíus með konungi um veturinn, og veittust honum þar sæmdir miklar af konungi sakir lærdóms og hæfileika, og vildi konungur, að hann staðfestist hjá sjer, en Lárentíus vildi fyrir hvern mun hitta erkibiskup, og hjelt til Niðáróss um vorið eftir.

Erkibiskup tók honum tveim höndum og setti hann fjárráðamann Kristskirkju, eða nokkurs konar ráðsmann yfir fje hins helga Ólafs. Hjelt Lárentíus því embætti um allmörg ár. Enn fremur veitti erkibiskup honum Maríukirkju. Sagt var, að Lárentíus fengi, þá er hann var í Noregi, ást mikla á stúlku þeirri, er Þuríður hjet, en eigi var um að tala að kvongast, er hann var þjónn kirkjunnar, en son áttu þau saman, er Árni hjet. Hann ólst fyrst upp í Noregi hjá móður sinni, en er hann eldist, fór hann út til Íslands, en móðir hans bjó í Noregi, og þótti jafnan merkiskona. Um Árna mun jeg geta nánar síðar. —

Nokkru áður en Lárentíus kom til Noregs, hafði óvild kviknað milli erkibiskups og kórsbræðra. Erkibiskup var stjórnsamur mjög og trúrækinn, en hins vegar voru kórsbræður sumir ekki sem trúastir lögmáli kirkjunnar í öllum greinum. Þeir eru tilnefndir, er stóðu öðrum framar í mótþróa við erkibiskup: Eilífur Korti, sá er erkibiskup varð eftir Jörund, og Auðunn rauði, er síðar varð biskup á Hólum. Sighvatur landi hjet hinn þriðji. Þessir þrír menn höfðu svo mikil völd, að þeir treystust á móti að mæla boðum erkibiskups. Hátíðisdag nokkurn sendi erkibiskup Lárentíus og ljet hann

lesa upp í kór, í miðri messu, forboðsbrjef sitt yfir þessum þrem mönnum, fyrir margar og stórar saksakir. — Hótaði biskup að heilög messa skyldi niður falla, nema þeir færu samstundis úr kirkjunni. Lárentíus las brjefið hátt og snjalt, og er lokið var lestrinum, mælti Sighvatur landi, að ekki þyrfti hann, að hrópa svo hátt, Íslendingurinn, því vel mættu þeir heyra orð hans. Gengu þeir þá allir úr kirkju.

Gerðist nú fullur fjandskapur með kórsbræðrum og erkibiskupi. Lárentíus leit svo á, að erkibiskup hjeldi fram guðs- og kirkjunnar málefni, og studdi því mál hans af öllum mætti. Loks sáu þeir kórsbræður þann sinn kost vænstan að auðmýkja sig á yfirborðinu fyrir erkibiskupi, og var þannig sætt gerð á milli þeirra. Hins vegar hugsuðu þeir Lárentíusi og öðrum þeim, er í deilunum höfðu staðið með erkibiskupi, þegjandi þörfina þegar tækifæri gæfist.

Frjettir höfðu borist til Noregs af Íslandi sumarið 1306 þess efnis, að ástand kirkjunnar á Íslandi væri ekki sem best; mundi Jörundur biskup á Hólum vera lítt til þess fær fyrir elli sakir að hafa eftirlit með lærdómi og lifnaði presta sinna; og ekki mundi betur ástatt í suður-stiftinu, því að Árni biskup Þorláksson, sem þá var andaður, hefði sökum deilu sinnar við leikmenn ekki getað gefið sig við uppfræðslu klerka eða alþýðu hin síðari árin. Erkibiskup tók það ráð að halda ráðstefnu um haustið með hinum helstu mönnum kirkjunnar, og var þar samþykt að senda mann til Íslands á næsta

vori. Hann átti að reyna kunnáttu presta og hafa fult umboð til að svifta þá embætti, sem ekki væru starfi sínu vaxnir, annað hvort sakir vankunnáttu eða sakir hneykslanlegs lífernis; enn fremur skyldi hann prjedika guðsorð fyrir almenningi og koma fræðslu í gott horf. Til þessa starfs valdi erkibiskup Lárentíus, en hann æskti þess að fá annan með sjer, er líka hefði fult vald og næga mentun til þess að uppfræða og kenna guðs orð, þeim er þess þyrftu við; vildi hann, að ættjörð sín mætti hafa sem mest og fullkomnust not af för þessari. Lárentíus kaus sjer munk þann, er Björn hjet, af prjedikara lifnaði. Það má telja mjög hörmulegt, hve óheppinn hann var í valinu, því Björn þessi var hinn versti maður Lárentíusi til handa, eins og síðar reyndist; en það var bæði, að Lárentíus gekst fyrir hæfileikum hans, og hins vegar gat hann ekki ætlað það öðrum, sem hann ekki þekti sjálfur. Erkibiskup, sem kunnugur var manni þessum, rjeði Lárentíusi frá að velja hann, en hins vegar studdu kórsbræður það fast, að „bróðir“ Björn færi og hefði völd jöfn Lárentíusi, og segir sagan, að þeir hafi gert það af grályndi við Lárentíus og til að hefna sín á honum, og það var af ráðið, að Björn skyldi fara með Lárentíusi.

Erkibiskup veitti nú Lárentíusi fult vald til þess að skipa svo öllum málum kirkjunnar, sem kristni guðs hentaði best. Skyldu biskupar og prestar sýna þeim Birni fulla hlýðni, og biskupum bauð hann að láta þeim alt í tje, er þeir þyrftu með á Íslandi. — Skildust þeir Lárentíus og erkibiskup með hinum

mestu kærleikum, og hjelt hann nú með „bróður“ Birni út til Íslands, vorið 1307.

Þegar Lárentíus skildi við Noreg að þessu sinni, stóð vegur hans sem hæst. Hann hafði vináttu þess manns, er mest völd hafði í kirkjunnar málum um öll Norðurlönd, og nú átti hann eftir hans boði að starfa það, sem honum var kærast, og vinna fyrir guðsríki á ættjörð sinni, og víst hefir hann ekki dreymt um þá daga, sem nú voru framundan, eða að þessi ferð yrði upphaf allra þeirra hrakninga, niðurlægingar og hörmunga, er hann átti síðar að mæta. Hann átti nú að reyna það, að þeir sitja ekki altaf fastast í sessi valda og virðingar, er boða sannleikann og fylgja fram rjettu máli án manngreinarálits. Og víst er um það, að Lárentíus vann ekki íslensku kirkjunni það gagn þá, sem nauðsynlegt var, og hann gerði síðar, en eigi stæði nú þó sá ljómi af nafni hans í kirkjusögu Íslands, sem raun er á orðin, ef hann hefði ekki farið þessa för, því hann trúði því staðfastlega, að þeim, sem reiða sig á drottinn, muni alt snúast til blessunar og sigurs fyr eða síðar; og að þeirri trú sinni varð honum.

Þegar þeir Lárentíus komu til Íslands, hjeldu þeir tafarlaust til Skálholts, og tók Árni Helgason, sem þá var orðinn biskup, vel við þeim. Byrjuðu þeir nú yfirreið sína um Suður- og Norðurland, og voru kallaðir „visitatores“ (sem mun vera sama og skoðunarmenn). Ástandið reyndist miklu verra um fáfræði presta, en Lárentíus hafði nokkru sinni grunað. Rjett til dæmis skal jeg geta þess, að þeir urðu að setja Eilíf prest í Gufudal af embætti vegna

þess að hann kunni ekki svo mikið í latínu, að hann gæti haft yfir messusönginn hneykslislaust. Marga presta urðu þeir að áminna fyrir ósæmilegt framferði. Brátt fann Lárentíus, að starf hans var misskilið og illa þegið, og ekki hafði hann lengi verið við þetta starf, þegar hann sannfærðist um það, að „bróðir“ Björn sat um að gera honum skapraun og skráveifur, hvenær sem færi bauðst. Þó leið svo sumarið, að hann hafði sig nokkurn veginn hægan, eða að minsta kosti sýndi Lárentíusi ekki opinberan fjandskap.

Um haustið hjeldu þeir norður og ætluðu að sitja á Hólum um veturinn og byrja svo yfirreið sína með vorinu. Líklegt er, að Lárentíus hafi huggað sig við, að starfsemi hans mundi betur metin á Norðurlandi; þar var hann uppalinn og kunnur; þar átti hann góða vini, og enginn þekti betur hæfileika hans en Jörundur biskup. En þetta reyndist alt á annan veg. Biskup tók „bróður“ Birni vel, en Lárentíusi fálega, segir sagan. Þetta verður skiljanlegt, þegar þess er gætt, að Jörundur biskup var maður skapstór og drambsamur. Meðan hann var í blóma lífsins, hafði hann sýnt stjórnsemi mikla, en eftir að hann tók að eldast, fór margt óskipulega fram í biskupsdæmi hans. Hins vegar þekti hann svo vel samviskusemi Lárentíusar og drottinhollustu, að hann vissi, að hann mundi hvergi sannleikanum halla í skýrslum sínum til erkibiskups, og ef þær skyldu reynast ófagrar, þá vissi Jörundur, hvað af því mundi leiða fyrir sjálfan hann; svo vel kunni hann vandlæti erkibiskups.

Þess er getið um Jörund biskup, að hann hafi manna best kunnað að dylja skap sitt, en það áttu vandamenn hans og vinir erfiðara með. Sætti Lárentíus miklu skopi af þeim, þegar er hann kom til Hóla. Þeir brugðu honum um fátækt hans áður fyrri; kváðu þeir Jörund biskup hafa tekið hann að sjer, fátækan og umkomulausan pilt, mentað hann og hafið til vegs og virðingar. Nú launaði hann velgerðirnar ekki betur en svo, að hann kæmi með valdi erkibiskups til að svifta hann embætti og tign; nú vildi hann skipa öllu í stiftinu eftir sínum geðþótta, og gera gömlum velgerðamanni sínum skapraun og smán í ellinni.

Þessar ranglátu ásakanir tók Lárentíus sjer mjög nærri, því hann var sjer þess meðvitandi, að hann vildi vinna það eitt, sem verða mætti kirkjunni og biskupi til góðs. En þar kom um síðir, að hann hjelst ekki lengur við á Hólum, og fór þá norður til Möðruvalla og sat hjá Þórði Hallssyni, og var nú hugsjúkur um komandi tíma, en hresti jafnan hug sinn með bænum til guðs.

„Bróðir“ Björn sat á Hólum og þótti nú tími til kominn að reka erindi kórsbræðra og hefna sín og þeirra á Lárentíusi. Bar hann mikinn róg í eyru biskups og vina hans, og kvað ferð Lárentíusar vera mundu gerða af því, að hann hefði gert of mikið úr því, er aflaga færi um embættisfærslu biskups og kirkjustjórn hans. Laug hann upp ýmsum sögum um Lárentíus, er hann var í Noregi, og var þeim vel tekið af frændum og vinum biskups. Enn fremur gerði „bróðir“ Björn það til að þóknast Jör-

undi biskupi, að hann kvað alla rannsókn óþarfa í biskupsdæmi hans. Kvaðst hann mundu fara til Noregs með fyrstu skipum, er þangað gengu, og gefa erkibiskupi skýrslu um, að alt væri í besta lagi, hvort sem Lárentíusi líkaði betur eða ver; og það efndi hann. Gaf biskup honum góðar gjafir, og skildust þeir með mestu blíðu.

Þegar „bróðir“ Björn kom til Niðaróss, bar hann Lárentíusi ekki betur söguna, en hann hafði áður gert á Íslandi; kvað hann Lárentíus hafa birt þar mörg brjef, er hlytu að vera fölsuð, og mundi hann hafa náð innsigli erkibiskups og notað það sjer í hag. Kórsbræður, sem þá höfðu þungan hug til Lárentíusar, tóku fregnum þessum fegins hugar, og dæmdu hann beran að fjandskap við erkibiskup, og ákváðu honum þungar refsingar, hvenær sem færi gæfist. Líklega hefir „bróðir“ Björn sjeð það um seinan, að hann hafði gengið of langt í rógi sínum um Lárentíus, því annað hvort hefir hann farið af landi burt eftir þetta, eða dregið sig í hlje, því hvergi verður hans vart síðar, þegar mál þessi koma fyrir.

En það er frá Lárentíusi að segja, að vinir hans rjeðu honum frá að hefja yfirreiðina, og töldu honum hollast að hraða sjer af landi burt og finna erkibiskup og kórsbræður samtímis Birni. Hann kvað samvisku sína banna sjer að hætta við hálfunnið verk, sem erkibiskup hefði falið sjer á hendur. Reið hann til Hóla og bað Jörund biskup að bjóða upp gistingu fyrir sjer á yfirreið sinni, eins og erindisbrjef erkibiskups mælti fyrir og Árni Helgason hafði gert. Biskup kvað það ekki skyldu

sína, þar sem sá væri af landi farinn, sem honum hefði verið jafn að völdum. Skildu þeir svo að sinni.

Lárentíus hóf nú yfirreið sína um Norðurland, en mætti víðast hinni megnustu mótspyrnu og sumstaðar hrakningum. Fór hann þá enn á ný til Hóla og las þar upp í kór, áheyrandi biskupi, brjef eða skýrslu, þar sem sannaðar voru margar stórsakir á frændur biskups og vandamenn; kvaðst hann mundu leggja brjef þetta fram fyrir erkibiskup og kirkjustjórnina í Noregi. Biskup vildi þá, að þeir sættust með þeim skilmálum, að Lárentíus ónýtti brjef þetta og gæfi þeim í þess stað góðar skýrslur um lærdóm og framferði presta í Hólabiskupsdæmi. Það kvaðst Lárentíus ekki geta guðs og samvisku sinnar vegna; en biskup spratt upp við þetta reiður, og náði Lárentíus ekki tali af honum að því sinni framar en komið var.

Tvent var það, sem Lárentíusi fjell þyngst: hið fyrra að verða að hætta við verk það, sem hann var sannfærður um, að gæti orðið til mikillar blessunar fyrir þjóð hans og kirkju, ef í framkvæmd hefði komist. Hitt var það að hafa sætt reiði Jörundar biskups fyrir róg vondra manna og misskilning biskups sjálfs. Samt treysti hann því, að gæti hann náð fundi erkibiskups, mundi guð greiða úr þessu og alt að lokum snúast til góðs, og tók hann því það ráð að halda til Noregs haustið 1308. Þegar hann kom til Noregs, biðu hans þar hinar mestu þrengingar og raunir. Erkibiskup hafði það sumar tekið vanheilsu mikla og lagst í kör, en kórsbræður tóku öll völd af honum, ráku burt alla vini hans og vandamenn, en fengu

honum að eins einn steikara-smásvein til þjónustu, og höfðu þeir nú öll yfirráð kirkjunnar. Líklega hafa þeir búist við, að Lárentíus mundi koma þetta haust á fund erkibiskups, og ljetu því sveina sína vera á njósnum alstaðar. Lárentíus var ekki fyr á land kominn, en hann var gripinn höndum og þegar hann vildi verjast, var hann sleginn og barinn svo miskunarlaust, að honum hjelt við öngviti. Þannig til reika var honum varpað í hina svívirðilegustu myrkvastofu. Raknaði hann þó von bráðar við, en svo var myrkt, að ekki sá handa sinna skil; sat hann svona á sig kominn í myrkvastofunni nær sveltur í tvær nætur, en á þriðja degi var hann fluttur í járnum á fund kórsbræðra sem fangi til yfirheyrslu. Voru þá sakir bornar á hann, og þessar hinar helstu: Fyrst, að hann hefði svælt og sölsað undir sig mikið fje, þegar hann var ráðsmaður Krists-kirkju í Niðarósi; að hann hefði falsað brjef, þegar hann var á Íslandi; að hann hefði lesið forboðsbrjef erkibiskups yfir kórsbræðrum og sýnt þeim marga aðra óvingan. Merkilegast er, að hvergi er getið um „bróður“ Björn við þetta próf, og hvergi síðar í sögu Lárentíusar, og hefir hann, eins og jeg hefi áður minst á, líklega verið farinn af landi burt eða dauður. Lárentíus bar af sjer allar þessar ákærur, og hjelt fram sakleysi sínu; skaut hann öllum ákærunum undir dóm erkibiskups, en því vildu kórsbræður ekki sinna, enda kváðu þeir það þýðingarlaust, er erkibiskup væri honum svo reiður, að hann vildi hvorki heyra hann nje sjá, og fjell Lárentíusi sú fregn þyngst. Var nú fje hans alt dæmt undir Niðárósskirkju, nema

bókasafn hans, er bjargaði íslenskur prestur, sem þá var í Niðárósi, með því að hann taldi það sína eign, en skilaði Lárentíusi því síðar, er hann var laus orðinn. Fyrir góðra manna tillögur sætti hann þó betri meðferð, er þessari málamyndar rannsókn var lokið, og fjekk herbergi, er á var gluggi, svo að hann mætti lesa tíðir sínar. Mest af öllu þráði Lárentíus að mega sjá erkibiskup, áður en hann dæi, og ætlaði sá, er gætti hans, að koma honum á fund erkibiskups, og var komið með Lárentíus í herbergi það, er næst var herbergi erkibiskups, en sökum þess, að Lárentíus hafði járn á fótum, varð þeim förin ógreið. Kom þá að þeim sveinn kórsbræðra og náðu þeir Lárentíusi og drógu hann þaðan burt í fangelsi og misþyrmdu honum mjög. Erkibiskup heyrði hark þetta og var honum sagt, hvað um væri að vera; tók hann sjer það mjög nærri, er hann gat ekkert lið veitt Lárentíusi, og kvaðst fullviss um sakleysi hans, og bað flytja honum þau orð sín, að hann treysti því, að drottinn mundi hjálpa honum og frelsa hann. Þetta gladdi mjög Lárentíus og hughreysti hann í hörmungum þessum. Lárentíus var all-mjög þjáður í fangelsinu; fætur hans bólgnuðu undan járnunum og bjúgur kom í líkama hans af vondri fæðu; samt misti hann aldrei traust sitt á guði, og tók nú smám saman að hressast, er á veturinn leið. ,

Kórsbræður höfðu sett honum tvo kosti: annað hvort að játa á sig allar sakir og standa þær skriftir í Noregi, er honum yrðu settar, eða fara út til Íslands sem fangi undir vald Jörundar biskups.

Lárentíus tók síðari kostinn, og var fluttur í járnum út á skip, er það var ferðbúið til Íslands. Kaupmenn brutu af honum fjötrana, þegar er skipið lagði frá landi og fóru vel með hann á leiðinni. Skipið kom út á Akureyri, og þaðan var Lárentíus fluttur til Hóla, og brjef þau, er skrifuð voru með honum. Þegar Jörundur biskup hafði heyrt hrakninga hans, mildaðist skap hans; ljet hann Lárentíus setjast hið næsta sjer og bauð honum að hvíla sig þar þrjár nætur, og það gerði hann. Skyldi hann svo koma á fund biskups og þeir talast við.

Að þeim tíma liðnum heimti biskup hann á sinn fund, og kvaðst vilja leyfa honum að ferðast frjálsum um land alt, þar eð hann mætti sýna mikla nytsemd „í læringu og kenslu“. Lárentíus bað biskup að veita sjer fulla uppreist og messuembætti það, er kórsbræður höfðu af honum dæmt, en nærri því var ekki komandi, og stökk biskup upp og gekk út úr herberginu.

Lárentíus bað nú heitt til drottins, að hann liti á málefni sín og hjet því að helga honum og kirkjunni æfistarf sitt. Nóttina eftir dreymdi hann, að hann stæði uppi yfir lestrarkór í Hólakirkju, og hjeldi þar á oblátu svo hátt uppi sem þá er prestur heldur uppi í messu. Morguninn eftir sagði hann drauminn gömlum presti, sem þar var gestkomandi. Presturinn rjeði drauminn þannig, að eins og hann hefði áður numið þar og síðan verið settur yfir skólann, svo mundi hann og enda æfi sína sem yfirmaður kirkjunnar og stólsins.

Frá Hólum fór Lárentíus til Breiðabólstaðar í

Vestur-Hópi, og tók Hafliði prestur við honum tveim höndum, og ráðlagði honum að fara suður í Þykkvabæjarklaustur, og mundi Þorlákur ábóti hafa hans þörf; og reyndist það svo. Ábóti tók honum vel, og söfnuðust þangað nemendur, bæði „bræður“ þeir, er þar voru, og fleiri ungir menn. Þar var skóli settur um haustið 1309, og hóf þá Lárentíus það starf, sem varð svo blessunarríkt, því frá þessum skóla dreifðust menn út um alt Skálholts-stifti og fluttu með sjer mentun og fróðleik í hjeruð þau, er þeir staðnæmdust í.

Sumarið 1311 kom brjef frá kórsbræðrum, að þeim mislíkaði mjög, er Lárentíus var vel haldinn, þar eð hann stæði í óbættum sökum við kirkjuna. Fór hann þá að Stóradal og var þar um veturinn og undi illa hag sínum. Þorlákur ábóti þorði ekki að halda hann lengur, og varð hann þá enn á ný vegalaus; en Lárentíus ljet ekki hugfallast, heldur treysti hann drottni enn sem fyr, að hann mundi greiða veg sinn, og eigi brást honum þetta.

Vorið eftir fjekk hann brjef frá Þórði ábóta á Munkaþverá; hann bauð Lárentíusi til sín til þess að kenna. Þórður hafði fengið leyfi Jörundar til þessa, því biskup vildi heldur, að norðurstiftið nyti lærdóms Lárentíusar en suðurstiftið.

Jörundur biskup andaðist 1313, og var þá Auðunn rauði, kórsbróðir, kosinn biskup í hans stað. Auðunn kom til Hóla næsta vor og tók við biskupsembætti. Þó að óvinátta væri áður mikil milli hans og Lárentíusar, jafnaðist þetta brátt, því biskup mat mikils lærdóm hans og hæfileika. — Hann vígði Lár-

entíus undir reglu hins heilaga Benedikts, og setti hann kennara í Þingeyraklaustri. Brátt söfnuðust þangað margir ungir menn til náms; má og nokkuð marka álit það, er Lárentíus naut, á því að einn af lærisveinum hans var dótturson biskups, og mentaði Lárentíus hann svo vel, að hann varð síðar frægur fyrir lærdóm sinn í Noregi, og hjelt lengi Maríukirkju, er afi hans hafði áður haft.

Aldrei hefir að líkindum á þeim tíma og þótt lengra væri leitað, verið slíkt mannval samankomið í Þingeyraklaustri til náms sem þann tíma, er Lárentíus kendi þar. Jeg skal að eins nefna fáa af lærisveinum þeim, sem hann kendi. Fyrstan má telja Einar prest Hafliðason, sem varð frægur sagnaritari síns tíma, og fremstur allra presta á Norðurlandi um eitt skeið fyrir lærdóm sinn og mannkosti. Annar var Egill Eyjólfsson á Grenjaðarstað, sem biskup varð eftir Lárentíus. Þá var og Bergur ábóti Sokkason á Munkaþverá, Ólafur Hjaltason, sem síðar varð skólameistari á Hólum og Eysteinn dótturson Auðuns biskups, er fór til Noregs, o. fl. Það er víst, að Lárentíus hafði alla þá hæfileika, sem góðum kennara eru nauðsynlegir, enda vandi hann líka lærisveina sína við iðjusemi og hvers kyns aðra nytsemd. Sjálfur var hann afkastamaður við ritstörf, og enginn veit, hversu mikið íslenskar bókmentir eiga honum að þakka frá þeim tíma, er hann var á Þingeyrum. Svo var hann áhugasamur að rita, lesa og fræða, að varla mátti heita, að hann nyti sæmilegra hvílda. En þótt hann legði svona mikið að sjer, þá er líklegt, að það 8 ára tímabil,

sem hann dvelur í Þingeyraklaustri, sje næðisamasti og áhyggju minsti kafli æfi hans.

Haustið 1321 fór Auðunn biskup kynnisför til Noregs að heimsækja erkibiskup og aðra frændur sína og vini. Eyjólfur Korti hafði setið þar á erkibiskupsstóli, síðan er Jörundur erkibiskup dó (1309), og var nú mjög vinsæll og framkvæmdamikill. Þar voru viðtökur hinar bestu; um jólin hjelt Auðunn biskup veislur stórar og var erkibiskup í boði hans. En einn dag veislunnar tók Auðunn biskup verk mikinn í hægri fótinn, er brátt færðist um allan líkamann, en svo var hann harðger, að hann sat veisluna kvöldið út, og hjelt fagra ræðu að skilnaði. Daginn eftir lá hann þungt haldinn, og elnaði honum sóttin, er lengur leið, og er af honum tók að draga, meðtók hann sakramenti og gerði sína síðustu ráðstöfun á öllu. Hann kaus sjer legstað í Maríukirkju þar í bænum, er hann gat ekki náð að liggja í Maríukirkju á Hólum, þar sem hann var biskup til kjörinn, og er hann hafði fengið sína síðustu smurning að kaþólskum sið, kom erkibiskup til hans og spurði, hver honum þætti best til þess fallinn að verða biskup á Hólum, að honum látnum. Auðunn biskup svaraði: „Margir sæmiligir kennimenn eru í Hólabiskupsdæmi, en því viljum vjer fyrir guði svara, at oss þykir enginn betr til fallinn biskup at vera en bróðir Lafranz at Þingeyrum“; kvað biskup hann og vera hinn mesta guðsmann, og eigi þyrfti það að óttast, að hann ljeti draga undan heilagri kirkju, það sem hún á að hafa, enda þyrftu Norðlendingar þess að hafa þann biskup, er vel

kristinn væri, stjórnsamur og vel kunnandi að hirta þrjóska og óhlýðna menn. Erkibiskup mintist þess, hve mikill mótstöðumaður Lárentíus hefði verið þeim áður, þegar hann las yfir þeim forboðsbrjefið og fleira. Auðunn biskup bað hann eigi slíkt tala, því að ekki ætti Lárentíus að gjalda þess, að hann hefði gert skipun herra síns; hitt væri skylda erkibiskups og þeirra allra að bæta honum þau rangindi, er hann hefði saklaus þolað, og veita honum þessa uppreist. Auðunn biskup „talaði svo góðfúslega“ um þetta, að hann tárfeldi og allir lofuðu hans orð, þeir er viðstaddir voru. Erkibiskup hjet að fara að vilja hans um þetta.

Auðunn biskup andaðist kristilega nokkru síðar á Agnesarmessu 1322, og var talinn einn hinn merkasti biskup útlendur, er hingað hafði þá komið. Hann samdi máldaga þann, er við hann er kendur og Auðunnar-máldagi heitir; hann prýddi kirkjuna á Hólum og húsaði staðinn; ljet meðal annars reisa Auðunnar-stofu, eitt hið ramgervasta hús, er stóð meir en fimm hundruð ár, eða þar til er biskupsstóllinn var lagður niður 1801; margt fleira nytsamt framdi hann hjer á landi.

Með skipum þeim, er frá Noregi gengu fyrst til Íslands sumarið 1322, komu tvö brjef til Lárentíusar að Þingeyrum, og voru þau bæði frá erkibiskupi. Fyrra brjefið var á þá leið, að erkibiskup og kirkjan fyrirgæfi honum alt það, er hann hefði brotið á móti þeim, því að klausturlifnaður hans væri „svo sem önnur skírn“. Hitt brjefið var svo látandi, að erkibiskup tilkynti honum, að hann væri

kosinn biskup á Hólum af öllum kórsbræðrum, með öllum þeim rjetti og valdi, er slíkri tign fylgdi; óskaði erkibiskup, að hann kæmi svo fljótt á sinn fund sem auðið væri til að taka vígslu.

Þegar Lárentíus fjekk þessi brjef, þakkaði hann guði „þessa gjöf og vald sjer veitt“, umkomulausum og fátækum. Lárentíus skrifaði því næst Katli hirðstjóra og Þorsteini stiftsprófasti, að þeir kæmu og tækju út staðinn á Hólum, og „settu sig inn á staðinn“, eins og lögin mæltu fyrir, og flutti hann þá alfarinn frá Þingeyrum og til Hóla, og tók nú að búa sig undir biskupsembætti sitt. Vegna þess að hann komst ekki út þetta sumar, tók hann að „vísitera“ kirkjur um sumarið, en um veturinn sat hann að Hólum við mikla rausn.

Sumarið eftir, 1323, lagði hann af stað til Noregs til að sækja vígslu sína, og voru í för með honum margir af vinum hans, svo sem Egill prestur á Grenjaðarstað og fleiri. Skipið hrepti mótviðri og hrakninga og braut loks í spón við Hálogaland, en menn allir björguðust; Egill prestur flaut í land á siglutrjenu; fjárhlutur bjargaðist og síðar að miklu leyti.

Það má segja, erkibiskupi til verðugs lofs, að eftir að hann tók Lárentíus í sátt, gerði hann sitt til að bæta fyrir það, er hann og kórsbræður höfðu áður gert á hluta Lárentíusar. Seint um haustið kom Lárentíus til Niðaróss, hrakinn og fjelaus, á fund erkibiskups, og tók hann við honum opnum örmum og hjelt hann og menn hans í sínum kosti um veturinn með mikilli sæmd.

Á Jónsmessudag var Lárentíus vígður af erkibiskupi með mikilli viðhöfn og að þremur lýð-biskupum viðstöddum. Erkibiskup gaf Lárentíusi góðar gjafir að skilnaði, og reyndist honum sem besti faðir.

Skip það, er flutti Lárentíus biskup út til Íslands, kom út á Eyrum, og var hið eina skip, er til Íslands kom á því sumri. Biskup hjelt tafarlaust norður til Hóla, og fögnuðu allir komu hans. Um haustið 1324, á allra heilagra messu, söng hann sína fyrstu biskupsmessu; safnaðist þann dag svo mikið fjölmenni að Hólum, að menn mundu ekki annað eins. Biskup prjedikaði með svo mikilli mýkt og tárum, að oft varð meiri grátur hans en orðaskil, og snerust þá margir til lífsbetrunar. Hann hjelt þeim sið til dauðadags að prjedika sjálfur á stórhátíðum, og ljet þá jafnan úthluta ölmusum stórum á meðal fátækra manna, er til staðarins sóttu. Nú fór ekki minna orð af kenningum hans og ölmusugjöfum, en áður hafði farið af gáfum hans, lærdómi og kenslu; sýndi hann nú, að hann gat eins vel borið meðlætið eins og hann hafði áður borið mótlætið, og að hann kunni nú eigi síður að stjórna með rjettlæti og samviskusemi, en áður hafði hann kunnað að hlýða með auðmýkt og lítillæti.

Hann tók nú við búsforráðum staðarins, og fórst það alt skörulega; ljet draga að föng og afla hvaðanæfa, enda átti Hólastaður ítök í flestum kaupförum, er til Íslands gengu á hans tíð, og hafði hann jafnan duglega lestreka og skipstjórnarmenn. Ráðsmaður hans var Skúli prestur, er áður hafði verið ráðsmaður Hólastaðar í biskupstíð Jörundar biskups.

Þorstein Þorleifsson valdi hann fyrir gestamann til að úthluta ölmusum til fátækra. Jafnan skyldu 12 ölmusumenn vera á staðnum heimilisfastir, og á útibúum hans enn fleiri um langaföstu. Biskupstíundum, sakeyri og offrum skyldi bryti og ráðsmaður safna saman og útbýta fátækum mönnum í stiftinu, frá Mikjálsmessu til hvítasunnu, og var sú upphæð aldrei minni en 20 hundruð, er fátækir menn fengu þannig í mat og vaðmálum. Snauðum mönnum öllum, er guðsþjónustu sóttu á helgum dögum og hátíðum, skyldi gefin almennileg máltíð á staðnum. Það þótti biskupi eigi mega vera, að fátækir prestar rækist á húsgang, er þeir fengi ekki lengur þjónað embætti sínu vegna elli eða sjúkdóma, og því setti hann prestaspítala á Kvíabekk í Ólafsfirði, því að þangað þótti honum hægast að afla blautfiskjar og búðarverðar, og þótti honum það fæði vel henta gömlum mönnum. Þangað gaf hann mikið fje af eignum sínum og fjekk aðra til að gefa, svo að þangað safnaðist auður mikill fyrir hans framkvæmdir. Ráðsmenn setti hann þar, Björn Önundarson frá Múnkaþverá, ráðsettan mann til fjárgæslu og stjórnsaman.

Áður en biskup dó, veittist honum sú ánægja að sjá gleðilegan árangur af þessu starfi sínu, því þá voru á Kvíabekk margir gamlir og heilsulausir prestar, er þar lifðu æfikvöld sitt glaðir og áhyggjulausir um líkamlegar þarfir sínar.

Mest af öllu ljet Lárentíus sjer þó umhugað um andlega uppfræðing undirmanna sinna og eflingu guðs ríkis. Þegar hann varð biskup, kom hann góðri

skipun á skólann á Hólum. Hann setti skólameistara Ólaf prest Hjaltason, er áður hafði verið lærisveinn hans, en Valþjóf prest skipaði hann „rectorem chori, skyldi hann skipa hvat hverr skyldi sýngja,“ og ákvað að skólameistari skyldi jafnan hafa Velli í Svarfaðardal sjer til lífsuppeldis. — Sjálfur vitjaði biskup skólans daglega og tók þátt í kenslunni að meira eða minna leyti. Pilta, sem fátækir voru og námfúsir, tók hann í frískóla og gaf þeim oft rausnarlega að afloknu námi, ef honum líkaði vel framferði þeirra og ástundun. Prestaefni prófaði hann sjálfur sem vandlegast, áður en hann vígði þá. Á heimilinu gjekk hann á undan öllum, æðri sem lægri með góðu eftirdæmi, og stundaði það mest að vanda sem best og fagurlegast framferði sitt öllum sínum eftirmönnum til eftirbreytni; leið hann enga sundurgerð prestum sínum, hvorki um hárskurð nje klæðnað. Dag hvern að kvöldi, ljet hann skólameistara yfirheyra presta þá og djákna, er messur skyldi flytja eða aðstoða við þær næsta dag í dómkirkjunni, og veitti þá áminningu og stundum hirtingu þeim, sem illa stóðu sig við það próf.

Fyrir stórhátíðir allar ljet hann kalla saman „presta ok djákna ok alla klerka“, og gerði fagran „sermonem“, hvernig öllu skyldi hagað í söng og bænagerð á hverri hátíð. Leikfimi og saklausar skemtanir máttu ungir menn fremja, en enga ljettúð. Á vetrum þá er hann vissi að dans var haldinn á kvöldum, ljet hann bera fyrir sjer skriðljós í „stóru stofu“ og aðra samkomusali staðarins og bannaði

allan dans og þessháttar skemtanir, er hann taldi óhollar og ónauðsynlegar. Á yfirreiðum sínum um biskups-dæmið prófaði hann, hvort prestar hjeldu vel við skólalærdómi sínum, sömuleiðis frjetti hann af söfnuði um framferði þeirra og hegðun.

Kirkjulífinu á Hólum og í biskupsdæminu er þannig lýst, að frá dögum Jóns biskups helga og til daga Lárentíusar, hafi það aldrei staðið með öðrum eins blóma og þau ár, sem hann sat að stóli. Hins vegar er það auðvitað, að ýmsir stórbokkar, er þá voru uppi á Norðurlandi, hafi illa kunnað stjórnsemi Lárentíusar og röggsemi, enda mætti hann af þeirra hendi megnum mótþróa, og eru taldir fremstir í flokki mótstöðumanna hans þeir Gissur galli í Víðidalstungu og Þorsteinn bóndi Kolbeinsson á Holtastöðum, er báðir voru ríkir og stórættaðir; þó tókst biskupi með staðfestu sinni og lægni að vinna þá báða til hlýðni. Á hinn bóginn urðu hin svo nefndu „Möðruvallamál“, biskupi miklu erfiðari, þótt hann fengi og þar fullkominn sigur um síðir.

Jörundur biskup stofnaði Möðruvallaklaustur 1298, og skal hjer vikið nokkru nánar að þessu atriði. Árið 1316 brann klaustrið á Möðruvöllum, og var orsök talin sú, að „bræður“ höfðu komið drukknir um kvöldið utan af Gáseyri og farið óvarlega með ljós; kviknaði eldur í tjöldum, aðrir segja í kistu þeirri, er í var geymdur skrúði og aðrir helgir gripir. — Biskup ljet þá klaustrið leggjast niður, og tók eignir þess undir biskupsstólinn, en kom munkunum og príornum í vist. Síðan samdist svo, fyrir milligöngu erkibiskups, að Lárentíus skyldi reisa klaustrið aft-

ur og setja á stofn klausturlifnað, en hafa þar sjálfur æðstu ráð. Nokkru síðar rufu „bræður“ þeir, er þar voru, alla samninga og fengu Jón biskup Halldórsson í Skálholti á sitt mál. Hann fylgdi fast fram máli þeirra, fór norður og með fylgi vina sinna fjekk hann Lárentíus til að selja munkunum í hendur öll völd yfir klaustrinu. Lárentíus gerði það til að ná friði og afstýra frekari vandræðum, Möðruvellingar höfðu fjölda bænda í klaustrinu til þess að þröngva biskupi. Þá fór biskup norður að Grenjaðarstað til Egils prests, vinar síns og lærisveins, brá honum á einmæli og kvaðst ekki geta unað því, að „bræður“ eyddu með svalli og óhófi fje því, er gefið hefði verið til guðsþakka klaustrinu, þótt hann hins vegar hefði til að ná friði gert sátt við þá. Hann bað nú Egil fara sem skjótast á fund erkibiskups með öll málsskjölin, og fá hann til að rjetta hlut sinn. Prestur færðist undan og kvaðst ekki vera fær um að leysa svo vandasamt hlutverk af hendi, en biskup minti hann á, hvað hann hefði mikið fyrir hann gert og hitt annað, að hann tryði honum best að koma þessu máli í sæmilegt horf. Þá sagði Egill prestur, það, er síðar hefir verið að orðtæki haft: „Dýrt er drottins orð“, og skal jeg víst fara. Varð biskup harla feginn, og bjó prest sem best til fararinnar.

Þegar Jón biskup í Skálholti frjetti, að Lárentíus hefði sent mann á erkibiskupsfund, brá hann fljótt við og sendi fyrir sína hönd og Möðruvallabræðranna, Arngrím prest í Odda, og komu báðir jafnsnemma fyrir erkibiskup. Erkibiskup tók þeim vel, en mis-

jafnt ráku þeir erindi sín. Arngrímur gerði sjer mjög títt við organmeistara þar í bænum um veturinn og lærði hjá honum organslátt, en fór svo af Noregi vorið eftir, að hann hafði lítt flutt erindi Jóns biskups. Egill kom sjer hins vegar sem oftast á tal við erkibiskup, og sýndi honum og sannaði, hve mikið Lárentíus hefði unnið fyrir kirkjuna og kristindóminn í Hólastifti, síðan er hann varð biskup. Hann flutti mál Lárentíusar svo trúlega, að erkibiskup staðfesti með ráði allra kórsbræðra, að Lárentíus skyldi hafa öll ráð og alla umsjón klausttursins, og skyldi príorinn og munkarnir hlýða honum í öllu sem rjettum yfirmanni sínum. Hann sendi og Lárentíusi dýrar gjafir. Það sama haust sem sendimenn biskupanna komu til Noregs, frjetti Lárentíus það frá Möðruvallaklaustri, er honum þótti ófagurt vera: að alt færi þar fram í mestu óreglu og drykkjuskap og sukki, og að setur í klaustrinu væru mjög fjölmennar og kostnaðarsamar. „Bræðurnir“ höfðu tekið þann mann, er Uppsala-Hrólfur hjet, fyrir ráðsmann, en hann var kunnur að drykkjuskap og hinn mesti ofstopamaður. Eftir jól reið biskup með sveinum sínum norður til Möðruvalla, og var þar þá fyrir fjöldi manna, er ljetu mjög ófriðlega. Þaðan fór biskup til Munkaþverár og þáði ágæta veislu hjá Bergi ábóta Sokkasyni, vini sínum, og reið svo nokkrum dögum síðar þaðan til Möðruvalla; þá var bændaflokkurinn farinn þaðan. Biskup heimtaði þá alla lykla, og reyndist klaustrið óbyrgt að mat og heyjum; tók hann þá bræðurna nauðuga

með sjer heim til Hóla, en setti nýjan ráðsmann yfir klaustrið.

Mörgum þótti þetta skjótlega ráðið, áður en nokkur vissi, hvernig erkibiskup mundi líta á málið, en Lárentíus kvaðst engu kvíða; leið svo veturinn og biðu menn með óþreyju útkomu Egils prests. — Sumarið 1329, þann 10. ágúst, á Lárentíussmessu, kom Egill prestur út á Eyrum og fór heim til Hóla; færði hann Lárentíusi brjef og úrskurð erkibiskups ásamt gjöfum þeim, er hann sendi honum, en það var kirkjulagabók og silfurskál mikil. Lárentíus þakkaði guði sigur þann, er hann hafði veitt honum í málum þessum, og Agli presti fulltingi hans; ljet hann snúa brjefum erkibiskups á íslensku og birta um alt biskupsdæmi sitt. Bændur þeir, er á móti honum höfðu staðið, voru dæmdir í sektir, en Uppsala-Hrólfur bannfærður, og hafði biskup mikla sæmd af þessum málum.

Árni, sonur biskups, ólst upp í Noregi hjá móður sinni, eins og fyr var sagt. Hann gerðist lærdómsmaður mikill, sem faðir hans, en hneigðist til drykkju þegar á unga aldri. Nálægt þeim tíma, er faðir hans fór í Þingeyraklaustur, kom Árni út til Íslands (um 1313) og gekk í Þingeyraklaustur. Hann þótti ritari með afbrigðum, og var vígður fyrstu vígslu 1315. Þegar Lárentíus fór utan að sækja vígslu sína, var Árni með föður sínum, og settist að hjá honum á Hólum, þegar hann var orðinn biskup, og biskup gerði hann að aðal-ritara sínum og geymdi Árni jafnan innsigli föður síns; fylgdi hann og biskupi á yfirreiðum hans, og sváfu þeir í

sama herbergi, er þeir voru heima, því þannig hugðist biskup best mundu geta gætt hans. Árið 1326 sendi biskup Árna suður í Skálholt til Jóns biskups, og bað hann biskup vígja Árna til prests, því hann þóttist of skyldur að vígja hann sjálfur. Eftir það stundaði Árni kenslu við skólann á Hólum. En þótt faðir hans gerði honum þetta til frama, hafði hann þó mikla hjartasorg af framferði Árna, því að honum þótti framferði hans mjög ósamboðið honum sem syni sínum og þjóni kirkjunnar.

Nokkru eftir jól 1330 hafði Árni drukkið mjög og slarkað; tók hann þá veiki með kvölum miklum; gekk þá faðir hans þar til er hann lá og skriftaði honum fyrir framferði hans. Hann kvaðst skyldu biðja fyrir honum, og fyrirgefa honum alt það, sem hann hefði á móti sjer gert, ef hann vildi bæta ráð sitt og ganga í Þingeyraklaustur, þegar sín misti við, annars mundi illa fara fyrir honum; iðraðist Árni þá mjög og táraðist, og lofaði hann öllu, sem faðir hans bað hann. Biskup bað þá fyrir honum mjög heitt og innilega, og batnaði honum nokkru síðar. — En svo er að sjá, sem biskup hafi ekki trúað syni sínum sem best, því ein af hans síðustu ráðstöfunum var sú, að hann færi með alt sitt bókasafn í klaustrið, og inni þar ættjörð sinni gagn með lærdómi sínum. Líklega hefir þó aldrei orðið úr þessu, því Árni fór til Noregs eftir dauða föður síns og slarkaði þar um hríð; þó er líklegt, að hann hafi sjeð að sjer að lokum, því af brjefi, sem gefið er út í Niðarósi sjest, að Árni fer sem umferðaprjedikari ásamt öðrum ungum bróður um Jamtaland, og er

beðið þar virkta af kirkjunni, og að hann megi prjedika guðs orð fyrir alþýðu.

Einn maður var þó sá, er um má segja, að væri hrósun og gleði Lárentíusar biskups; sá maður var Einar prestur Hafliðason, er seinna varð einn hinn merkasti prestur á Norðurlandi og enda á öllu Íslandi. — Faðir hans, Hafliði prestur Steinsson, var ungur tekinn af foreldrum Lárentíusar til uppfósturs. Með dæmafáum dugnaði hafði hann komið sjer áfram og var ráðsmaður Lárentíusar á Hálsi í Fnjóskadal, og síðar prestur að Breiðabólstað í Vesturhópi, og tók hann til sín móður Lárentíusar, þegar hagur Lárentíusar sjálfs var sem bágastur; gekk Hafliði prestur henni þá í sonar stað, og hjá honum andaðist hún. Hafliði reyndist Lárentíusi best, er honum lá mest á; það var hann, sem hughreysti hann í raunum hans og lagði honum hollustu ráðin. Þegar Lárentíus var orðinn kennari á Þingeyrum, kom Hafliði prestur Einari syni sínum í skóla til hans, og má segja, að upp frá því skildu þeir aldrei, meðan báðir lifðu. Um hann sagði Lárentíus á banasæng sinni, að hann væri sá einn af öllum sínum lærisveinum, sem aldrei hefði í smáu nje stóru gert á móti vilja sínum eða boði. Nú var hann, er hjer var komið sögunni, orðinn djákni og æðsti herbergisþjónn biskups. Biskup trúði honum fyrir þeim leyndarmálum, er hann ekki sagði öðrum.

Biskup hafði þann vanda, að rita á vaxspjöld það, er honum þótti mest um vert, og ritaði Einar það síðan í bók. Á kvöldum, þegar ljós var kveikt, ljet biskup hann lesa úr helgramanna sögum og guðs-

orði, og eins um nætur, þá er hann gat ekki sofið. Þegar biskup var látinn, vígðist Einar og var mjög lengi prestur að Breiðabólstað í Vesturhópi og stiftsprófastur í Hólastifti; var hann talinn helsti prestur á sinni tíð og sagnaritari mikill. Hann dó háaldraður, elskaður og virtur af öllum, er hann þektu.

Veturinn 1331, nóttina fyrir boðunardag Maríu, kendi Lárentíus biskup sjer krankleika, er ágreðist dag frá degi, svo að hann neytti nær engis matar, en gekk þó til messu daglega með stuðningi Einars djákna. Var Maríumessa þenna vetur á mánudaginn í efstu viku. Biskup hafði þur-fastað alla langaföstu, og gerðist nú mjög máttfarinn bæði af sjúkleik og föstunum. Á páskadag sat hann í sæti sínu um tíðir og ljet syngja sjer messu og meðtók sakramentið; síðan sendi hann mann til Breiðabólstaðar, til Þorsteins Illugasonar, og annan til Grenjaðarstaðar til Egils prests, og bað þá koma sem fljótast til Hóla. Þorsteinn prestur kom fyr en Egill; ljet biskup þá bera fram gull sitt, dýrgripi og klæði, og gaf hann hverju klaustri tíu hundruð. Sex prestum, sem hann hafði áður kent, og mist höfðu heilsuna, lagði hann til af fje sínu æfilangt lífsuppeldi þar á staðnum. Árna syni sínum skipaði hann í Þingeyraklaustur ásamt fje nokkru, er hann lagði klaustrinu. Öllum vinum sínum og þjónustumönnum gaf hann gjafir. Hann mælti á þessa leið við Einar Hafliðason, er var kærasti vinur hans: „Annar verður nú skilnaður vor en jeg ætlaði, Einar; jeg ætlaði að vígja þig til prests við fyrsta tækifæri, og veita þjer það prestakall, er best er í mínu biskupsdæmi, og gera

þig sem best úr garði, því þú hefir mjer einn allra hlýðnastur verið og þjónað best, en drottinn mun veita þjer þau laun, er jeg ekki má.“ Hann gaf honum hinn besta klæðnað sinn og ýmsa gripi. — Tók nú mjög að draga af biskupi, en ekki þornuðu tár hans eða þurru bænir hans; vakti Einar hjá honum hverja nótt og las guðs orð. Á föstudaginn kom Egill prestur og varð biskup svo feginn komu hans, að hann reis upp í sæng sinni og faðmaði hann að sjer með gleðitárum, dró vígslugull sitt af hendi sjer, er á var greyptur helgur dómur Jóns biskups, og var hin mesta gersemi, og kvaðst gefa Agli það, ef hann vildi þiggja, og mælti: „Ekki fær þú það fyr en jeg er dauður, manst þú mig þá betur,“ og fleiri góðar gjafir gaf hann honum. Síðan ljet hann semja brjef til Erkibiskups þess efnis, að hann óskaði, að Egill yrði biskup eftir sinn dag. Hann hafði oft óskað þess og beðið, að biskupar mættu jafnan vera íslenskir, og mundi það þarfast og hollast bæði kirkjunni og þjóðinni. Hann mælti svo vel með Agli í brjefi sínu, að hann varð biskup eftir hann. — Hann bað nú alla viðstadda að biðja ásamt sjer, að drottinn vildi nú sem fyrst veita sjer lausn frá öllum þjáningum og gefa sjer eilífa hvíld og gleði með öllum heilögum, og vernda kristni sína og kirkju á komandi tíð, og senda henni sannkristna og vitra yfirmenn og forstjóra.

Biskup hafði nú gert sína síðustu ráðstöfun, og beið glaður og rólegur hinnar síðustu stundar; vottuðu allir viðstaddir, að engis manns brottför af þess-

um heimi hefðu þeir vitað jafn fagra sem hans. Hann andaðist hægt og rólega á Magnúss messu Eyjajarls, 16. apríl 1331, þá er hann var þrem vetrum betur en sextugur, en hafði biskup verið í sjö ár. Við fráfall hans varð hinn mesti harmur um land alt, því menn vissu og skildu, að kirkja og kristni guðs á Íslandi höfðu með honum mist einn hinn besta, vitrasta og sannkristnasta starfsmann sinn.

Jeg hefi þá með þessum ófullkomna og sundurlausa samtíningi reynt að lýsa Lárentíusi biskup, en hefi þó orðið að sleppa að minnast á ýmislegt fleira, sem þó hefði orðið að get um, ef lýsing mín ætti að vera til nokkurrar hlítar. En þó vona jeg, að mjer hafi tekist að sanna það, er jeg setti mjer að upphafi: að kirkjan hefir fyr og síðar sent fram á vígvöllinn þá menn, sem þarfastir hafa verið þessu landi. En fyrir því valdi jeg þetta tímabil, er með rjettu má kalla eitt hið mesta niðurlægingartímabil í sögu þessa lands, að jeg vildi sýna það með því að rifja upp lítið eitt æfistarf þessa manns, að drottinn gleymir ekki kirkju sinni, þótt andlega ástandið sýnist dapurt og dimt frá mannlegu sjónarmiði; þenna sannleika hefir sagan staðfest alt í frá þeim tíma, er þeir Gissur Hvíti og Hjalti Skeggjason komu með fagnaðarboðskapinn handan um haf. Aldrei hefir verið svo dimt á söguhimni kirkjunnar íslensku, að ekki hafi sjeð þar stjörnu blika, og guði sje lof, að margar af þeim stjörnum hafa borið skæra birtu til blessunar landi þessu og lýð.

Við, meðlimir þessa fjelags, sem reynt höfum handleiðslu og trúfesti drottins á okkur sjálfum og

þjóð vorri, trúum því, að drottinn muni á komandi tíð sem að undanförnu senda málefni sínu ok kirkju þá leiðtoga og hjálparmenn, er bera orð hans fram til sigurs í íslenskum söfnuði til blessunar landi þessu og þjóð.

---

## Jón Sigmundsson, lögmaður.

**Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 29. sept. 1908.**

---

Heiðruðu tilheyrendur!

Jeg hefi átt úr vöndu að ráða, hvort jeg ætti að efna loforð mitt og tala hjer í kvöld um Jón lögmann Sigmundsson. Þegar jeg tók að rannsaka æfiatriði þessa merkilega manns, sá jeg fljótt, að mjer var það ofvaxið verk að segja frá því í heild, svo að sæmilegt væri, ekki síst vegna þess að yfir því tímabili, sem hann lifði og starfaði á, hvílir svo mikið myrkur, að því er tekur til sagnfræði, enda er sumt af því, sem þá gerist, svo ólíkt því, sem nú á sjer stað, að flestum verður það torskilið, nema þeim, sem hafa kynt sjer söguna rækilega og aldarhátt þeirra tíma á landi hjer. Jeg hefi nú samt reynt að tengja saman í eina heild æfiatriði hans þau, er jeg hefi hugsað mjer að drepa á hjer, og vona, að þið takið viljann fyrir verkið, og virðið alt á betra veg.

Efninu hefi jeg skift á þessa leið:

1. Ástandið eins og það var um æfidaga Jóns lögmanns;
2. Ofsóknir óvina Jóns og vörn hans gegn þeim;

## 3. Starfsemi Jóns í þjóðarinnar þarfir, og afleiðingar hennar.

### I.

Jeg ætla þá að biðja ykkur að hverfa með mjer í huganum fram á ofanverða 15. og öndverða 16. öld, og íhuga og athuga, það sem sagan segir um þetta tímabil, og hvernig hún lýsir þeim atburðum, sem þá eru að gerast í þessu landi. Það er erfitt og vandasamt verk að lýsa því, er fram fór á þessu tímabili, því fyrst er nú það, að öll sagnfræði dvínaði og dó út að kalla með plágunni miklu, Svarta dauða, svo að nálega ekkert var ritað, utan máldagar nokkrir og brjef. Í annan stað berjast þá kirkjuvaldið og veraldlega valdið um yfirráðin, og þá sitja þeir biskupar á stóli, er harðdrægastir hafa þótt allra biskupa Íslands, svo sem þeir Ólafur Rögnvaldsson og Gottskálk Nikulásson á Hólum, en í Skálholti Stefán Jónsson. Hins vegar voru þá og uppi stórbokkar miklir meðal leikmanna, svo sem var Björn Guðnason í Ögri, Torfi í Klofa og fleiri.

Mjög mikið hefir verið gert úr yfirgangi Ólafs biskups Rögnvaldssonar, og grimd hans við Bjarna á Hvassafelli; en sú er mín ætlun, að þar hafi verið um of bygt á lausum grundvelli, og biskup átalinn meira en rjettmætt var. Sagan telur hann að vísu fjeglöggan, en hvergi í annálum þeirra tíma, þeim er jeg hefi sjeð, er þess getið, að hann hefði presta sína til þess að njósna um háttu almennings, eða að hann lýgi sökum á menn, er gefið gætu honum

átyllu til bannfæringa og fjárupptekta. Hingað til virðist sem mjög hafi verið misskilin Hvassafellsmál, því að af þeim hefir Ólafur biskup illræmdastur orðið. Menn hafa haft að nokkurs konar heimild skáldsöguna „Randíður á Hvassafelli“, en ekki gætt hins, að hún er skáldsaga, er við lítil eða alls engin sannsöguleg rök hefir að styðjast, og má segja um hana, að þar sje fátt satt, nema nöfnin ein. Til er eigin játning Bjarna í Fornbrjefasafninu, og er hún alt annað en fögur. En þótt skáldsögur sjeu stundum skemtilegar aflestrar, má þó aldrei gleyma því, að þær eru lygasögur, og því ættu höfundar þeirra að nota söguleg nöfn varlega, eða geta þess í formála eða inngangi, að hverju leyti bygt sje á sögulegum heimildum. Það er ilt verk, og ætti að vera illa þokkað, að ófrægja látna menn framar en heimildir um þá greina, eða gefa tilefni til. — Jeg ætla, að Ólafur biskup hafi sætt of ómildum dómum. Öðru máli gegnir um eftirmann hans, Gottskálk Nikulásson, sem mest kemur við sögu Jóns lögmanns, enda er nafn hans stundum talið dökkasti bletturinn á kirkjusögu Íslands á þessu tímabili, og þótt lengra sje leitað, enda var hann löngum kallaður „hinn grimmi“ og margt ófagurt um hann sagt. Samt er það tekið fram, að sumt af því geti verið ofhermt, og að frændur og vinir Jóns lögmanns, er hann ljek harðast, muni þar nokkru hafa viðaukið. Jeg hefi gert mjer alt far um að rannsaka þeirra viðskifti sem gaumgæfilegast, en hvergi hefi jeg fundið neitt það, er dregið geti úr hörku og grimd biskups við Jón, og ekki heldur neitt, er sannað geti sekt Jóns; verð

jeg því að álíta, að aldarandinn hafi verið um þetta leyti einn hinn bágbornasti, er verið hefir á landi hjer. Alt logaði í innbyrðis ófriði og sundrungu; leikmenn hugsuðu mest um það að brjóta hvorn annan á bak aftur og ná sem mestum völdum. Þá var siðferði manna næsta ábótavant; höfðu sumir fylgikonur, er þeir ræktu eigi miður en sínar eiginkonur, og reyndist erfitt mjög, eða jafnvel ókleyft, að kippa þessu í lag. Þannig var siðferði margra háttað, er Jón lögmaður fæddist.

## II.

Jón lögmaður Sigmundsson fæddist að Miklabæ i Blönduhlíð 1460; var faðir hans Sigmundur prestur Steindórsson, en móðir Sólveig ríka Þorleifsdóttir, systir Bjarnar hins ríka. Sigmundur taldist í fremstu klerka röð þeirra, er þá voru uppi; átti hann jafnan í brösum við Ólaf biskup, og lauk þannig, að hann eins og fleiri beið lægri hlut, og varð að láta af hendi ærið fje til biskups. En hann var auðugur maður og kappsfullur, enda er sagt, að Sólveig fylgikona hans, hvetti hann, en letti ekki, til stórræðanna; eru til nokkrar frásagnir um viðureign hans og biskups, sem ekki koma þessu máli beinlínis við, og því er þeim slept hjer.

Um Jón er það sagt, að hann væri snemma bráðþroska og skarpur að allri hugsun, laus við alla hjátrú og hindurvitni, sem þá drotnaði mjög á landi hjer. Hann stóð þegar á unga aldri feti framar flestum samtíðarmönnum sínum, bæði að andlegu og lík-

amlegu atgerfi. Um uppeldi hans og æsku er fátt eitt greint, en eftir því sem foreldrum hans er lýst og framkomu hans síðar meir, má ætla, að hann hafi fengið hið besta uppeldi og allan undirbúning undir lífið og lífsbaráttuna, eftir því sem þá voru föng til.

Árið 1481 er hann orðinn sýslumaður í Vaðlaþingi (Eyjafjarðarsýslu), og þótt þá væri hann að eins tvítugur að aldri, þá bera dómar hans og önnur afskifti af opinberum málum það með sjer, að hann hefir verið samviskusamt yfirvald og látið sjer mjög ant um almenningsheill og velferð. Það vill svo vel til, að sagnaritarinn hefir með þeirri lýsingu, er hann gefur af Jóni um það bil, sem hann fer fyrst að hafa afskifti af opinberum málum, brugðið upp fyrir oss þeirri mynd, er sýnir oss hann í rjettu ljósi; og er lýsing sú á þá leið, að Jón hafi verið maður stórvitur og kappsfullur mjög, og að því skapi um alla aðra atgerfi.

Jón varð snemma stórauðugur og örlátur. Hann hafði betri og víðtækari þekkingu á rjettri trú en flestir samtíðarmenn hans, og var laus við alla hjátrú og hindurvitni, eins og þegar er sagt. Hann var maður mjög hreinlyndur og ráðhollur. Nærri má geta, að slíkan mann hafi tekið sárt kúgun og fáfræði landslýðsins, og er því líklegt, að hann hafi ásett sjer að ráða þar á nokkra bót, ef líf og þrek entist, því eins og síðar mun sýnt, var hann alla æfi sannur ættjarðarvinur. Hinsvegar hlýtur öllum, er sögu hans lesa, að vera það harmur mikill, að öll barátta hans fyrir hag alþýðu og landsmanna yfirleitt skyldi

verða að engu fyrir sakir samtakaleysis og blindni landslýðsins sjálfs, og að Jón bar ekkert úr býtum nema eignatjón og harm þann, er dró hann til dauða, alls lausan og öllu sviftan. Því það er í alla staði líklegt, að alt öðru vísi hefði farið, ef Leiðarhólmssamþyktin og fleiri hans ráðstafanir hefði náð fram að ganga.

Árið 1481 eða 1482 gekk Jón að eiga fyrri konu sína, Guðrúnu Gunnlaugsdóttur. Brúðkaupið var haldið í Víðidalstungu; varð í brúðkaupi þessu uppþot, og var þar veginn Ásgrímur bróðir Jóns. Leituðu vegendur hans í kirkju, en hinir, er hefna vildu, sóttu eftir. Síðar meir var því logið upp af óvinum Jóns, að hann hefði verið við þetta óhapp riðinn; var hann og dæmdur í mikla sekt fyrir kirkjusaurgun, og þótt það þyki nú fullsannað, að hann hafi verið alsaklaus, þá mátti hann þola þetta bótalaust sem annað, meðan hann lifði. Mál þetta gleymdist nú að vísu í bili, en eins og síðar mun á vikið, var það þó ekki gleymt með öllu.

Jón naut nú virðingar og hamingju með þessari konu sinni alt til þess, er síðari plágan kom í Norður land, og andaðist hún úr henni 1495 eða 1496; varð það honum harmur mikill, enda var hún talin valkvendi hið mesta, og harmdauði öllum, sem hana þektu, skyldum og vandalausum. Árið 1497 kvongaðist Jón öðru sinni, Björgu Þorvaldsdóttur frá Miklabæ; var hún góðrar ættar, og systir Jóns Þorvaldssonar, er síðar varð ábóti á Þingeyrum; grunaði engan, að hjónaband þetta mundi leiða jafnmikla hörmung yfir hlutaðeigendur og síðar varð raun á. Biskupa-

skifti urðu í Norðurlandi um þetta leyti. Ólafur biskup andaðist (1495) í Noregi úr plágunni, en í hans stað var kosinn Gottskálk bróðursonur hans, og var hann, er hjer var komið sögunni, farinn utan að sækja vígslu sína, og kom út þetta ár (1497), og fór til Hóla, og tók við stólnum af þeim, er höfðu haft hann til umráða frá því er Ólafur biskup ljest. Ekki var hann fyr til stólsins kominn, en hann tók að hefja ákærur á hendur Jóni út af síðara hjónabandi hans. Menn hafa vendilega leitað að ástæðum fyrir þessum ofsóknum gegn Jóni, og hafa flestir kent um ágirni hans og trúarvandlætingu. En jeg hygg, að þetta tvent hafi ekki getað verið einu orsakirnar. Fyrst er nú það, að Gottskálk var orðinn vel auðugur, er hann varð biskup og byrjar ákærur á hendur Jóni, enda bregður því stundum fyrir, að það er öllu fremur líf Jóns, er hann vill ná og ræð jeg þetta af misþyrmingu þeirri, er Jón sætti á Hólum og fjörráðunum við hann á alþingi. Enn má af sögunni ráða, að biskup var miklu óágengari við presta sína og leikmenn, en formaður hans, Ólafur biskup, hafði verið, þegar frá eru taldar fjártökur hans af Jóni Sigmundssyni. Hins vegar er það athyglisvert, að í allri viðureigninni við Jón, kemur berlega fram rótgróið hatur og hefnigirni. Jeg hallast mjög að skoðun þeirra, er getið hafa þess til, að Björg hafi, áður en hún giftist Jóni, verið ástmey hans. Gottskálk var, eins og áður er sagt, bróðursonur Ólafs biskups, og hefir að líkindum dvalið eitthvað á Hólum á uppvaxtarárum sínum. Björg var uppalin í Miklabæ hjá föður sínum, og bar af mörgum að fríðleik, en

andlegrarstjettar menn voru — svo sem aðrir dauðlegir menn — næmir á fegurð kvenna í þá daga. Þegar Gottskálk kemur úr vígsluför sinni, heyrir hann, að Björg er gift öðrum; væri nú þessi tilgáta rjett, má ætla, að honum hafi ekki líkað þetta vel, en maðurinn skapstór og langrækinn, og hugað á hefndir. Jeg get þessa einungis hjer, án þess að geta fært neinar óyggjandi sannanir fyrir því. En atferli biskups verður að sumu leyti afsakanlegra og skiljanlegra, ef þessi væri sökin.

Biskup byrjaði, þegar er hann kom út að ofsækja Jón, og kærði hann um hjónaband hans við Björgu, og lýsti á því fjórmennings meinbugum. En Jón hreinsar sig skörulega af því á Hólum í viðurvist Jóns Þorvaldssonar, er þá var officialis Hólakirkju. En 1504 deyði Jón Þorvaldsson, og hafði hann jafnan þótt hinn merkasti prestur norðanlands, rjettsýnn og friðsamur. Meðan hann lifði gat biskup ekki fyllilega komið fram ofsóknum sínum gegn Jóni lögmanni, en nú ljet hann ekki á sjer standa. Hinn 19. júní 1505, stefndi hann Jóni um sjö stórsakir, og var sú fyrst, að fjórmennings meinbugir væri á síðara hjónabandi hans; ljet hann nú tólf presta, er hann sjálfur nefndi í dóm, dæma Jón frá öllum eignum og skyldan að skilja við konu sína. Önnur sökin var upphlaupið í Víðidalstungu, sem áður er getið um; kærði hann, að Jón hefði þá saurgað kirkjuna með heiftarhug, og stungið kirkjuna mörgum stungum með hníf sínum; lætur hann presta sína dæma hann í stórsekt og fallinn í bann af verkinu sjálfu. Hinar höfuðsakirnar voru þessar: að hann

hjeldi nokkrum höfuðbólum ranglega, svo sem Urðum í Svarfaðardal, Víðidalstungu og fleiri. Ekki stoðaði, þótt Jón legði fram skjöl, er sönnuðu, að hann væri löglega að eignum þessum kominn; þær voru dæmdar af honum þrátt fyrir öll mótmæli af hans hendi. Jeg get hjer rjett, t. d., eins vitnis biskups í þessu máli, sem sýnishorns þess, hve vandur biskup var um vitnaleiðsluna. Meðan Jón bjó sem sýslumaður í Víðidalstungu, tók hann dreng fátækan til fósturs, Ólaf að nafni, er síðar var kallaður „Beggu-Láfi". Dreng þennan hafði Jón lögmaður tekið af fátæki miklu og alið upp sem sitt barn. Nú var hann orðinn fulltíða maður og gerðist það afhrak að ljúga því upp á fósturföður sinn, að hann hefði meðal annars framið þessar svívirðingar: misþyrmt sjer hræðilega í Víðidalstungukirkju, vanhelgað drottins líkama o. fl.; er mælt, að hann tæki þenna framburð aftur síðar, og segðist hafa borið þetta eftir vilja biskups. En ekki vildi biskup eða dómsprestar hans taka það til greina, og dæmdu hinn fyrra framburð Ólafs gildan. En hin þyngsta ákæra, er biskup bar á lögmann, var sú, að hann hefði myrt börn sín tvö, drekt þeim, öðru í Gljúfurá en brent hitt til bana í soðkatli heima í Víðidalstungu. Eigi er með öllu óhugsandi, að einhverjir hatursmenn lögmanns hafi logið upp þessum andstyggilegu morðsögum til þess að auka sekt hans í augum biskups, er þeir deildu út af síðara hjónabandi hans. Biskup tók ákærur þessar gildar, og var Jón til dauða sakaður um þessi barnamorð af óvinum sínum. En er hann hafði legið í gröf sinni 72 ár,

sannaðist loks sakleysi hans, bæði um þessi kæruatriði og önnur; var það Guðbrandur biskup, afkomandi hans, er málið hóf að nýju, hið svokallaða morðbrjefamál, og voru þá ótal vitni leidd; meðal annars er þá getið um rjettarhald 12. apríl 1572, er haldið var í Kaupangi í Eyjafirði; lögðu þar margir fram eiðfestar skýrslur í málum Jóns sál. lögmanns, og báru það allir samhljóða, að sönnunargögn öll gegn lögmanni væru fölsuð. Meðal þeirra, er mættu, nafngreini jeg Jón Ásgrímsson, þá 94 ára gamlan, og var mesti merkismaður talinn, og Halldóru Guðmundsdóttur, háaldraða; var hún talin mjög merk sæmdarkona. Þótti framburður þeirra svo ljós og skýr, að ekki varð á móti mælt. Þetta rjettarhald leiddi til þess, að tekið var að rannsaka að nýju hin fornu kæruskjöl biskups vandlega; sannaðist þá, að skyldleiki Jóns og konu hans var misskilningur einn, og að fjendur lögmanns höfðu lostið upp morðsögunni honum til tjóns og svívirðingar. Þannig var málið rjettlætt, og lögmaður saklaus fundinn með öllu. Það er athyglisvert í ofsóknum biskups gegn Jóni, að hann tekur allar óhróðurssögur um hann trúanlegar, og rannsakar þær lítt eða ekki, en notar þær sem óyggjandi dómsforsendur; kemur þetta glegst í ljós, þegar hann er að sanna frændsemis meinbugina; verður þó ekki annað sjeð, en að auðvelt hafi verið fyrir hann að sjá og vita hið rjetta þá þegar, er svo greinilega sannaðist síðar, að þau voru alls ekki skyld. Enn er það athyglisvert, að hann tekur allra harðast á þessari skyldleikasök, en

fer miklu vægar í aðrar sakir, er þó mætti sýnast, að væru miklu stærri.

Jeg held nú áfram með sögu lögmanns. Jón ljet ekki þenna dóm á sig fá. Biskup bannsöng hann og stefndi honum til Hóla til að taka þar lausn og skriftir, helst á Öskudag eða Skírdag. En lögmaður þekti of vel meðferð þá, er Hvassafells-Bjarni og fleiri höfðu sætt á Hólum til þess að ganga í þá gildru sjálfur. Hann hafði og reynt þá gestrisni, er þeir menn sættu, er í sökum voru við biskup, því að eitt sinn hafði hann komið til Hóla, eftir að biskup var tekinn að ofsækja hann, og höfðu þá sveinar biskups ráðist að honum, og skorið hann skurð frá eyra til munnviks, og bar hann þess merki til æfiloka.

Jón gengdi embætti sínu sem áður, þótt hann væri bannfærður, og þurfti til þess meiri kjark, en leikmenn áttu þá alment. En er biskup sá, að hann gat ekki náð Jóni á sitt vald, nje heldur fjármunum hans, sneri hann ofsóknum sínum á hendur konu hans, og stefndi Björgu heim til Hóla að viðlagðri bannspínu; hræddist hún og hlýddi stefnunni. — Árið 1507, um veturinn, dæmdi hann af henni of fjár, en fyrst varð hún með eiði að lofa að skilja við mann sinn, en hún vildi alt til vinna að sleppa við pindingar og varðhald. Enn varð hún að lofa því, að liðsinna manni sínum í engu, mátti ekki rjetta honum vatnsdrykk, hvað sem við lægi. Jeg set hjer sýnishorn af þeim skilmálum, er henni voru settir um fjárútlát:

| | | |
|---|---|---|
| 1. | Fyrir ólöglegan hjúskapargjörning skyldi hún gjalda Hólakirkju . . . . . . . . . . . | 15 merkur |
| 2. | Fyrir fyrstu barneign . . . . . . . . . . . | 15 — |
| 3. | — aðra barneign . . . . . . . . . . . | 30 — |
| 4. | — þriðju barneign . . . . . . . . . . . | 60 — |
| 5. | — allar þjónustu tekjur síðan þau giftust, en það töldust vera 10 ár, hvert ár 3 merkur . | 30 — |
| 6. | Fyrir hvert 16 daga hald, sem hún hefir í kirkju gengið 12 aura í 10 ár . . . . . . . . . . | |
| 7. | Fyrir sunnudaga og allar postulamessur og aðra helga daga í þau 10 ár, 6 aura fyrir hverja . | |
| 8. | Fyrir hvern rúmhelgan dag í 10 ár 18 álnir . | |
| 9. | Fyrir líkhamlegar samvistir við Jón Sigmundsson að sverja sjettareið eða gjalda Hóladómkirkju . . . . . . . . . . . . . . . . | 60 — |
| 10. | Fyrir svefn og samneyti við Jón að sverja sjettareið eða gjalda biskupi og Hólakirkju . . . | 60 — |

Allur þessi sakeyrir skyldi goldinn í fríðu heim til Hóla fyrir næstu fardaga. Með þessu var henni gefið frelsi; fjeð galt hún alt.

Lögmaður tók nú það ráð að leita á konungsfund, því að ekki vildi hann gefast upp fyr en í síðustu lög. Ferð hans gekk honum að óskum. Konungur bauð Stefáni biskupi í Skálholti ásamt hinum æðstu mönnum kirkjunnar að rannsaka mál hans að nýju og dæma honum konuna og eignir allar, ef hann hefði verið sviftur þeim ranglega. Ennfremur veitti hann honum lögmannsembættið norðan og vestan. En þótt undarlegt og ótrúlegt megi virðast, þá urðu nú málalokin þau, að Stefán biskup og dómsmenn hans dæmdu alla gjörninga og dóma Gottskálks og presta hans sanna og rjetta, og Gottskálk biskup við málið skilinn með heiðri og sóma.

Lögmannsembættið þorðu þeir ekki að taka af honum af ótta við konung, en næsta erfitt átti Jón með að gegna því og að dæma dóma og fá lögum hlýtt, því að bannfæringin lá á honum sem heljarfarg. Raunar sá öll alþýða manna, að hann vildi vernda og styðja rjett hennar, en ótti manna við þær ógnir, sem af því gat leitt að liðsinna bannfærðum manni, ljet margan sitja hjá aðgerðarlausan eða snúa baki við lögmanni. Sumarið 1511 var svo komið, að lögmaður hjelst ekki lengur við á Norðurlandi fyrir ofsóknum biskups; flýði hann þá á náðir vinar síns, Björns Guðnasonar í Ögri. Tóku þeir nú höndum saman um að vernda rjett leikmanna gegn ofsóknum og yfirgangi biskupa, og bættist þá það við mótlæti Jóns, að Stefán biskup lagði á hann fullan fjandskap og bannsöng hann, enda fylgdust biskupar venjulega að, er kúga skyldi leikmenn. Gerðu nú biskupar báðir einskonar bandalag annars vegar gegn þeim frændum, Jóni og Birni, en þeir styrktu á hinn bóginn hvor annan, Jón Björn með dómum sínum og lögspeki, en Björn aftur Jón með auði sínum og mannafla. Sumarið 1513 tók Gottskálk biskup að ofsækja Einar, son Jóns lögmanns, og ákærði hann um að hafa liðsint föður sínum á einhvern hátt, eftir að hann var fallinn í bann, áður en hann fór að norðan. Var Einar auðugur af móðurarfi sínum, og vildi biskup ná því fje undir sig, og mun jeg víkja betur að því síðar.

Biskupar báðir tóku nú að ofsækja þá frændur, Jón lögmann og Björn, en þeir vörðust svo vel um hríð, að ekki vanst á. Þetta sumar, 1513, 20.

maí, stefndi Jón lögmaður saman alþýðu allri og leikmönnum í Leiðarhólmi í Dölum; var þar samantekin og samþykt hin svo nefnda Leiðarhólmssamþykt, er síðar varð mjög nafnfræg, og hefir jafnan verið talin hin merkilegasta og nauðsynlegasta samþykt, sem gerð var á öllu því tímabili, og átti að vera til verndar gegn innlendri og útlendri kúgun. Sýnir þetta vel skarpleik lögmanns og þrek, og eigi síður hitt, hve langt hann var á undan sínum samtíðarmönnum, og hve ant honum var til síðustu stundar að verja frelsi og rjett leikmanna og landsrjettindin yfirleitt. Samþykt þessi er svo langt mál, að jeg verð að láta mjer nægja, að vísa þeim, sem hana vilja lesa, í Íslenskt fornbrjefasafn, VIII. bindi, og Árbækur Espólíns; er hún vel þess verð, að hún sje lesin af hverjum einasta Íslendingi. En hafi alþýða þessa lands nokkru sinni fengið að reyna þann sannleik, að óhamingju Íslands verður alt að vopni, þá fjekk hún það þetta ár. Biskuparnir báðir risu nú upp í öllu sínu veldi, og fengu með sjer marga valdsmenn úr flokki leikmanna — er þó höfðu samþykt það, er gert var á Leiðarhólmsþingi — til að vinna á móti samþyktinni og öllum samtökum. Tókst þeim þetta svo vel, að hún varð lítt eða ekki að notum.

Þegar Jón lögmaður sá, hvað verða vildi, bjóst hann enn til utanferðar til þess að vinna konung á sitt mál. Veitti konungur honum áheyrn sem fyr, og góðar undirtektir að því er samþyktina snerti; enn fremur veitti konungur honum uppreist í málum hans, og skipaði konungur höfuðsmanni að sjá um

að hann næði lögum og landsrjetti og styrkja hann til að framfylgja lögunum og öllum góðum og gagnlegum lagasetningum. En höfuðsmaður sem var útlendur og ekki hlyntur neinum nýmælum, sem alþýðu þessa lands mætti að gagni koma, hafði samþyktina að engu; en um mál lögmanns er það að segja, að mælt er, að Gottskálk biskup bæri svo mikið fje á höfuðsmann, að hann vildi láta drepa Jón lögmann, en þá þjóðarsmán hindraði lögmaðurinn sunnan og austan, Vigfús Erlendsson. Gengu þeir nú allir, höfuðsmaður og biskupar báðir, svo fast fram í málum þessum, að þeir þröngvuðu alþingi 1518 til þess að dæma Jón Sigmundsson sannan rógsmann, frá eignum, æru og embætti; lífinu einu hjelt hann. En 15. maí árinu áður hafði Gottskálk biskup látið tólf presta sína dæma Jón rjettan og sannan villutrúarmann, fyrir rangar og skaðlegar kenningar; segir þar meðal annars í dómsástæðunum, að hann sje uppblásinn í móti guði með „villutrú og tragteringum og trúarinnar afgöngu.“ Ekki mundu samt allar þessar ofsóknir hafa megnað að beygja þrek Jóns til fulls, ef ekki hefði hann þetta sama ár mist sinn eina vin og aðstoðarmann, Björn Guðnason, en hann deyði 1517, og þá lætur Jón bugast, tekur lausn og skriftir af Stefáni biskupi, og upp frá því lætur hann ekki til sín taka opinberlega í nokkru máli. Verður helst af sögunni ráðið, að hanum hafi fallið missir Bjarnar nær en alt annað, er hann hafði áður reynt.

Nú voru öll sund lokuð. Eftir þetta bjó hann við fátækt mikla, sviftur vinum, fje og heilsu, í Krossa-

nesi á Vatnsnesi nyrðra. Nú hefði mátt vænta þess, að Gottskálk biskup hefði látið staðar numið, og að börn Jóns hefðu fengið að vera í friði. En þegar ekkert var lengur af Jóni að hafa, tók biskup fyrir alvöru að ofsækja Einar son hans. Árið 1517, 13. maí, stefndi hann Einari fyrir tólf presta dóm í Viðvík í Skagafirði, og ákærir hann um fimm stórsakir, og sú þyngst, að hann hafi sofið hjá Jóni föður sínum bannfærðum og hjálpað honum og liðsint á annan hátt. Dæmir biskup af honum allar eignir og að skilja við konu sína. En með því að hann náði ekki öllu hans fje, árjettaði hann ofsókn sína með fullri bannfæringu. Kona Einars hjelt því, sem hún gat af fjenu, og liðsinti manni sínum alt það, er hún mátti; en biskup gerði henni það tiltæki dýrkeypt, því að 14. júní 1520 lætur hann presta sína á Víðivöllum í Skagafirði dæma af henni hvern einasta eyri í föstu og lausu, og skipar Gilbert presti frænda hennar, að varðveita fjeð, svo að hún geti ekki á neinn hátt hjálpað manni sínum. Lengra komst biskup ekki, því nú átti hann sjálfur fám vikum síðar að mæta fyrir drottins dómi, en þar hefir hann að líkindum ekki ráðið einn öllu.

Sagan getur Jóns lögmanns síðast með þessum orðum: „Jón lögmaður bjó þá að Krossanesi, vinum horfinn og örsnauður að fje.“ Hann tók um haustið 1520 sótt þá, er leiddi hann til bana; var það í almæli haft, að hann hefði stefnt Gottskálki biskupi fyrir guðs dóm, og er það satt, að margur hefir skotið máli sínu til guðs fyrir minni sakir. Hann áminti börn sín til guðlegs athæfis, og fól að síð-

ustu önd sína Jesú Kristi, með auðmjúkri bæn; hafði hann verið maður mjög vel að sjer um alt atgerfi, en þó hinn allra mesti mótlætismaður. Gottskálk biskup var á Grenjaðarstað að veislu, aðrir segja á Hrafnagili, er hann frjetti lát Jóns. Hann kvað nú ráð að búa sig til brottferðar; ljet taka hesta sína og reið sem skyndilegast heim til Hóla. Hann tók sótt hastarlega, og hjet á St. Jóhannes og Guðmund góða að duga sjer. Hann andaðist á öðrum degi.

Dánarár þeirra beggja er talið 1520, en um mánaðardag er óvíst. Hins vegar má af sögunni ráða, að skamt hafi orðið á milli þeirra.

---

Það sem jeg hafði í hyggju, er jeg valdi að tala hjer um Jón Sigmundsson í kvöld, er þetta þrent: ofsóknir þær, er hann sætti, vörn hans gegn þeim og dæmi það, er hann hefir öllum gefið, öldum og óbornum.

Það er hin mesta óhamingja þessa merkismanns, að aðalmótstöðumaður hans, er sá maður, sem talinn hefir verið einn hinn harðsnúnasti og, ef til vill, einhver hinn samviskulausasti biskup, er á þessu landi hefir verið; í allri kirkjusögu landsins finst ekki sá biskup, er beitt hafi þvílíkum vopnum sem Gottskálk gegn Jóni lögmanni. Því að þótt biskupar þættu harðir við leikmenn, voru þó leikmenn ekki ofsóttir, ef þeir voru alsaklausir. En hjer hefir sagan sannað, að alt öðru máli var að gegna, því að sakleysi Jóns lögmanns sannaðist að fullu, þótt síðar

yrði. Það bætir ekki um heldur, að konungur og sumir höfðingjar þessa lands bregðast Jóni, er hann leitar traustss hjá þeim til þess að ná rjetti sínum, því að óhugsandi er, að biskupi hefði tekist að yfirbuga hann með öllu og eyðileggja, ef hann hefði ekki fært sjer í nyt þekkingarleysi og blindni annara á það, er satt var og rjett. Sundrung og blindni landsmanna sjálfra eyðilagði Leiðarhólmssamþyktina, ekki síður en Gottskálk biskup, enda var þá sem oftar ekki ein báran stök hjá landsmönnum.

Vörn Jóns og frammistaða öll virðist sanna, að hann hafi verið sannkallað andans mikilmenni, og á hvaða öðrum tíma, sem hann hefði lifað, mundi hann hafa komið stórmiklu til leiðar; og þrátt fyrir alt, fjekk hann miklu til vegar komið, sje alls nákvæmlega gætt, og það, sem hann vann fyrir land og lýð, var að þakka þreki hans og staðfestu, framar en hinu, að landsmenn styddu hann dyggilega. Í full 10 ár gegndi hann lögmannsembættinu með röggsemd og samviskusemi og einbeittni, og mikið af þeim tíma situr hann í banni biskupanna beggja, og mun það vera einsdæmi í sögu þessa lands. Alla þessa stund berst hann fyrir rjetti þeirra, er minni voru máttar, gegn biskups- og konungsvaldi, dæmir dóma og semur samþyktir til verndar rjettindum þjóðarinnar, enda má glögt sjá, að frammistaða hans, þótt hann yrði undir að lokum, vakti þó athygli þjóðarinnar, og því urðu afleiðingarnar af starfi hans slíkar sem raun varð á. Þótt þeir gengju báðir í senn til grafar, lögmaður og biskup, þá dó

þó ekki þar með viðureign þeirra í meðvitund landsmanna. — Mynd þeirra varð svo ólík í endurminningunni, vegna þess að vopnin, er þeir beittu, voru svo ólík. Jón lögmaður neytti jafnan góðra vopna, og því tókst honum hvað eftir annað að sanna sakleysi sitt. Hins vegar beitti biskup og hans fylgifiskar svo svívirðilegum vopnum, að flestum hlaut að ofbjóða. Það sjest og vel af sögunni, að viðureign þeirra hefir haft hin mestu áhrif á hugi manna, jafnt andlegrar sem veraldlegrar stjettar, því varla gat hjá því farið, að biskup, er fram liðu stundir, ynni kirkjunni hið mesta tjón með slíku athæfi í málum sínum við Jón lögmann, enda tóku nú margir að þrá, að okinu mætti á einhvern hátt ljetta. Og því ljetti og að nokkru leyti með láti Gottskálks Nikulássonar hins grimma.

Eigi er ólíklegt, að biskup hefði farið vægar í sakirnar, ef hann hefði dreymt um þá tíma, er fram undan voru fyrir íslensku kirkjuna, og getað skilið, að hann með ofsa sínum var að auka konungsvaldinu fylgi og ryðja braut siðaskiftunum í hugum landsmanna, og drepa þá trú, er hjer hafði verið játuð í rúmar fimm aldir. Þegar hann dó, fjekk hann nafnið „hinn grimmi“, er við hann hefir síðan loðað; og talinn hefir hann verið einhver mesti harðstjóri þessa lands, andlegrar stjettar manna.

Jón lögmaður er nú á hinn bóginn talinn einn hinn mætasti maður sinnar tíðar og með bestu sonum þessa lands á öllum öldum.

Og hvað er það þá, sem vjer getum gott lært af æfisögu Jóns Sigmundssonar? Mjer þykir það mestu

skifta, að hann var mikill og einlægur trúmaður; sagan getur þess um hann, er hann var smádrengur, og söm eru orðin um æfilok hans. Hann kallar til sín börn sín, skipar þeim umhverfis hvílu sína, ekki til arftöku, því biskup hafði rænt hann öllum fjármunum. En hann boðar þau til sín til þess að áminna þau um guðlegt athæfi, og veita þeim sína föðurblessun að skilnaði. Enginn hafði honum fremur þurft á styrk trúarinnar að halda, enda getur enginn nema sá einn, er hefir sterka og staðfasta trú á guð og málefni þau, er hann berst fyrir, staðið jafnlengi á vígvellinum sem hann, án þess að þreytast eða hníga í valinn. Og það er þetta, sem saga íslensku þjóðarinnar hefir öllum að segja fyr og síðar: Þá vinina hefir ættjörðin átt hollasta og tryggasta, þau mikilmennin mest, er kallast hafa mátt „sannkristin göfugmenni“.

Jón lögmaður var hreinlyndur, og sagði hispurslaust sannleikann mótstöðumönnum sínum, og án alls manngreinarálits. Hann hjelt því fram, er hann áleit rjettast og sannast og helst til nytja, og hirti lítt um hvað aðrir sögðu. Víst mundi honum hafa reynst kleift með lögmannsvaldi sínu, auði og ættgöfgi að ná vináttu biskups, ef hann hefði ekki kosið að fara þá leið að verja sakleysi sitt drengilega og vernda rjett sinn og annara, heldur játað það á sig, er hann vissi sig saklausan af, og brugðist þannig sjálfum sjer og öðrum. En hann gekk gegn valdinu, þótt ægilegt væri, og þótt hann gæti sjeð fyrir afleiðingarnar, því afdrif Rafns lögmanns Brands-

sonar voru þá enn í fersku minni, og mátti hann því vel vita, hver hans hlutur mundi verða, er hann átti við þann málum að skifta, er síst var betri viðureignar en Ólafur biskup Rögnvaldsson hafði verið. En honum var annara í viðureign sinni við biskup og í Leiðarhólmi að fylgja því, er hann áleit rjett, heldur en sínum hagsmunum sjálfs og barna sinna. Þessi var sökin til þess, að hann breytti eins og hann gerði, og munu allir þeir, er þekkja æfisögu og æfistarf hans líta svo á, að hann hafi breytt rjett, enda meðtóku flestir afkomendur hans umbun verka hans.

Jón lögmaður varð maður mjög kynsæll, og eru margir merkustu menn þessa lands frá honum komnir, en minning hans er svo fögur, að af henni hefir lýst um liðnar aldir, og enn mun hún verða leiðarljós komandi kynslóðum þessa lands; og dæmi hans mun æ hvetja til framsóknar í því, sem gott er, rjett og satt.

Nú er á þessum tímum margt ritað og rætt um trú, ættjarðarást og vísindi. En mjer dettur í hug, er jeg hefi kynt mjer æfiatriði þessa merka manns, það sem einn af andans mönnum þessa lands hefir sagt: „Hjer á jörðu fæst engin mentun, sem jafnast við þá þekkingu að læra þá list að lifa kristilega og deyja sáluhjálplega, því nái maðurinn ekki þeirri mentun, verður lærdómur hans hálfverk, og ættjarðarást hans eigingjörn. En þar sem ættjarðarástin er fram komin af kristilegri trú í kærleiksríkri starfsemi, þá verður hún landi og lýð til blessunar, því hún er framborin af þeim manni, sem

mentaður er til eilífs lífs.“ Þá mentun hafði Jón Sigmundsson lögmaður öðlast, og þess vegna var ættjarðarást hans hrein, laus við alla eigingirni; og þá ættjarðarást óska jeg, að hver einasti Íslendingur megi eignast nú og á komandi tímum.

---

# Pjetur Einarsson (Gleraugna-Pjetur).

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 12. mars 1909.

---

Heiðruðu fjelagsbræður!

Tveir mánuðir eru liðnir, síðan jeg talaði hjer um Ara lögmann, son Jóns bikups Arasonar. Jeg valdi mjer þá æfisögu Ara til frásagnar, af því að jeg taldi hann sanna fyrirmynd allra ungra manna. — Honum var flest vel gefið, bæði sjálfrátt og ósjálfrátt, og fátt tel jeg hollara ungum mönnum en að lesa eða heyra sagt frá þeim sonum Íslands, sem frá barnæsku og alt til síðustu stundar, unnu fyrir guð og ættjörð sína, en fyrir þetta tvent tel jeg, að Ari lögmaður hafi lifað alla sína æfi, þótt hún því miður yrði alt of stutt. —

Alt öðru máli er að gegna um Pjetur Einarsson, sem seinna hlaut viðurnefnið „Gleraugna-Pjetur“, enda er ómögulegt að hugsa sjer ólíkari menn en þá tvo.

Skilji jeg æfisögu Pjeturs rjett, þá hefir honum verið ýmislegt vel gefið, er honum var ósjálfrátt, svo sem námshæfileikar, líkamlegt atgerfi, þrek og þol. Hins vegar fæ jeg ekki betur sjeð, en að honum hafi verið flest illa gefið, er honum var sjálfrátt,

og það ræður úrslitunum í viðskiftum hans við samtíðina og veldur þeim dómi, sem sagan hefir kveðið upp um hann.

Það er alt annað en skemtilegt að segja frá manni, sem lifði fyrir löngu síðan, og lýst er með öðrum eins litum og sagan lýsir Gleraugna-Pjetri; en af þeirri lýsingu virðist mega ráða, að Pjetri hafi alt verið illa gefið, það er honum mátti sjálfrátt vera, enda lætur hann í flestu stjórnast af blindri ágirnd, valdafíkn, ótrúmensku, trúleysi og hræsni.

Það er víst, að þetta er ófögur lýsing, en þó virðast nútímans sagnfræðingar staðfesta hana með dómum sínum.

Prófessor Einar Arnórsson gefur meðal annara Pjetri þann vitnisburð, að hann hafi verið jafnótrúr föðurlandi sínu sem lánardrotni, það er konungi sínum og ráðuneyti hans, og mun varla nokkur af siðaskiftamönnum hafa hlotið þyngri dóm, en þann að vera þetta tvent: föðurlands- og drottinsviki. Pjetur virðist hafa beitt undirhyggju og hræsni við yfirmenn sína, en kúgun við hina, er minni voru máttar og undir harðstjórnaroki hans stóðu.

Jeg vil þá leyfa mjer að koma með nokkra sundurlausa drætti úr æfisögu Pjeturs, og þótt þeir að þessu sinni verði fáir, vona jeg þó, að þeir nægi til þess að sýna ykkur, að einmitt Pjetur sjálfur staðfestir þann dóm, sem um hann hefir verið feldur fyr og síðar, og sannar lýsinguna, sem er orðin þjóðkunn, þótt ljót sje.

Pjetur er fæddur á Stað á Ölduhrygg (Staðastað) 1504. Faðir hans, Einar prestur Snorrason,

var talinn með merkustu prestum Skálholtsstiftis á þeim tíma og skáldmæltur vel, enda kallaður „Einar Ölduhryggjarskáld“.

Móðir Pjeturs, en fylgikona sjera Einars, var Ingiríður Jónsdóttir, systir Stefáns biskups, og talin merkiskona. Hana hafði áður átt Jón smiður Auðunnarson, og voru þeirra synir þrír: Erlendur Nikulás og Magnús, — hálfbræður Pjeturs. Alsystkin Pjeturs voru þessi:

Brandur prestur (Moldar-Brandur),

Þorvarður, sem fór til Danmerkur og mentaðist þar vel, og var talinn hálærður, en dó ungur;

Marteinn, síðar biskup í Skálholti,

Ingiríður, er átti Daði Guðmundsson í Snóksdal. Seinna kvognaðist Pjetur Ingiríði systur Daða, og er mælt, að í ýmsu væru þeir mágar líkir, enda tengdirnar styrkar.

Aðra systur átti Pjetur, er Guðlaug hjet. Hennar fjekk enskur maður, að nafni Róbert. Hafði hann áður verið tvo vetur á Staðastað, og kynt sig vel. Brúðkaup þeirra var haldið í Rifi, og er sagt, að níu ensk skip hafi legið þar, og kostuðu skipverjar veisluna að öllu leyti; er meðal annars frá því sagt, að hvert skip legði til veislunnar eina tunnu víns. Brúðkaupið stóð í hálfan mánuð og var drukkið fast, því veitt var af rausn mikilli. Síðan sigldu þau hjónin til Englands, og hafa að líkindum ílendst þar, að minsta kosti hafa þau ekki komið aftur til Íslands, svo menn viti til. Marteinn bróðir Guðlaugar sigldi með þeim hjónum til Englands. Kom Guðlaug honum þar í skóla, og öðlaðist hann góða

mentun; meðal annars lærði hann málaraiðn; og hjelt svo aftur heim til Íslands.

Pjetur ólst upp með föður sínum, og er fátt frá honum að segja fyrst um sinn; er ekki annars getið um æsku hans, en að hann væri vel gefinn, eins og önnur börn sjera Einars, og hjá föður sínum hefir hann að líkindum hlotið gott uppeldi.

Vorið 1530 fór hann utan, og var þá 26 ára, ef fæðingarár hans er rjett talið. Hjelt hann fyrst til Danmerkur, en hafði þar skamma dvöl, og síðan til Þýskalands og lærði þar hernaðaríþrótt.

Þar kyntist hann kenningu Lúthers og hneigðist brátt að henni. En er hann þóttist ekki fá þann frama í Þýskalandi, er hann vildi, fór hann þaðan eftir fimm ára dvöl heim til Íslands haustið 1535. Þegar hann kom heim, voru ástæður hans alt annað en glæsilegar, er hann var fjelaus með öllu og umkomulaus. Mentun sú, er hann hafði fengið í Þýskalandi, virtist ekki geta opnað honum leið að neinu föstu embætti hjer á landi. Hagur frænda hans var og ekki þannig, að hann gæti leitað til þeirra og faðir hans var háaldraður (dó 1538). Daði í Snóksdal var ekki búinn að ná völdum og auði, og systkini hans gátu enga hjálp veitt honum. Hver hafði nóg með sig.

Þá sat Ögmundur biskup Pálsson á stóli í Skálholti, og stóð veldi hans sem hæst, en hann var hníginn að aldri og sjónin tekin að bila.

Pjetur leitaði á náðir hans, því hann vissi sjer þar helst von auðs og frama, því biskup var höfðinglundaður og stórgjöfull þeim, er honum fjell vel við.

Biskup tók vel á móti Pjetri, og það því fremur sem hann vissi, að hann kom frá Þýskalandi ósnortinn af „villu Lúthers“, eins og biskup komst að orði, — samkvæmt frásögn Pjeturs sjálfs, — því biskup var maður ram-kaþólskur.

Framkoma Pjeturs var og þannig, að biskup mátti ætla, að Pjetur hefði alist upp í sjálfri páfahöllinni í Róm hjá hinum „heilaga föður“, og væri nú af guði sendur til styrktar kirkjunni á Íslandi. Pjetur var biskupi hinn geðþekkasti í allri framkomu, og liðu svo tvö ár, að honum tókst að leika svo tveim skjöldum, að hvergi hallaðist. „En Adam var ekki lengi í Paradís,“ segir máltækið, og eigi var heldur Gleraugna-Pjetur all-langa stund í þjónustu biskups. Sumarið 1537 misti biskup sjónina að mestu, og mun þá Pjetur hafa þótst geta farið að sýna, hver maður hann var. Hann hikaði ekki við að nota sjer neyðarástand biskups og gekk úr þjónustu hans, og svo vendilega sneri hann við blaðinu, að hann rjeðst í flokk skæðustu fjandmanna biskups, og gerðist með því eiðrofi, bæði við biskup og kirkjuna, eins og biskup seinna bar honum á brýn.

Diðrik er maður nefndur, þýskur að ætt; hann hafði umboð Kláusar hirðstjóra og sat nú á Bessastöðum með sveina sína. Líklegt þykir, að Pjetur hafi áður en hjer er komið, kynst Diðrik og sveinum hans, því ótrúlega fljótt batt hann vináttu við þá, og bauð þeim þjónustu sína. Það sannaðist þá: „Að Óðinn þá blótið fljótt og vel.“ Þágu þeir þjónustu Pjeturs með þökkum, Bessastaðamenn, og fögnuði komu hans, en ekki tilkyntu þeir honum sam-

stundis hlutverk þau, er hann átti að ynna af hendi, enda munu þeir og hafa haft sínar ástæður fyrir því.

Til þess nú að gefa ykkur dálitla hugmynd um fjelagsskap þann, sem Pjetur sókti svo fast að komast í, að hann rauf eiða og trúskap við gamlan velgerðamann sinn (Ögmund biskup), er þar að auki hafði jafnan verið vinur föður hans og annara ættmenna, tek jeg umsögn sóknarprestsins á Bessastöðum, Einars Ólafssonar í Görðum.

Bessastaðir voru þá annexía frá Görðum, og bar sjera Einari að syngja þar messu eftir því sem kirkjulög stóðu til.

Svall og drykkjuskapur var á staðnum. Diðrik sjálfur var mjög drykkfeldur og ofstopafullur, og atti hann sveinum sínum á þá, sem hann vildi hefna sín á. Illræmdastir sveina hans voru þeir Hans Witt og Pjetur Spons. Í síðustu ránsferð Diðriks ljetu þeir lífið ásamt honum, er mælir synda þeirra var fullur. Sjálfur kirkjubóndinn, Diðrik, var svo híbýlaprúður, að hann oftar en einu sinni flaug á prest blindfullur, og hvatti sveina sína sjer til aðstoðar, enda voru þeir oft ekki betur á sig komnir en húsbóndinn sjálfur.

Þótt prestur væri karlmenni með afburðum, fjekk hann nóg af slíkum aðförum, og hótaði hann Diðrik því, að ef hann hjeldi uppteknum hætti, skyldi hann á næsta alþingi, við sjálfa þingmannakirkjuna, lesa eða láta lesa upp æfisögu hans, þegar þar væri mest fjölmenni. Þetta hreif, því að Diðrik kærði sig ekki um þann lestur. Segir sonarsonur sjera Einars, sem

annálinn ritar, að afi sinn hafi eftir það getað flutt ræður sínar í friði fyrir ágangi Diðriks.

Seinni tíma sagnfræðingar hafa haldið því fram, að Pjetur hafi á árunum 1548—1550 skrifað nokkur brjef til konungs, sem ekki hafi verið holl sjálfstæði og fjárhag Íslands, og hefir það ekki verið vefengt, svo að jeg viti. Það er og víst, að ráðin, sem hann rjeði þeim húsbændum sínum á Bessastöðum, voru hin verstu ráð, sem Íslandi og kirkju þess voru ráðin á þeim tíma, og þess hefir verið getið til, að Diðrik hafi heitið Pjetri konungshylli og launum, ef ráð hans næðu fram að ganga, enda hlaut Pjetur hvorttveggja, þótt endaslept yrði.

Nú vil jeg biðja ykkur að taka vel eftir þessu „leyndarráði“ danska valdsins á Bessastöðum (Pjetri), og mun ykkur þá betur skiljast föðurlandsást hans, því frá þessum tíma og til elliára kemur Pjetur fram í sinni rjettu mynd.

Viðeyjarklaustur var lang-ríkast allra klaustra hjer á landi; það átti hundrað og tíu jarðir, auk mikilla auðæfa í gulli, góðum gripum og gangandi fje. Klaustur þetta lá næst konungsgarðinum af öllum eignum kirkjunnar, og þar var hægast um vik að ræna og rupla.

Sagnaritarar þeirra tíma segja, að Pjetur hafi gefið umboðsmanni hirðstjórans skrá yfir allar eignir klaustursins.

Brjef Ögmundar biskups og ýmislegt fleira, virðast og sanna þetta, enda stóð Pjetur manna best að vígi að tíunda hinar miklu eignir kirkjunnar, er hann var nýkominn úr þjónustu biskups. Enn frem-

ur segir sóknarprestur þeirra Bessastaðamanna, að hann hafi hlýtt á þá ráðagerð þeirra að ræna kirkjur og klaustur, löngu áður en framkvæmt var, því verkið var ekki eins auðunnið, er til framkvæmdanna kom, eins og þeir höfðu haldið í fyrstu.

Húsbóndinn í Viðey, Alexíus Pálsson ábóti, var harður í horn að taka; talinn tveggja eða þriggja manna maki að afli, og húskarlar hans margir ókvalráðir.

Pjetur og Diðrik biðu nú tækifæris að ræna klaustrið, og höfðu njósnir úti.

Vorið 1539 kom tækifærið. Þá fór Alexíus ábóti ásamt nokkrum húskörlum sínum að innheimta landskuldir klaustursins, alla leið austur í Grímsnes, en Diðrik neytti þá færis, og á sjálfa hvítasunnunótt lagði hann upp með ránsflokk sinn frá Bessastöðum.

Jeg fæ ekki betur sjeð, en að þeirri ferð svipi allmjög til hinna fornu víkingaferða. Diðrik er hjer líkari harðsnúnum ræningjaforingja víkingatímabilsins en eiðsvörnum embættismanni konungs, er skyldur var samkvæmt embættiseiði sínum að gæta rjettar og laga, vernda eignir og rjett allra landsmanna, og þá ekki síður hinna varnarlausu klaustra.

Mjer finst rjett að láta ykkur heyra, hvernig þeirra tíma sagnaritarar lýsa framkomu þessa þýskættaða danska embættismanns í Viðeyjarferðinni. Sú lýsing er eitthvað á þessa leið: „Þeir komu í Viðey 25. maí 1539, á sjálfan hvítasunnumorgun, þá er sól rann upp, og tóku hús á mönnum, því allir voru í rekkju; tóku þeir fólkið nakið og ljeku

mjög illa, börðu menn með köðlum og særðu, en bundu suma. Nokkrir björguðust til lands á klausturskipinu mikla, er „Thumaskollur“ hjet, en þeir Diðrik og menn hans rændu klaustrið tuttugu nautum, 100 sauðum og 7000 fiskum, og fóru svo á burt, en Diðrik setti nokkra af mönnum sínum yfir klaustrið.“

Að vísu er Pjeturs ekki getið í ránsför þessari, enda er enginn maður nafngreindur nema Diðrik einn, en þó er það vafalítið, að hann hafi verið í flokki Diriks, og dreg jeg þar til þau rök, er nú skal greina:

Í fyrsta lagi skrifar Ögmundur biskup, sem þá var staddur í Reykjaholti, brjef þetta sama sumar, þar sem hann ákærir Pjetur beinlínis fyrir þetta rán, og hótar honum hinu mesta banni fyrir framið rán og helgispjöll í klaustrinu.

Í öðru lagi er Pjetur þá einmitt kominn í flokk Bessastaðamanna, og í þriðja lagi er meðferðin á fólkinu í Viðey nákvæmlega sú hin sama sem Pjetur hafði á munkunum á Helgafelli, þegar hann seinna tók það klaustur.*

Pjetur er nú orðinn opinber fjandmaður biskups, enda telur biskup það sínar sárustu og þyngstu raunir, hvernig hann og síðar Gissur biskup reyndust honum. Fyrir framkomu sína við Ögmund biskup, mesta velgerðamann sinn, hefir Gissur biskup hlotið sæti við hliðina á Gleraugna-Pjetri, í sögu Íslands.

Ekki var Diðrik ánægður með þessa ránsför sína,

---

* Sumir sagnaritarar vorir ætla þó, að Pjetur hafi ekki verið við riðinn rán Viðeyjarklausturs.

því tveim nóttum fyrir Lárentiussmessu þetta sumar lagði hann af stað austur til þess að ræna klaustrin í Þykkvabæ og Kirkjubæ. Í þeirri för misti hann lífið og flestir af mönnum hans. Ekki var Pjetur með í þeirri för.

Sumarið 1541 var Ögmundur biskup tekinn höndum, rændur öllu fje sínu og fluttur sem sakamaður af landi burt. Þá var vegur Pjeturs svo mikill og vinfengi hans við danska valdið hjer svo öflugt, að Kristófer Hvítfeld veitti honum umboð sitt yfir land alt.

Þegar nú völdin og auðurinn var fenginn, kom til kasta Pjeturs að sýna, hvernig hann færi með hvorttveggja gagnvart landsmönnum, og hversu trúr hann reyndist lánardrotni sínum (Hvítfeld).

Þegar Ögmundur biskup var tekinn, eins og áður greinir, var hann sviftur öllum fasteignum sínum og lausafje. Enn fremur var Ásdís systir hans rænd öllum dýrgripum sínum og auk þess teknar af henni tólf jarðir. Er svo að sjá, sem það hafi verið fremur af ókunnugleika Hvítfelds en ágirnd, að þær slæddust með, þá er hann kúgaði Ögmund biskup til að gefa skýrslu um þær jarðir, er hann átti, því sjálfur var hann viðstaddur, er skrá sú var samin.

En er Hvítfeld var farinn, hugðist Ásdís að ná rjetti sínum, þar sem umboðsmaður Hvítfelds var íslenskur, og vissi vel hvernig ástatt var; reið hún því til alþingis og áheyrandi öllum þingheimi vann hún eið að því, að hún ætti þessar tólf jarðir samkvæmt guðs og manna lögum.

En Pjetur þekti ekki eða vildi ekki þekkja nein slík lög, og „læsti jarðirnar undir konungs lás.“

Pjetur hafði, þegar hjer var komið sögunni, ótakmarkað vald og var því gagnslaust bæði fyrir Ásdísi og aðra að leita rjettar síns gagnvart honum, enda sá hann svo um, að Ásdís fjekk aldrei aftur jarðir sínar og fjellu þær í konungs sjóð.

Danir trúðu nú Pjetri svo vel, að þeir fóru eftir öllum hans tillögum, enda hafði hann fylgt þeim dyggilega þá er Viðey var rænd. Þá hafði hann nú og lögsögn í Kjósarsýslu. Hann falaði Viðey til ábúðar af Dönum, og í skýrslu til konungs lýsir hann eynni á þá leið, að hún sje á útkjálka landsins og fóðri að eins eina belju og tvö útigangshross. „Dönum má alt segja,“ segir máltækið, og víst trúðu þeir þessu um stund, en þessi skýrsla Pjeturs sýnir nákvæmni hans og samviskusemi, þegar hann átti að meta eignir konungs, og hagsmunir hans sjálfs voru annarsvegar. Hann byrjaði svo búskap á þessari eyðiey, sem hann hafði talið stjórninni trú um, að væri alveg gróðurlaus og þyrfti eðlilega endurbóta við um húsaskipun og fleira.

Það vill svo vel til, að til er lýsing samtíðarmanna Pjeturs á verkum þeim, er hann ljet vinna þetta sumar, og er hún eitthvað á þá leið, er hjer fer á eftir:

Viðeyjarklaustur var best húsað allra klaustra á Íslandi, en Pjetur ljet rífa niður til grunna hina veglegu klausturkirkju, sem var þá nýsmíðuð og hin vandaðasta í alla staði. Einnig ljet hann rífa niður herbergi munkanna (domum bræðranna). Síðan tók hann nú að byggja upp staðinn á ný, en einnig í því

verki kemur fram stráksskapur hans. Hann byrjar á því að bera mold í kirkjugarðinn og jafna þar alt við jörðu. Því næst bygði hann eldhús, þar sem „herbergin“ höfðu áður staðið, og náðhús þar aftur af, en ljet frárenslið snúa í austur og hafði forina þar, sem kórinn var áður. Um fleiri byggingar eða jarðabætur getur sagan ekki, er gerðar hafi verið í Viðey á búskaparárum Gelraugna-Pjeturs. Hins vegar segir hún frá því, að myndir og helga dóma hafi hann svívirt og eyðilagt, en afhent Dönum auðmjúklega allan skrúða, gull og gersemar. — Öll meðferð Pjeturs á Viðey var þannig, að hún vakti hatur margra samtíðarmanna hans, en fyrirlitningu og viðbjóð seinni tíma manna.

Árið 1543 ljet hann sjer ekki nægja Kjósarsýslu, heldur náði hann sjer þá í veiði, er um munaði, en það var Helgafell með öllu því, er þar heyrði undir. Alt hafði staðið þar óbreytt fram til þessa; en nú sló Pjetur hendi sinni yfir allar eignir þess; er sagt að hann ljeki munkana svo skammarlega, að þeir flýðu þaðan berfættir og grátandi og ábótinn fjekk að eins þrjú kot fyrir sig og munkana. Ágirnd Pjeturs var nú fullnægt í bili, og það svo vel, að hann gat leigt Daða mági sínum allar Skógarstrandar jarðir, en sjálfur settist hann að á Arnarstapa, og er sagt, að hann ljeti húsa þar „forkostulega“.

1548 fær hann brjef frá konungi þess efnis, að hann skuli handtaka Jón biskup Arason. Treysti konungur engum betur til þess en honum, enda taldi Jón biskup Pjetur voldugastan óvina sinna hjer á landi. Ekki átti Pjetri þó að auðnast sú frægð að

handsama biskup; sá „heiður“ fjell í annara skaut. Þó var hann staddur þetta sumar í Skálholti og varði staðinn fyrir Jóni Arasyni, því Marteinn hafði sett hann yfir alt sitt, meðan hann sjálfur var utan að sækja vígslu sína.

„Makedonia nægir þjer ekki öll, sonur minn,“ sagði Pilippus konungur forðum við Alexander mikla, son sinn, og líkt er um Pjetur að segja. Honum nægði ekki það, er hann hafði ruplað á Suðurlandi, en fór nú að hugsa sjer til hreyfings á Norðurlandi. Hafði hann lengi hugsað um ránsferð þangað, en ekki árætt, vegna þess að þar var Jóni biskupi Arasyni að mæta. Nú var hann fallinn (1551) og allar eignir hans komnar í konungssjóð samkvæmt hinum alræmda Oddeyrardómi, en þessar eignir eru metnar, eftir núgildandi peningaverði, rúm-lega tvö hundruð þúsund króna virði; var Pjetur viðstaddur, er ráðstafað var eignum biskups og öðrum klaustraeignum þar nyrðra, og náði þar í drjúgan hvalreka.

Herramennirnir Axel Juel og Kristofer Trondson leigðu honum Reynistaðarklaustur með öllum jörðum, 90 að tölu, og átti hann þar í móti að annast um uppeldi Sólveigar abbadísar og systranna, enn fremur átti hann að sjá um uppeldi barna sjera Björns á Melstað, því að þau voru korn-ung og svift öllum eignum föður síns. Enn skyldi hann greiða 15 dali í afgjald. Samningur þessi var gerður 27. júní 1553.

Ekki skal jeg að þessu sinni rekja, hvernig Pjetur ynti þessa skilmála af hendi þar nyrðra, en held-

ur má ætla, að eitthvað hafi vantað á, að þeir yrðu uppfyltir.

Um þessar mundir stóð vegur Pjeturs sem hæst, hvað auð og völd snerti. En nú skyldi veg hans og völdum bráðlega lokið, og hafi nokkur maður fengið að reyna sannleik þessara orða: „syndin hefnir sín og heimslánið er hverfult“, þegar þess er aflað með óheiðarlegu móti, þá fjekk Pjetur alt þetta að reyna seinna hluta æfi sinnar.

Árið 1553 hljóp fyrsta snurðan á vináttuþráð Pjeturs við danska valdið á Bessastöðum.

Pjetur ætlaði að refjast um að greiða hina umræddu 15 dali, en gætti þess ekki, að hjer var ekki við varnarlausan klausturlýð að eiga eða „búkarla“ íslenska, heldur við höfuðsmann Dana, með konung og stjórn að bakhjarli, og þeir ljetu ekki að sjer hæða í fjárheimtum. Dalina varð Pjetur auðvitað að greiða, en ekki var hann þó búinn að bíta úr nálinni. Reynistaðarumboð var tekið af honum og höfuðsmaðurinn, Knútur Steinsson, bar á hann hverja ákæruna annari þyngri.

Fyrst og fremst var það borið á hann, að hann hefði logið, er hann mat eignir Helgafells og Arnarstapa, og sagt þær miklu minni, en þær í raun og veru voru; var hann sviftur þeim báðum og heimtaðar miklar skaðabætur í konungssjóð, og skyldi Pjetur standa eftir slippur og snauður.

En er til auðnar tók að horfa fyrir Pjetri, gekk Daði í Snóksdal í málið og bað griða fyrir hans hönd; mátti Daði sín mikils hjá Dönum, en varð

þó að greiða allmikla upphæð fyrir Pjetur. En þetta var að eins stutt hlje. Viðey hjelt Pjetur enn, en það varð ekki lengi, því að enn á ný var tekið að rannsaka reikninga hans, og var hann nú kærður fyrir enn þyngri sakir en áður, bæði út af Viðeyjarfjármálunum o. fl.

Stjórnin hafði í höndum skýrslu hans um Viðey, sem áður er getið, en við nánari rannsókn kom það í ljós, að eyjan var ekki eins rýr og Pjetur hafði sagt í skýrslu sinni, og umbætur hans á húsagerð og öðru munu hafa þótt alt annað en launa verðar.

Að lokum var honum stefnt utan á konungsfund til að hreinsa sig af öllum ákærum og gera full reikningsskil ráðsmensku sinnar. Til þessarar farar mátti hann ekki hugsa, því hann vissi vel, hvernig fara mundi, ef hann færi utan. Ekki tókst honum að hrinda neinum af sökum þeim, er á hann voru bornar, hvorki um Viðeyjarmál nje annað.

Sumarið 1564 ætlaði höfuðsmaður að láta taka hann fastan og flytja nauðugan til Danmerkur til þess að hann gæti þar meðtekið laun verka sinna að fullu. Segja þeirra tíma sagnaritarar, að hann hafi þá hvergi verið óhultur. Vinátta stjórnarinnar við Daða var tekin að kólna, og svo komið, að hann hafði nóg að starfa að verja sína eigin meðferð á konungsfje.

Martein, bróður Pjeturs, hafði stjórnin svift biskupsembættinu, og sjera Jón Bjarnason gamli, fóstbróðir Pjeturs, var fallinn í fulla ónáð hjá stjórninni og þar að auki orðinn sturlaður á geðsmunum.

þannig hafði flestum vinum Pjeturs hlekst á að einhverju leyti.

Ekki gat Pjetur vænst samúðar eða liðsinnis landsmanna, því meðan alt ljek í lyndi fyrir honum, hafði framkoma hans verið þannig gagnvart þeim, að eigi mundi þar til neins að leita ásjár. Að eins einn maður var honum ekki andvígur, og það var sjera Gísli prestur Jónsson frá Selárdal, sem nú var orðinn biskup, því stjórninni var enn ókunnugt um meinbugi þá, er voru á ráði hans.

Pjetur leitaði á náðir hans, og urðu þeir ásáttir um, að Pjetur skyldi felast í skauti kirkjunnar — taka prestvígslu. Vígði biskup hann til Hjarðarholts í Laxárdal; en þegar til átti að taka, urðu embættisverkin honum örðugri, en bæði hann og biskup hafði að líkindum grunað, enda er sagt, að Pjetur hafi verið búinn að gleyma því, er hann á ungum aldri nam í kristnum fræðum; er og margt ólíklegra, því að hann hafði haft annað að starfa en iðka bóklestur.

Það verður þó ekki sagt um Gísla biskup, að hann gerði miklar kröfur til presta sinna, því margir urðu að láta það nægja að lesa upp kafla úr Korvinspostillu í staðinn fyrir stólræðu; þess vegna hefir biskup treyst því, að Pjetur mundi geta fleytt sjer á þenna hátt.

Pjetur var þá orðinn sjóndapur mjög, en um þær mundir voru gleraugu farin að flytjast til landsins, þótt fremur væri fátítt. (Nefklemmur þektust alls ekki þá; þær komu seinna til sögunnar, og þótti kenna marglætis að nota þær).

Pjetur var svo heppinn, að ná í þennan fágæta grip, en að líkindum hefir mönnum orðið starsýnt á slíka nýbreytni, því að viðurnefnið hlaut hann þegar hann tók að nota gleraugun.

Samtíðarmenn Pjeturs minnast ekki á, hvernig sálusorgari hann hafi verið, en eftir fyrri framkomu hans virðist ekki erfitt að spá í þær eyður.

Upp frá þessu er fátt eitt um Pjetur að segja, því varla er hans minst, eftir að hann fluttist að Hjarðarholti. Allar ákærur stjórnarinnar hafa að líkindum fallið niður, og hvergi virðist Pjetur koma fram við opinber mál þau 14 ár, sem hann var prestur í Hjarðarholti.

Árið 1581 slepti hann brauðinu við bróðurson sinn, Þórð prest Brandsson, og andaðist árið 1586, að því er menn ætla, og þá háaldraður.

Með konu sinni, Ingiríði, átti hann eina dóttur, er Katrín hjet, og er frá henni komin mikil ætt hjer á landi.

Þá hafið þið heyrt æfisögu Gleraugna-Pjeturs, svo sem jeg kann að segja hana, og eins og jeg tók fram í upphafi þessa fyrirlesturs, er hún ekki neitt falleg. Það er því ekki nema eðlilegt, að eitthvert ykkar hugsi sem svo: Er það vel til fundið eða viðeigandi að taka slíka menn til umræðu, eða halda fyrirlestur um þá? Jeg svara hiklaust játandi, því af slíkum mönnum sem Pjetur var, má læra að forðast hið illa, eins og gott má læra af góðum.

Tímarnir líða og mennirnir breytast, en eitt stendur stöðugt svo lengi sem vegferðin varir og það er þetta, að bæði einstaklingurinn og fjelagsheildin á

við ill öfl að stríða, sem herja á bæði hið innra og ytra, og með tilliti til þessa vildi jeg bæði minna sjálfan mig og tilheyrendurna á að gæta allrar varúðar, ef eitthvert okkar ætti að skifta við þann mann, er líkur væri innrætis Gleraugna-Pjetri.

Mjer finnast stundum árásir þær, sem gerðar eru nú á tímum á kirkju þessa lands og kristindómsmálefni, minna á bardagaaðferðina hans Gleraugna-Pjeturs, og því er líkast sem mótstöðumenn kirkjunnar nú á dögum sæki vopnin í sama búrið sem Pjetur gerði, þegar hann á 16. öldinni herjaði á kirkjuna íslensku, og jeg vona, að þið takið undir þá ósk, að Ísland ali hvorki nje fóstri nú eða á komandi tímum neinn Gleraugna-Pjetur líkan þeim, sem hjer hefir verið lýst í kvöld.

---

## Jón biskup Arason.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 4. nóv. 1908.

---

Þegar jeg lofaði að segja hjer kafla úr sögu Íslands í kvöld, þá hafði jeg einkum í huga tímabilið frá 1450—1550. En nú hefi jeg þegar flutt stutt erindi um fyrra hluta þess tíma, eða fram til æfiloka Jóns lögmanns Sigmundssonar, og mun því nú taka þar til, sem fyr var frá horfið, og verður erindi mitt aðallega um árin 1520—1550, eða til þess er Jón biskup Arason er af lífi tekinn, því að um hann stendur mestur styrr þessi árin, og má svo kalla, að æfisaga hans hin síðari árin sje um leið saga alls landsins.

Jeg tók það fram, þegar jeg talaði um Jón lögmann Sigmundsson, að hann hefði skarað fram úr sínum samtíðarmönnum. En sá maður, sem hjer um ræðir, Jón biskup Arason, ber samt höfuð og herðar yfir sína samtíðarmenn.

Jeg get þess þá fyrst, að Jón Arason var af hinum göfgustu ættum kominn. Móðir hans, Elín Magnúsdóttir, rakti ætt sína langt fram í aldir, og föðurætt Jóns var engu ómerkari. — Ara Sigurðssyni, föður hans, er lýst þannig, að hann

væri fastlyndur og drengur hinn besti, hversdagslega fálátur en reiddist illa, ef hann brá skapi. Elín móðir hans var miklu vanstiltari í skapi, og í æsku mjög metnaðargjörn. Hún ólst upp hjá foreldrum sínum, og var hjá þeim, þar til hún var gefin Ara, og þá vel roskin, komin fast að fertugu. Er svo að sjá, sem henni hafi fyrst í stað þótt lítið til bónda síns koma, og haft alla sína háttu, hvort sem honum líkaði betur eða ver; en atvik eitt, sem kom fyrir á fyrstu búskaparárum þeirra, hafði mikil áhrif á sambúð þeirra síðar meir, og breytti algerlega framkomu Elínar gagnvart honum.

Elín var kona makráð og ákaflega morgunsvæf. Sumar eitt höfðu óþurkar gengið, og átti Ari mikið hey úti, en mannafli var ekki nema þau hjónin og vinnukona ein.

Morgun þann, er þurkurinn byrjaði, reis Ari bóndi snemma úr rekkju, því að hann var kappsamur og árrisull, en Elín svaf og dormaði. Gerði hann tvær ferðir inn til hennar að vekja hana, en hún svaraði illu einu og svaf sem áður.

Í þriðja sinni er sagt, að hann reiddist mjög; tæki vönd einn stóran, bindi hana á höndum og fótum og afhýddi hæls og hnakka á milli; kastaði síðan yfir hana klæði og færi út á teig, en skipaði vinnukonu sinni að flýta sjer heim, því að húsmóðir hennar væri nauðulega stödd, og bæði hana hjálpar tafarlaust.

Eftir þetta skifti svo um, að Elín varð öll önnur og virti og elskaði mann sinn og stundaði heimili sitt með elju og atorku.

Árið 1484 voru þau hjón komin að litlu koti í Eyjafirði, sem Grýta heitir. Þar fæddist þeim sonur þetta sama ár, og var hann heitinn Jón. Um veru hans þar er ekki neitt markvert að segja, því foreldrar hans fluttu þaðan, er hann var sex ára gamall (1490), að Syðra-Laugalandi. Þar misti hann föður sinn ungur, og vann fyrir sjer og móður sinni og bjuggu þau við mikla fátækt, svo að á einu hausti voru engin matföng til í búi, utan ein snemmbær kýr í vonum. Jóni þótti illur sulturinn, en kýrin þrokaði mjög, og eitt kvöld ræddi hann við móður sína, að hann mundi farga einni ánni til að svifta sig og hana hungrinu. Hún bað hann fyrir guðs skuld að gerast ekki sauðaþjófur, því að ærnar væru ekki fleiri en innstæðu næmi, en ekkert til að borga með; kvaðst vona, að kýrin bæri nú brátt. Um þetta ræddu þau nokkurn tíma. Loks gaf móðir hans upp vörnina, og var Jón þá ekki seinn á sjer að sækja vænstu ána, en þegar hann ætlaði að leggja hana niður við trogið, bað móðir hans hann að bíða enn við, meðan hún gætti, hvað kúnni liði; hitti hún þá svo á, að kýrin var borin í flórinn, og varð þá ekki frekar átt við sláturstörfin, eins og nærri má geta.

Þessu atviki úr æsku sinni, gleymdi Jón aldrei, en hafði það iðulega fyrir borðsögu, þegar hann var kominn til auðs og valda. Ekki gleymdi hann heldur æskustöðvum sínum, en kvað þeim til vegs hina alkunnu vísu: „Ýtar buðu Grund við Grýtu, | Gnúpafell og Möðruvelli, | en ábótinn vill ekki láta | aðalból, nema fylgi Hólar.“

Sagt er, að Jón væri bráð-þroska og framgjarn.

Brann hann af fjöri og framfaraþrjá, en tækin voru hinsvegar fá til að kom sjer áfram fyrir fátækan umkomulausan dreng. Þó voru einar útgöngudyr og þær notaði hann. — Einar Ísleifsson ábóti á Munkaþverá var frændi hans. Hann var lærður vel, einkum í latínu. Þangað vandi Jón komur sínar, og lærði þar söng og lestur og nokkuð í latínu. En jafnframt náminu vann hann þar öll störf, er fyrir komu á klaustrinu. Smám saman tók hagur hans að batna. Árið 1507 var hann vígður af Gottskálki biskupi og veittir Helgastaðir í Reykjadal og ári síðar Hrafnagil. Þá var hann og skipaður prófastur og „almennilegur dómari“ millum Varðgjár og Glerár; gerði hann þá nokkru síðar (1519) það ráð fyrir móður sinni, er þá fluttist að Munkaþverá, að hún skyldi á hans kostnað hafa þar kú á heyjum og stúlku sjer til þjónustu.

Árið 1508 tók Jón Arason til lags við sig Helgu Sigurðardóttir. Áttu þau sex börn, og var Magnús elstur, þá Ari, er seinna varð lögmaður, þá Sigurður, er var prestur að Grenjaðarstað eftir Magnús bróður sinn, er dó þar ungur; fjórði var Björn prófastur að Melstað. Dætur hans voru þær Þórunn, er lengi bjó að Grund, og var þrígift, og Helga, er átti Eyjólf Einarsson í Stóradal undir Eyjafjöllum, og hefir enginn biskup þessa lands verið eins kynsæll og Jón biskup Arason.

Eftir þetta tók Jón að láta mjög til sín taka í öllum opinberum málum. Mátti svo heita, að varla væri svo dómur dæmdur í hjeraðinu, að ekki væri hann annað hvort sjálfur í dóminum, nefndi menn

í dóminn eða samþykti hann, enda var hann stundum sýslumaður jafnframt því, sem hann var stiftsprófastur. Síðar hafði hann um 3 ár hirðstjórnarvald.

Sjeu dómar Jóns og úrskurðir bornir saman við dóma fyrirrennara hans, Ólafs og Gottskálks, er munurinn næsta mikill. Öllum þeim, sem lögðu mál sín á vald Jóns biskups, reyndist hann mildur og vægur; vildi láta hvern ná rjetti sínum án manngreinarálits, og er það einkenni mikilla manna og góðra að láta hverjum verða eftir því, hvort hann hefir málefni ill eða góð

Guði, kirkjunni og föðurlandinu vann hann alla æfi sína, og svo fjekk hann unnið störf sín, að allir hneigðust að honum með aðdáun og virðingu. Þegar Gottskálk dó, var hann kosinn biskup af nálega öllum prestum Hólastiftis, og þótt kosning hans mætti mikilli mótspyrnu frá Ögmundi Skálholtbiskupi, var hann vígður sumarið 1524 af Ólafi Engilbertssyni erkibiskupi í Niðárósi og vorið 1525 kemur hann út aftur til Íslands; átti hann í fyrstu í illdeilum við Ögmund biskup, og þótt Jón biskup væri stórhuga og metnaðargjarn, kunni hann vel að stjórna geði sínu í viðureign þeirra, án þess þó að láta hlut sinn í neinu. Deilum þeirra biskupanna lauk á þann hátt á alþingi (1527), að maður var kjörinn af hvorum til einvígis í augsýn beggja; börðust þeir lengi, og var látið heita svo, að maður Ögmundar biskups bæri hærra hlut. Skildust biskupar því sinni vandræðalaust; en brátt tók að vingast betur með þeim, og má svo kalla, að eftir þenna atburð lifðu þeir

í friði og sátt og styrktu í sameiningu veg og vald kirkjunnar.

Eftir að sættir höfðu komist á, tók Jón biskup af alvöru að hefja börn sín til vegs og virðinga. — Árið 1529 sendir hann Magnús son sinn suður til Skálholts og lætur Ögmund vígja hann, og veitir honum Grenjaðarstað. Til fylgilags fjekk Magnús Kristínu, dóttur Vigfúsar lögmanns og hirðstjóra Erlendssonar á Hlíðarenda (1533), göfuga konu og auðga. — Sama ár gefur hann Ara syni sínum stórbýlið Holtastaði í Langadal og sex aðrar jarðir, útvegar honum lögmannsembættið (norðan og vestan) og um líkt leyti (1530) eitt hið ríkasta kvonfang, sem þá var á öllu Norðurlandi, en það var Halldóra dóttir Þorleifs ríka Grímssonar á Möðruvöllum.

Birni syni sínum útvegar hann Melstað (1534) og nokkru síðar veitir hann honum prófastsembættið í Húnavatnsþingi. Björn gekk að eiga Steinunni Jónsdóttur á Svalbarði og Ragnheiðar „á rauðum sokkum“.

Árið 1535 veitir hann Sigurði syni sínum Grenjaðarstað, því þá var Magnús dáinn til mikils harms ættingum og vinum. Fylgikonu hafði sjera Sigurður, Cecilíu að nafni, merka konu, af ætt Lofts hins ríka Guttormssonar.

Eldri dóttur sína, Þórunni, gifti hann Rafni lögmanni Brandssyni (1526). Fimm árum síðar (1531) gifti hann yngri dóttur sína, Helgu, Eyjólfi Einarssyni í Stóradal undir Eyjafjöllum, stórættuðum og vellauðugum manni. Voru nú öll börn hans gift og

komin í fastar stöður, enda tekur sagnaritarinn það fram, að Jóni biskupi hafi hlotnast sú gleði að sjá öll börn sín komin til virðingar og metorða, er hann var sjálfur vel fertugur að aldri.

Jón biskup ljet sjer mjög ant um hag kirkjunnar, og fór hann reglulegar yfirreiðir og heimti alstaðar börn til fermingar eða „biskupaði þau“, eins og þá var kallað. Sömuleiðis ljet hann sjer ant um að leikmenn gerðu góð og rjett skil á kirkjueignum, og leið enga óreglu í þeim efnum. Hann ljet sjer líka ant um að efla fróðleik og mentun.

Jón Matthíasson hjet prestur einn. Hann var sænskur að ætt og uppruna, og hafði numið prentlist. Biskup sá hversu mikið gagn mætti að því verða, að bækur fengjust prentaðar hjer á landi. Fjekk hann nú Jón prest út hingað og veitti honum Breiðabólstað í Vesturhópi, og árið 1534 eða 1535 var sett prentsmiðja á stofn að ráði biskups, fyrst á Hólum og síðar að Breiðabólstað, og komu þar út einhverjar bækur, og þó fáar. Líklegt er þó, að biskup hafi ætlað sjer að láta prenta fleiri bækur en raun varð á, því bæði lagði hann sjálfur þann skerf til íslenskra bókmenta, sem bestur er á því tímabili, og hvatti aðra til að taka sjer fram í því efni. En þá tóku nú úr því að gerast þeir viðburðir á æfi hans, síðustu árin, er gerðu þá fyrirætlun að engu.

„En bilið er mjótt milli blíðu og jels, og brugðist getur lukkan frá morgni til kvelds“. — Þennan sannleika hafa margir fengið að reyna öld eftir öld, og mikilmenni sögunnar engu síður en smámennin.

Jón biskup Arason hafði hingað til verið óska-

barn hamingjunnar. Hjá honum höfðu enn sem komið var haldist í hendur tign, auður og vinsældir. — Heimilislíf hans var hið ánægjulegasta, og barnalán hafði hann mikið; ástsældar og virðingar naut hann jafnt hjá lærðum sem leikum, og eftir að hann hafði borið hærri hlut í viðureign sinni við Teit hinn ríka, mátti svo að orði kveða, að allir sætu og stæðu eins og hann vildi.

Merkilegt og eftirbreytnisvert er það í fari hans, hversu vel honum tekst að varðveita hreinleika æskunnar. Hið sama drenglyndi, sem einkendi hann í æsku, kemur einnig fram á þessum kafla æfinnar, þegar hamingjusól hans er í hádegisstað. Aldrei ofmetnast hann, en er nú jafn kátur, fjörugur og aðlaðandi sem hann var í æsku.

Nálægt 1530 fær Jón biskup þá frjett, að kirkjupresturinn í Skálholti, Jón Einarsson, ástvinur Ögmundar biskups og hinn lærðasti maður, hafi á sjálfa Kyndilmessu hafið uppreisn á móti kenningum kirkjunnar, með því í ræðu sinni að banna ákall og dýrkun helgra manna. Það fylgdi þeim frjettum, að Jón prestur væri farinn af staðnum og kominn að Odda; og enn það, að allmargir á sjálfu biskupssetrinu myndu hallast að hinni nýju kenningu, þó að þeir þyrðu ekki að játa það opinberlega vegna Ögmundar biskups.

Jón biskup hafði frjett, hverju fram fór um siðaskiftin erlendis, og þótt honum hafi orðið slíkar frjettir ærið áhyggjuefni, einkum eftir að Dönum var þröngvað til að taka hinn nýja sið, þá hafði honum þó ekkert mótkast mætt enn í þá átt frá lands-

mönnum, og óefað hefir hann vonað, að enginn hjer á landi aðhyltist þessa nýju trú, er hann kallaði villutrú. Þessar frjettir frá Skálholti urðu honum því alvarlegt áhyggjuefni, og upp frá þessu taka skýin að dragast saman og útlitið að verða skuggalegt, og eftir því sem tímar líða, gefur hann sig meira og meira við siðaskiftamálinu, uns svo má kalla, að hann sinni fáu öðru en því að vinna með lífi og sál að því að bjarga kirkjunni og landinu úr þeirri hættu, er honum fanst hvorutveggja búin af hinni nýju kenningu og ágangi útlendra ránsmanna. Hann helgar óskifta krafta sína kirkjunni og föðurlandinu og varði hvorttveggja með oddi og egg upp frá því alt til hinstu stundar.

Fyrsta ráðstöfunin, sem Jón Arason gerði trúnni til verndar er frá 30. júní 1533, gerð á alþingi; er það samþykt um, að allir haldi fast við heilaga trú og guðs lögmál, sem guð hefir sjálfur sett og heilagir feður samþykt. — Af þessari samþykt virðist mega ráða, að kenning Lúthers hafi verið farin að gera til muna vart við sig hjer á landi um þetta leyti, einkum í suðurstiftinu og biskupar því tekið höndum saman um að útrýma henni. Hins vegar lætur Jón biskup þetta mál ekki eins mikið til sín taka og Ögmundur fyrst framan af, enda lágu til þess þau rök, að í hans biskupsdæmi verður eigi að sinni vart við, að neinn hafni hinum gamla sið.

Vegna tímaskorts verð jeg hjer að hlaupa yfir all-langan kafla, eða til þess er Gissur biskup dó, 1548, enda er þá tíðindaríkast í Skálholtsstifti.

En til þess að geta skilið baráttu Jóns Arasonar

síðustu æfiár hans, verðum við að kynnast helstu mótstöðumönnum hans, og þess vegna verð jeg að lýsa þeim stuttlega, jafnóðum og þeir koma við söguna.

Kirkjuskipun Kristjáns konungs III. kom út hingað til lands 1538, en eigi virðist Jón biskup hafa á þingi þá tekið neina afstöðu til hennar, og ekki fyr en sumarið 1540; en þá ritaði hann konungi brjef af alþingi, og kemur þar fram sem fulltrúi íslensku kirkjunnar og jafnframt allrar þjóðarinnar. Það er augljóst af brjefi þessu, að hann ætlar ekki að taka kirkjuskipunina, enda bendir hann konungi á, að hann hafi enga lagalega heimild til að ákveða, hverju landsfólkið megi trúa eða ekki trúa; varð því ekki af því, að kirkjuskipun þessi kæmist á nyrðra fyrst um sinn.

En eins og vænta mátti af Gissuri biskupi, fylgdi hann fast fram vilja konungs, enda þurfti hann nú ekki lengur að dyljast, því hann hafði þegar náð föstum sessi. Ögmundur biskup gat ekki lengur borið merkið til varnar kirkjunni, því þegar hjer er komið, hafði hann, illu heilli, afsalað sjer biskupsembættinu í hendur Gissuri, og stóð nú, sjónlaus, ellihrumur og ákærður frammi fyrir þingheimi, og varð með eiði að hreinsa sig af rógi þeim, er Kláus hirðstjóri hafði á hann borið. Og þá er það, að Jón biskup kom fram á vígvöllinn, grípur upp merki kirkjunnar og heldur því hátt og djarflega; ver hann ekki að eins Hólastifti heldur og Ísland alt.

Brjef Jóns biskups, það er þegar hefir verið getið, er dagsett á alþingi 30. júní 1540. Auk þess sem

þegar er getið, er og í því lýsing á framferðum Kláusar og Diðriks, og sýna þær og sanna, að Diðrik hafi verið rjettdræpur og fallið óhelgur fyrir svívirðilegar tiltektir sínar hjer.

Annað brjef ritaði Jón biskup til alþingis árið eftir í Kalmanstungu, og ber þar enn að sama brunni; hann vill „hylla og halda“ Kristján III., eftir þeim „sáttmála, sem vjer og forfeður vorir hafa fyrir oss játað.“ Enn fremur krefst hann þess, að allar kristilegar siðvenjur haldist á Íslandi, en fyrirbýður öllum að dæma nokkurn dóm um sig, dómkirkju sína eða biskupsembætti; en vilji nokkur hafa slíkt mál fram, þá stefnir hann þeim fram fyrir ríkisráð Noregs og heitir að mæta sjálfur eða senda mann í sinn stað.

Ef til vill má deila um það, hve heppilegt það hafi verið af Jóni biskupi að rísa svona öndverður gegn konungsvaldinu; en víst er um það, að ekki hefir hann gert slíkt í eigin hagsmuna skyni. En hitt er augljóst aftur á móti, að biskup hefir eigi viljað þola ofríki konungsvaldsins eða þegja við því, er lög kirkjunnar og rjettur þjóðarinnar var fyrir borð borinn.

Næsta vor (1542) boðar konungur báða biskupana á sinn fund, og lætur Gissur þá ferð ekki undir höfuð leggjast. En Jón biskup ritar konungi brjef, dags. á Hólum 30. júní 1542, og kveðst ekki vegna heilsu sinnar geta sótt hans fund að svo komnu, enda hafi skip það, er átti að flytja biskupana utan, ekki komið til Íslands. Þó segist hann senda munu í umboði sínu þrjá menn, er hann treysti best

að skilja vilja sinn og framkvæma erindi sín, og segist hann vilja halda það, sem þessir menn vilji sín vegna, „eftir allri minni formegun, það jeg kann og jeg má og get gert.“

Til farar þessarar valdi hann Sigurð son sinn, Ísleif tengdason sinn og Ólaf prest Hjaltason. Gekk þeim ferðin allvel og unnu konungi eiðinn fyrir hönd biskups.

Um 1545 fer að draga til fáleika með þeim biskupunum Jóni og Gissuri út af hinum svo nefndu Bjarnarneseignum. Hefir Jóni biskupi verið mjög ámælt fyrir Bjarnarnesferðir hans og fjárupptektir þar. En eigi virðist biskup ámælisverður um athafnir sínar í þessu máli, því eignir þessar hálfar hafði hann keypt af konungi og goldið fyrir 300 gyllini rinsk, en hinn helminginn hafði konungur leigt honum, og biskup goldið fyrir fulla leigu. En fyrir róg vondra manna tók konungur af honum eignirnar án dóms og laga og leigði öðrum. Við þetta gat biskup ekki unað, og má hann varla heita ámælisverður, þótt eigi vildi hann láta rænast eða traðka rjetti sínum skýlausum; mætti og vera, að hann hefði orðið því styggari sem hann hafði þá sent konungi höfðinglega gjöf (400 lóð silfurs), og þá nú þessi laun fyrir.

Árið 1548 andast Gissur biskup í Skálholti. Meðan Gissur lifði hafði Jón biskup ekkert skift sjer af málefnum suðurstiftisins, þótt líklegt sje, að fullan hug hafi hann haft á að endurreisa þar hinn forna sið, og eyða „villu“ Lúthers, er þar hafði verið löghelguð um stund, þótt hitt sje jafnvíst, að

enn hafi lítil festa verið komin á lútherskan sið þar. Því mátti og eiga það víst, að hann mundi grípa fyrsta tækifærið, sem gæfist að taka þar í taumana; og nú kom tækifærið, er Gissur dó. Meðan Gissur lifði, hjelst sæmileg vinátta með þeim, þótt sjá megi af brjefum nokkrum, að stundum hefir þó ekki mátt tæpara standa. Hafði hvor sínar ástæður fyrir því að slíta ekki friðnum með öllu; Jón biskup vissi, að Gissur hafði mikið konungs-traust; á hinn bóginn gat Gissuri ekki dulist, að flestir landsmenn voru honum andvígir sakir nýbreytni hans, og ef til vill annara greina, en að Jón naut almennrar hylli landsmanna. Er því eins og hvorugur hafi þorað á annan að ráða.

Undir eins og Jón biskup frjetti lát Gissurar, brá hann við, og er kominn að Kalmanstungu 21. apríl. Þaðan ritar hann Sunnlendingum brjef, og býðst til að veita alla biskuplega þjónustu í Skálholtsstifti og styrkja heilaga Skálholtskirkju með ráðum og dáð, að svo miklu leyti sem kennimönnum þeim, er halda hinum gamla og góða sið, þykir hlýða. Að öðru leyti kveðst hann ófús að blanda sjer í önnur málefni þau, er ekki væru kristni guðs til eflingar og kirkjunni til styrktar. Brjef þetta hleypti öllu í uppnám í Skálholtsstifti. Þeir, sem fylgdu hinum forna siðnum, urðu allshugar fegnir þessu boði. En siðbótarmenn óttuðust Jón biskup allra manna mest og brugðu því svo skjótt við, að hinir fengu ekki að gert. Þeir hjeldu fjölmenna prestastefnu í Skálholti og eftir snarpar orðahnippingar var Marteinn Einarsson frá Staðastað kjörinn til biskups af

Lútherstrúarmönnum, en kaþólskir menn kusu af sinni hendi Sigvarð ábóta í Þykkvabæjarklaustri; var hann maður vel lærður og kunnur að fastheldni við hinn forna sið.

Nokkru síðar lögðu þeir báðir af stað til Danmerkur, en eins og vænta mátti, var Marteini veitt embættið, en Sigvarður dvaldi í Kaupmannahöfn, uns hann andaðist tveim árum síðar, og hafði þá tekið lútherska trú, að því er ætlað er.

Nú líður svo vorið fram til þings, að fátt ber til tíðinda, en á alþingi slær í alvarlega brýnu millum sveina Jóns biskups og manna Daða Guðmundssonar í Snóksdal, en Daði varð síðar meir einn hinn skæðasti mótstöðumaður biskups, svo sem kunnugt er, og hafði sig mjög í frammi á móti honum, og þóttist hafa þar til rjett og skyldu, því Marteinn hafði sett hann ásamt Pjetri bróður sínum (Gleraugna-Pjetri) yfir stiftið, meðan hann var sjálfur fjarverandi.

Daði var maður auðugur og hinn mikilhæfasti að ýmsu leyti, ágjarn til fjár og slunginn; hafði hann því gengið í lið með siðbótarmönnum, að þar vissi hann sjer fjárvon meiri; en að öðru leyti verður varla af framferði hans sjeð, að hann væri snortinn af sannindum hins nýja siðar, því að hann var hinn mesti siðleysingi. — Daði var kvæntur Guðrúnu, dóttur Einars Ölduhryggjar-skálds, en átti þó börn við ýmsum konum; var ein þeirra Efemía, er hann hafði heima í Snóksdal; önnur hjákona Daða var Ingveldur Árnadóttir, frændkona hans, er veitti forstöðu búi hans að Sauðafelli; átti hann með henni

5—6 börn; sagðist mjög á þvílíkum brekum í þann tíð, enda lofaði Daði sí og æ bót og betrun, en efndirnar urðu litlar.

Á alþingi áðurnefnt sumar (28. júní) sló í bardaga með mönnum Daða og sveinum biskups, og urðu biskupsmenn hlutskarpari; voru þá og samþykt yfirráð Jóns biskups yfir Skálholtsstifti. Enn fremur var lesið upp konungsbrjef, þar sem konungur hótar Jóni reiði sinni og boðar hann tafarlaust á sinn fund. Hafði biskup það konungsboð að engu, enda vissi hann af meðferð þeirri, er Ögmundur biskup varð fyrir, á hverju hann mætti eiga von, ef hann gengi í greipar konungsvaldinu. En það taldi hann sjer skylt að ná Skálholtsstað á sitt vald, og fór því með flokk manna suður þangað, í þeim erindum, en það mistókst með öllu, því Jón prestur Bjarnason varði staðinn ásamt Pjetri Einarssyni. Varð biskup frá að hverfa eftir fimm daga umsát, og undi við hið versta.

Fátt gerðist til tíðinda næstu misseri utan það, að biskup bannfærir Daða fyrir sjö stór-sakir og sendi marga presta sína víðsvegar til að birta bannið.

Næsta ár (1549) ritar konungur opið brjef til alls landslýðs á Íslandi, og getur þess, að Jón hafi að engu haft boð sín, og fari fram með ofríki og ójöfnuði hjer á landi. Fyrir því lýsir nú konungur Jón biskup útlægan, friðlausan og rjetttækan. Felur konungur Pjetri Einarssyni og Daða að aðstoða Laurentíus Múla, hirðstjóra, við handtöku biskups. Talið er víst, að gengið hafi brjef frá þeim Pjetri

til konungs, er ekki hafi verið sem hollust sjálfstæði og trú landsmanna. Þá ætla menn og, að Marteinn biskup hafi ekki túlkað sem best mál Jóns Arasonar við konung, þegar hann dvaldi í Danmörku, og bjóst að taka vígslu.

En það urðu fleiri til að ákæra Jón Arason en þeir, sem nú eru taldir. Sá maður, sem hann hafði hafið mest til vegs og virðingar, gengur nú í flokk óvina hans og ákærir hann ásamt þeim, fyrir konungi. Þessi maður var Ólafur Hjaltason, er biskup hafði ætíð verið vel í hvívetna. Nú fyllir Ólafur flokk óvina biskups, þegar verst gengdi. Biskup hafði aukið sóma Ólafs í öllu. Faðir Ólafs hafði verið fátækur hringjari á Hólum, og var Ólafur uppalinn þar og ljet biskup frama hann sem hann mátti..

Biskup veitti Ólafi Vesturhópshóla, en hann reyndist enginn búmaður, svo að biskup tók hann heim til Hóla og gerði hann að kirkjupresti þar. Síðan veitti hann honum Laufás; en nú, þegar biskupi lá mest á, fjekk hann þá fregn, er hann tók sjer mjög nærri, að Ólafur prestur hafi hafnað kaþólskum sið og tekið lútherska trú. Viðskifti þeirra enduðu þannig, að biskup dæmdi hann frá embætti og fór Ólafur þá á konungs fund og mun víst ekki hafa skýrt frá athöfnum biskups betur en efni voru til.

Um sumarið 1549 gerðist sá atburður, er mjög gladdi Jón biskup; hafði biskup ritað páfa og spurst fyrir um það, hvað gera skyldi við Pjeturs peningana nú, er engi erkibiskup var í Noregi. — Nú fjekk hann svarbrjef frá Páli páfa hinum 3., og er það ritað í Rómi 8. dag marsmánaðar 1549, og fluttu

það út hingað Úlfur og Loðinn, Hamborgarkaupmenn. — Páfi þakkaði biskupi stöðuglyndi hans og hollustu, og hvetur hann til að halda fast við hinn forna sið, og muni hann fyrir það hljóta lof allra góðra manna hjer á jörðu, og síðan eilífa sælu á himnum, hjá sjálfum guði; lýsti páfi og blessun drottins yfir Jóni biskupi og hjörð hans.

En Jón hafði fyrir því beðið páfa að ráðstafa Pjeturspeningunum, að hann mun eigi hafa viljað hafa sömu aðferð sem Gissur, er heimti þá til sín, en ljet þá svo hvergi sjást framar. Nú bauð páfi Jóni biskupi að skifta þeim með snauðum mönnum í Hólastifti.

Jón biskup var ramm kaþólskur og má því nærri geta, hversu mikils vert honum hafi þótt að fá páfabrjef, og hvernig aðrir sannkaþólskir menn á landi hjer hafi litið á þennan atburð. Slíkan sóma hafði enginn íslenskur biskup hlotið. En nú bættist það hjer við, að blessun páfa var talin það hnoss, er best gæti hlotnast nokkrum kirkjunnar þjóni, og trúðu því kaþólskir menn, að henni fylgdi mikil hamingja; er því síst að furða, þótt brjef þetta þætti næsta mikils vert.

Biskup sá og skildi, hvílíka þýðingu þetta brjef hafði, ekki að eins fyrir kennilýðinn, heldur og alla alþýðu; er svo sagt, að hann hafi orðið harla glaður, og stefnt öllum prestum úr biskupsdæminu heim til Hóla, búist sjálfur hinum besta skrúða, gengið síðan í kirkju með þeim öllum, sett upp mítur og tekið bagal í hönd sjer, farið fyrir háaltarið og látið presta skipa sjer í kórinn á báðar hendur; voru þeir og búnir hinum besta skrúða. Hann ljet þá lesa

upp páfabrjefið, en hóf á meðan hendur og augu til himins; að því loknu gerði hann guði og páfanum þakkir og vann það heit, að láta heldur lífið en bregða trúnaði sínum við guð, páfann og kirkjuna. Hann ljet og snúa brjefinu á íslensku, og eiðsvarna votta vitna, að rjett væri þýtt, og sendi það síðan vinum sínum víðs vegar um land alt.

Nú blandaðist biskupi ekki hugur um, hvað hann ætti að gera, og bjó sig nú til þeirra stórræða, er annaðhvort hlutu að leiða hann til sigurs eða bana, sem líklegra var, því að mótstöðumaður hans, konungurinn, var svo voldugur, að ófært hefði verið öllum Íslendingum að etja kapp við hann, þótt einhuga hefðu verið. En þetta framferði Jóns biskups virðist mjer sanna það best, að hann hefir heldur viljað láta eignir, embætti og líf, en trú sína; það er og líklegt, að honum hafi ekki getist að atferli Dana og Gissurar biskups á landi hjer, er þeir ljetu greipar sópa um fje og dýrgripi, alt í nafni hins nýja siðar.

Um haustið 1549 lætur hann sonu sína handtaka Martein biskup vestur á Staðastað, og heldur honum í varðhaldi til næsta sumars (1550). Á alþingi ræður hann og öllu þetta sumar, og þá nær hann Skálholtsstað á sitt vald og vígir þar alt, sem honum þótti hafa saurgast meðan Gissur sat þar á stóli. Hann lætur grafa upp lík Gissurar og færa utan garðs, en vígir grafstæði hans í kirkjugarðinum, og að öllu þessu hefir hann ekki færri vitni en átta hundruð manna. Úr Viðey rekur hann alla danska menn og vígir þar alt og lætur upp taka síðan

klausturlifnað, svo sem áður hafði verið. Og hið sama gerir hann á Helgafelli.

Nú þóttist biskup hafa vel sýslað, enda hafði hann alt landið undir sig lagt, nema „hálfan annan kotungsson“. Þótti honum för sín í Skálholtsstifti hafa orðið allgóð, sem ráða má af vísu einni, er hann kvað skömmu eftir að hann kom heim til Hóla, og er þetta upphafið:

Nú er hann kominn heim til Hóla, o. s.frv.

Nokkru seinna sendir hann Björn son sinn vestur að Selárdal með stefnu til sjera Gísla prests Jónssonar, og varð sá endir á því máli, að af Gísla presti var dæmdur staður og embætti og hann rjett-tækur undir refsing kirkjunnar; en Gísli náðist ekki, því að hann flýði á náðir konungs, áður hann yrði tekinn. Mörgum hefir þótt sjera Gísli verða hart úti, en frá sjónarmiði biskups og kirkjunnar leit þetta öðru vísi út, því móti þeim hafði hann stórum brotið: Fyrst hjónaband Gísla og Kristínar, annað mótþrói hans við biskup, og í þriðja lagi hafði Gísli farið með hið mesta guðlast í sjálfri dómkirkjunni, hafði sagt, að hin heilaga María mey, hefði ekki verið máttugri en aðrar konur, að þeir væru allir djöfulsins þrælar, sem tryðu því, að hún flytti árnaðarorð fyrir kristna menn. Og enn hafði biskup margar fleiri sakir á hendur Gísla presti.

Loksins rekur að hinni nafnfrægu Sauðafellsför um haustið 1550 í septembermánuði. Það sem gerðist í þeirri för er nálega hverjum manni svo kunnugt, að jeg sleppi að lýsa því hjer nákvæmlega. Jeg

get þess einungis, að biskup var handtekinn og synir hans, Björn og Ari (2. október), og mjög var biskup hart leikinn; var honum fyrst um sinn haldið í ströngu varðhaldi í Snóksdal, en síðan fluttur mjög óvirðulega austur í Skálholt; hestar hans teknir og allur búnaður, en ljelegur hestur fenginn honum til reiðar.

Í Skálholt komu þeir feðgar 30. október, og voru þá fyrst geymdir í hinni svo nefndu Ásmundarstofu, og menn fengnir til að gæta þeirra. Óvinir þeirra áttu nú sigri að hrósa, og er sagt, að þeir væru allkátir, drykkju fast og hefðu margar ráðagerðir.

Það er mælt, að eitt sinn væru þeir á ferð, Jón Arason og Jón Magnússon frá Svalbarði, sem talinn var margfróður; er þá sagt, að biskup hafi rofið þögina og sagt: „Hvaða dauða meini þér, Jón bóndi, eg muni fá?“ Jón þagði um stund, en mælti síðan: „Heyrt hefi eg sagt, að áður en þér voruð fæddur, hafi móður yðar dreymt einn draum, svoleiðis, að henni þótti sem hún fæddi af sér örn; þá bar svo fyrir hana, sem sama örn flýgi upp á burst kirkjunnar á Hrafnagili í Eyjafirði, og settist þar; þá sýndist henni í svefni höfuð af þeirri örn fjúka af bolnum, og til landsuðursáttar.“ Biskup á að hafa svarað: „Þann dauða kýs eg mér, sem minn patron fékk, en engan kerlingar dauða.“

Nú var sá tími nálægur, er draumur þessi skyldi rætast, en á hvern hátt, það var öllum hulið enn. Biskup sat að kvöldi 4. nóvember ásamt sonum sínum í Ásmundarstofu. Allir voru þeir kátir og vonuðu að þeir myndu brátt látnir lausir. Biskup

hafði þá, sem endranær, mörg gamanyrði á reiðum höndum, og sagði þá sem oftar: „Á jólum, svo erum við á Hólum.“ — Þessa nótt, sem þá fór í hönd, dreymdi biskup að hann væri staddur í dómkirkjunni í Skálholti og legði glófa sinn á altarið. Þann draum rjeði prestur nokkur, er talinn var greindur vel, þannig, að fimm biskupar myndu ætt sína rekja til hans, er allir sætu í Skálholti, og varð biskup glaður mjög við ráðning draumsins.

Kristján fógeti hafði setið á staðnum, síðan hann kom að vestan (30. október) og drukkið þar fast með öðrum höfðingjum. Að morgni 5. nóvember hugði hann til brottferðar og stje á hestbak, en þá þóttist hann enn þurfa að hressa sig betur, stje því aftur af baki og gekk inn; er þá mælt, að Marteinn hafi skenkt á silfurskál mikla og gefið honum með öllu; mun þá hafa verið enn rætt um Jón biskup og þá feðga, hversu skyldi fara með þá; eru þá höfð eftir Kristjáni þessi orð, er aðrir eigna þó Jóni Bjarnasyni: „Öxin og jörðin geyma þá best.“ En hvor þeirra sem þessi orð hefir mælt, þá er það víst, að fimtudaginn 6. nóvember var fjölda manna stefnt saman í Skálholti, að boði Kristjáns, til að hlusta á sakir þær, er bornar voru á þá feðga. Þær voru í 17 greinum og hirði jeg ekki að telja þær hjer, því um flestar má með sanni segja, að þær sjeu hver annari ósanngjarnari og ósannari. Á móti þessum ákærum mæltu harðlega margir hinir bestu menn og kváðu það óhæfu mikla, að slíkir ágætismenn sem þeir feðgar væru af lífi teknir án dóms og laga, enda væri með því rofinn lögmannsdómur og rjettur þjóð-

arinnar brotinn, lög landsins svívirt og óhæfa framin.

Þessum mótmælum reiddist Kristján svo mjög, að sagt er, að hann vildi leggja hendur á Arnór sýslumann í Arnarbæli, en aðrir vörnuðu þess.

Brátt snerust þeir Marteinn og Daði á mál Kristjáns og voru nú menn sendir að láta þá feðga vita, hvað afráðið væri; er sagt, að biskup og Ari tækju þeim frjettum karlmannlega, en Björn miður vegna barna sinna, sem bæði voru mörg og ung og forsjálaus, ef hans misti við. Því næst voru þeir feðgar skildir, og hafðir sinn í hverri stofu; var þá prestur fenginn hverjum þeirra og skyldi hann vaka með þeim næstu nótt, því daginn eftir átti aftakan að fara fram.

Föstudagsmorguninn 7. nóvember í birtingu gekk biskup til kirkju og beið þar sona sinna, og ekki lengi, áður þeir væru þangað færðir. Útdeildi biskup þeim og sjálfum sjer kvöldmáltíðarsakramentinu, eftir siðvenju kaþólskrar trúar. Síðan fjell biskup á knje fyrir háaltarinu og gerði bæn sína; mælt er, að hann, að bænagerðinni lokinni, hafi af sjer tekið kápuna og hring sinn, og lagt hvorttveggja á altarið þegjandi. (Sú kápa er nú eign Þjóðmenjasafnsins í Reykjavík). Hann kvaddi báða sonu sína, og lagði sína síðustu blessun yfir þá, og er að honum kom, gekk hann hægt og rólega fram eftir kirkjugólfinu, uns hann kom gegnt Maríulíkneski, er hjekk utarlega í kirkjunni; þá vildi hann falla á knje frammi fyrir því, en prestur sá, er með honum var, og Sveinn hjet, vildi varna honum þess, og mælti meðal ann-

ars: „Líf er eftir þetta líf.“ Biskup snerist þá við presti hvatlega og mælti: „Veit jeg það, Sveinki.“

Þegar út kom, beið hans allur hópurinn, er búinn var að horfa á aftöku sona hans; þekti hann þar á meðal einn trúnaðarmann sinn að norðan, afhenti honum gullinnsigli sitt, og bað hann færa það Helgu fylgikonu sinni með þeim ummælum, að hún gæfi fátækum ölmusur, er hann nefndi, og ærið voru rausnarlegar. Þegar hann rendi augum yfir mannfjöldann, er mælt, að honum hafi orðið þetta að orði: „Þar jeg skal nú bjóða góða nátt þessari veröldu, en kanna aðra nýja með öðrum helgum mönnum, þá ber þú norður kveðju mína vinum mínum og vandamönnum, sjerdeilis sjera Sigurði dóttur minni og Þórunni syni mínum.“

Þegar upp á klettana kom hjá Þorlákssæti, nam mannfjöldinn staðar og skipaðist umhverfis höggstokkinn. Var nú biskupi sagt líflát beggja sona hans, og honum boðið líf, en hann kvað þá hafa fylgt sjer svo lengi, að hann vildi nú fylgja þeim. Gekk hann þá til Daða, og bauð að leysa hann úr banni, en Daði svaraði: „Þú sjer ekki meira bann á mjer en þjer.“ Sneri þá biskup hryggur að höggstokknum og fól önd sína guði, kraup síðan á knje og mælti: „Drottinn, í þínar hendur fel jeg minn anda.“ En með því að biskup var svo mjög lotinn af elli, að nær mátti kalla, að stungið væri fyrir hann höfðinu, lentu höggin mjög á herðunum, og er böðullinn hafði höggvið þrjú högg, heyrðu menn biskup segja: „Drottinn, í þínar hendur fel jeg minn anda,“ en í sjöunda höggi tók af höfuðið.

Þannig lauk æfi Jóns biskups Arasonar, eins hins mesta og merkasta manns, er Ísland hefir átt fyr og síðar; var hann 66 ára gamall, og hafði verið biskup í 26 ár.

Fáir hafa lifað og starfað á þessu landi, sem jeg hygg að meiri vandi sje að meta rjett, en Jón biskup Arason, og ber það til þess, meðal annars, að þá greinir mjög á, er um hann hafa ritað; mætti ef til vill skifta þeim, er um hann hafa ritað, í þrjá flokka, og tel jeg í fyrsta flokknum óvini hans og ofstækisfulla siðbótarmenn, sem ekki geta látið hann njóta sannmælis. Í öðrum flokknum tel jeg hina, er fyrir sakir hræðslu við konungsvaldið þorðu ekki að segja sannleikann, og loks eru í þriðja flokknum afkomendur Jóns biskups, og virðist mjer, sem þeir hafi lagt þar á of mikið kapp að vekja hluttekningu manna fyrir meðferð biskups og sona hans. Enda þótt sögur þær, sem geymst hafa um biskup, sjeu ærið sundurleitar, þá liggur svo mikið eftir hann sjálfan í bundnu og óbundnu máli, bæði ljóðmæli hans og brjef, að af því má gera sjer nokkurn veginn áreiðanlega mynd af honum.

---

Jón biskup Arason tel jeg hiklaust með hinum allra merkustu mönnum, sem lifað hafa og starfað á þessu landi, og hefði hann alið aldur sinn með einhverri stórþjóð, mundi hann hafa orðið heimsfrægur maður. En fáir Íslendingar verða heimsfrægir menn, og ber til þess það, meðal annars, að vjer

höfum engin áhrif út í frá fyrir fámennis sakir. Þess má og Jón biskup gjalda.

Jón biskup var gáfaður í liprasta og besta lagi, og hafði auk þess flesta þá kosti, er höfðingja mega prýða. Hann mun verið hafa allvel mentaður, vel máli farinn, ráðsnjall og fjáraflamaður hinn mesti, og þó eigi sýnkur — öðru nær. Hann var gestrisinn og mjög veitull, og höfðingi heim að sækja í hvívetna, viðmótsþýður, svo að allir hændust að honum þeir, er við hann kyntust. Jón biskup var rausnarmaður hinn mesti um ölmusugjafir, og einkum gaf hann árlega stórmannlega á Jónsdag og Gvöndardag á langaföstu. Hann var og svo glaðlyndur að það bar frá, og skemtinn, bæði við gesti sína og heimafólk. Hann gekk oft á milli gesta sinna og heimilismanna og skemti þeim með fróðlegum frásögum, eða þá gamanvísum, sem hann mælti af munni fram, og hafði jafnan á takteinum. Hann var mildur og auðveldur þeim, er lögðu málefni sín í hans vald, og treystu honum, og af því að hann var ráðhollur, náði hann vel trausti manna og vináttu, enda varð hann ástsælli en flestir þeir, er á undan honum höfðu setið á Hólastað. Hann var og eigi eftirgangssamur um refsingar kirkjunnar, ef frá eru talin viðskifti hans við Daða í Snóksdal og svo Teitsmál.

Framkvæmdamaður var Jón biskup hinn mesti og hætti aldrei við hálfgert verk, og þótt hann væri ekki hámentaður maður sjálfur, eins og þegar er sagt, þá studdaði hann að mentun annara, með því að koma á fót prentsmiðju. Börn sín mentaði hann

prýðilega, og um Ara son hans er þess getið, að hann væri vel latínulærður.

Jón biskup var eitt hið besta skáld, sem þá var uppi á Íslandi. Hann var svo hraðkveður, að jafnan gat hann kastað fram vísu, er hann vildi. Kvæði hans hin lengri eru svo vel kveðin, að þau munu enn í minnum höfð um langan aldur. Það, sem einkennir öll þessi kvæði (helgikvæðin) hans, er djúp og innileg trúarsannfæring. Er Davíðsdiktur þeirra merkilegast, þótt öll sjeu góð. Auk þessa liggur og eftir hann mikið af veraldlegum kvæðum og lausavísum; eru það mest glettniskvæði. Og þess er og vert að geta, að Jón biskup er þjóðlegur í kveðskap sínum.

Jón biskup varð stórauðugur maður, enda sýnt um fjáröflun, sem þegar er getið. En allar eignir hans og sona hans, er af lífi voru teknir með honum, hurfu undir konung, og var því lítt sint, þótt börn bræðranna yrðu við það umkomulaus. En góðir menn tóku þau að sjer, og mönnuðust þau vel, og urðu seinna auðug og mestu mætis menn þessa lands; hafa fáir orðið kynsælli en Jón biskup og afkomendur hans.

Jón biskup hefir af sumum verið kallaður eigingjarn og landráðamaður. Fyrst og fremst af þeim, er sömdu hinn alræmda Oddeyrardóm og svo af sumum lútherskum sagnariturum. Þetta er ekki spánnýr vitnisburður. Hann hefir margur hlotið, er hefir viljað vernda rjett fósturjarðar sinnar gegn útlendum ágangi, og þjóð sína fyrir ránum og rupli erlendra valdhafa.

Jón biskup er einn þeirra manna, er brotist hafa gegn erlendri kúgun. Hann og synir hans vildu heldur leggja embætti, auð og líf í sölurnar en að hafna trú sinni og sjá lögum fósturjarðarinnar traðkað, þjóðina rænda frelsi og fje og reyrða í viðjar erlendrar áþjánar. Þeir vildu „heldur bíða hel“, en gerast danskir þrælar og skríða í auðmýkt fyrir danska Bessastaðavaldinu.

Fyrir þessa baráttu sína fyrir frelsi og rjetti lands vors og þjóðar, lifir Jón biskup enn á meðal vor, og æ verður bjartari minning hans, eftir því sem lengra líður frá dauða hans.

Æska hans er eftirbreytnisverð hverjum ungum manni, og æfistarf hans til fyrirmyndar hverjum sönnum Íslending.

Komandi kynslóðir þessa lands munu æ telja Jón biskup meðal mestu stórmenna þessa lands og einn hinn ágætasta Íslending, er nokkru sinni hefir uppi verið.

---

# Ari Jónsson, lögmaður.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 12. mars 1909.

---

Áður en jeg tek til máls um þenna merka mann, langar mig að bera upp spurningu og reyna jafnframt að svara henni eftir föngum. Spurningin er þessi: Hvað er sagan?

Sagan er í stuttu máli skýrsla um æfi og starf þeirra manna, sem skarað hafa fram úr samtíðarmönnum sínum að meira eða minna leyti, því að þótt hver einstaklingur, hversu lítilsháttar, sem hann kann að vera, eigi sjer sögu og sinn þátt í þeim breytingum til ills eða góðs, er orðið hafa í þessum heimi ár frá ári og öld eftir öld, getur sagan að eins þeirra, er fremstir stóðu og virðast helst hafa hrundið breytingunum af stað. Sagan er þannig safn af æfisögum þeirra manna, er mestur styrr hefir staðið um í lifanda lífi, og þeirra breytinga, er orðið hafa fyrir þeirra tilstilli og rás viðburðanna. Af þessum efnum hafa svo sagnameistarar fyrr og síðar gert söguyfirlit sín, stór og smá, þau er vjer þekkjum.

Söguhetjunum má aftur venjulega skifta í tvo flokka: Þá menn, sem þegið hafa af drotni hið mikla pund náðargáfna og hæfileika, er þeir hafa varið

guði til dýrðar og ættjörðu sinni til blessunar, og það er þessi flokkur, sem vjer eigum, hver í sinn stað, að taka oss til fyrirmyndar.

Hinn flokkinn skipa þeir menn, er starfað hafa móti guðs og manna lögum, hafa varið pundi sínu illa; það eru þeir mennirnir, er alt hefir verið illa gefið, er þeim mátti sjálfrátt vera, og ilt eitt hefir af leitt fyrr og síðar, bæði fyrir sjálfa þá og aðra. En einnig af þeim getum vjer lært nokkuð, því að „til þess eru vítin að varast þau“.

Og sagan alt í frá upphafi verðist sanna, að menn greinast yfirleitt mjög í ofangreindar tvær sveitir. Að því, er nú tekur sjerstaklega til vor Íslendinga, þá eigum vjer í þessu mjög sammerkt öðrum þjóðum: Vjer höfum átt góða menn og illa, er með völdin hafa farið, bæði á hinu andlega og veraldlega sviði. Í fyrri flokknum tel jeg hiklaust þá Jón Arason og Ara son hans.

Um Jón biskup Arason hefi jeg áður flutt erindi, en í kvöld hefi jeg hugsað mjer að segja frá helstu æfiatriðum Ara.

Árið 1508 er Jón prestur Arason með fylgikonu sinni, Helgu Sigurðardóttur, fluttur frá Helgastöðum að Hrafnagili í Eyjafirði, og um líkt leyti fæddist þeim sonur, er heitinn var Ari eftir föðurföður sínum, Ara Sigurðssyni frá Möðruvöllum.

Sveinninn var snemma mannvænlegur og bar á unga aldri af flestum jafnöldrum sínum. Um tvítugsaldur er honum lýst þannig: „Ari var drengilegur maður, lögvitur snemma og latínulærður, örlátur og höfðinglegur í mörgu, harðsinnaður ef skifti geði

hans; með hærri meðalmönnum, fríður sýnum, limaður vel, og hinn fimasti við allar íþróttir, frækinn og kappsfullur.“ Hann var og lítillátur við snauða menn.

Annars greinir fátt af æsku Ara. Hann ólst upp með foreldrum sínum, fyrst að Hrafnagili og síðar á Hólum, er þau fluttu þangað. Mentaðist Ari vel, því að faðir hans ljet sjer mjög ant um að veita börnum sínum svo góða fræðslu sem kostur var á um þær mundir; báru því synir hans af öðrum mönnum að mentun, einkum Ari og Sigurður; hjelt og Jón biskup sonum sínum mjög fram til mannvirðinga, þegar er þeir höfðu aldur til.

Þess er getið um Ara, að hann væri árið 1528 orðinn sýslumaður í Eyjafjarðarsýslu, eða umboðsmaður föður síns í Vaðlaþingi, en sumarið eftir (1529) var hann á alþingi kjörinn lögmaður norðan- og vestan, og mundi það vera nálega einsdæmi að svo ungur maður, rúmlega tvítugur, væri kominn til slíkra metorða á landi hjer, því að lögmannsembættin voru önnur tignustu og ábyrgðarmestu embættin hjer, en hitt voru biskupsembættin. En þótt Ari væri þá enn all-ungur, eins og þegar er getið virðist hann þó hafa verið fullkomlega starfi sínu vaxinn; er til dómur, er dæmdur var á alþingi 1531, um ólöghlýðni, lausamensku, okur og landprang, óhóf í klæðaburði o. fl. Bannar hann alt þess háttar og leggur við þungar sektir, ef brotið er. Þá var og annar dómur, er látinn var ganga á alþingi 1533 um ýmisleg landsins efni, og er Ara eignað, að hann hafi átt mestan þáttinn í þessum dómum; var síð-

ar fyrri dómurinn að minsta kosti staðfestur af hirðstjóra konungs.

Til þess að ykkur skiljist því betur, hve nauðsynlegur þessi dómur var, er rjett að geta þess, hversu ástatt var um verslun á landi hjer um þessar mundir.

Afskifti Dana af landinu og verslun þess voru ekki orðin svo mikil, þegar hjer er komið sögunni. Hins vegar áttu landsmenn mikil verslunarviðskifti við Englendinga, Þjóðverja og Hollendinga. Þótt nú stundum slægi í brýnu með landsmönnum og þessum erlendu kaupmönnum, þá var verðlag yfirleitt gott hjá þeim og ólíkt því, sem seinna varð, er Danir komu til sögunnar.

Íslendingar voru þá, eins og nú vill brenna við, nokkuð smásálarlegir og eigingjarnir. Þeir, sem efni höfðu, keyptu vöruna af kaupmönnum þessum í stórum stýl og við góðu verði, og seldu aftur í smáum stýl, er hausta tók, og færðu þá drjúgum upp verðið, og fyrir því var þessi verslun kölluð prang og okur. Þessu lík var síðar verslun Bauka-Jóns og fleiri. Þá var og bann gegn óhófi í klæðaburði og ólöglegri lausamensku harla nauðsynlegt. Á þeim tímum voru margskonar lausamenn. Fyrst var alþýðuútgáfan, það voru þeir menn, sem ekkert verk fengust til að vinna, en hlupu frá heimilum sínum, settust upp hjá bændum og ljetu fæða sig, þótt fullhraustir væru. Þá var og til einskonar skrautútgáfa af lausamönnunum; bárust þeir mikið á í klæðaburði, og fóru um hjeruð með yfirlæti miklu og höfðu varning með sjer; það mun vera þessi flokk-

ur, sem Ari veitist einkum að í úrskurði sínum. — Tímans vegna má jeg ekki fara fleiri orðum um þennan úrskurð, en læt mjer nægja að geta þess, „að dómur þessi þótti hinn besti og í góðar þarfir koma fyrir þjóðfjelagið.“

Vorið 1543 dæmdi Ari dóm um ranga tíund og ákveður tvöfalda sekt sjerhverjum, sem uppvís verður að slíku. Dómur þessi var mjög merkilegur, og sýnir oss, að tíundarsvik hafa öldum saman verið landlægur löstur í þessu landi.

Árið 1544, nær veturnóttum, dæmir Ari hinn merkilega Spjaldhagadóm, um hýsing og meðferð fátækra manna; var dómur þessi hinn þarfasti, og sýnir ef til vill betur en alt annað mannúð Ara. Þurfalingar munu hafa verið lítt haldnir á landi hjer oft og tíðum, og má nokkuð ráða þetta af ritgerð Hannesar Finssonar um hallæri og mannfækkun; var því þessi dómur Ara hin þarfasta rjettarbót, og hefir vafalaust orðið til mikillar blessunar, og bjargað mörgum vesaling frá hungurdauða.

Um vorið 1529 afhenti Jón biskup með brjefi „sínum kæra frænda, Ara Jónssyni“ jarðirnar Holtastaði í Langadal með öllu búi, Vatnahverfi, Lækjardal, Sæunnarstaði, Gautsdal, Strjúg og Refsstaði, og þetta sama sumar varð Ari lögmaður eins og áður er sagt. Nokkru síðar fjekk faðir hans honum hins ríkasta kvonfangs, sem til var á öllu Norðurlandi, en það var Halldóra dóttir Þorleifs Grímssonar á Möðruvöllum. Þar mátti segja, að færi saman auður, ættgöfgi og mannkostir, því að Halldóra var talin mesta valkvendi og sæmdarkona í hvívetna. Af

börnum þeirra komust tvö úr æsku, Helga, er átti Staðarhóls-Páll og Þóra, er átti Sigurður Þorbergsson lögsagnari í Hegranessþingi.

Liðu nú nokkur ár.

Kristján konungur hinn þriðji hafði sent hingað kirkjuskipun sína, og boðið að landsmenn skyldu við henni taka; höfðu Norðlingar ekki svarað þegar í stað. En sumarið 1540, 30. dag júlímánaðar, var á alþingi samið svarbrjef við þessari kröfu konungs, og er það líklega eitt hið merkilegasta brjef, sem ritað var á öllu því tímabili. Brjefið er ritað konungi í nafni lögrjettunnar og íslensku þjóðarinnar, og er vafalítið, að Ari sje höfundur þess, enda stendur nafn hans þar fremst af nöfnum leikmanna. Er konungi þar kurteislega, en með fullri einurð, bent á það, að hann hafi engan lagalegan rjett til þess að ákveða, hvern átrúnað hjerlands menn hafi, og því að eins vilja þeir hylla konung, að hann haldi „oss með rjett Noregs lög, sem yðrir og vorir forfeður hafa jafnan haldið.“

Jeg hefði gjarnan viljað taka hjer upp brjef þetta og Spjaldhagadóminn, en það yrði of langt mál, svo jeg verð að sleppa hvorutveggja, og verð að láta mjer nægja, að vísa þeim í brjefin sjálf, sem vilja kynnast þessu betur.

Sumarið 1541 gerðust þeir atburðir hjer á landi, er þýðingarmiklir urðu fyrir alla Íslendinga, ekki síst fyrir Ara lögmann.

Ari ætlaði það sumar að ríða til alþingis með föður sínum og bræðrum, en er þeir komu í Kalmanstungu, frjettu þeir, að Ögmundur biskup hefði ver-

ið handtekinn og rændur öllu fje sínu, og að alþingi væri skipað vopnuðum hermönnum, og Danir rjeðu þar lögum og lofum. Ari sá, að íslensk lög og rjettur var nú brotinn og fótum troðinn. Hann hafði árinu áður, í ofangreindu brjefi krafist þess rjettar, er þjóðin átti að guðs og manna lögum, að landinu væri stjórnað sem lög og sáttmálar stóðu til, og að leikmenn og andlegrarstjettar menn fengju að halda fullu frelsi. En fengist þetta eigi, var þess beiðst, að menn mættu fara að frjálsu af landi burt með lausafje sitt; svipar þessu framferði meira til athafna fornmanna, en skriðdýrsháttar þess og sleikjuskapar, er oft hefir borið á hjer síðan, er líkt hefir á staðið.

En fregn sú, er þeir feðgar fengu í Kalmanstungu var svar við brjefi því, er ritað var á alþingi árinu áður og þá um leið bending um það, hvers landsmenn máttu vænta af hendi konungs, ef ekki var sýnd auðmýkt og hlýðni framar en ættjarðarást og fastheldni við lög landsins og rjett.

Ari var ekki lengi að hugsa sig um, hvað gera skyldi. Hann skrifaði alþingi skorinort brjef, og sagði af sjer lögmannsembættinu, því hann var alt of sannur ættjarðarvinur til þess að vilja halda embætti með því skilyrði, að hann ynni tjón ættjörð sinni og feðra trú. Hann mun eigi hafa viljað kaupa sjer konungshylli með sama hætti sem Gissur Einarsson og Gleraugna-Pjetur.

Nú liðu enn nokkur ár svo, að fátt bar Ara til mótgangs, og bjó hann rausnarbúi miklu í Möðrufelli. En veturinn 1549 varð hann fyrir því mótlæti að missa

eiginkonu sína, og ber öllum sagnariturum saman um, að hann hafi tregað hana mjög.

Nú leitaði hugurinn heim til Hóla til foreldranna, heim í hóp trúrra vina. En nú voru Hólar ekki lengur vagga friðarins sem þá er hann var þar í æsku. Nú var margt orðið breytt á Hólum, þótt auður og tign hjeldu þar enn höndum saman.

Gissur biskup andaðist nálægt Kyndilmessu veturinn 1548, og vildi þá Jón biskup taka suðurstiftið til fullra umráða, og endurreisa þar kaþólskan sið. Fram til þessa hafði Ari fremur sneitt hjá fylgi við föður sinn í því er hann vildi sýsla í suðurstiftinu, enda hafði Halldóra kona Ara jafnan latt hann stórræða.

Jón biskup hafði nú ráðagerðir miklar heima á Hólum, og stefndi þangað vinum sínum og vandamönnum; voru þar veislur miklar og drukkið fast, því biskup var veitull mjög. — Seint um veturinn (1548) var Ari staddur á Hólum, var þá veisla stór og drykkjur miklar að vanda. Sveigðist talið fljótt að því, er biskupi var ríkast í huga, en það var Skálholt og siðaskiftin í suðurstiftinu. Ari hjelt því fast fram, að biskupi kæmi ekki við, hvað fram færi í suðurstiftinu, en biskup kvaðst „þó þar um sýsla vilja, til hollustu við páfann, og af hans valdi;“ ræddu þeir um þetta nokkuð og sýndist sitt hvorum, og skildu í styttingi. En morguninn eftir kom Helga móðir Ara til hans, þar sem hann svaf og hjelt á kvenskauti. Hann spurði hvað það skyldi. Hún kvaðst mundu skauta honum sem öðrum dætrum sínum, þar sem hann hefði ekki hug eða manndóm

til að fylgja föður sínum öldruðum til rjettra mála; fleira mælti hún enn. Ara varð skapfátt, og kvaðst vel mega gera það fyrir hennar orð að fylgja föður sínum, enda þótt hann væri þess fullviss, að það kostaði líf þeirra feðga allra. Reið hann síðan norður að Möðrufelli og var þungt í skapi.

Þar með var teningnum kastað. Upp frá því skildi hann ekki við föður sinn, nema þau augnablik, sem biskup lifði lengur; var hann upp frá því í öllum stórræðum með föður sínum, fór sendiferðir hans og framdi vilja hans í hvívetna, og virðist hafa starfað mjög í hans anda. En með því að flestum eru kunn æfiatriði Ara síðustu árin, er hann lifði, og jeg hefi áður getið þeirra flestra í fyrirlestri mínum um Jón biskup föður hans, þá get jeg hjer farið fljótt yfir sögu, og stikla að eins á viðburðunum. Ari var í aðför að Marteini biskupi, þegar hann var handtekinn haustið 1549 á Staðastað. Í þeirri för var og handtekinn Árni prófastur Arnórsson í Hítardal, og báðir fluttir til Hóla. Ari greiddi Lárusi Múla höfuðsmanni sýslugjald á alþingi 1550, hefir líklega fært það til þings fyrir einhvern annan, því eigi mun Ari hafa haft sýslu um nokkur ár. Er mælt, að Ari hafi rekið sjóðinn á nasir Múla, og beðið hann að jeta. Þá fylgdi Ari föður sínum, er hann tók Skálholt og klaustrin í Viðey og að Helgafelli. Það er mælt, að hann hafi átt að segja, að hann þættist þess fullviss, að faðir sinn gerði ekki rjett í öllu því, er hann sýslaði og gæti hann hvorki hindrað það nje skilið við hann. Meðan Marteinn biskup var í haldi nyrðra, tók Ari hann heim með sjer í

Möðrufell, er honum þótti hann illa haldinn á Hólum, og ljet sjer fara hið besta við hann.

Seint í septembermánuði sumarið 1550 fór Ari ásamt föður sínum og Birni bróður sínum hina nafnkunnu Sauðafellsför. Tilefni fararinnar var meðal annars það, að Ormur Sturluson, mágur Ara, hafði veðsett bæði honum og Daða í Snóksdal Sauðafell, og tekið fje hjá báðum. Annan dag októbermánaðar eru þeir feðgar staddir á Sauðafelli; er mælt, að Daði byði sættir og góð boð, og vildi Ari sættast en biskup ekki; vildi þá Ari á brott ríða, er þeir höfðu fátt lið og ótraust, en biskup svaraði því einu: „Ertu hræddur, frændi?" „Nei, herra," kvað Ari, „en um fleira er að hugsa en ákefð eina."

Litlu síðar hófst bardaginn og barðist Ari af mikilli hreysti og varðist vel; ruddust menn biskups brátt inn í kirkjuna, og var þá Ara hrundið inn, og kirkjan læst og bornar kistur fyrir. Viðureign þessari lauk svo, að kirkjan var brotin upp og hendur lagðar á biskup, þar sem hann stóð alskrýddur fyrir altarinu. Biskup var dreginn heldur óþyrmilega út um bjórinn á kirkjugaflinum. Hjet sá Dala-Markús, er það gerði. Ljek hann biskup mjög skemmilega. Síðan voru þeir feðgar allir færðir heim í Snóksdal og settir þar í þröngt varðhald.

Ormur lögmaður Sturluson kom þangað og dæmdi þann dóm, að þeir feðgar skyldu varðveitast til næsta alþingis, en heimilt skyldi þeim vera að senda eftir öllum gögnum og skjölum er þeim mætti að gagni koma. Samþyktu allir þenna dóm og kvaðst Ari vel við una fyrir sig og börn sín. Voru þeir nú

ræntir öllu fje sínu og hestum, og síðan fluttir í Skálholt á ljelegum bikkjum, og var Marteinn biskup með í förinni. En er þeir komu í Skálholt leysti Marteinn biskup Daða og alla hans fylgdarmenn í Sauðafellsför af þeirri kirkjusaurgun, er verða hefði mátt eftir fornri venju. Fór athöfn sú fram í dómkirkjunni í Skálholti, og var viðstaddur Kristján konungs fógeti og höfðingjar allir, er að vestan höfðu komið, auk fjölda annara manna.

Nú voru þeir feðgar settir í varðhald, en fengu þó allir að vera í sömu stofu. En fjandmenn þeirra settust að drykkju og fögnuðu unnum sigri.

Því hafa sumir haldið fram, að það hafi verið Jón prestur Bjarnason, er fyrstur kvað upp með það, að þeir feðgar yrðu líflátnir, með þessum orðum: „Öxin og jörðin geymir þá best.“ En svo hafa aðrir sagnaritarar talið, að Kristján skrifari hafi fyrstur mælt þessi orð, og mun það nú þykja sannast, enda er honum vel til þess trúandi, eftir allri annari framkomu hans að dæma gagnvart þeim feðgum, og víst er það, að vandamenn þeirra báru þyngra hug til Kristjáns, en nokkurra annara manna, er í atför og að aftöku þeirra feðga höfðu verið. Það styrkir og þessa sögu, að Kristján sótti svo fast aftöku þeirra, að engum vörnum varð við komið, og drógst þannig til þess er verða vildi.

Það er sagt um svaninn, að hann syngi fegurst undir dauðann.

Jeg hefi komið með fáein atriði úr æfisögu Ara lögmanns, og þó það sje ófullkomið og sundurlaust, þá vona jeg að það hafi nægt til að sýna ykkur, hver

maður Ari var; þó birtist enn betur, hvílíkt göfugmenni hann er, nú þegar nær dregur dauða hans, og þó einkum fjóra seinustu dagana, sem hann lifði í Skálholti. Sú mynd, er sagan bregður upp af honum þá, er svo fögur og tilkomumikil, að jeg leyfi mjer að taka hana upp hjer, og þó ekki alstaðar orðrjett:

Þeir feðgar höfðu verið til þessa hafðir saman í varðhaldinu og voru allkátir, og höfðu vonað að minsta kosti framan af, að þeir myndu látnir lausir. Hafði biskup oft sagt: „Á jólum, svo erum við á Hólum.“ En nú, er þá skyldi af lífi taka, voru þeir látnir sinn í hvert hús, og sinn prestur fenginn hverjum þeirra til að búa þá undir dauðann. Sáu þeir nú hvað verða vildi. Þeir höfðu guðsþjónustu hvern dag uppi í kirkju, og veitti biskup sjer og þeim kvöldmáltíðarsakramenti á hverjum degi, að kaþólskum sið, og eins hinn síðasta dag, er þeir lifðu. Ari var færður í prestabaðstofu. Hann varð vel og hreystilega við, og beið rólegur og glaður þess, er verða vildi. Var honum til þjónustu fenginn Jón Ólafsson, og vakti hann hjá honum hverja nótt. Síðustu nóttina, er Ari lifði, gekk hann um gólf með söngum og lestrum og fjell þess á millum á bæn. Um morguninn sendi hann svein þann, er honum þjónaði, til Ingibjargar konu Marteins biskups og bað, að hún ljeti sig fá hreina skyrtu. En hún svaraði honum þeim orðum, að hann hefði nú ekki fyrir öðru að skarta en moldinni. Þótti slíkt illa mælt og ómaklega, því vel hafði Ari reynst Marteini bónda hennar, enda var lítið látið af viti Ingibjargar og mannkostum. Um sólarupp-

komu var Ari leiddur út til aftöku. Hann mælti þá er hann fór út úr herberginu: „Hjeðan mun margur göfugur út ganga.“ Og er hann gekk lengra fram mælti hann: „Nauðugur gekk jeg til þessa leiks, en þó skal jeg nú viljugur út ganga. Vildi jeg að kálfshjartað úr Sigurði bróður mínum væri komið í mig, en mitt í hann.“ Þar eftir var Ari til kirkju færður og var faðir hans þar fyrir og veitti honum sakramentið og kvaddi hann að síðustu með blessun sinni. Kvaddi Ari þá og Björn bróður sinn. Var hann nú leiddur norður yfir túnið og upp á kletta þá, sem eru fyrir ofan Þorlákssæti, því þangað var höggstokkurinn fluttur; fylgdi þangað allur múgurinn og svo höfðingjar. Sá nú Ari fornvin sinn, sjera Jón Halldórsson, stjúpson Daða, í mannþyrpingunni og mælti við hann: „Ekki þenkti jeg, sjera Jón, að þjer mynduð standa yfir höfuðsvörðum mínum.“ Jón kvaðst þess nú ekki sjálfráður vera. Ari bað hann að sýna sjer í hinsta sinni þá vinsemd að höggva sig og hafa fyrir það hinn besta hlut úr eigu sinni, því sá væri ekki að manni, sem það ætti að gera, en hann vildi láta líf sitt að eins fyrir hendi dugandi manns. Jón svaraði: „Þó þú gæfir mjer alla aleigu þína, þá geri jeg ekki þetta.“ Þessa hins sama bað hann fleiri, en enginn vildi til þess verða. Gekk nú Ari til fyrirmanna og bað þá fyrirgefa sjer áður en hann dæi. Að síðustu gekk hann að höggstokknum og mælti: „Skal nú hjer staðar nema, minn herra?“ Kristján skrifari, sem stóð þar skamt frá, hjelt að hann meinti það til sín, gall við og mælti: „Já.“ Ari mælti: „Svei þjer, þinn prakkari, aldrei

kallaði jeg þig minn herra, heldur talaði jeg til míns drottins og herra.“ Er sagt, að honum hafi þá verið boðið líf, ef hann hjeti því að hefna aldrei þessa. En því vildi hann ekki heita. Bað hann böðulinn að láta sjer takast vel að höggva hann, og gaf honum hatt sinn. Eigi vildi hann láta binda fyrir augu sjer, eins og títt var um þá, sem höggnir voru. Síðan kraup hann á knje, lagði höfuðið á höggstokkinn og teygði hálsinn, svo allar æðar og sinar sáust, og mælti svo hátt, að allir heyrðu: „Í þínar hendur, drottinn, fel jeg anda minn,“ í því hjó hinn; höfuðið tók strags af í einu höggi, en í höfðinu, þar sem það lá, blakti tungan.

Þannig dó Ari með hugrekki þess manns, er veit þá sök sína mesta að hafa unnað ættjörð sinni. — En mörgum þótti hörmulegt, að slíkur ágætismaður skyldi af lífi tekinn, og gengu á brott, og vildu eigi viðstaddir vera. Þannig lauk þá æfi þess manns, er göfugastur, drenglyndastur og mestur glæsimaður mun verið hafa á öllu því tímabili. Hann var myrtur á besta skeiði æfi sinnar, að eins rúmlega fertugur að aldri. Með honum, föður hans og bróður, var á höggstokkinn leitt sjálfstæði Íslands og stjálfstæðistilfinning landsmanna, svo að upp frá því varð eigi vart við annað hjer, en auðmýkt og undirgefni við konungsvaldið, og stóð svo mjög lengi.

Kristján fógeti vildi ekki að lík þeirra fengju gröft eða leg í kirkjugarði, og lágu þau á aftökustaðnum fram eftir deginum. En þessi svívirðilega aðferð gramdist öllum hinum bestu mönnum og heimtuðu þeir að líkin væru grafin. Var þá tekin ein gröf að

kórbaki og líkunum varpað í hana kistulausum, án alls umbúnaðar, og mokað síðan moldu yfir.

Þegar líflát þeirra spurðist norður, varð almenn sorg um alt Norðurland, er þeir feðgar höfðu verið menn mjög ástsælir af öllum almenningi.

Norðlendingar voru einhuga um það, bæði vandamenn Jóns biskups og allur almenningur, að sækja skyldi lík þeirra feðga suður. Þess vegna sendu þau Helga Sigurðardóttir, fylgikona Jóns, og sjera Sigurður sonur hennar á annan í páskum þrjátíu hraustra drengja til að sækja líkin; höfðu þeir með sjer vandaðar kistur og allan útbúnað. Gottskálk prestur í Glaumbæ var formaður fararinnar, (segja sumir, að sjera Sigurður hafi farið sjálfur suður í Skálholt); komu þeir í Skálholt og leyfði Marteinn þeim að taka líkin. Þeir grófu þau upp í snatri og lögðu þau moldug í kisturnar og hröðuðu sjer af stað. Þegar þeir komu á Laugarvatnsbakka tjölduðu þeir og bjuggust um. Þeir þvoðu líkin og bjuggu um sem best í kistunum; voru festar þrjár bjöllur hljómskærar á kistu biskups, en tvær á kistur Björns og Ara, og hringdu bjöllurnar, hvað lítið sem kisturnar hrærðust. Hvar sem líkin fóru fram hjá kirkjum, var öllum klukkum hringt. Þegar þeir komu að Hjeraðsvötnum, voru þau í leysingum og að eins mjó ísspöng á; þó lagði líkfylgdin út á spöngina, einn og einn hestur í senn, og komst alt með heilu og höldnu yfir um. En þegar síðasti hesturinn kom upp á bakkann, er sagt, að ísspöngina ræki af. Þegar líkfylgdin kom norður á Vatnsskarð, er mælt, að stærsta kirkjuklukkan (Líkaböng) tæki

að hrigja sjálf, og hjeldi því áfram, þar til er líkin komu á Hrísháls, — en þaðan sjer heim til Hóla — en þá hringdi hún svo ákaft, að hún rifnaði. Mikill fjöldi manna var saman kominn að Hólum og gengu allir út fyrir tröðina á móti líkfylgdinni. Margir veikir, hrumir og sjónlitlir menn keptust að snerta kisturnar, og fanst öllum sem þeir fengju nokkra bót. Taldi alþýða öll þá sannhelga menn og píslarvotta.

Fengu nú líkamir þeirra hinn virðulegasta gröft í dómkirkjunni á Hólum, og líklegt þykir mjer, að hverjum þjóðræknum norðlenskum manni þætti talsvert vanta á æfiminningu þessara ágætismanna, ef útfararsaga þeirra hefði endað í Skálholti 7. nóvember 1550.

Ari Jónsson var maður bráðþroska bæði til sálar og líkama, snarráður, þrekmikill og fylginn sjer og mentaður í besta lagi, eins og áður er sagt. Það er því eigi undarlegt, þótt hann þegar á unga aldri þætti vel til höfðingja fallinn. Hann var og ör á fje við snauða menn og blíður og alúðlegur við alla þá, er minni voru máttar. Hann var alþýðlegur í bestu merkingu þess orðs, og „.... ef leituðu nokkrir liðs til hans | .... veitti hann jafnan virðum ans | þó væru ei tignarmenn,“ eins og um hann var kveðið.

Snemma ber á þreki og kjarki hjá Ara, enda þurfti hann hvorstveggja við þegar á unga aldri. Að öllu þessu athuguðu virðist mjer sem Jón biskup hafi haft eigi síður heill lands en heiður sonar síns fyrir augum, er hann gerðist hvatamaður þess,

að Ari yrði kosinn lögmaður. Lögmannsstarfið var að vísu ærið vandasamt, og því hæfilegt, að ráðnir og rosknir menn væri til þess kjörnir. En Ari var enginn meðalmaður, og því má ekki meta hann á vog miðlungsmanna, enda er enginn ung-gæðisblær á lögmannsstörfum hans hinum fyrstu, þótt hann sje lítt roskinn að áratali, og hefi jeg þegar minst á þetta áður.

Hjónaband Ara var hið ástúðlegasta, og heimilisbragur góður; var hann og hjúum sínum hinn besti húsbóndi.

Ari var maður stórauðugur. Þegar hann kvongaðist taldi hann sjer sex hundruð hundraða í föstu og fjögur hundruð hundraða í lausafje. Konu sinni gefur henni tvö höfuðból í bekkjargjöf, enda fjekk hann með henni mikinn auð. Hann var höfðingi í lund og gaf stórmannlega. Þannig er getið um fátækan pilt, er Árni hjet, er Ari mannaði og fjekk kvonfang og gaf honum 60 hndr. Nefna mætti og fleiri dæmi, er sýna rausn hans og höfðingslund. Ekki gat Ari þolað, að öðrum væri misboðið, ef þeir voru minni máttar. Þannig tók hann Martein biskup úr varðhaldi á Hólum, er honum þótti vera óvirðulega með hann farið, og hafði hann heim með sjer í Möðrufell, og hjelt hann þar sem jafningja sinn fremur en fanga.

Ara hefir verið borið á brýn, að hann hafi verið harðsnúinn óvinum sínum, og það haft að dæmi, er hann rak sjóðinn á nasir Lárusar Múla á alþingi 1550. Vafalaust hefir Ari getað verið erfiður andstæðingum sínum, að því skapferli og mentun, er

hann hafði. En þótt hann ljeki Múla nokuð grálega, þá ber þar annað til. Lárus Múli var svarinn fjandmaður þeirra feðga, og settur til höfuðs þeim af konungi, og þar að auk lítt þokkaður hjer og í bandalagi við þá Daða í Snóksdal, Gleraugna-Pjetur, Gísla prest og fleiri. Það voru því ærnar sakir, þótt Ari hefði þungan hug til hans, og yrði skapbrátt er hann stóð frammi fyrir honum með fjesjóðinn.

Síðast en ekki síst vil jeg telja það, að Ari var sanntrúaður maður, laus við þá hjátrú og hindurvitni, sem hvorttveggja var mjög alment um samtíðarmenn hans flesta. Nægir um þetta að vísa til brjefs þess, sem ritað var Kristjáni konungi III. 1540, og áður er getið. Þar er þess getið skilmerkilega, að hann vilji nema í burtu ýmsar vondar venjur og hindurvitni, sem slæðst hafi inn í trúarsetningar kirkjunnar, og að guðs orð sje kent rjett og hreint, eins og Kristur og postular hans boðuðu það og síðan kirkjufeðurnir fram eftir öldum; sýnir þetta að hann var manna frjálslyndastur þeirra, er þá voru uppi, þótt hann hins vegar gæti ekki hugsað sjer siðbótina lögtekna, eins og konungur og fylgismenn hans kröfðust; mun og svo vera farið flestum þeim, sem einlægir trúmenn eru, á hvaða tíma sem þeir hafa lifað, að þeim verður erfitt að kasta þeirri trú, er þeim var kend í æsku.

Mjög fagurlega hafa sagnaritarar lýst því, hve vel Ari hafi búið sig undir dauða sinn, og hverjum sem les um varðhaldsvist þeirra feðga og aftöku, dylst það ekki, að hjá Ara lýsir sjer sterk og innileg trú.

Sú saga kom upp snemma, að sveinn sá, er hjá Ara vakti síðustu nóttina, hafi sjeð þá dagur rann (7. nóv.), ljós mikið, sem lýsti um alt herbergið, er Ari var á bæn. Jeg skal engan dóm leggja á sannleik þessarar sögu, enda skiftir hún ekki allmiklu máli í sjálfu sjer; en þó má nokkuð ráða af henni, hversu samtíðarmenn Ara hafa á hann litið að þessu leyti. Um hitt er meira vert, að allir þeir, sem um Ara hafa ritað, og þeir eru margir, eru á einu máli um þessi megin atriði: að hann hafi elskað guð og ættjörð sína af hreinu hjarta og verið í hvívetna hinn ágætasti og drenglyndasti maður.

Það sem vakti fyrir mjer, er jeg valdi Ara lögmann að umræðuefni hjer í kvöld, var einkum þetta, að mjer finst það gæti verið holl og góð hugvekja ungum mönnum, að taka til íhugunar og eftirbreytni þá menn liðinna alda, er framar stóðu sínum samtíðarmönnum um flest það, er gott var, og í þeirra flokki virðist mjer Ari standa mjög framarlega.

Þótt hann yrði skammlífur, veit jeg þó, að hverjum sönnum Íslendingi finst hressandi að heyra frá honum sagt; þykja vænt um að hann fæddist, lifði og starfaði hjer. „Líf er eftir þetta líf“, sagði Sveinn prestur. Á þessi orð minnir æfisaga Ara, því hann lifir í tvöföldum skilningi: hann lifir eilíflega með drottins útvöldu á himnum, og hann lifir líka hjer á jörðinni í endurminningu allra, er þekkja æfisögu hans; og ef allur lýður þessa lands reyndi í alvöru og auðmýkt að fylgja dæmi Ara lögmanns

og annara þeirra manna, er bestir hafa verið með þessari þjóð, þá mundi margt skipast öðru vísi en nú gerist, og saga þessa lands verða fegri og glæsilegri, en hún er.

---

# Arngrímur lærði Vídalín.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 27. janúar 1910.

---

Í kvöld hefi jeg hugsað mjer að segja ykkur frá Arngrími presti Vídalín, sem vanalega er kallaður Arngrímur lærði.

Það var sagt hjer á fundi í haust, að með Jóni Arasyni og sonum hans hefði íslenskt sjálfstæði verið leitt á höggstokkinn í Skálholti 7. nóv. 1550, svo að það um langan tíma hefði ekki látið á sjer bæra. En eins og þetta er satt um hið veraldlega sjálfstæði þjóðarinnar, þannig er og hitt ekki síður alkunna, að við fráfall þeirra dofnaði og mjög yfir öllu andlegu lífi hjer á landi.

Jeg held, að það sjeu engar ýkjur, þótt sagt sje, að aldrei hafi kristni guðs og kirkja Íslands verið jafn illa stödd sem á næsta tímabili eftir að siðaskiftin komust hjer á. Það er átakanlegt að lesa frásagnir sumra sagnaritara þeirra tíma, er þeir lýsa ástandinu, eins og það var þá, og kemur þetta fram ekki síður í bundnu máli en óbundnu. Það kannast víst allir við þessi orð: „Ekki er nærri öld svo fróð", og „Blindar margan blekt lund", og svona mætti lengi telja.

Hvernig stóð nú á fáfræði þeirri, siðleysi og hjátrú, er þá var svo mögnuð á landi hjer, og hver var aðalorsökin?

Fyrst verður þess að geta, að siðaskiftin voru leidd í lög með svo miklum yfirgangi og hörku, að firnum sætir. En þetta framferði valdhafanna vakti svo mikla óvild gegn siðaskiftunum, að fjöldi hinna merkustu manna vildu alls ekki rjetta kirkjunni hjálparhönd og margir prestar lögðu niður embætti sín, er þeir máttu ekki þjóna þeim að fornum hætti. Fáir vildu láta sonu sína læra til prests og ungir menn vildu allan annan starfa fremur takast á hendur en prestsverkin, og varð af öllu þessu hin mesta prestafæð um langan tíma. Það bætti heldur ekki um í Hólastifti, að Ólafur Hjaltason, fyrsti biskupinn er þangað kom eftir siðaskiftin, var enginn skörungur um stjórnsemi, og tókst því miður en skyldi að halda uppi virðingu kirkjunnar; og þótt hann væri að vísu allvel lærður, var hann eigi til þess fallinn að breiða út þekkingu, hvorki á guðs orði nje öðrum fræðum.

En það var þó ekki fáfræðin ein, sem kirkjunni stóð mest óhamingja af, heldur siðspilling prestanna sjálfra. Ólafur biskup Hjaltason vígði nálega hvern, er hann fjekk til að taka vígslu, og af skýrslum þeim, sem eftirmaður hans, Guðbrandur biskup Þorláksson, gefur höfuðsmanni, fáum við hugmynd um, hvernig sumir þeirra hafa þjónað kirkjunni. Vorið 1574 segir Guðbrandur biskup í brjefi til höfuðsmanns, að þá um veturinn hafi þrír prestar orðið hórsekir í sínu umdæmi; tveir af þeim í

annað sinn, og sá þriðji með frillu sonar síns. Fleiri skýrslur sviplíkar þessari gaf biskup. En það voru ekki prestar einir, er brotlegir urðu, heldur og biskupar sjálfir. T. d. átti Marteinn biskup mörg launbörn, Oddur biskup tvö og Guðbrandur biskup tvö. Af þessum brotum biskupanna hlaut að leiða það, að eigi var tekið hart á slíkum yfirsjónum prestanna.

Um lærdómsleysi prestanna má geta þess, að prestur einn gerði ónýta skírn á barni í sókn sinni af því, að prestur sá, er hafði skírt barnið í forföllum hans, hafði skírt það með þessum orðum: „Jón, jeg skíri þig í nafni drottins,“ o. s. frv. Þetta taldi hinn presturinn ótækt, því að svona hefði átt að orða það: „Jeg skíri þig Jón í drottins nafni,“ o. s. frv. Þetta vandlæti prests var kært fyrir Guðbrandi biskupi, og kom þá í ljós, er málið var rannsakað, að prestur var mjög illa læs og kunni alls ekki fræði þau, er prestar áttu þá að kunna. Þá voru prestar og mjög hjátrúarfullir, og leiddi það til þess, að alþýða tók mjög að leggja trúnað á allskonar hindurvitni. Flestir þekkjum við hinar alkunnu þjóðsögur um sjera Einar Nikulásson á Skinnastað, sem talinn var meistari í fjölkyngi og göldrum; og þá var Hálfdán prestur að Felli ekki minni fyrir sjer, og frægur mjög á sinni tíð.

Oft virðist mönnum svo, sem eru á ferð að nóttu til, sem myrkrið sje einna svartast undir dögunina. — Og þannig er því og háttað um myrkur vanþekkingarinnar, — það grúfir svartast yfir mannanna börnum rjett undir það, er ljós þekkingarinn-

ar rennur upp, og svo var það að vísu á þessu tímabili hjá oss á landi hjer.

Árið 1568 býr bóndi sá á Auðunnarstöðum í Víðidal, er Jón hjet og var Jónsson. Hann var mikillar ættar, og kominn af Birni Jórsalafara. Kona hans hjet Ingibjörg Loftsdóttir, en langafi hennar í móðurætt var Jón lögmaður Sigmundsson; var móðir Ingibjargar alsystir Helgu, móður Guðbrands Hólabiskups.

Árið 1568 fæddist þeim hjónum á Auðunnarstöðum sonur, og var hann heitinn Arngrímur. En 26 árum áður var fæddur Guðbrandur Hólabiskup frændi Arngríms og voru þeir skyldir að öðrum og þriðja.

Um æsku og uppvöxt Arngríms eru sagnir óljósar, en þó er þess getið, að snemma þótti hann afbragð annara um gáfur, og þegar á unga aldri mjög hneigður til bóknáms. Árið 1576 var Arngrímur sendur til Hóla og fór brátt að stunda þar skólanám, þótt ungur væri; má telja það hepni, að þá var þar skólameistari Bjarni Gamalíelsson, mjög vel lærður maður og hinn siðavandasti í öllu. Stundaði Arngrímur nám sitt af kappi og útskrifaðist eftir 8 ár með besta vitnisburði, og sigldi 1585 til Kaupmannahafnar, þá 17 ára að aldri. Að líkindum hefir Guðbrandur biskup, frændi hans, kostað hann að öllu, því faðir Arngríms var fremur fátækur, enda er talið, að hann færi að tilhlutun biskups. Við háskólanámið dvaldi Arngrímur 4 ár og var þann tíma helst undir umsjá Jóhanns Haggeus'ar, hins lærðasta og besta manns. Veturinn 1589 tók

Arngrímur próf með besta vitnisburði og hjelt heim til Íslands sama ár og varð þá þegar skólameistari á Hólum, tók prestsvígslu árið eftir og gegndi dómkirkjuprestsembættinu jafnframt skólameistarastörfum; fjekk hann þá um sama leyti veitingu fyrir Melstað í Miðfirði, en fór þó ekki til brauðsins fyr en 1598, er hann slepti skólanum. Þá er og talið, að Arngrími hafi um líkt leyti verið veittur Miklibær í Blönduhlíð og hafði hann kapílán til að þjóna báðum brauðunum fyrst um sinn.

Árið 1598 kvongaðist Arngrímur fyrri konu sinni, Sólveigu Gunnarsdóttur; var Guðrún móðir hennar sonardóttir Jóns biskups Arasonar. Sólveig var allra kvenna fríðust og kölluð „Sólveig kvennablómi"; hún var talin mannkosta kona, og þótti þar vel farið ráðahag, er hann var allra manna lærðastur og manndómlegastur að öllu.

Þegar Arngrímur kvongaðist, flutti hann að Melstað, og reisti þar bú; en eigi þótti hann vera búhöldur í meira lagi, enda hafði hann löngum öðru að sinna. Skólameistarastarfið stundaði hann með mestu alúð og dugnaði, en jafnframt varð hann og að gegna ýmsum hinum erfiðari störfum biskupsdæmisins, eftir það er Guðbrandur biskup tók að eldast, því að heilsu biskups tók þá mjög að hnigna, er kom fram að aldamótunum 1600.

En það, sem einkum eyddi tíma Arngríms og olli honum mikils erfiðis og áhyggju, voru hinar miklu deilur, er hann lenti í með Guðbrandi biskupi.

Deilur þessar risu, eins og kunnugt er, út af rangindum þeim, er Gottskálk biskup hafði beitt ætt-

föður þeirra frænda, Jón lögmann Sigmundsson; höfðu mál þessi legið niðri, síðan er þeir dóu, Jón og Gottskálk, en hófust nú á ný með þeim hætti, að Guðbrandur biskup og Arngrímur gerðu á alþingi (1590) tilkall til tveggja jarða, er Gottskálk hafði tekið af Jóni skömmu eftir aldamótin 1500; hófst af þessu hin mesta rimma milli Guðbrands biskups og Arngríms annars vegar, en á móti stóðu Jón lögmaður frá Svalbarði og þeir, er honum fylgdu. Tímans vegna má jeg ekki fara út í það mál, enda geta þeir, er kynnast vilja málum þessum betur, lesið hina svo kölluðu Morðbrjefabæklinga. En þess vil jeg þó geta, að Arngrímur sigldi tvisvar á konungs fund og ríkisráðs, og hjelt þar vörnum uppi fyrir þá frændur gegn höfuðsmanni og lögmanni, og þótti vörn Arngríms og öll framkoma í því máli bera vott um þreklyndi og gáfur. Málum þessum lauk þannig, að biskup slapp með fjársekt mikla, sem þó var greidd að litlu leyti, en Arngrímur fjekk að kenna á því betur síðar. Óvinir biskups voru auðugir og voldugir og hötuðust við Arngrím, og það svo mjög, að verk hans voru eigi látin njóta sannmælis lengi vel. — Biskup kvartar um þetta á einum stað í ritum sínum, og segir, að sjer falli það þungt, að Arngrímur verði að líða saklaus fyrir það eitt, að hann hafi veitt sjer aðstoð.

Árið 1624, á þriðja dag hvítasunnu, misti biskup heilsuna svo mjög, að hann varð kararmaður upp frá því, og þá um sumarið, 2. júlí, gaf höfuðsmaður, Holger Rosenkranz, út skipunarbrjef til Arn-

gríms, og veitti honum fult vald til að fremja öll embættisverk í nafni biskups í öllu hans stifti, upp á fulla ábyrgð. Þessum vandasama starfa gegndi Arngrímur með árvekni og samviskusemi öll þau ár, sem biskup lifði eftir þetta. Vígði hann presta, vísiteraði kirkjur og gerði annað það, er embættinu tilheyrði.

Árið 1627 andaðist Guðbrandur biskup, og hjelt Arngrímur fagra ræðu yfir moldum hans, er hann svo síðar ljet prenta á sinn kostnað, ásamt samstæðri þýðingu á latínu. Þá um sumarið, 22. ágúst, var haldin fjölmenn prestastefna að Flugumýri, og töldu allir víst, að Arngrímur yrði kjörinn biskup í einu hljóði, því menn þóttust vita, að sá hefði verið vilji Guðbrands, að Arngrímur yrði hans eftirmaður, og svo var enginn, er við hann gæti kept að lærdómi eða röggsemd. — En þegar til kom, taldist Arngrímur mjög undan kosningu, og færði ýmislegt til. Sneru þá allir við blaðinu og kusu Þorlák Skúlason í einu hljóði til biskups, þótt hann væri þá ungur að aldri, og varð hann biskup eftir Guðbrand afa sinn.

Margt hefir verið ritað og rætt um þessa kosningu. Hafa sumir talið, að undanfærsla Arngríms hafi verið fyrirsláttur einn, enda muni prestarnir hafa óttast stjórnsemi hans og drotnunargirni, og því tekið afsökun hans fegins hugar. Aðrir hafa hins vegar haldið því fram, að Halldóra móðursystir Skúla, hafi fengið prestana til að kjósa Þorlák. En hversu sem um þetta er, þá er hitt víst, að Arngrími var auðvelt að ná biskupssætinu, hefði

hann viljað. Hins vegar munu flestir nútíðarmenn, sem þekkja og meta kunna hið mikla starf hans, og hverja þýðingu það hafði og hefir haft fyrir Ísland og bókmentir þess, telja vel farið, að hann varð eigi biskup, því ólíklegt er, að hann hefði getað afkastað öðru eins og hann gerði, ef hann hefði biskup orðið á Hólum 1627.

Árið 1627 misti Arngrímur fyrri konu sína, Sólveigu; áttu þau þrjú börn, og skal þeirra síðar getið. Arngrímur kvongaðist í annað sinn 1628, og gekk þá að eiga Sigríði dóttur Bjarnar prests frá Grenjaðarstað; var hún hin skörulegasta kona. Var þá Arngrímur sextugur að aldri, er hann kvongaðist, en Sigríður tuttugu og sjö ára gömul. Með henni átti hann níu börn, og fæddist hið yngsta 16. ágúst 1644, er hann hafði sex um sjötugt.

Arngrímur var hinn ástúðlegasti eiginmaður og hinn umhyggjusamasti faðir. Sparaði hann börnum sínum ekkert til menta, eftir því sem aldur þeirra leyfði, og horfði ekki í kostnaðinn, þó efni væru lítil. Þegar Arngríms misti við, voru þrjú börn þeirra hjóna í æsku, en hin eldri veittu móður sinni svo góða aðstoð, að hún gat og komið þeim sómasamlega til manns.

Eftir að Þorlákur var orðinn biskup, hætti Arngrímur öllum störfum, er biskupsdæminu við komu. Settist hann um kyrt á Melstað, og tók af alefli að starfa að ritverkum sínum. Þegar við gætum þess, hvaða ritverk það eru, sem hann ljet eftir sig, bæði að efni og vöxtum, mun oss furða á starfsþoli hans og hæfileikum, ekki síst, þegar vjer lítum

á alla þá örðugleika, er rithöfundar þeirra tíma áttu við að stríða. Hann kvartar líka sáran um, hve örðugt sje að ná í ýms skjöl og rit, en þó einkum hve erfitt sje að fá svör frá ýmsum mönnum þar að lútandi. Að þessi umkvörtun hafi ekki verið að ástæðulausu, sýnir brjef eitt, er sjera Magnús Ólafsson í Laufási ritar 28. ágúst 1632. Brjefið er til Ola Worms, hins fræga vísindamanns. Í brjefinu eru, meðal annars, þessi orð: „Samgöngur hjer norðanlands eru svo illar, að jeg hefi að eins getað komið tveimur brjefum að Melstað, til vinar míns síra Arngríms.“ Svona voru þá samgöngurnar á landi hjer um það leyti, og ekki voru þær greiðari við útlönd. Stundum kom ekki nema eitt skip til Norðurlands, ef þá hafísar eða sjóræningjar bönnuðu ekki allar samgöngur. Það má næri geta, að þetta eitt út af fyrir sig hafi bakað Arngrími ekki all-lítil óþægindi. En honum kom hjálp úr annari átt, því að árið 1596 býður konungur honum að safna saman öllum skjölum og fornum ritum, er snerta Danmörku að einhverju leyti. Skyldi hann snúa því öllu á dönsku og senda síðan árlega Niels Krag, en hann átti að hafa það til stuðnings við sögu Danmerkur, er hann var þá að semja. Þetta hjálpaði Arngrími til að komast yfir margt, sem honum var ómissandi við ritsmíðar sínar um Ísland, því frumskjölunum hjelt hann og varðveitti þau vel. Enn varð honum og mikið lið í því, að hann komst í kunnugleik og vináttu við merka fræðimenn erlendis, svo sem Ola Worm, sem áður er nefndur, og Dr. Filippus Nicolai í Hamborg, og enn fleiri.

Í riti einu, er út kom um þessar mundir, er þess getið, að Arngrímur hafi stöðug brjefaviðskifti við sjö hina frægustu menta og fræðimenn Norðurálfunnar. Sumir af þessum mönnum urðu aldavinir hans, t. d. Worm, sem gerði alt það, er hann mátti Arngrími til gagns. Meðal annars keypti hann allar fræðibækur, er hann náði til, og sendi Arngrími, en hann borgaði aftur í vörum, enda átti Arngrímur merkara og stærra safn erlendra bóka, en flestir aðrir hans samtíðarmenn.

En þótt honum gengi þetta að óskum, þá átti hann samt um þessar mundir við ýmsa örðugleika að stríða. Óvinir Guðbrands biskups ljetu á honum bitna óvild sína, er biskup var fallinn frá; vildu þeir hvorki viðurkenna rit hans nje kaupa þau, nje meta störf hans að neinu. Varð hann því að kosta til útgáfu á bókum sínum meira en efni leyfðu. — Það er fyrst á seinni árum æfi hans, að dálítið fer að rofa til hjá honum. Ungir, áhugasamir íslenskir mentamenn tóku að gefa gaum störfum hans, og meta þau að maklegleikum.

Margar bækur Arngríms eru prentaðar, og hann lifði það, að sjá guðfræðibókum sínum vel tekið af íslenskri alþýðu, og vísindarit hans voru í hávegum höfð af mentamönnum þjóðarinnar. Þorlákur biskup kom nú og til sögunnar, og hvatti hann með ráðum og dáð, með því að gefa út bækur hans og mæla með þeim; en síðan tekur hver við af öðrum, Brynjólfur biskup og fleiri.

Sjera Arngrímur var heilsuhraustur maður mestan hluta æfi sinnar, en á seinustu árum fór hann að

kenna ellilasleika nokkurs, og þjáðist þá einkum af gigt og skyrbjúg. Í brjefi til Worms vinar síns kvartar hann um veikindi þessi, og leitar ráða hjá honum gegn þeim; rjeð Worm honum til að nota skarfakál við skyrbjúgnum, en segir, að við gigt hafi mörgum gefist vel að hafa hringa úr rostungstönn. Arngrímur sendi honum þá tannarbrot, en það reyndist svo hart, að það var óvinnandi. Árið 1641 sendi Worm honum marga hringa, en skipið fórst með rá og reiða, og misti því Arngrímur hringanna.

Arngrímur hjelt óskertum sálar- og líkamskröftum, þótt hann væri nú orðinn háaldraður maður, og ekki lattist hann heldur við ritstörfin, þótt kominn væri nú undir áttrætt. Vorið 1648 gekk skæð landfarsótt um Norðurland. Úr henni andaðist hann 27. júní; var hann þá áttræður. Dauða hans er svo fagurlega lýst í brjefi, er síra Einar Arnfinsson, á Stað í Hrútafirði, ritaði Ola Worm, að jeg tek hjer upp kafla úr því:

„Arngrímur sál. dó í friði, eins og Símon, sitjandi á rúmi sínu. Hann kallaði alla ástvini sína til sín, og hvatti þá til þolinmæði í trúnni; lauk hann orðum sínum með sálmi. Hann hallaði sjer síðan aftur á bak, eins og hann ætlaði að sofna, og á sama augnabliki andaðist hann. Hann var grafinn í kirkjunni að Melstað, framan við kórinn, kvennamegin.“ — Seinna var hengt á vegginn þar uppi yfir grafletur með gullnum stöfum og mynd hans hjá, og hurð fyrir. Hafði hann sjálfur samið grafletrið (á latínu) en Worm látið grafa það á spjaldið. Nú mun það

komið á Þjóðmenjasafnið í Reykjavík ásamt myndinni. —

Þannig lauk þá æfi þessa háaldraða, mikilhæfa manns, er lærðastur var talinn allra íslenskra manna um sína daga. Ekkja hans, Sigríður Björnsdóttir, bjó fyrst á Melstað eftir lát manns síns, og vildi, að einhver af sonum Arngríms fengi brauðið; hafði kanslari konungs heitið Arngrími því. En nú veitti konungur Erlendi presti Ólafssyni staðinn. Þessu kunni Sigríður illa, og er mælt, að hún ljeti loka kirkjunni fyrir presti, og fremdi hann alla guðsþjónustu fyrsta sumarið úti í kirkjugarðinum, hverju sem viðraði. En vorið 1649 fluttist hún frá Melstað að Torfustöðum, og bjó þar til ársins 1660, er hún fór að Görðum á Álftanesi til Þorláks sonar síns, og dó hjá honum háöldruð. Þótti hún jafnan mikilsháttar kona, og skörungur hinn mesti.

Sjera Arngrímur hafði hið mesta barnalán, og varð kynsæll mjög. — Með fyrri konu sinni eignaðist hann þrjú börn, er tvö komust úr æsku:

1. Gunnar; dó ungur.

2. Jón; bjó fyrst á Ökrum, síðan í Sælingsdalstungu, merkis bóndi.

3. Helga; giftist Birni sýslumanni. Þeirra sonur var Páll prestur í Selárdal, fræðimaður mikill.

Með seinni konu sinni átti Arngrímur níu börn; dóu tvö ung, en þessi komust úr æsku:

1. Þorkell; prestur í Görðum, faðir Jóns biskups Vídalíns.

2. Þorlákur; prestur á Staðarbakka.

3. Björn; prestur á Höskuldsstöðum.

4. Guðbrandur; sýslumaður í Húnavatnssýslu.

5. Sólveig; hana átti Jón Jónsson, merkis bóndi á Narfeyri.

6. Ingibjörg; átti Gísli hinni eldri, bóndi á Fróðá; fræðimaður mikill.

7. Hildur; er átti Jón bóndi í Víðidalstungu; þeirra sonur var Páll lögmaður Vídalín.

Sjera Arngrímur var fríður maður sýnum, og mjög höfðinglegur á velli sem sjá má af mynd þeirri, sem til er af honum, og tekin var, þegar hann var 28 ára gamall. Á efri árum varð hann þungfær, því hann var alla æfi feitlaginn mjög. — Sagt er, að hann væri skrautgjarn þegar á unga aldri, og hjeldist það við hann alla æfi. Er það talið sem dæmi skrautgirni hans, að hann ljet sonu sína ganga í kápu alla helga daga, og þótti slíkt marglæti. Drambsamur þótti hann og nokkuð, og þóttafullur í allri framgöngu, þeim er ekki voru honum kunnugir; drotnunargjarn og ráðríkur og mjög siðavandur. Hann var trúmaður mikill. Á einum stað farast honum orð á þessa leið: „Ef vjer dag hvern lifðum í trú og bæn til drottins, þá megna engin völd á milli himins og jarðar að vinna oss hið minsta grand.“ Hann kendi hreina og sanna Lútherstrú, en bar þó lotningu fyrir öllu því, er honum þótti vel fara í kaþólskum sið, og átaldi jafnan, ef hann heyrði honum hallmælt. Arngrímur var hinn mesti gáfu- og hæfileikamaður, sem sjá má af ritum hans, og mun jeg seinna víkja að því efni.

Jeg hefi áður drepið á það, að búskapur hans hafi ekki gengið sem best, og að hann hafi lagt á annað

meiri stundun en að safna auði; þó var bújörð hans talin höfuðból að öllum gæðum; en útlit er fyrir, að hann hafi ekki setið hana sem best, því þegar eftirmaður hans, Erlendur prestur Ólafsson, tók við jörðinni, var ekki einn einasti hesthúskofi til á öllum staðnum. En þótt þetta virðist benda á all-mikið hirðuleysi, þá ber þó að gæta þess, að á þeim tímum var það algengt, og er víst ekki dæmalaust enn í dag, að hross gengi úti sjálfala á beitarjörðum, og að ekki væri til hús handa þeim. Enn fremur hafði sjera Arngrímur í svo mörg horn að líta mestan hluta æfi sinnar, eftir það er hann varð fullorðinn og setti bú, að oftsinnis var hann mjög lengi að heiman, enda er svo að sjá, sem heima hafi hann mest hugsað um að lesa og rita, en minna um heimilisstörf, bústjórn og fjáröflun. Þótt hann því að líkindum hafi átt þröngt í búi, þá mentaði hann öll börn sín prýðilega, og mun hafa eytt efnum sínum í þetta tvent: að veita börnum sínum sem best uppeldi og að auka sem mest bókasafn sitt. Nú mundu menn ef til vill ætla, að Arngrímur hafi hlotið að hafa ærnar tekjur, er hann hafði tvö brauð undir og stundum önnur störf jafnframt, en svo mun þó ekki hafa verið, því að bæði varð hann um eitt skeið að halda kapílán, og hann launaði honum vel, og í annan stað mundi það ekki nú á tímum þykja hátt kaup, er honum var goldið fyrir starfa sinn. Fyrir að rita upp forn brjef og skjöl og snúa á dönsku og senda út, sem fyr segir, fjekk hann afgjald af jörðum Hallbjarnareyrar; fyrir að safna til sögu Noregs fjekk

hann ekkert; fyrir að fremja öll biskupsstörf, sem settur biskup, fjekk hann 50 Joachimsdali og árgjald af 7 jörðum dómkirkjunnar. Þegar við gætum þess, að hann var jafnvel árum saman að heiman og minnumst allra þeirra örðugleika, er samfara voru ferðalögum í þá daga, svo og kostnaðarins, er af því leiddi að ná í öll skjöl og bækur, er hann þurfti, þá ætti oss að skiljast, hvers vegna búskapurinn gekk honum ekki betur en raun varð á; og enn má bæta því við, að Arngrímur var talinn mjög gestrisinn, og það miklu framar en efni leyfðu.

Arngrímur tók upp fyrstur sinna ættmanna ættarnafnið Vídalín, því hann var alinn upp í Víðidal; er það hið elsta ættarnafn á Íslandi, og hafa afkomendur hans síðan haldið því.

---

Þá vil jeg stuttlega minnast á rit Arngríms, og hverja þýðingu þau höfðu, en jeg get þess jafnframt, að fæst þeirra hefi jeg sjeð, hvað þá heldur lesið, sem vita má, því þau eru flest á latínu; verð jeg því að fara eftir dómi annara manna, en sú er bótin, að þeir, sem dóminn hafa kveðið upp, voru til þess færari en jeg.

Til fróðleiks set jeg hjer nöfn helstu prentaðra bóka, sem Arngrímur hefir þýtt og frumsamið, og eru þær þessar:

„Stutta biblía“, Hólum 1590,
Davíðs saltari, sá stutti, Hólum 1597,
Eintal sálarinnar, Hólum 1599,
Psalmur Davíðs sá XCI, Hólum 1598,

Krosskveðjur Bernhardi, Hólum 1618,
Krossgaungur (Hammeri), Hólum 1618,
Líkræða yfir Guðbrandi, Hamborg 1630.
Nokkrir íslenskir sálmar, Hólum 1616,
Daglegur spegill sálarinnar, Hólum 1594,
Lagfærð Lilja o. s. frv., Hólum 1612

Af latínu-ritum hans eru þessi helst:

Brevis commentarius de Islandia, Havn. 1593,
Anatome Blefkeniana, Hólum 1612.
Crymogaea sive rerum Islandicarum libri III, Hamborg 1609,
Spesimen Islandae historicum et magna ex parte chorographicum, Amstelodami 1643,
Ágrip af sögu Noregs (á latínu), Kh. 1597,
Jómsvíkingasaga, Kria 1877,
Grænlandssaga (Gronlandia), Skálholti 1688,
Arnarrímur, Hólum 1643,
Sagan af Hróa heimska (á latínu), Hólum 1680.

Af sumum af þessum ritum komu margar útgáfur, og það ætla jeg, að þeir sjeu ekki margir, íslensku rithöfundarnir fyr eða síðar, er geti hrósað sjer af því, að rit þeirra hafi oftar komið út, en sum rit Arngríms lærða, en auðvitað má nokkuð þakka það latínunni, sem þá var allra lærðra manna mál, og Arngrímur ritaði flest sín vísindarit á þá tungu.

Þá liggur næst að íhuga, hverja þýðingu ritstörf Arngríms höfðu fyrir Ísland og bókmentir þess, og vil jeg þá minnast guðfræðisrita hans, og get þá fyrst biblukjarnans eða Stuttu biblíu. Hún þótti kærkominn gestur í þá daga, því þótt Guðbrandur hefði fyrir nokkrum árum látið prenta biblíuna,

var hún afardýr, og í fárra manna höndum; hún kostaði 10 dali og var mest keypt handa kirkjum og var það gert eftir konungs boði. Úr þessu bætti biblíukjarni Arngríms, því í honum var alt megin innihald biblíunnar dregið saman í eina heild og var það sæmileg bók, en þó mjög ódýr, enda seldist hún mjög á meðal alþýðu, sem sjá má af því, hve oft hún var prentuð. Það er því að öllum líkindum sannur dómur, að með þeirri bók hafi fyrsta sinni orð heilagrar ritningar komist inn á flest heimili hjer á landi á máli landsmanna sjálfra, og þarf ekki að eyða orðum að því, hverja þýðingu slíkt hlaut að hafa fyrir trúarlíf þjóðarinnar á þeim tímum.

Eintal sálarinnar hefir verið prentað sjö sinnum hjer á landi, og er að mínu áliti hin besta bók, og kærkomin hverjum trúuðum kristnum manni, og það ætla jeg, að sú bók hafi orðið kristni guðs til mikillar eflingar, og veitt mörgum huggun og frið fyr og síðar.

Krosskveðjur Bernhards kenniföður má og vafalaust telja með bestu guðfræðibókum þeirra tíma, enda er sagt, að nokkru eftir að þær komu út, hafi fjöldi manna kunnað þær utanbókar að meira eða minna leyti. Sama má segja um Krossgaungur Hammeri, er Arngrímur þýddi. Þær náðu mjög mikilli útbreiðslu og almenningshylli á þeim tímum. — Sálmar Arngríms hafa og verið taldir all-góðir, og betri en flest af því tæi, er orkt var samtímis, þótt vitanlega standi þeir langt að baki andlegum kveðskap Hallgríms Pjeturssonar. Þá var Arngrímur tal-

inn latínuskáld gott; og er með þeim fyrstu, er kváðu á latínu eftir siðaskiftin, og er sumt af því, sem hann kveður á því máli, talið prýðis-fagurt, svo sem eftirmæli hans eftir Guðbrand biskup. Rjett mun það þó vera, að sumt er hann kvað á íslensku hafi verið all-stirt kveðið, því að dóttursonur hans, Páll Vídalín lögmaður sagði, að kveðskapur Arngríms væri eins og óheflaðir staurar, reknir saman með ryðguðum járngöddum, og virðist það benda til þess, að hann hafi meira hugsað um efni en búning. En hvað sem um þetta er, þá er það víst, að rit þau, er nú voru talin, miðuðu að því að efla og viðhalda sönnum og lifandi kristindómi meðal landsmanna, og þess vegna stendur íslenska kirkjan í helgri þakklætisskuld við höfund þeirra enn í dag.

En Arngrímur var maður fjölhæfur, og lærður á fleira en guðfræði og latínu; má svo kalla, að hann gæti ritað um alla skapaða hluti; hann ritaði t. d. um lögfræðileg efni, og sýnir það, hve ant honum var um að fræða landa sína um alt það, er þeim mátti verða til nytsemdar.

En það, sem aflaði honum mestrar frægðar, bæði hjer heima og erlendis, var þó þekking hans á latneskum fræðum. Enginn hjerlandsmaður honum samtímis mun hafa verið jafnkunnugur honum latínumáli og mentum, eða ritað jafn fagurt, sljett og lipurt latínumál sem hann, eða afkastað meira á því sviði. Hann þekti alla fornaldar- og miðaldarfræði svo vel, að nútíðar mentamenn hafa lokið því orð á, að þar hafi honum enginn hjer-lendur maður verið jafn snjall eða fremri. Þá hefir það og eigi

aukið lítið hróður hans bæði hjerlendis og erlendis, hve drengilega hann hrakti og rak heim aftur til föðurhúsanna ýmsan lygaþvætting, er erlendir ferðalangar og þorparar breiddu út um land vort og þjóð; varð Arngrímur mjög frægur víða um Evrópu af þessum ritsmíðum sínum, er bera þóttu vott um lærdóm, ritsnild og rökfimi. Áður Arngrímur tók að rita, var svo komið fyrir þvætting þessara útlendu skjalara, að helst var ætlað, að hjer á landi byggju skrælingjar eða fífl, nema hvorttveggja væri; en Arngrímur sýndi og sannaði með ritum sínum, að á þessum útkjálka veraldar hefðu búið og byggju enn menn, er stæðu mestu fræðimönnum annara þjóða jafnfætis í ýmsum vísindagreinum, t. d. sögu og skáldskap.

Auk þessa endurreisti Arngrímur íslenska sagnfræði og opnaði hina dýrmætu bókmentafjársjóði fornaldarinnar. Voru þessi rit hans hin latnesku lengi vel megin hemildir erlendra manna, er kynnast vildu landi voru og þjóð. Þau bárust því víða um Evrópu, og þóttu hin merkilegustu, enda er oft í þau vitnað, og úr þeim teknir kaflar, en sum þýdd á aðrar tungur. Urðu því margir erlendir vísindamenn til að minnast lofsamlega á Arngrím, og sóma þann, er Ísland hefði af lærdómi hans og ritum. Það þótti því mörgum fræðimanni vera skarð fyrir skildi, er Arngrímur ljest, og kemur þetta fram meðal annars í brjefi, er Ole Worm ritaði sjera Jóni Einarssyni í Vatnsfirði. Kveður Worm áhuga sinn á fornfræði hafa mjög dofnað, síðan Arngríms misti við, en vonar þó, að Íslendingar, svo sem Brynjólfur biskup, haldi

störfum hans áfram; og það varð og, þótt enginn jafnaðist á við Arngrím.

Crymogaea Arngríms er talin merkasta rit hans á latínu, og er hún ágrip af sögu Íslands að fornu og nýju, einkum þó fornöldinni. — Það er talinn höfuðkostur hennar, hve margt er sagt þar í fám orðum; þá er og meðferð efnisins talin snildarleg. Bókinni er skift í þrjá kafla: 1. kaflinn er um tungu landsmanna, um siði og háttu fornmanna, um stjórnarfyrirkomulag og um goðafræði; þar er og sagt frá kristnitöku og getið biskupa. 2. kaflinn er útdráttur úr Íslendinga sögum o. fl. 3. kafli er um hvernig landið komst undir Noreg; taldir allir konungar, er yfir landinu hafa ráðið, og ýmsir viðburðir, er gerst hafa á stjórnarárum þeirra. Leiðrjetti bók þessi mjög hugmyndir manna um Ísland, og jók þekkingu þeirra á háttum vorum og athöfnum að fornu og nýju.

Nú mætti ætla, að Arngrímur hefði fengið ritlaun fyrir bækur sínar, er þær þóttu svo merkar. En svo var ekki, og er það til marks, að þá er þessi bók var prentuð í Hamborg 1609, varð hann að heita því að kaupa af henni 100—200 eintök. — Arngrímur varð frægur fyrir rit sín, og er það enn þá, en fjeþúfa urðu þau honum ekki.

Annað rit Arngríms (Brevis commentarius de Islandia), er samið er til að hnekkja fávisku-rausi ýmsra erlendra manna um Ísland; varð rit þetta og all-útbreitt erlendis. Þar greinir og nokkuð frá uppruna Íslands bygðar. — Einhver alræmdasti þvættingurinn um Ísland, er út kom á dögum Arn-

gríms, var bókarkorn eitt eftir Blefken nokkurn, að líkindum þýskan. Reit Arngrímur sjerstaka bók (Anatome Blefkeniana) um þenna bækling, og fór háðulega með höfundinn, tætti bókina í sundur nálega orð fyrir orð, og rak alt ofan í Blefken.

Þá samdi og Gories nokkur Peerse lýsingu Íslands í ljóðum, og kom hún út skömmu eftir miðja 16. öld; var lýsing þessi full af fjarstæðum og alls konar svívirðingum. Og sama máli gegndi um fjölda annara manna erlendra, er um Ísland rituðu um þessar mundir. Öll þessi rit tók nú Arngrímur, og rakti í sundur og hrakti vitleysurnar og lygarnar, og vísaði þeim heim til föðurhúsanna aftur; eru mörg eða vel flest af latínuritum hans um þetta að meira eða minna leyti, en jöfnum höndum fræðir hann og menn um landið og þjóðina eins og áður er sagt.

Jeg hefi áður getið þess, að Arngrímur hafi mjög vaxið í áliti erlendis af ritum sínum, og tilfæri jeg hjer ummæli eins manns, Jóhannesar Frederus. — Hann ritaði Arngrími meðal annars á þessa leið: „Jeg hefi með ánægju lesið Íslands-vörn þína (Commentarius de Islandia), og ást sú, er lýsir sjer í þinni lærðu og lipru vörn, er lofsverð,“ o. s. frv.

Rit Arngríms þau, er á latínu voru rituð, urðu því vinsælli hjer á landi er lengra leið frá og ýmsir sáu og skildu hvílíkt nytsemdar starf hann var að vinna, enda má kalla svo, að deilum hans við hina erlendu skjalara væri fylgt með hinni mestu athygli um öll Norðurlönd; var Arngrímur hjerlendis kallaður „lærði“, að líkindum sakir hinnar víðtæku þekkingar sinnar á latneskum ritum; en hið sama nafn

ávann hann sjer meðal erlendra fræðimanna, sakir kunnáttu sinnar í norrænum fræðum.

Þá verð jeg tímas vegna að láta hjer staðar numið að sinni, enda þótt enn mætti mörgu við bæta. Engum er kunnara en mjer, hve sundurlaust og ófullkomið þetta hrafl mitt er. En mjer má vera það nokkur afsökun, að engin æfisaga er til af Arngrími, og því hefi jeg orðið að tína þetta saman hingað og þangað; fyrir mjer vakti það eitt að safna sem mestu um Arngrím, en hefi ekki haft tóm til að vinna úr því, og enn er það, að jeg get ekki lesið latínu og því hefi jeg ekki getað leitað til rita hans sjálfs, hinna latnesku, en orðið að hlíta annara dómum um þau, eins og áður er sagt.

Loks get jeg þess, að jeg tók mjer fyrir hendur að segja ykkur æfisögu Arngríms, þótt í molum yrði, vegna þess að mjer dylst eigi heldur handleiðsla drottins á þjóð vorri einnig í þessu að senda oss þenna mæta mann, einmitt þegar oss lá mest á til þess að halda uppi vörnum fyrir þjóð vora og sýna og sanna heiminum, að ekki eru allar smáþjóðir skrælingjar, og að höfðafjöldinn einn út af fyrir sig veitir engri þjóð rjett til þess að kalla sig mentaþjóð, eða þær þjóðir ósiðaðar, sem fámennari eru.

---

# Tvö atriði úr sögu Kópavogs.

Fyrirlestur fluttur í Kópavogi 22. júní 1909.

Heiðraða samkoma!

Jeg skal leyfa mjer fyrir hönd þeirra manna, sem fyrir þessari skemtiför standa, að bjóða ykkur öll, yngri sem eldri, hjartanlega velkomin hingað, og jafnframt óska jeg, að þessi dagur verði oss öllum ógleymanlegur ánægjudagur. Okkur kom saman um það, að hjer skyldi staðar numið og jeg talaði hjer nokkur orð, áður en lengra væri haldið. Jeg ætla þá að segja ykkur sögu, eða öllu heldur brot úr langri sögu, og þess vegna óska jeg þess, að, einkum þið, börnin góð, vilduð eftir því, sem þið hafið aldur og greind til, taka vel eftir því, sem jeg segi ykkur, þótt jeg verði stuttorður og frásögnin öll í molum, því að af öllu má læra nokkuð gott.

Sagan, sem jeg ætla að segja ykkur, er saga þessa staðar, saga Kópavogs. Hvert sem við lítum hjeðan sem nú stöndum við, mæta auganu hvervetna staðir, sem eiga sínar sjerstöku endurminningar. Þarna úti á firðinum, er hin nafnfræga höfn, „Seilan“, sem margar endurminningar eru tengdar við og sumar býsna ömurlegar. Þarna, fyrir handan fjörðinn, eru

Bessastaðir, sem um langt skeið voru einhver merkasti staður þessa lands, því þar sátu hirðstjórar og aðrir embættismenn konungs, og hjer er Kópavogur, er nú hvílumst vjer í, og á hann sína sjerstöku sögu, og hvernig er sú saga?

Jeg þekki engan stað á landi hjer, sem á eins sár-raunalega sögu eins og þessi staður, sögu, sem er rituð, ekki að eins með ávirðingum og yfirsjónum, heldur og með blóði og tárum, því jafnframt því sem hjer var þingstaður, var hjer einnig illræmdur aftökustaður. Hjer voru menn af lífi teknir með ýmsu móti, og það ekki ætíð fyrir stórar sakir, því í þá daga voru hegningarlög hörð og ómannúðleg. Menn voru líflátnir með ýmsu móti; var konum venjulega drekt í læk þeim, er þarna rennur, en karlmenn hálshöggnir þarna uppi á hæðinni, og var þar höggstokkur sá, er seinna var fluttur hingað heim undir túngarðinn, og fór þar aftakan fram upp frá því. Jeg ætla ekki að minnast frekara á aftökurnar, því þótt þær væru hörmulegar, þykir mjer þó sem þær sjeu ekki svartasti bletturinn á þessum stað eða hörmulegasti þátturinn í sögu hans. Að minni hyggju er það annað, sem gert hefir og gerir enn, Kópavog ógæfusamlegan í augum allra manna, er lesið hafa sögu Íslands, og á jeg hjer við ráð þau, er hjer hafa ráðin verið og þær samþyktir, er hjer hafa gerðar verið, því þær höfðu háskalegar afleiðingar í för með sjer fyrir einstaklingana og þjóðina í heild sinni. Það er ekki ofmælt, að á þessum stað hafi þau ráð verið ráðin, sem verst og svívirðilegust hafa ráðin verið á landi hjer. Tímans vegna get jeg að eins minst

á tvo fundi, er hjer voru haldnir, og vel jeg þá af því, að mjer virðist, sem þeir hafi haft mesta þýðingu og víðtækasta.

Það bar til einn dag, seint í maí 1541, að þeir, er bjuggu hjer við sunnanverðan Faxaflóa sáu, að tvö herskip, stór og tignarleg, sigldu fyrir öllum seglum inn flóann. Skip þessi leituðu hafnar í Hólminum (Reykjavík) og vörpuðu þar akkerum. Slíka heimsókn hafði Ísland aldrei áður fengið. Hvað er nú um að vera?, mun margur hafa spurt. Á skipum þessum var sægur hermanna, og var fyrirliði Kristófer Hvítfeld, sá er var frægur orðinn af framgöngu sinni gegn Norðmönnum, það var því síst að undra, þótt óhug slægi á landsmenn við slíka heimsókn.

Til þess að ljósara verði fyrir ykkur, hvernig á þessari skipakomu stóð, verð jeg að drepa á nokkur atriði úr sögu landsins á undanförnu tímabili, er standa í sambandi við það, sem nú hefir verið sagt frá, og mun þá verða skiljanlegra það, sem á eftir kemur.

Kristján hinn III með því nafni, var um þessar mundir orðinn konungur í Danmörku. Hann mun verið hafa voldugasti þjóðhöfðingi á Norðurlöndum í það mund, og hafði nokkru áður, en hjer var komið, lögleitt siðaskifti Lúthers í Danmörku. Árið 1540 hafði hann sent hingað kirkjuskipun sína og boðið að við henni skyldi tekið af öllum landslýð, en biskupar og landsmenn höfðu að engu konungsskipun þá. — Síðasti kaþólskur biskup í Skálholti var Ögmundur Pálsson, atkvæðamaður hinn mesti. Hann hafði tekið til fósturs svein þann, er Gissur hjet Einars-

son; var sveinn sá gáfaður í besta lagi, og gerðist síðar hinn mikilhæfasti maður. Biskup sendi hann til Hamborgar til læringar, og þar kyntist Gissur hinum nýja sið og aðhyltist hann; biskup komst fljótlega að því, þegar er Gissur kom út til Íslands og var þá vináttu þeirra lokið í bili, en þó tók biskup hann nokkru síðar í sátt, enda mun hann um eitt skeið hafa haft hina mestu ást á Gissuri, og fjekk hann kjörinn til eftirmanns síns, og er hjer var komið sögunni, hafði Gissur tekið við embættinu og var sestur á Skálholtsstól, en Ögmundur var fluttur með alt sitt að Haukadal, og var nú sjónlaus orðinn með öllu, enda fjörgamall. Ljet hann sig það mest angra, að honum fanst Gissur gera sjer alt til skapraunar, er hann mátti, og fósturlaunin því koma illa niður og ómaklega. Hann veitti Gissuri þá mótspyrnu er hann mátti, og var honum slíkt auðvelt, því allir hinir eldri prestar leituðu ráða til hans, og sóktu hann að vandamálum sínum, enda mun þeim flestum hafa verið kalt til Gissurar og nýbreytni hans. Sagt er að Gissur kærði Ögmund biskup fyrir konungi, fyrir mótþróa þann, er hann veitti sjer, og er talið víst, að hann hafi skrifað honum margt það, er Ögmundi biskupi var næsta óþarft.

Svarið frá konungi kom með þessum skipum, því þau voru konungs eign, send hingað í þeim erindum, sem nú skal greina.

Hinn 31. maí stefndi Hvítfeld þing í Kópavogi; þangað kom Gissur biskup og þar birti Hvítfeld ýms konungs brjef. Þeir Hvítfeld og Gissur bisk-

up áttu langt einmæli saman, og veit enginn, hvað þeim fór á milli, nema hvað geta má í eyðurnar af því, er síðar kom í ljós. Eftir viðræður þeirra Gissurar og Hvítfelds voru bændur til kallaðir og beðnir að leggja til 14 hesta, er flytja skyldi á mjöð og malt til Skálholts, en þaðan aftur vaðmál og smjör. Síðan var þinginu slitið.

Hinn 2. júní, laust fyrir sólsetur, var lagt af stað austur, en það var ekki vín, sem flutt var austur á þessum 14 hestum, heldur var maður á hverjum þeirra. Foringi fararinnar var Eyjólfur Halldórsson, er áður hafði verið í þjónustu Ögmundar og af honum þegið miklar velgerðir, og launaði nú með því að gerast foringi slíkrar farar. Öllum, sem í för þessari voru, var nú gert opinbert erindið, að handtaka skyldi Ögmund biskup, flytja hann suður og færa hann Hvítfeld höfuðsmanni.

Flokkurinn hjelt sem leiðir lágu allar götur austur Ólafsskarð, og komu um dagmálaleytið austur að Hjalla í Ölvesi. Ögmundur biskup var þar staddur, í kynnisför hjá Ásdísi systur sinni, og er mælt, að Gissur biskup hafi gint hann þangað til þess að hann kæmist í hendur höfuðsmanni. Eyjólfur, maður Ásdísar, var ekki heima, og fátt karlmanna. Komumenn óðu inn í bæinn og lögðu hendur á biskup, alsnakinn í rúminu, báru hann út á hlað, þar var hann klæddur og síðan fluttur suður. Hvítfeld kúgaði fyrst af biskupi allar jarðir hans, lausafje, dýrgripi og annað, en Ásdísi systur biskups neyddi hann til að láta af hendi við sig dýrgripi þá, er hún átti, og lofaði að láta bróður hennar lausan, en er

hann hafði gint af henni fjeð, brá hann loforðum sínum, og flutti Ögmund fanga til Danmerkur. Þegar Hvítfeld hafði náð Ögmundi á sitt vald, hjelt hann með her manns upp á Þingvöll; þorðu þá landsmenn ekki annað en láta að vilja hans í öllu; síðan sló hann eign sinni á dýrgripi og peninga Skálholtskirkju og hafði það alt til Danmerkur ásamt Ögmundi biskupi. Þetta var, í stuttu máli sagt, erindi það, sem Hvítfeld átti hingað til lands árið 1541.

Þá er hitt atriðið í sögu Kópavogs, er jeg ætla að minnast á. Rúmum hundrað árum eftir að ofanritaður atburður gerðist, eða laugardagskvöldið 26. júlí 1662, mátti sjá mikinn fjölda ríðandi manna stefna heim að Bessastöðum. Flokkurinn nam staðar, þegar heim undir bæinn kom, og var stigið af baki. Foringjar þessa flokks voru Brynjólfur Sveinsson og Gísli Þorláksson, biskupar, og Árni Oddsson lögmaður. Nafnfrægastur prestur í flokki þessum var Hallgrímur Pjetursson, skáldið góða. Þessir menn allir voru komnir að boði Henriks Bjelke, til þess að sverja Friðriki konungi III hollustueiða. Sunnudaginn var alt kyrt. Mánudaginn 28. júlí hjelt allur flokkurinn, með höfuðsmann í fararbroddi, til Kópavogs. Þann dag var veður blítt og sólskin mikið. Þegar þangað var komið, setti höfuðsmaður samstundis þing, en á þetta þing komu fleiri en landsmenn höfðu búist við. Herskip lá á höfninni (Seilunni), og nú kom mikill flokkur hermanna á land, og skipaði sjer í fylkingu á þinginu, meðan á eiðatökunni stóð; alt var kyrt þar til henni var lokið. Þá er eiðarnir voru svarnir, dró höfuðsmaður upp skjal eitt, er hann

krafðist, að allir rituðu undir; skjalið var eins konar einvaldsskuldbinding til konungs og allra afkomenda hans. Sagt er, að Brynjólfur biskup hafi fyrstur allra mótmælt að gefa slíkt afsal á rjettindum Íslands; er þá sagt, að höfuðsmaður hafi bent honum á hermannaflokkinn og spurt, hvort hann sæi þessa, og ljet biskup þá undan. Nú rak að Árna lögmanni, en hann færðist undan alt til kvölds, en þá er sagt, að hann ritaði grátandi nafn sitt undir skuldbindinguna; svo óljúft var honum það. Strax þegar undirskriftunum var lokið, var skotið af koparfallbyssum, skrauteldar kveiktir, bumbur barðar og á hljóðfæri leikið; síðan hjelt höfuðsmaður þingheimi veislu, er stóð til morguns. Sagt er, að þá væru drukkin dýr vín. En hversu sem það er, þá er hitt líklegt, að Íslendingar hafi aldrei greitt meira fyrir eina veislu, en þá gerðu þeir, þegar þess er gætt, hverjar afleiðingar urðu af þessu Kópavogsþingi.

Eitt af því, sem af þessari Kópavogs-samþykt leiddi, var verslunareinokunin, og um þá plágu eina hafa sagnaritarar sagt, að hún hafi gert landinu meira tjón og óhagræði en öll eldgos og harðindi er yfir þetta land hafa gengið. En ef hún hefir gert landinu þvílíkt tjón, hvað mun þá vera tjónið alt saman talið, er leiddi af bændaánauðinni, breyttum og spiltum stjórnarháttum, er hvorttveggja kom og með einveldinu. Þess vegna hefir þetta þing, er þessa plágu leiddi yfir alda og óborna, gert Kópavog svo illræmdan og eftirminnilegan í hugum allra þeirra, sem sögu lands vors hafa lesið.

Jeg hefi þá sagt ykkur þessa kafla úr sögu Kópavogs, til þess að þeir skyldu verða ykkur viðvörunardæmi, svo aldrei fremduð þið neitt það, til orðs eða æðis, er sett gæti blett á nöfn ykkar eða neinn sögustað þessa lands. Landið okkar er svo fagurt og á svo marga yndislega staði. Á sumum hafa sögulegir atburðir gerst, en aðrir eiga sjer enga sögu enn þá, en það á að vera ykkar verk að fegra nafn hvers staðar, sem þið dveljið á, og í dag hefir æskulýður Reykjavíkur og Hafnarfjarðar mætt hjer og tekið höndum saman um það, að saga þessa staðar verði fegurri á komandi tímum en verið hefir hingað til.

„Þing var sett í Kópavogi“ — þannig hljóðaði yfirskriftin venjulega áður fyr, og því næst er skýrt frá því, sem á þinginu gerðist; en þingfrjettirnar voru venjulega raunasaga einstaklinga eða þjóðarinnar í heild sinni, en alt liggur þetta að baki oss, og kemur ekki framar.

Nú segjum við „þing er í dag sett í Kópavogi“, og þingheimur vinnur þess heit, á þessum stað, að vinna fyrir guð og föðurlandið á komandi tíð. — Drottinn gefi, að það heit rætist.

---

## Hallgrímur Pjetursson.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 31. okt. 1914.

---

Heiðruðu fjelagsbræður!

Síðan jeg kom í þetta fjelag, hefir mig langað til að tala um Hallgrím Pjetursson, sálmaskáld. En nú þegar á á að herða, og von mín á að rætast, er eins og mjer fallist öll orðtök, því maðurinn er svo mikilhæfur, og við fjelagar hjer eigum honum svo mikið að þakka, að aldrei verður nóg frá honum sagt, eða of mikið lof á hann borið.

Jeg hefi hugsað mjer að tala um Hallgrím frá nokkuð öðru sjónarmiði, en flestir hafa áður gert. Jeg mun verða fáorður um skáldskap hans, hver áhrif hann hefir haft á kirkju- og trúarlíf íslensku þjóðarinnar, því að jeg tel víst, að þið vitið það og skiljið allir, og metið hann og þakkið honum eftir þeim andlegum þroska, sem guð hefir gefið oss hverjum fyrir sig. En jeg hefi reynt að safna öllum frásögnum um æfi hans, sem jeg hefi getað náð í, og reynt að tengja þær saman í rjettri tímaröð. En áður en jeg sný mjer að sjálfu efninu, vil jeg geta þess, sem þið reyndar vitið allir, að þegar einhver þjóð hefir eignast þann afburðamann, er bor-

ið hefir höfuð og herðar yfir samtíðarmenn sína, og helgað málefnum drottins líf sitt alt og starf, þá hefir oft farið svo, að hann hefir sakir verka sinna orðið heilagur í augum þeirra kynslóða, er eftir hann hafa komið. Menn hafa átt svo erfitt með að hugsa sjer slíkan mann háðan sömu breyskleikum, sem vjer hinir eigum jafnan við að stríða, — ekki getað skilið, að slík andans mikilmenni hefðu neinar þær ástríður, er jafnan hrjá og þjá aðra dauðlega menn, og því síður að þeir ljetu sigrast af þesskonar ástríðum. Þeir hafa þannig orðið einskonar dýrlingar í hugum almennings, og svipað þessu hefir farið um Hallgrím Pjetursson með okkar þjóð. Heimilisböli Hallgríms, heilsuleysi hans og fátækt hefir alt verið mjög ýkt og orðum aukið til þess að gera hann að nokkurskonar píslarvotti í augum þjóðarinnar, svo að enn skærar skíni hið andlega ljósið, er hann hefir fært þjóð sinni.

Æska Hallgríms er talin hrein og lýtalaus og uppvaxtar- og þroskaár hans laus við þær freistingar, sem æskumaðurinn svo oftlega fellur fyrir. Þetta er því undarlegra, þegar þess er gætt, að Hallgrímur sjálfur ber sjer alt annað vitni, að jeg ekki tali um suma samtíðarmenn hans. Það er eigi sjaldan, að hann heimfærir upp á sjálfan sig þær syndir, sem svo oft eru samfara æskuárunum. Og hann lýsir þessum syndum ekki sjer til hróss, heldur sem sanntrúaður maður, sem í auðmýkt játar bresti sína fyrir drotni sínum og frelsara, og biður náðar og miskunnar. Og þessu líkt mun farið öllum sönnum mikilmennum, á hvaða tíma, sem þau hafa lifað.

því enginn verður að meiri eða merkari, þótt hann fremji syndir sínar á laun, og takist að leyna þeim fyrir mönnum. Hitt er vegurinn til þroska, að játa það, sem áfátt er, og reyna að betra sig. Og ef rjett er á litið, vex engi af því lofi, sem á hann er hlaðið ómaklega, nje verður að minni maður, þótt satt sje frá honum sagt. Og svo vel treysti jeg dómgreind ykkar allra, að Hallgrímur muni ekki lækka í áliti hjá yður, þótt saga hans sje sögð, eins og efni eru til. —

Margir hafa orðið til þess að rita æfisögu Hallgríms Pjeturssonar, og skal jeg nefna hina helstu: Páll lögmaður Vídalín ritaði hana á íslensku, dönsku og latínu, Jón Ólafsson Grunnvíkingur, Gísli Konráðsson, meistari Hálfdán Einarsson, sjera Vigfús Jónsson í Hítardal, og mun jeg einkum fara eftir frásögn hans í því, sem hjer fer á eftir.

Nú, með því að svo margir hafa um Hallgrím ritað, mætti ætla, að gera mætti af öllu saman greinilega æfisögu hans. En það er öðru nær. Lykkjuföllin eru svo mörg á frásögninni, að firnum sætir. Þannig veit, t. d., enginn með vissu, hvenær hann er fæddur, nje hvar hann er fæddur. Hinsvegar er til ágæt mynd af honum, máluð af Hjalta Þórðarsyni, og telja menn nokkurnveginn víst, að Hjalti hafi málað hana eftir frummynd, er Þórður biskup Þorláksson hafi tekið af Hallgrími sjálfum, því Þórður biskup var talinn ágætur málari.

Hallgrímur Pjetursson er fæddur 1614, líklega snemma á árinu. Nokkrir telja hann fæddan á Hólum í Hjaltadal, en miklu fleiri í Gröf á Höfðaströnd,

og er það líklega rjettara. Vanalega hafa menn rakið ætt hans til Sveinbjarnar prests Þórðarsonar (barna-Sveinbjarnar), er lengi hjelt Múlastað, og jafnan var talinn í fremstu presta röð Norðanlands. Talið er, að Sveinbjörn ætti fimtíu börn og hálfrefi marga að auki.

Einn af afkomendum Sveinbjarnar var Pjetur Guðmundsson, faðir Hallgríms. Honum er lýst á þá leið, að hann væri framkvæmdalítill og lítt hygginn maður, en frómur og vandaður. Kona hans, er Sólveig hjet, var talin guðhrædd og skynsöm og í alla staði vönduð kona.

Börn þeirra Hjóna voru fjögur: þrír drengir og ein stúlka, og er Hallgrímur talinn þeirra yngstur. Er sagt, að þau hjón hafi brugðið búi sökum fátæktar, og er líklegt, að það hafi orðið skömmu eftir að Hallgrímur fæddist, því árið 1615 er Sólveig talin til heimilis í Gröf á Höfðaströnd, og fylgdi Hallgrímur móður sinni þar sem ljebarn. Líklegt er að Pjetur faðir Hallgríms hafi þá dvalið í Höfðahreppi, annað hvort í lausamensku eða sem vinnumaður og unnið fyrir öðrum börnum sínum að einhverju leyti.

Hið fyrsta, sem jeg veit skráð um Hallgrím, á að hafa gerst um það leyti, er hann var nýfarinn að sleppa stokki, ganga einn, sem kallað var. — Það var um haust í rökkursbyrjun, að móðir Hallgríms sat á rúmi sínu við tóvinnu, en sveinninn ljek sjer utar á pallinum. Í ytri enda baðstofunnar var autt svæði; var það notað fyrir hirslur og ýmislegt. Köttur einn stór var á heimilinu og hafði hann

lagt sig til rökkursvefns á einni hirslunni, en við hávaða þann, er sveinninn hafði, vaknaði kisa, tók undir sig stökk mikið, hljóp upp á pallinn og leitaði sjer næðis í rúmi einu innar í baðstofunni. Drengurinn varð hræddur við þetta kast, er kisa tók, og hljóp til móður sinnar, og þegar hún spurði hann, hver orsökin væri, mælti hann fram vísu þessa, er henni veitti mjög erfitt ag skilja:

Í huganum var jeg hikandi, o. s. frv.

Vísa þessi er talin sú fyrsta, sem hann orkti.

Það bar til vor eitt, þá er Hallgrímur var fjögra ára, að fólk alt frá Gröf fór til altaris að Hofskirkju, er var sóknarkirkja heimilisins. Móðir Hallgríms ætlaði einnig að vera til altaris, og stúlka ein á heimilinu bauðst til að vera heima og gæta drengsins og bæjarins. Þegar fólkið var farið, þótti henni dauflegt einni heima; tekur hún því það ráð, að hátta drenginn niður í rúm. Skipaði hún honum með harðri hendi að hreyfa sig hvergi, uns hún kæmi aftur, annars myndi manneyg kýr, sem var á bænum, og hún vissi að hann var hræddur við, koma og taka hann. Hugði hún nú gott til að skreppa til næsta bæjar, en það slys henti hana, að hún gleymdi tímanum, því þegar fólkið kom frá kirkjunni seinni part dagsins, var hún enn ókomin. Drengurinn var útgrátinn í rúmi sínu, og þegar hann var spurður hvar fóstra hans væri, svaraði hann með vísu þessari:

Bæjarstrokan burtu fór, og bældi fýrinn; o. s. frv.

Nokkru seinna kom stúlkan heim, og er sagt, að hún fengi þunga áminningu fyrir ótrúmensku sína.

Það er sagt, að kerling ein væri á heimilnu. Þótti hún ærið skapstirð og hændust börn lítt að henni. Hún átti mikið safn af ýmislega litum bandhnyklum, þráðarleggjum og fleira þess háttar dóti, er hún geymdi í stórri eltiskinnskjóðu til fóta í rúmi sínu. Hallgrímur var forvitinn og handóður sem önnur börn, og sótti allfast að komast í skjóðu kerlingar, og rannsaka muni hennar, en hún varnaði þess jafnan. Eitt sinn bar svo við, að kerling brá sjer eitthvað frá, gat hann þá náð skjóðunni og dregið hana ofan á gólf, leysti svo fyrirbandið, helti öllu á gólfið og gerði flekk úr öllu saman. Litlu seinna kom kerlingin og varð ærið stygg. Klagaði hún þetta athæfi fyrir móður hans og heimtaði, að honum yrði refsað harðlega. Ekki er þess getið, hvernig móðir hans tók því máli, en drengurinn gerði vísur nokkrar um þetta, eru þær undir nafni kerlingar og er þessi ein þeirra:

Heillin góða, brátt jeg bið, o. s. frv.

Merkur maður, Tómas lögsagnari á Ásgeirsá, hefir sagt frá atburði einum, er mikla þýðingu hafði fyrir Hallgrím Pjetursson.

Sumarið 1620, þegar Hallgrímur var 6 ára, mæltu nokkrir unglingar sjer mót á berjamó. Skyldu allir mætast á hinum svo kölluðu Grafarmóum. Börnin komu öll saman þar á tilteknum tíma. Eitthvað af elstu börnunum hafði með sjer stóra skjólu og kom þeim saman um, að drengirnir skyldu tína

í húfur sínar, en stúlkurnar í önnur smáílát. Skyldi öllu safnað saman í skjóluna og skift svo úr henni á eftir. Síðan dreifðu börnin sjer, og söfnuðust saman að aflíðandi nóni. En þegar átti að skifta, varð ágreiningur og hávaði nokkur. Hallgrímur dró sig út úr og settist skamt í burtu.

Rjett í þessu bar þar að ríðandi mann. Stje hann af baki og gekk þangað sem Hallgrímur sat, og spurði hann, hvað hávaða þessum valdi, og hvað hann hafi verið að gera hjer. Hallgrímur svaraði:

Jeg var að tína þúfna hnot, o. s. frv.

Komumaður var Guðbrandur biskup á Hólum, og furðaði hann á slíkum svörum hjá jafn ungum dreng. Það var ekki vani hans að ganga þegjandi fram hjá drengjum, sem hann fann að eitthvað var í spunnið. Hann spurði því þannig:

Hver hefir skapað þig skepnan mín, o. s. frv.

Hallgrímur svaraði:

Guð faðir mig gjörði um sinn, o. s. frv.

Síðan spurði biskup hann að ætt og aldri, og leysti Hallgrímur úr því greiðlega. Kannaðist biskup við frændsemi hans, því hann var skyldur föður Hallgríms, og tók nú biskup drenginn heim til Hóla ásamt Pjetri föður hans, er hann gerði að hringjara dómkirkjunnar.

Sama ár var Hallgrímur látinn byrja á lestri og að draga til stafs, og nokkru seinna á latínunámi.

Þegar Hallgrímur var 9 ára gamall, tók að bera

á því, að honum var gjarnt að kasta fram keskivísum. Þannig er sagt, að eitt sinn gengi Pjetur faðir hans til kirkjunnar og ætlaði að hringja klukkum til tíða. Hallgrímur fylgdi föður sínum. Vatt sjer þá að Pjetri spjátrungur einn þar úr sókninni, og mælti: „Þarna átt þú laglegt böðulsefni, Pjetur sæll."
Hallgrímur svaraði samstundis:

Þegar jeg böðuls þjóna stjett, o. s. frv.

Á þriðja í hvítasunnu 1624 misti biskup heilsuna. Tók þá Halldóra dóttir hans við öllum búsforráðum staðarins, en Arngrímur lærði á Melstað í Miðfirði sá um öll kenslu- og kirkjumálefni. Arngrímur þótti nokkuð drambsamur og þóttafullur, og hafði allstrangan aga á skólapiltum, en þeir, sem ódælir voru, þoldu honum það illa, þótt hinir friðsamari virtu hann fyrir lærdóm hans, skörungsskap og aðra yfirburði. Sagt er, að piltar ættu eitt sinn snarpa orðræðu um Arngrím. Hallgrím bar þar að, og báru þeir, sem með Arngrími voru, málið undir Hallgrím og væntu þess, að hann myndi verða á þeirra máli. Hallgrímur kvaðst ekki skyldu bregðast trausti þeirra, en sagðist best geta lýst starfsemi Arngríms með stöku, er hann mælti þá af munni fram, og er þetta upphafið:

Sofnar, vaknar, sjer við snýr, o. s. frv.

Það mun hafa verið á þessum árum, að Hallgrímur kom á alþing. Sló hann sjer í hóp ungra pilta, er áttu þar leik. Þeir tóku sjer hvíld í brekku og böðuðu sig í sólskininu. Arngrímur gekk þar fram hjá

og var í djúpri samræðu við nokkra mikilsháttar menn; þeir námu staðar skamt þar frá, er piltarnir sátu, án þess að gefa þeim nokkurn gaum. Þá mælti Hallgrímur fram vísu, er svo byrjar:

Eins og forin feitur fjenu mögru hjá, o. s. frv.

Guðbrandur biskup dó 19. maí 1627. Þá var Hallgrímur 13 ára, og varð nokkru síðar að fara frá Hólastað og af landi burt. Svo má kalla, að engir tveir sagnaritarar þeirra tíma skýri eins frá því, hvað valdið hafi brottför hans. Sumir segja, að hann kvæði níðkvæði um nokkrar fyrirkonur staðarins, en aðrir hafa mótmælt því, og talið, að varla hefði það varðað brottrekstri. — Hins vegar hvílir yfir þessum atburði svo mikil hula, að það er bersýnilegt, að enginn vill segja frá því, hvað valdið hafi brottför hans, og verður það því að líkindum aldrei skýrt til hlítar. En engan veginn er jeg á þeirra máli, er halda því fram, að hann hafi verið rekinn úr skólanum fyrir ýmislega óknytti, er hann hafi framið þar, því þótt hann þætti ódæll og pöróttur í æsku, þá var það engin nýlunda á þeim tímum um drengi í Hólaskóla. Hitt, að hann hafi komist í svo mikla ónáð hjá heldri konum staðarins, er mjer og jafnóskiljanlegt. Mjer finst miklu líklegra, að óvirðing sú, er hann lagði á Arngrím lærða, hafi valdið brottförinni. Arngrímur rjeði þá nálega öllu á staðnum, er hann vildi, og var bæði kappsfullur og stórlyndur. Annars skiftir þetta ekki svo miklu máli. Afleiðingin varð sú, að Hallgrímur föðurbróðir hans í Gröf hjálpaði honum til utanfarar, og sigldi hann

svo með Hofsós-skipi þá um sumarið, 1627, og lenti í Glückstað, og gekk þegar í þjónustu kolasölumanns þar.

Nú var Hallgrímur þá kominn í framandi land, þar sem hann átti engan að. Hann var óharðnaður unglingur, og svo óheppinn var hann að lenda hjá þeim manni, er sýndi honum bæði ónærgætni og hörku. Þetta hafði mjög slæm áhrif á hann. Hann varð kærulaus og ljet lítilsvirðingu og þrjósku koma í móti hörku þeirri, er honum var sýnd. — Árni Magnússon, fornfræðingur, hefir sagt frá atviki einu, er sýnir, hvernig honum leið, meðan hann dvaldi hjá þessum húsbónda sínum.

Sumarið 1630 ferðaðist Kristján IV til Glückstað, og fór einn saman um bæinn til að skoða hann. Kom hann þar að, er Hallgrímur var að mæla kol, og sá konungur, að Hallgrímur mældi miklu betur en fyrirskipað var. Konungur mælti þá nokkuð hvast: „Þú átt að mæla rjett.“ Hallgrímur sneri við honum bakinu og svaraði í fyrirlitningarróm: „Það eru kol.“ Sagt er, að hann vissi eftir á, við hvern hann hefði átt, en ljeti það ekki á sig fá.

Litlu síðar fór hann úr þessari vist og komst til Kaupmannahafnar. Kom hann sjer þá í vist hjá járnsmið nokkrum, og hugðist að læra járnsmíði. Þótt honum liði ekki sem best hjá fyrri húsbónda sínum, þá leið honum nú miklu ver hjá þessum. Húsbóndi hans var hinn mesti harðstjóri, og er það sagt, að hann berði á drengnum, hversu lítið, sem út af bar í smiðjunni. Hallgrím skorti afl en ekki vilja til að veita viðnám og verjast, og varð því að sætta

sig við að bera lægra hlut, en það tók hann sjer mjög nærri.

Það var einn dag, að Hallgrímur flýði hryggur og reiður undan misþyrmingum húsbónda síns. Úthúðaði hann honum upphátt á íslensku við sjálfan sig, sumir segja í bundnu máli. Hann var svo niðursokkinn í sína eigin harma, að hann veitti því ekki eftirtekt, að velbúinn höfðingsmaður gekk á eftir honum. Maður þessi var Brynjólfur Sveinsson, síðar biskup í Skálholti. Brynjólfur tók hann nú tali, og vítti hann harðlega fyrir það, að hann skyldi óvirða svo sinn kristinn bróður og húsbónda, en ljet hann ekki strax vita, hver hann var. Ekki ljet hann heldur á sjer skilja, hve honum þótti níðið smellið og kraftmikið, þótt það hins vegar væri ófagurt. Hallgrímur þagði á meðan Brynjólfur hjelt áfram áminningum sínum, en leysti síðan frá skjóðunni. Kvað hann sjer vorkunn, þótt hann gæti ekki fyrirgefið, þar sem hann væri hungraður, kvalinn og skammaður, og mætti í ofanálag sæta höggum og slögum. Endirinn varð sá, að Brynjólfur lofaði að losa hann úr þessari prísund, og það efndi hann bráðlega; og hann gerði meira. Brynjólfur var kunnur og mikilsvirtur hjá öllum mentamönnum fyrir gáfur sínar og lærdóm, og þessa naut Hallgrímur. Brynjólfur fór á fund Reseníus Sjálandsbiskups, sem þá var æðsti umsjónarmaður Kaupmannahafnarháskóla, og vakti hann athygli biskups á gáfum Hallgríms, og meðaumkun hans á munaðarleysi drengsins og neyðarástandi því, er hann væri í.

Skildist Brynjólfur ekki við það mál, fyr en Hall-

grímur var kominn inn í Frúarskóla fyrir tillögur biskups, haustið 1632. Tók hann þar svo miklum framförum, að hann eftir fjögur ár, 1636, var kominn í hina svo kölluðu meistaralexíu, sem svarar til efsta bekkjar á þessum tímum.

Vafalaust mega þessi skólaár Hallgríms teljast hans mestu gleði- og hamingjuár. Hann átti sjer marga góða og trygga vini. Hann var að eðlisfari kátur og glaðlyndur, og því mun sú tilgáta vera rjett, að mörg af hans gamankvæðum sjeu frá þessum námsárum hans. Námshæfileika hafði hann góða og í málfræði náði hann svo mikilli mentun, að hann talaði og skildi latínu, þýsku og dönsku sem sitt móðurmál. Viðvíkjandi þekkingu hans á norrænum skáldskap má geta þess, að Brynjólfur biskup og Þormóður Torfason, sem báðir voru þá taldir best að sjer í þessum fræðum allra Íslendinga, fóru þess á leit við hann, er hann var orðinn prestur, að hann semdi skýringar yfir Eddurnar og vísurnar í sögu Ólafs Tryggvasonar. Eftir þessu var þekking hans í flestum öðrum námsgreinum. Brynjólfur, sem um þessar mundir varð biskup, og gat þakkað sjer, að hafa komið Hallgrími til náms, var mjög ánægður með framfarir hans, og óefað hefir hann vænst þess, að Hallgrímur mundi síðar meir komast til mikilla metorða heima á Íslandi.

En hjer sannaðist sem oftar, að maðurinn ályktar, en guð ræður. Það átti fyrir Hallgrími að liggja að verða frægur maður, en á alt annan hátt, en biskup hafði þá grunað.

Haustið 1636 komu til Kaupmannahafnar 38 ís-

lenskir menn og konur, er Kristján konungur IV hafði leyst úr ánauð hjá Tyrkjum. Flest af þessu fólki hafði týnt móðurmáli sínu og kristnum fræðum, og þótti konungi nauðsyn til bera að fá duglegan guðfræðing til að kenna því um veturinn. Leitaði hann því til háskólaráðsins, og bað það að vísa sjer á þann, er það teldi best til þess fallinn. Benti það konungi á Hallgrím, og tók hann við þessu starfi og hjelt því um veturinn, og hepnaðist vel. Í hóp hinna herteknu manna var kona ein, er Guðríður hjet. Hafði hún og Eyjólfur bóndi hennar verið hertekin í Vestmannaeyjum. Guðríður var nú orðin ekkja, og talin fríð og sköruleg kona. Til þessarar konu feldi Hallgrímur svo mikla ást, að um vorið, þegar skip gengu til Íslands, yfirgaf hann háskólanám og vini og hjelt til Íslands ásamt Guðríði. Komu þau út með Keflavíkur-skipi, en hjer var köld aðkoma. Brynjólfur biskup var sár-gramur Hallgrími, er hann frjetti, hvernig komið var högum hans. Frændur hans og vinir voru honum fráhverfir, og vildu ekki rjetta honum hjálparhönd. Eftir mikið stríð gat hann komið Guðríði fyrir hjá Grími Bergssyni. er bjó í Ytri-Njarðvík, en sjálfur gaf hann sig í vinnu hjá Dönum í Keflavík. Það sannaðist hjer sem oftar, að sjaldan er ein báran stök, því um haustið ól Guðríður barn í Ytri-Njarðvík, og kendi Hallgrími. Var þá rúmt ár liðið frá dauða manns hennar, en hún ekki komin í hjónaband, og reiknaðist því brotið frillulífsbrot, samkvæmt lögum þeirra tíma. Nú voru Danir farnir af landi burt, svo að Hallgrímur

stóð atvinnulaus uppi, húsviltur fyrir unnustu sína og barn sitt; var hann því nauðulega staddur, því að ekki þótti það vegur til hamingju fyrir unga menn og efnalausa, að rata í svipuð æfintýri, sem Hallgrímur hafði ratað í nú. Og námspiltum gátu svona brek orðið dýrt spaug, og lokað fyrir þeim öllum sundum til embætta og frama, og það stundum um langan tíma. Nú var það sagt um Brynjólf biskup, að hann mætti aldrei heyra trúlofun nefnda á undan stöðu, svo að hjer horfðist ekki vel á; og þegar svo hjer við bættist, að Hallgrímur var bæði örgeðja og tilfinninganæmur, en mátti nú sæta fyrirlitningu og háði hjá vinum sem óvinum, þá má geta nærri, hvernig honum hafi liðið um haustið 1637.

Aðstoð varst oft mjer þjáðum
í útlátum, gjöfum, ráðum,
sem víst var venja þín.

Þessi fögru orð standa í þakklætis- og saknaðarljóðum þeim, sem Hallgrímur kvað 16 árum síðar eftir ástvin sinn og velgerðamann, Árna lögrjettumann Gíslason á Ytra-Hólmi. Þessi maður kom til hjálpar Hallgrími 1637, svo sem væri hann af guði sendur honum til fulltingis; var Árni þessi hið mesta göfugmenni. Hann tók nú Hallgrím að sjer, og reyndist honum síðan sem besti faðir. Hann útvegaði honum húsnæði í koti því, er Bolafótur hjet í Njarðvíkum suður, og þótt Árni byggi svona langt í burtu, þá hafði Hallgrímur jafnan atvinnu hjá honum, ýmist uppi á Ytra-Hólmi eða þá þar syðra. Auk þess, er Árni hjálpaði honum fjárhagslega, þá var

ekki hitt minna um vert, að hann þetta sama haust fór að hugsa um að útvega Hallgrími uppreist. Braust hann í því með dugnaði miklum að fá dánarvottorð Eyjólfs sáluga, manns Guðríðar, uppspurt, og ekki skildist hann fyr við það mál, en hann var búinn að koma þeim í löglegt hjónaband vorið 1638.

Guðríði konu Hallgríms er þannig lýst, að hún væri mjög fríð og sköruleg, skaphörð og ráðrík, en ráðdeildarsöm. Er mælt, að hún hafi haft svo mikið álit, er hún var hjá Tyrkjum, að elsti sonur æðsta yfirmannsins þar hafi viljað kvongast henni, en vandamenn hans hindrað. Hitt er víst, að hún hefir sætt ómaklegum dómum, og mun það stafa af misskilningi framar en tilverknaði hennar, því að samtíðarsagnir geta ekki annars, en að hún væri góð kona og ráðdeildarsöm, enda ótrúlegt, að Hallgrímur hefði lagt jafn mikið í sölurnar fyrir hana og hann gerði, ef ekki hefði verið fyrir einhverju að gangast.

Börn þeirra hjóna voru þessi þrjú, er jeg hefi sjeð nefnd: Steinunn, er þau mistu þriggja ára gamla, og tregaði Hallgrímur hana mjög, því að hún var talin fluggáfuð; Eyjólfur, er seinna varð bóndi á Ferstiklu, dáinn 1679, 41 árs gamall, og Guðmundur, er dó ungur. Enn fremur er talið, að þau ættu fleiri börn, og dæi þau í æsku.

Það var eitt með öðru, er Hallgrími fjell til mótgangs um þessar mundir, að Grímur í Ytri-Njarðvík, sá er skaut skjólshúsi yfir Guðríði, komst í vandræði nokkur út af Hallgrími. — Hallgrímur hafði verið dæmdur í 8 vætta sekt fyrir brot sitt með

Guðríði, en hafði ekki einn eyri, þá er greiða skyldi sektina; ætlaði Grímur þá að hlaupa undir bagga, leitaði samksota um Suðurnes, og bað menn fyrir guðs sakir að gefa tvo til þrjá fiska, og til þess að greiðara gengju samskotin, las hann upp brjef, er hann hafði samið. Í brjefinu stóð meðal annars, að guð hefði mýkt svo sinni höfuðsmanns, að hann fyrir sinn innilegan bænarstað gæfi Hallgrími upp allar sakir. En fyrir illvilja Torfa sýslumanns Erlendssonar á Stafnesi, komst brjef þetta í hendur höfuðsmanns, og ljet hann stefna Grími samstundis til Kálfatjarnar og var Grímur þar dæmdur sekur um fjölmæli við konung og höfuðsmann. Samt fjekk Árni Oddsson lögmaður því til vegar komið, að Grímur slapp með tuttugu vætta sekt og auðmjúka fyrirgefningarbón til höfuðsmanns. Sýnir þessi meðferð, er Grímur varð fyrir í þessu máli, hve varlega varð að fara, þegar höfuðsmenn áttu í hlut.

Nú flutti Hallgrímur suður í Hvalsnesshverfi og lifði þar við fátækt mikla, og er hann talinn búðsetumaður Árna á Ytra-Hólmi. Annars var Hallgrímur löngum uppi á Hólmi og vann á heimili Árna. Því til sönnunar er þess getið, að þá var sá prestur í Görðum á Akranesi, er Grímur hjet Bergsveinsson, einfaldur og lítt lærður. Það bar stundum við, er Hallgrímur kom frá kirkju, að hann safnaði að sjer öllu heimilisfólkinu á Hólmi og prjedikaði þá sjálfur, og þótti mjög bera af Grími presti. Sjálfur hlýddi Árni á þær ræður ásamt heimilisfólki sínu og þótti sem öðrum, meiri uppbygging í þeim, en ræðum sóknarprests síns. Það er mjög líklegt, að þessar ræður

Hallgríms hafi átt einhvern þátt í því, að brátt breyttist hagur hans mjög.

Um þessar mundir var á Hvalsnesi höfuðkirkja og prestsetur í hinum svo kölluðu Hvalsnessþingum. Útkirkja var í Vogi (Kirkjuvogi). Til Kirkjuvogs lágu Njarðvíkur báðar, Narfakot og fleiri kot. Það var síðar, að Þórður biskup Þorláksson setti kirkju í Innri-Njarðvík og lagði hana til Kálfatjarnarþinga. Hvalsnessbrauð var talið meðalbrauð að mati, en samt átti biskup erfitt með að fá presta til Hvalsness, og bar það einkum til, að margir stórbokkar voru þar syðra, er ekki voru sem dælastir prestum sínum, og var Torfi Erlendsson sýslumaður talinn skæðastur. Sat hann á Stafnesi og bar ægishjálm yfir hjeraðið. Torfi var ríkur, og var þá uppgangur hans sem mestur. Hann var skapstór maður og mjög dramblátur. Það er mælt, að þá er hann sá Hallgrím í fyrsta sinni, en það var þá er hann var í erfiðisvinnu hjá Dönum í Keflavík, sagði hann með mikilli fyrirlitningu: „Þetta er heldur liðlegur slordóni.“ Hallgrímur, sem heyrði þetta vinsamlega ávarp, ljet sjer hvergi bregða og mælti:

Áður en dauður drepst úr hor, o. s. frv.

Þannig er talið, að þeir kyntust fyrst. Mælt er, að næsta sumar eftir færi Hallgrímur til alþingis, og gætti hesta þeirra, Suðurnesjamanna. Sagt er, að hann væri þá lítt haldinn að klæðum. Hann hitti þá velgerðamann sinn, Brynjólf biskup. Var biskup þá all-þungorður við Hallgrím um ráðahag hans og fleira, og ljet á sjer skilja, að hann iðraði þess, er hann

hafði tekið hann úr ánauðinni hjá járnsmiðnum, og komið honum á háskólann. Kvað biskup það dýra ást, er breytti háskóla-kandidat í auðvirðilegan hestasvein. Hallgrímur bað biskup að taka sjer það ekki nærri; kvað honum hafa gengið til þess gott eitt, enda mætti gott eitt af því leiða. Í sama bili rigsaði Torfi sýslumaður fram hjá þeim í rauðum skarlatsklæðum, er hann bar jafnan á þingum og meiri háttar mannamótum. Biskup benti Hallgrími á sýslumann, og bað hann bera saman stöðu þeirra og klæðnað. Hallgrímur sagði biskupi þá, að í ystu myrkrum mundi þess lítið gæta, hvort menn hjer í lífi hefðu gengið kjólklæddir eða í vaðmálsfötum, því þar yrði ekki mikið tillit tekið til auðs og mannvirðinga. Sagt er, að biskup sneri sjer undan og brosti, því hann vildi ekki, að Hallgrímur sæi, hve vel honum líkaði svar hans, því að honum, eins og fleirum, fjell illa ofstopi Torfa og yfirgangur, er hann beitti bæði við presta og leikmenn.

Árið 1644 höfðu ýmsir prestar þjónað Hvalsnessbrauði, en enginn fengist til að sækja um það. Þá um haustið bjó Hallgrímur ferð sína, og vissi almenningur ekki, hvert hann ætlaði eða hverra erinda; átti hann þá heima í koti einu í Hvalsnesshverfi. Sagt er, að bóndi einn þar syðra hafi þó vitað um ferð hans og erindi, og heitið honum að sjá um heimili hans, meðan hann væri í burtu. Hjelt nú Hallgrímur upp að Ytra-Hólmi á fund Árna, en enginn veit, hvað þeim fór á milli. Sagt er, að hinn fyrsta dag ferðarinnar gengi Hallgrímur inn í

Hraun, og beiddist gistingar, en væri úthýst; á hann þá að hafa kveðið vísu þessa:

Úti stend jeg ekki glaður,
illum þjáður raununum;
þraut er að vera þurfamaður
þrælanna í Hraununum.

Þegar hann lagði frá Hólmi, er mælt, að hann í frosti miklu væði Botnsá; var þá enn sem fyr mjög illa búinn að klæðum. Snjóþyngsli voru mikil, og sóttist því Hallgrími seint ferðin, en þó náði hann loks austur í Skálholt, og kom þangað laugardaginn næstan fyrir jólaföstu. Gerði hann nú boð fyrir biskup, en heimamenn, er hann hitti, drógu mjög dár að honum og búningi hans, og mæltu hvað húski sá mundi vilja biskupinum. Samt fór einn smásveina með þau boð til biskups, að fátækur bóndi af Suðurnesjum vildi tala við hann, en biskup svaraði: „Fari hann niður í smiðju og reki járn, því það kann hann.“ Það ljet Hallgrímur ekki segja sjer tvisvar. En er hann hafði rekið járnið af kappi um hríð, ljet biskup boða hann á fund sinn. Um viðtal þeirra vita menn ekki, en undarlegt þótti mönnum það um kvöldið, að biskup ljet þennan ókunna mann matast við borð sitt með öðrum fyrirmönnum staðarins. Nokkru seinna flaug sú fregn um allan staðinn, að vígja skyldi prestsefni næsta dag í dómkirkjunni, og væri kandidatinn enginn annar en þessi ókunni, fátæki maður, er allir hjeldu vera förumann. Þess er jafnvel getið, að sumir hafi óttast að biskupinn væri ekki með öllum mjalla ef hann framkvæmdi slíka athöfn. Vígsludagurinn rann upp, og

í kirkju fór hvert mannsbarn, er komist gat. En þegar hinn nývígði prestur fór að prjedika, sannaði söfnuðurinn það, að úr skorpnum belg koma oft skilin orð. Ræðan var hin besta, og skörulega flutt. Um kvöldið sló biskup upp dýrðlegri veislu, og þá sannfærðust allir um, að hinn nývígði prestur átti þann auð, sem biskup mat mest hjá prestum sínum, en það var mentun og andríki. Að skilnaði gaf biskup Hallgrími reiðhest góðan, vandaðan klæðnað og prestshempu og fleira, og ljet hann hafa skilríki fyrir Hvalsnessprestakalli. Á suðurleið kom Hallgrímur á bæ einn, og var spurður frjetta. Hann kvaðst ekki önnur tíðindi kunna en þau, að búið væri að vígja Hallgrím Pjetursson. Kerlingar tvær sátu í baðstofu, og varð annari að orði: „Allan skrattann vígja þeir.“ Hin mælti: „Aldrei stal hann, strákurinn hann Grímur.“ Hallgrímur henti mikið gaman að rausi kerlinganna, orkti brag út af öllu saman og hafði að viðurlagi það, er þær höfðu sagt.

Þegar Hallgrímur kom til brauðsins, var þar heldur köld aðkoma. Torfi sýslumaður leit svo á, að biskup hefði með þessu sýnt sjer hina mestu svívirðu, er hann sendi þangað slíkan prest, sem hann ætlaði að Hallgrímur væri. Reyndi hann að gera Hallgrími alt sem erfiðast, og hafa margar sögur orðið til um það athæfi. Hallgrímur flutti vorið eftir að Hvalsnesi, og þótti hann í fyrstu hirðulítill um búskap og ýmsa muni, er kirkjan átti. Sú er ein sagan um það efni, að um veturinn gerði ófært veður, svo að nokkur messuföll urðu. En þá er fólk var komið og embætta skyldi, fanst hvergi einn af

gröllurum þeim, er kirkjan átti. Var víða leitað, og sögðu svo óvildarmenn prests, að hann fyndist um síðir í kálfsfötunni úti í fjósi. Þá er og sagt, að sýslumaður hafi frjett, að kaleikur kirkjunnar væri ekki í sem bestri hirðu, og þyrfti aðgerðar við, en það fórst fyrir; ljet prestur leggja oblátu yfir gatið, er var á botni hans, og ljet svo vera um stund. Segja sumir, að sýslumaður keypti af einum sóknarmanni Hallgríms að spilla oblátunni, á meðan prestur útdeildi brauðinu þá er næst yrði tekið til altaris; mundi þá vínið steypast niður úr kaleiknum, og prestur verða fyrir ábyrgð af hendi biskups. Þetta lánaðist, að sögn, og varð til þess, að Hallgrímur fjekk áminningu hjá biskupi, og skipun um, að láta slíkt ekki koma fyrir aftur. En Torfi hafði kært þetta atvik fyrir biskupi og vænst þess, að Hallgrími yrði vikið frá; en hafði ekki annað upp úr öllum sínum ofsóknum gegn Hallgrími en það, að prestur fjekk væga áminningu. Þótti mörgum sem Torfa hirfi hamingja eftir þetta, og því meir, sem á leið æfi hans. Árið 1651 fjekk Torfi alla Árnessýslu og gekk þá ofsi hans svo úr hófi, að hann á alþingi rjeðst á merkisbónda þann, er Helgi hjet Sveinsson og varð af því stórmál, og dæmdi Árni lögmaður Torfa frá embætti. Stóð Torfi í miklu stímabraki langa hríð, alt til 1660, er Þormóður sagnaritari sonur hans útvegaði honum uppreist og embætti hjá konungi. Torfi sýslumaður andaðist 25. ágúst 1665, og er sjera Hallgrímur frjetti lát hans, er mælt að hann kvæði sálm þann, er svona byrjar: „Mannsins stuttur er — jeg inni .. | andardráttr í nösunum.“ Má af þeim erfi-

ljóðum ráða nokkuð um álit Hallgríms á Torfa sýslumanni.

Nokkuð þótti Hallgrímur bóndalegur í háttum sínum og kveðskapur hans ekki sem prestlegastur þau árin, er hann var á Hvalsnesi. Haust eitt er sagt, að hann tæki sem oftar fólk til altaris. Þegar hann var nýbyrjaður að skrifta, komu kerlingar tvær inn í kirkjuna og settust utarlega og tóku að skrafa saman, og gerðurst all-háværar; ljet prestur kyrt og hlustaði á, hvað þær ræddust við. Heyrði hann þá, að þær voru að bera sig saman um, hvor þeirra ætti meiri matmann, því þær voru báðar giftar. Önnur taldi upp, hve mikið bóndi sinn æti í mál, og var það ekkert smáræði. En hin kvað það samt lítilræði á móti því, sem hennar bóndi (hann hjet Sumarliði) ljeti ofan í sig. Taldi hún því næst upp allar þær matartegundir og hve mikið af hverri hann æti í mál. Hallgrímur festir sjer þetta í minni og orkti um vísu, er byrjar svo:

Jeg gef honum fisk með flautum, o. s. frv.

Svo bar við, að Brynjólfur biskup vísiteraði Suðurnes, og kom að Kálfatjörn. Báðu bændur hann að veita til þess leyfi, að þeir mættu róa á helgum dögum og gefa fátækum hlut, og leyfði biskup það, og er mælt, að hann lýsti blessun sinni yfir aflanum og fiskhjöllum þeirra Strandarmanna. Kot eitt var þar í Kálfatjarnarhverfinu, og kölluðu sumir Víti. Þar bjó þá gamall maður. Mælt er að biskup heimsækti karl þenna, og höfðu sumir á orði, að biskup hefði veitt honum syndalausn sjerstaklega, því að

hann hafði sótt sjó alla drottinsdaga. En er Hallgrímur frjetti þetta, kvað hann:

Biskupinn blessar hjalla, o. s. frv.

Sýnir þessi vísa, að Hallgrímur gerði sjer ekki mannamun, er um var að ræða skopvísur, og fór ekki að því, þótt biskup ætti hjer hlut að máli.

Árið 1650 deyði Ólafur Böðvarsson prestur í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd, og sótti þá Hallgrímur um Saurbæ. Var honum veitt kallið, og veitingabrjefið útgefið 8. apríl 1651. Skilaði hann þá af sjer Hvalsnesskirkju, og var alt í besta lagi hjá honum að því, sem talið er í vísitatíubókum biskups, 16. ágúst 1652. Eftir að Hallgrímur flutti að Saurbæ, vegnaði honum prýðis-vel. Sóknarmenn hans elskuðu og virtu hann og út í frá naut hann mikillar virðingar meðal stjettarbræðra sinna, sem sjá má af því, að hann var skipaður af synodal-rjettinum í hinn svo kallaða Vælugerðisdóm, er veitti prestum í andlegum málum undanþágu undan dómsvaldi veraldlegra embættismanna. — Annars má geta þess, að Hallgrímur átti sæti í flestum dómum, er synodal-rjetturinn dæmdi frá 1644 til 1668, eða alla sína embættistíð, og sýnir það, að hann hefir notið eigi lítils trausts.

Árið 1654, 4. október, misti Hallgrímur ástvin sinn og velgerðamann, Árna Gíslason á Ytra-Hólmi, og reisti hann honum hinn fegursta minnisvarða með hinum ágætu erfiljóðum, er hann orkti eftir hann, og fyr er getið.

Árið 1662 varð Hallgrímur fyrir þeim skaða, að allur staðurinn í Saurbæ brann til kaldra kola, og

varð engu bjargað. Menn komust allir lífs af, utan karl einn gestkomandi. Sjera Vigfús, sem ritað hefir æfisögu Hallgríms, getur þessa atburðar á þá leið, að 14. ágúst að kvöldi kæmi karl einn að Saurbæ, Ólafur Pálsson, og beiddi húsfreyju gistingar. Prestur var á engjum með öðru heimilisfólki, og var karli veitt gisting og beini. Hann bað húsfreyju um skæði, en hún kvað ekkert skæðaskinn vera til á heimilinu. Var karl þá uppi með illyrði og óskaði, að það brynni, en hún kvað það tilvinnandi, ef hann brynni með. Nóttina eftir brann allur staðurinn og karlinn með. Sóknarmenn prests skutu saman svo miklu fje, að staðurinn varð sæmilega húsaður um haustið, og sýnir þetta, hve Hallgrímur hefir verið ástsæll af sóknarbörnum sínum. — Þess verður víða vart, að Hallgrími var gjarnt til þess hin fyrstu prestskaparár sín í Saurbæ að kasta fram gamanvísum við þau tækifæri, er honum þótti einkennileg eða kátleg. Það var eitt sinn sem oftar, að hann embættaði í Saurbæ. Bar þá svo við, er hann sneri sjer fram til að tóna guðspjallið, aðrir segja blessunarorðin, að hann horfði um stund þegjandi fram í dyrnar, því þær stóðu opnar. Þegar djáknanum þótti þögnin fara að verða of löng, gerði hann presti vísbendingu, og var þá sem prestur vaknaði af draumi og hóf að tóna guðspjallið. Eftir messu bað hann söfnuðinn að staldra við í kirkjunni, því víst bæri sjer að biðja fyrirgefningar. Kvaðst hann hafa sjeð Gísla bónda á Eyri í Svínadal vera að bjástra við að binda við sáluhliðið hryssu þá, er hann reið til kirkjunnar, og hefði sjer orðið svo starsýnt á þá sjón,

að sjer hefði í bili gleymst, hvernig ástatt var, en komið í hug vísa, og er þetta upphafið:

Gísli á Eyri
gerir sem fleiri
og gengur út; o. s. frv.

Það bar til eitt haust, að fólk var margt til altaris í Saurbæ. Karl einn var þar í sókninni, er Árni hjet, matmaður mikill. Þegar fólkið var komið í kirkjuna og prestur ætlaði að fara að skrifta, saknaði hann Árna, en vissi að hann ætlaði að vera til altaris. Grunaði prest, hvernig ástatt mundi vera, og biður söfnuðinn að bíða sín um stund. Hraðaði hann sjer út úr kirkjunni og inn í búr, því þar grunaði hann að karls mundi helst vera að leita, enda stóð Árni þar við fult sláturstrog, og hafði unnið rösklega að, þá stund, er hann hafði verið við trogið. Presti varð skapfátt og mælti: „Árni tómi í efsta dómi aldrei sóma fær.“ Kona prests kom að í þessu, og þótti bóndi sinn ófagurt kveða, og mælti, að hann skyldi gera bragarbót. Bætti þá prestur við: „Utan hinn frómi englaljómi annað rómi, þá er hann nokkru nær.“ Síðan rak hann Árna á undan sjer til kirkju og tók hann til altaris ásamt öðrum.

Hallgrímur var talinn af mörgum sínum samtíðarmönnum kraftaskáld. Er sú ein sagan, að haust eitt kvörtuðu smalamenn í Saurbæ um það, að bítur væri venju fremur mikill, og komu þeir dag einn með dýrbitna kind, sem prestur átti. Kona prests kvað það lítt á sjá, að hann væri talinn kraftaskáld, þar sem hann gæti ekki orðið einni refkind að grandi með kveðskap sínum. Prestur ljet sem hann heyrði

ekki ámæli hennar, en kvöld eitt nokkru seinna var hún stödd í búri og hrærði flautir; kom þá rebbi þjótandi og settist upprjettur andspænis henni, og geispaði ógurlega framan í hana, en datt svo dauður niður. Við þetta brá henni svo að hún hnje í ómegin, og fann vinnukona hennar hana, þá er hún var að rakna við. Er sagt, að hún hafi aldrei síðan haft í svigurmælum um skáldskap bónda síns, enda ljetti bítnum af, og varð hans ekki vart. Árið eftir að Hallgrímur kom að Saurbæ, byrjaði hann á verki því, er hann vandaði mest til og hefir orðið frægastur fyrir, en það eru Passíusálmar hans, 50 að tölu. Ekki ber mönnum saman um það, hve lengi hann hefir verið að yrkja þá. Sjera Vigfús telur, að hann kvæði þá á fimm árum eða fleiri, en getur þess og, að hann kvæði eitt vers á dag. Grímur Thomsen ætlar, að hann kvæði eitt vers á dag og telur árin tíu, er gengu til þess að kveða alla sálmana. Segir hann, að Hallgrímur gengi hvern morgun dálítinn spöl frá bænum og kvæði þá eitt vers, syrfi það og seinfægði allan daginn, og skrifaði hjá sjer að kvöldi. Um vandvirkni Hallgríms getur Grímur þess, að hann hafi tvisvar kveðið 13. sálminn, því þegar hann var búinn að kveða hann í fyrsta sinni, hafi hann fundið eina línu, er honum ekki líkaði, kastaði hann þá sálminum öllum og kvað hann á ný eins og hann er nú í Passíusálmunum. Um hitt ber öllum saman, að lokið hafi Hallgrímur við sálmana árið 1659.

Ýmsar sagnir hafa gengið um það, hvers vegna Hallgrímur hafi vandað svo miklu framar Passíu-

sálma sína en annan kveðskap, og skal hjer getið sumra. Sú er þá fyrsta sagan, að hann hafi heitið því að verja skáldgáfu sinni guði til dýrðar, ef hann losnaði úr þrengingum þeim og nauðum, er hann átti við að búa um eitt skeið æfinnar. — Önnur er sú, að þegar hann var kominn að Saurbæ og naut friðar, og var laus orðinn við alla þá stórbokka, er hann átti við að stríða á Suðurnesjum þá hafi hann heitið guði því að helga honum skáldgáfu sína, það sem eftir væri æfinnar. — Þá er ein sagan á þá leið, að Hallgrímur hafi tekið að hugleiða, hve illa hann hefði varið skáldgáfu sinni undanfarna æfi; hafi þetta og annað mótlæti, er hann átti þá við að stríða heimafyrir, lagst svo þungt á hann, að hann hafi örvinglast og gengið að heiman með þeim ásetningi að stytta sjer aldur. Hafi hann þá lagst fyrir og sofnað og dreymt, að Kristur kæmi til hans í svefninum og byði honum að hætta við þetta áform, því að það væri syndsamlegt og ósamboðið prúðum manni, og skyldi hann fela sig guðs handleiðslu. Vaknaði hann við glaður og hughraustur og byrjaði á Passíusálmum sínum.

Hvað sem nú þessum frásögnum líður, þá er hverjum manni það ljóst, sem kynnir sjer æfisögu Hallgríms, að eftir að hann er kominn að Saurbæ, verður mikil breyting á sálarlífi hans. Kveðskapur hans fer úr því að verða andlegur og alvarlegur, og því fegri og betri sem á líður æfi hans. Þegar hann hafði lokið við Passíusálma sína, skrifaði hann af þeim þrjú eða fjögur eintök, og sendi eitt Helgu

Árnadóttur, konu Þórðar í Hítardal, annað Ragnheiði Árnadóttur í Kallaðarnesi og þriðja eintakið Ragnheiði Brynjólfsdóttur í Skálholti. Sagt er og, að hann sendi Kristínu konu Sigurðar sýslum. í Einarsnesi eitt eintak.

Að líkindum hefir Hallgrímur ekki gert sjer miklar vonir um ritlaun fyrir handrit þessi, og líklega hefir hann ekki auðgast mjög á sálmum sínum. En þeir, er hann sendi þá, eða aðstandendur þeirra, munu hafa sjeð, hvílíkt snildarverk hjer var á ferðinni, og komu þeim á prent; kom fyrsta útgáfa þeirra út á Hólum 1666. — Mælt er, að Hólaprentararnir hafi sagt, þá er þeir lásu handritið, sem prenta átti eftir, að nú ætti að fara að prenta flestan leirburðinn hjer á landi. En svo virðist sem fáir hafi litið á þetta verk Hallgríms sömu augum sem þeir gerðu, og víst er um það, að gjarnan vildi British Museum eignast eiginhandarrit Hallgríms af þeim, og bauð Jóni Sigurðssyni ærið fje fyrir. En til allrar hamingju lenti handritið, eins og höf. hafði frá því gengið, í landsbókasafni Íslands. Þýskur háskólakennari sagði, þegar hann hafði lesið einn af sálmum Hallgríms, að hann ætti skilið að heita „Milton Íslenzkra“, þótt hann hefði ekki annað orkt, en þessa sálma. Svipað þessu hefir álit flestra verið, og þjóðin hefir kveðið upp sinn dóm með því, að sálmarnir hafa verið prentaðir 44 sinni.

Það var ekki ætlun mín, að minnast hjer að þessu sinni, hverja þýðingu bæði Passíusálmarnir og önnur ritverk Hallgríms hafa haft bæði á trú-

arlíf þjóðarinnar og tungu, fyrr og síðar. Það sem vakti fyrir mjer var það að tína til flestar sagnir, sem geymst hafa í minni manna og í letur hafa verið færðar um þennan ágætismann. Þar sem sögnum ber ekki saman um sama efni, hefi jeg tekið báðar, og getur þá hver trúað því, sem honum þykir trúlegast, og læt jeg því ekki þess getið, hvað mjer sjálfum þykir sennilegast.

Árið 1666 kom út fyrsta prentun Passíusálmanna, eins og þegar er getið, og alls hafa þeir verið prentaðir 44 sinnum og oft í stórum upplögum; mun það einsdæmi, að jafn mörg eintök hafi selst af nokkurri bók annari hjer á landi, og þótt reyndar viti jeg það ekki, þætti mjer líklegast, að fáar bækur erlendar hafi selst jafnvel að tiltölu.

Hjá yfirmönnum sínum og stjettarbræðrum naut Hallgrímur virðingar og trausts, öll sín prestskaparár í Saurbæ. Árið 1666 fór hann til alþingis, og er þess getið, að hann á þá sæti í synodal-rjettinum. Þar sá hann Passíusálma sína prentaða í fyrsta sinn og var honum það mikið gleðiefni.

Nálægt 1664 fór Hallgrímur að kenna veiki þeirrar, er hann dró til dauða. Þrengdi þessi hræðilegi sjúkdómur (holdsveikin) svo mjög að honum, að hann varð 1667 að taka sjer aðstoðarprest, Torfa Jónsson frá Reykjaholti, en hann naut aðstoðar hans skamma stund, því Torfi andaðist árið eftir, 1668, og fjekk hann þá Hannes Bjarnason, sem áður hafði verið prestur í Ferjubakkaþingum (Borgarþingum). Árið 1669 slepti Hallgrímur brauðinu við Hannes og flutti sig að Kalastöðum til Eyjólfs

sonar síns, og þaðan fór hann eftir 2 ár að Ferstiklu og var þar það sem eftir var æfinnar.

Öllum, er skrifað hafa um æfi Hallgríms, ber saman um það, að hann hafi borið sjúkdóm sinn með þolinmæði og sálarþreki. — Vegna þess að svo mikið hefir verið talað um fátækt Hallgríms, verð jeg að víkja lítið eitt betur að því efni.

Árið 1669, 5. maí, fer fram úttekt á staðnum í Saurbæ, og sýnir hún alt annað, en að þar hafi þá verið lítið bú. Í úttektarbókum staðarins er talið fjós fyrir 16 nautgripi og annað fjós minna. Kirkjan er talin nýreist og vandað hús, og skuldaði hún Hallgrími tvö hundruð og tuttugu álnir á landsvísu, sem honum er útlagt í fríðum peningum. Enn fremur fær hann sjer til framfæris, meðan hann lifir, þrjár af jörðum þeim, er undir staðinn lágu. Eyjólfur sonur hans, er hann var hjá síðustu ár æfi sinnar, er talinn efnaður maður. — Síðar mun jeg geta um síðustu alþingisför Hallgríms, þá sem einkum hefir átt að sýna fátækt hans; mun jeg þá og sýna, að hann fór ekki þá ferð til þess að beiðast ölmusu. Hann átti þangað alt annað erindi, enda skilst mjer, að hann hafi jafnan verið veitandi en ekki þyggjandi eftir það, er hann kom að Saurbæ alt til dauðadags, því þó sóknarmenn efndu til samskota, þegar staðurinn brann, þá sýnir það einungis góðan vilja þeirra og vinsældir þess, er fyrir gjöfunum varð; eru og samskonar dæmi all-tíð fyr og síðar.

Árið 1669 hugði Brynjólfur biskup að segja af sjer; höfðu þá ýmsir harmar og þrautir gengið

svo nærri biskupi, að hann óskaði hvíldar. En bæði andlegrar og veraldlegrar stjettar menn máttu ekki hugsa til að missa hann og tóku það ráð að senda honum bænarskrá um að vera við embætti sitt, og undirskrifuðu hana flestir betri menn Skálholtsstiftis, þar á meðal Hallgrímur Pjetursson. — Um vorið 1669 greip Hallgrím sú löngun að komast til þings, og vita, hvernig þessu máli reiddi af; mun hann og gjarnan hafa viljað sjá yfirmann sinn og velgerðamann enn einu sinni og votta honum þakklæti sitt, því hann bjóst við, að eigi mundu þeir nú oft sjást upp frá þessu. Og af því að þessi síðasta alþingisferð Hallgríms er svo sem fagur aftanroði á æfikvöldi þessa andlega mikilmennis íslensku kirkjunnar, vil jeg segja frá henni svo nákvæmlega sem jeg get.

Hallgrímur var nú orðinn hrumur mjög, því veikin hafði gengið nærri honum næstliðinn vetur, og varð hann að ganga við hækjur, að því er mælt er, og láta hjálpa sjer á hest. — Sagt er, að hann hefði svein 14 ára sjer til fylgdar. Þess er og getið, að hann riði þá við hornístöð og þætti þau mýkri við fótinn. Á leiðinni er sagt, að þeir hittu oflátung einn, er dró spott að fátækt klerksins, og svaraði Hallgrímur því með vísu þessari:

Líttu á hvað lukkan hröð
laglega fer að stíma;
hugaðu maður að hornístöð
hafir þú einhvern tíma.

Sagt er, að hamingjan yrði þessum manni hverful,

svo að hann seinna meir riði við hornístöð. Hallgrímur hafði stutta áfanga og kom á Þingvöll á sunnudag, þá er messa var ný byrjuð. Biskup var sjálfur í stólnum, og gladdi það Hallgrím hjartanlega að heyra til hans og fá nú að vita, að biskup ætlaði að gegna embættinu framvegis. Hann dvaldi örfáa daga á þingi, og mátti kalla, að allur þingheimur keptist um að votta honum virðingu sína og þakklæti. Höfðingjar buðu honum margir til búða sinna og þá hann af sumum þeirra drjúgar peningagjafir, að því er ætla má.

Sálmar hans voru nú komnir nálega á hvert heimili á landinu, og margir höfðu þegar lært þá utanbókar að meira eða minna leyti, og unga sem gamla fýsti að sjá höfund þeirra. En þótt sumir yrðu fyrir vonbrigðum um ytri ásýnd Hallgríms, þá blessuðu þeir alla æfi sína þá Þingvallaferð, er þeir sáu Hallgrím í fyrsta og síðasta sinn. Það er sagt, að Torfi próf. í Gaulverjabæ hafi gengist fyrir því, að skáldinu yrði ógleymanleg brottför sín af Þingvelli. Hallgrímur hafði afráðið að leggja af stað um kvöld; var þá gott veður. Torfi safnaði saman fjölda barna og unglinga og ljet þau skipa sjer í tvær raðir meðfram veginum upp í Almannagjá, og þegar Hallgrímur og sveinn hans nálguðust flokkinn, hófu börnin upp söng og sungu með hljómskærri röddu 9. versið úr 35. sálminum: Gefðu að móðurmálið mitt, o. s. frv. Skáldið reið þegjandi meðan sungið var og flutti drotni innilega þakklætisbæn, og þegar börnin höfðu lokið söng sínum og Torfi prófastur launað þeim höfðinglega, rufu þau safnaðinn og fóru

að skemta sjer. Þegar Hallgrímur kom upp úr gjánni, bað hann sveininn að hjálpa sjer af baki, því sig langaði til að sjá Þingvöll í síðasta sinni og blessa hann, því að nú væri hjarta sitt svo fult af þakklæti til drottins, því að drottinn hefði hvíslað því að sjer, að sálmarnir sínir mundu verða vögguljóð barna og andlátsbæn gamalmenna; kvaðst hann nú vilja renna augum hinsta sinni yfir Þingvöll og blessa hann. Stóð hann svo þegjandi nokkra stund og horfði út yfir hjeraðið, er var vafið gullhjúpi kvöldsólarinnar. Enginn veit, hvað fram fór þessi augnablik í huga skáldsins, að eins heyrði sveinninn, er skáldið endaði bæn sína, að hann bað guð að blessa Þingvöll og börn Íslands á yfirstandandi og komandi tímum. Þessi bæn Hallgríms var í fullu samræmi við alla framkomu hans, því að hann unni fósturjörð sinni af heilum hug, og henni helgaði hann krafta sína til síðustu stundar.

Þannig kvaddi þá Hallgrímur Þingvöll í síðasta sinn, og hjelt með sveini sínum heim á leið. Þrengdi nú veikin svo að honum, að hann var kararmaður síðustu árin, en fegurstu blómin í ljóðum, er Ísland hefir nokkru sinni eignast, að undanskildum Passíusálmunum, kvað hann á þeim árum, þar á meðal sálminn: Alt eins og blómstrið eina. — Hallgrímur andaðist 27. okt. 1674, sextíu ára að aldri, og var grafinn fyrir miðjum kirkjudyrum í Saurbæ. Guðríður kona hans var hjá Eyjólfi syni þeirra þar til er hann dó, þá fór hún að Saurbæ, og andaðist þar 84 ára gömul og var jörðuð við hliðina á manni sínum.

Sjera Vigfús í Hítardal lýsir Hallgrími þannig, að hann væri stór maður vexti og óliðlega vaxinn. Dökkur á brún og brá, og kemur lýsing sú heim við vísu þá, er Hallgrímur hefir kveðið um sjálfan sig; þar í eru þessi orð: „Með svartar brýr og sívalt nef.“ Hallgrímur hafði söngrödd fremur stirða, en kunni gott skyn á fögrum lögum og söng. Hversdagslega var hann kátur og gamansamur, og gat kastað fram vísu við hvert tækifæri, og þótti mörgum hann gera það hófi framar. Hneigður mun hann hafa verið til drykkju á yngri árum, en þó vel í hófi, og tjáði lítt, þó vinir hans vönduðu um, því rík var jafnan í honum „bændakurteisin“. Má um hann segja, að hver hefir sína bresti.

Við höfum þá sjeð af þeim frásögnum, sem jeg hefi til tínt, um æsku Hallgríms, og eins af þeim vísum, sem getið er um frá þeim árum hans, að hann hafði sína mannlegu bresti. En á hinn bóginn sýna sálmar hans og kvæði þau, er kveðin voru eftir það er hann fluttist að Saurbæ, hver breyting verður á sálarlífi hans. Ekkert íslenskt sálmaskáld hefir komist eins nærri hásælu og hjarta guðs, eins og Hallgrímur Pjetursson. Hann einn allra íslenskra skálda hefir hlotið þá náð og ódauðlegu sæmd að vera til þess kjörinn af guði sjálfum að yrkja hina fegurstu grafskrift um guðs son, Jesú Krist, sem dó á Golgata öllum oss til frelsis og sáluhjálpar. Aldrei hefir bjartara ljós verið kveikt á altari drottins, en þegar Brynjólfur biskup vígði Hallgrím til kennimannlegrar stöðu, fyrsta sunnudag í jólaföstu 1644,

og aldrei verður svo dimt á söguhimni íslensku kirkjunnar, að nafn Hallgríms og verk lýsi þar ekki sem leiftrandi og leiðbeinandi stjörnur börnum þessa lands, ungum og gömlum, á heimleiðinni til hinna himnesku föðurhúsa.

Loks skal jeg þá enda þessi orð mín með því að geta hjer ummæla tveggja mikilsháttar manna, sem á sínum tíma hafa minst á Hallgrím Pjetursson. Annar þeirra er skáldið Grímur Thomsen; honum farast þannig orð: „Vel megum vjer Íslendingar því að endingu finna til vor af því, að vjer, innan um svo margt smávaxið, eigum annað eins höfuðskáld eins og Hallgrím Pjetursson, sem ómótmælt stendur fyllilega jafnfætis hinum bestu protestantisku sálmaskáldum hinna stóru og fjölmennu þjóða, og sem í andagift, næmum tilfinningum og hugmyndaflugi, þegar honum tekst upp, gengur næst yppurstu sálmaskáldum kaþóslkunnar, Franz Xavier og Jacopone da Todi, höfundi latneska sálmsins: Stabat mater dolorosa (sorgarraunir Maríu). Er það stór huggun fyrir oss í fátæktinni, að eiga slíka menn, þótt fáir sjeu. Sýnir það, að eitthvað er þó enn eftir hjá oss af andlegum frækleik og að vjer erum ekki með öllu uppþornuð kvísl á stofni Norðurlanda." Hinn maðurinn, sem minnist Hallgríms, er skáldið Steingrímur Thorsteinnsson. Jeg tek að eins tvö erindi úr ljóðum þeim, er hann orkti, þegar minnisvarði Hallgríms var afhjúpaður:

Þú ljóðsvanur trúar lýðum kær,
frá liðinnar aldar flóði
þinn himneskur ómur eyrum nær,

þú útheltir söng með blóði.
Með dauðann í hjarta þá dimm var tíð
þú dýrð guðs tjáðir í óði.

Þú trúskáldið frægst, sem fólk vort á,
þjer fremst vill það þakkir vanda,
því aldrei fyrnist þín andagift há
með ódauðleiks vængi þanda,
sem helgaði' móðurmálið þitt
í mætti, fegurð og anda.

---

# Brynjólfur Sveinsson, biskup.

**Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 16. janúar 1916.**

Jafnan ber til hverrar sögu nokkuð, og svo er um það, er jeg tala hjer í kvöld um mann, sem áður hafa verið haldnir um tveir fyrirlestrar hjer í fjelaginu. Þessi maður er Brynjólfur Sveinsson, biskup í Skálholti.

Ef jeg man rjett, þá flutti prófessor Jón Helgason fyrirlestur um hann í þessu húsi 1908 og Brynleifur Tobbíasson kennari annan síðastliðinn vetur. Jeg ætla mjer ekki þá dul að bæta um það, er þessir menn hafa sagt, en vildi heldur reyna að tína til þau atriðin úr æfisögu Brynjólfs biskups, er þeir ljetu ógetið. Og það vill nú svo til, að í sumar fanst æfisaga hans, rituð af þeim manni, sem allra manna var kunnugastur æskuheimili hans, var alinn þar upp og „þoldi með honum súrt og sætt“ síðar meir, eins og biskup sagði. Sjálfur hefir biskup ritað ýmisleg æfiatriði sín. Þá eru og til brjefabækur biskups í mörgum bindum, en þær lýsa einna best því, sem jeg ætla aðallega að minnast á að þessu sinni, en það er viðmót hans við hina ungu námsmenn, er í hans biskupstíð lærðu í Skálholti, svo og

æskulíf hans sjálfs og uppvöxtur í foreldrahúsum, og námsár hans hjer á landi, og ýmislegt fleira.

Samband hans við menta- og fræðimenn erlendis þarf jeg ekki að minnast mikið á, því það rakti prófessor Jón alt mjög ítarlega. Á hinn bóginn vildi jeg reyna að sýna, hvernig hann reyndist skólapiltum og öðrum ungum mönnum hjer á landi, eftir að hann var orðinn biskup, og mun jeg því geta þess helst, sem best er og fegurst í æfisögu þessa mikilhæfa manns, því að það á fyrst og fremst erindi til okkar hjer í þessu fjelagi. Og það er víst, að margt í fari Brynjólfs biskups er svo fagurt og eftirbreytnisvert, að ef það skyldi alt talið, væri enn nóg efni í aðra tvo fyrirlestra eða þrjá.

Það er merkilegt, hvernig sagan nú á síðustu tímum hefir leitt í ljós nýjar og nýjar hliðar á þessum manni. Jeg skal að eins nefna hið merkilega skjal, sem við kemur Kópavogseiðunum (1662), sem sannað hefir, að enginn barðist þar betur en hann fyrir frelsi og sjálfstæði landsins.

---

Faðir Brynjólfs biskups var sjera Sveinn Símonarson, prestur í Holti í Önundarfirði, talinn með fremstu prestum sunnan- og vestanlands. Faðir Sveins, Símon prestur í Kálfholti, Jónsson, var kominn af merkustu ættum, en móðurætt sína rakti Símon prestur Jónsson til Hrafnistumanna í Noregi, (Áns bogsveigis).— Kona Sveins, en móðir Brynjólfs, var Ragnheiður Pálsdóttir frá Staðarhóli, sem komin var í föðurkyn af Svalbarðsætt og var sú ætt rak-

in til Noregs. Móðir Ragnheiðar var Helga Aradóttir lögmanns, Jónssonar biskups Arasonar, en sú ætt var rakin til Guðmundar dýra og Höfða-Þórðar og frá honum alla leið til Sigurðar Fáfnisbana og Völsunga. Það yrði of langt mál að telja upp alla merkismenn þeirrar ættar, enda óþarft hjer, og eigi víst nema vanta kynni lið í, er langt kemur fram.

Ragnheiði hafði áður átt Gissur, sonur Þorláks Einarssonar, og bjuggu þau á Núpi í Dýrafirði í 12 ár. Þeirra synir voru þeir Jón, faðir Torfa prófasts í Gaulverjabæ og Magnús, er síðar bjó í Lokinhömrum. Mann sinn, Gissur, misti Ragnheiður 1597; varð hann fyrir snjóflóði og druknaði ásamt tveim öðrum á heimleið frá Rafnseyri. Árið 1600 giftist hún Sveini presti; var hann talinn bráðgáfaður, lauk skólalærdómi á stuttum tíma og vígðist átján vetra af Gísla biskup Jónssyni 1577; var 4 ár kirkjuprestur í Skálholti, en fjekk þá Holtastað 1582, og var prestur í 67 ár, en prófastur í 45. Dó 10. desember 1644, þá 85 ára. Hann var flestum prestum fremri að allri hegðun, „svo drukkinn, sem ódrukkinn.“ — Ragnheiður, kona sjera Sveins, var mikill kvenskörungur, vitur og „sagði djarflega meiningu sína við hvern“, sem í hlut átti.

Eitt sinn bar svo til, er Oddur biskup Einarsson var í vísitatíuferð um Vestfjörðu, að hann kom að Holti með alla sveina sína, og var Sveinn prestur þá að heiman riðinn, í kaupstaðinn, en húsfreyja tók biskupi og sveinum hans höfðinglega og veitti stórmannlega. Sátu þau biskup og hún og ræddust við eitt og annað sjer til gamans. Og þá er biskup var

orðinn „nokkuð ölglaður“, sagði hann sig grunaði, að einhver af sonum Sveins myndi verða sinn eftirmaður og kvaðst nú vilja sjá þá alla. Hún tók þessu ólíklega, bæði vegna fjölskyldu sjera Sveins, og annars, er hún til fann. Voru þá stjúpsynir hennar leiddir fyrir biskup; leit hann á þá og blessaði, en hvorugan þeirra kvað hann verða mundu biskup. Síðan ljet hún bera son sinn og sjera Sveins, Gissur, þá tvævetran, fram fyrir biskup; leit biskup á hann og sagði, að ekki myndi hann heldur verða biskup. Hún mælti þá: „Svo er, sem jeg sagði, að yður ætlar nú að skjöplast herra.“ Hún var þá óljett. Biskup lagði hönd sína fyrir neðan brjóst hennar og sagði: „Ekki mun mjer skjöplast svo mikið, ef sá verður biskup eftir mig, sem þú ber nú undir þínu brjósti.“ Hún svaraði: „Satt mun það, herra, annaðhvort mun hann verða biskup eða meistari.“ Feldu þau svo niður talið.

Þá um haustið, á krossmessudag, föstudaginn 14. september, um miðaftan, fæddi Ragnheiður sveinbarn, sem skírt var Brynjólfur, eftir sjera Brynjólfi, sem prestur var í Holti á undan sjera Sveini. Björn Ólafsson og Margrjet kona hans bjuggu þá rausnarbúi að Hóli í Önundarfirði, mestu sæmdar hjón. Þau buðu sveininum fóstur, og var það þegið af foreldrum hans. Var hann hjá þeim í fóstri, þar til er hann var þriggja ára; fór hann aftur að Holti til foreldra sinna.

Þess er þá fyrst getið um æsku Brynjólfs biskups, hve mikla stund foreldrar hans lögðu á að kenna honum guðs orð og kristilega siðsemi, eða eins

og einn samtíðarmaður hans kemst að orði: „Þau hjeldu honum til guðsótta og kristilegs lífernis.“ Sjálfur segir hann svo frá, að hann hafi ekki munað hve gamall hann var, er hann kunni utanbókar sinn Katekismus og önnur heilög fræði. Sagði hann, að sjer hefði gengið illa að skilja margt, en fyrir sína ungdómlega og hjartanlega bæn, sem hann þá dags daglega bar fram með heilagri, barnslegri trú, hefði guð sjálfur gefið sjer heilagan anda, sem lokið hefði upp sínu barns hjarta fyrir rjettum skilningi á guðs heilaga opinberaða sannleiksorði.

Til þess að sýna ykkur, hvernig þau hjón, foreldrar Brynjólfs biskups, höguðu uppeldi sona sinna þegar í æsku, tek jeg hjer upp, og þó ekki orðrjett, frásögn þess manns, sem öllum fremur gat gefið sanna skýrslu um það, og er hún á þessa leið: Með því að sjerleg guðrækni og lotning fyrir guðs orði prýddi hið göfuga heimili foreldra hans (Br. bisk.) fremur öllum öðrum heimilum, sem jeg hefi þekt, þá skal þess getið, að honum (þ. e. Brynjólfi), ásamt Gissuri bróður hans, sem var tveim árum eldri (og seinna varð prestur að Álftamýri) var sett fyrir að lesa strax á hverjum morgni, er þeir vöknuðu, einn kapítula í catechismanum á latínu og 3 kapítula úr gamla testamentinu, og á kvöldin sama kafla í catechismanum á íslensku og 3 kafla úr nýa testamentinu, og það með svo miklu athygli, að þeir gæti haft fyrir borðsögu við miðdags- og kvöldborðið innihald úr því, sem þeir höfðu lesið, og gert jafnframt grein fyrir skilningi sínum á því. — Það er sagt frá því í annálum Jóns prófasts í Hítardal,

að það vekti eftirtekt um land alt, er það varð hljóðbært, að á prestsetri einu á Vesturlandi væri drengur 12 ára gamall, sem lesið hefði bibliuna sína fimm sinnum spjaldanna á milli og kynni góð skil á því, sem hann hefði lesið. Þetta voru fyrstu frjettirnar, sem þjóðin fjekk af þessum dreng, þarna fyrir vestan.

Þannig sáðu og gróðursettu hin fátæku prestshjón á Vesturlandi þau frækorn í sálu sonar síns, er síðar skyldu bera ávöxt. Og uppskerunni og ávöxtunum var síðar lýst við líkkistu Brynjólfs biskups í Skálholtsdómkirkju, og saga Íslands hefir lýst þessu og mun lýsa því bæði fyrir okkur og komandi kynslóðum hjer á landi.

Jeg skal játa það, að alt þangað til jeg las um æsku hans og uppvöxt, en kalla má, að það hafi hann sjálfur ritað, skildi jeg ekki til hlítar hið margbreytta og blessunarríka æfistarf hans. Ef einhver ykkar skyldi ætla, að uppeldi Brynjólfs biskups hafi verið strangt og ófrelsi mikið, og honum haldið að lestri með harðri hendi, þá eru hans eigin orð fyrir því, að svo var ekki. Fáir jafnaldrar hans á þeim tíma munu átt hafa meiri lífsgleði og heilbrigðari æskuþrótt en hann, það sýnir framkoma hans öll náms- og mentaár hans hjer á landi og erlendis. Líklega hafa fáir feður hjer á landi fylgt sonum sínum úr garði, betur undirbúnum til skólanáms og jafn andlega þroskuðum sem þeir bræður Brynjólfur og Gissur voru, þegar faðir þeira reið með þá austur í Skálholt haustið 1617; var þá Gissur 14 ára en Brynjólfur 12, og þó að

móðir þeirra kveddi þá sonu sína með tárum, þá voru það gleðitár góðrar og guðhræddrar móður, sem trúði á handleiðslu drottins, og treysti því, að hann mundi leiða þá, og lyfta þeim yfir torfærurnar; og vonir hennar rættust. Hún lifði það að sjá hina fegurstu ávexti þess, er hún hafði sáð í hjörtu hinna ungu sona sinna. Jeg get þess og hjer, að allir þeir unglingar, sem komust á heimili foreldra Brynjólfs biskups, og síðar gengu mentaveginn, urðu hinir mætustu prestar, og afkastamenn í þjónustu kirkjunnar, elskaðir og virtir af öllum, er við þá kyntust, svo sem var Torfi prófastur, er ólst upp í Holti, og lærði þar undir skóla, og enn mætti nefna fleiri. Torfi prófastur, sem ritað hefir allra manna best um heimilish(† þar, getur þess oftar en einu sinni, að grundvöllurinn undir lífshamingju sinni og annara þar, hafi verið trúin og bænræknin, sem húsbændurnir iðkuðu sjálf, og kendu öllum, sem hjá þeim dvöldu.

Það var hvorttveggja, að þeir voru aldavinir sjera Sveinn og Oddur biskup, enda voru viðtökurnar hinar alúðlegustu, sem þeir mættu, er austur í Skálholt kom, og voru nú synir hans báðir teknir inn í skólann. Skólameistari var þar þá Torfi Finnsson, einn hinn lærðasti og besti maður, enda minnist Brynjólfur hans jafnan með virðingu og aðdáun.

Það vakti þegar mikla eftirtekt meðal pilta, og þá ekki síður meðal kennara, hve frábærlega vel undirbúinn Brynjólfur kom í skóla; hefir hann þó líklega verið yngstur allra skólasveina það ár; þá þótti og andlegur þroski hans að því skapi, og langt

um aldur fram, enda höfðu kennarar hinar mestu mætur á honum, en piltar traust og virðingu, og hafði því Brynjólfur mikil og góð áhrif á þá alla sína skólatíð.

Sá var siður í skóla um þessar mundir, að í hvert sinn, sem biskup fór að heiman, skyldu piltar fylkja sjer úti á hlaði honum til virðingar, leiða hest hans að stjett og halda í ístaðið, meðan hann stigi á bak; þótti þetta hin mesta sæmd meðal pilta. — Biskup átti ferð fyrir hendi þennan vetur, og er hann var ferðbúinn, þustu piltar út að vanda. Brynjólfur varð fyrstur, tók hestinn og ætlaði að halda í ístaðið, meðan biskup stigi á bak, en biskup aftraði honum með hægð og sagði, að fyrir honum mundi liggja veglegra starf, en að hjálpa sjer á hest; vakti þetta mikla undrun meðal pilta.

Sumir hafa ætlað, að Brynjólfur biskup hafi verið drambsamur, og borist á í klæðaburði og öðru; en þetta er vafalaust hinn mesti misskilningur, því sjera Torfi, sem þessu mátti vera kunnugastur, segir, að hann væri þegar á unga aldri mjög sparsamur í mat og drykk, og hjeldi sjer jafnan við óbrotinn, einfaldan mat; væri og hraustur mjög til allrar karlmensku á skólaárum sínum. Hann var strangur í öllum lífernisháttum við sjálfan sig, og fastaði venjulega hvern föstudag, og stundum oftar. — Í klæðaburði var hann mjög hófsamur; vildi ganga hreinn og þokkalega til fara, en var laus við prjál. Og síðar, þá er hann var orðinn biskup, og sveinar hans „heimulega“ mintust á slíkt, var hann vanur að svara á þá leið, að úr því að guði hefði þóknast

að láta sig fæðast í því landi, þar sem sauðull fengist nóg, er vel mætti vinna og vefa í hreinlegan klæðnað, þá vildi hann klæðast því, er fá mætti innanlands, fremur en erlendu silki og bómull, því að „minsti hjegóminn er bestur.“

Að loknu hverju skólaári fór Brynjólfur heim til foreldra sinna, og vann þar hjá þeim „alla ærlega og hreinlega“ vinnu, „eftir þeirra forlagi“, bæði við slátt og útróðra. — Samt sem áður stundaði hann bóklegar og helgar iðkanir. — Vorið 1624 útskrifaðist hann úr Skálholtsskóla með loflegum vitnisburði og fór til foreldra sinna; tóku þau við honum með mikilli gleði, þakkandi guði þá náð, er hann hafði veitt honum öll hans skólaár.

Árið 1624 mun hann hafa leitað til Kaupmannahafnarháskóla, og í Danmörku dvaldi hann við nám og kenslu í samfleytt 13 ár, en mun þó hafa skroppið heim tvisvar og dvalið sumarlangt. En þessu öllu lýsti prófessor Jón Helgason svo vel, að jeg sleppi því hjer; þó set jeg hjer eina sögu, er mig minnir, að hann slepti. Hún er á þessa leið: „Á því sama ári (1631) kom til Kaupenhafnar einn grískur, gamall kennimaður, .... Romanus Nicephorus“; kyntist Brynjólfur þessum gríska kennimanni, og mælti við hann á grísku, og svo vel, að Nicephorus hafði orð á því við Paul Resenius Sjálandsbiskup, er eigi mun hafa trúað þessu meira en svo, og bauð þeim því báðum til miðdegisverðar, hinum gríska kennimanni og Brynjólfi Sveinssyni, og öðrum helstu kennimönnum, er til varð náð. Skyldi þá reyna kunnáttu Brynjólfs í grísku. Brynjólfur vakti næstu nótt,

því hann vissi, að undir úrslitunum var ekki einungis komin frægð hans sjálfs, heldur og frægð fósturjarðarinnar og íslenskra námsmanna. Næsta dag, þegar Brynjólfur hafði sýnt lærdóm sinn og kunnáttu í grískunni, stóð hinn gríski kennimaður upp og „þakkaði guði hugarlátlega, sem svoddan eruditionem (lærdóm) og mentir hefði gefið Norðurálfunni, að jafnvel úr hennar nyrsta eylandi fyndist svoddan lærð persóna, sem svo vel talaði grískt tungumál, sem hann væri fæddur grískur og þar hjá þeim innlendur; óskaði honum svo lukku og blessunar í Jesú nafni.“

Svo virðist sem Brynjólfur hafi þegar á unga aldri verið kjörinn af guði til þess að verða öllum ungum mönnum til fyrirmyndar, er á vegi hans urðu. Jeg hefi ekki tíma til að telja upp nöfn þeirra Íslendinga, sem góðs nutu af honum á Hafnarárum hans, en vil þó að eins minna á Hallgrím Pjetursson, er hann leysti úr þeirri ánauð, sem hann var í kominn hjá danska járnsmiðnum, er sagan segir, að herfilega hafi við Hallgrím búið; og eigi skildist Brynjólfur við mál Hallgríms, fyr en hann hafði komið honum í háskólann. Við þekkjum öll svo vel æfi sjer Hallgríms og það verk, sem hann síðar vann fyrir kirkju og kristindóm þessa lands, að óþarft er að lýsa því hjer. En hitt er ekki ólíklegt, að alt öðruvísi hefði skipast hagur Hallgríms, og æfi hans orðið öll önnur, ef eigi hefði Brynjólfs biskups notið við. En þótt jeg nafngreini hjer ekki fleiri menn, þá var breytni Brynjólfs biskups sviplík þessu við aðra, yngri og eldri, er á vegi hans urðu.

Um útbreiðslu á þekkingu fornbókmenta vorra, má og kalla, að Brynjólfur tæki þar við, er Arngrímur lærði hætti.

Þau þrettán ár, er Brynjólfur biskup dvaldi erlendis, kyntist hann ekki að eins fræði- og mentamönnum Dana, heldur og mörgum öðrum vísindamönnum víðsvegar um Norðurálfuna, og þá einkum um Norðurlönd. Því verður þá og skiljanlegt svar það, sem hann fjekk hjá konungi og kirkjumálastjórn Dana sumarið 1638, þegar hann baðst undan þeim vanda að verða biskup, samkvæmt einróma kosningu allra presta Skálholtsstiftis. En bæði konungur og kirkjumálastjórn töldu hann allra Íslendinga hæfastan til að stjórna kirkju og skóla, svo að verða mætti guðsríki til dýrðar og landsbúum til blessunar, og töldu hann því sem trúan og hlýðinn þegn skyldan að taka við embættinu.

Það kann að þykja undarlegt, að Brynjólfur skyldi biðjast undan biskupstigninni, og líklega er það rjett tilgáta, að hann sje hinn fyrsti biskup íslenskur, er það hefir gert. Ekki gat hann borið við elli eða heilsuleysi. Hann var þá tæplega 33 ára, og Skálholtsstóll hafði aldrei verið talinn nauðungarsæti, síst mönnum á hans aldri. En hann mun hafa átt víst kennaraembætti í grísku við dómskólann í Hróarskeldu. Og enn hefir það, ef til vill, ráðið nokkru, er hann baðst undan biskupstign, að sagt er, að mikilsháttar maður hafi boðist til að taka hann að sjer og kosta för hans til Grikklands og Ítalíu. Má því heita vorkunn, þótt hann væri á báðum áttum. En hann bað drottinn að ráða fram úr þessu

vandamáli fyrir sig, og þegar hann þóttist sannfærður um, að það væri guðs vilji, að hann helgaði kirkjunni á Íslandi starfskrafta sína, þá vann hann með gleði biskupseið sinn, fyrst fyrir konungi, sem þá dvaldi í Glücksborg, 15. apríl 1639, og hjelt svo þaðan til Kaupmannahafnar til að taka þar vígslu sína, er fram fór í Frúarkirkju 15. maí sama ár með mjög mikilli viðhöfn; var viðstaddur fjöldi presta og flestir tignarmenn borgarinnar. Aðalvígsluna framkvæmdi Dr. Brochmann, þá nýorðinn Sjálandsbiskup, og var Brynjólfur hinn fyrsti biskup, er hann vígði. Lauk biskup í vígsluræðunni miklu lofsorði á mannkosti Brynjólfs og hæfileika, og taldi hann ef ekki hinn lærðasta, þá með hinum lærðustu mönnum í öllu Danaveldi, og bað guð að blessa hann og styrkja í hinu vandasama embætti hans, svo að kristin kirkja og söfnuður guðs mætti sem mesta blessun hljóta af starfsemi hans.

Viku eftir að Brynjólfur vígðist, tók hann sjer fari til Íslands og varð vel reiðfara. Tók hann höfn á Eyrarbakka á Jónsmessukvöld, í blíðasta veðri, og dvaldi „einn dag eða tvo á Háeyri hjá göfugri Rannveigu Jónsdóttur.“ — Mælt er, að hann hafi hæversklega afþakkað alla þá viðhöfn, er kaupmaður Eyrbekkinga og aðrir vildu veita honum. — Hann kvaðst taka við embætti af því, að hann vissi, að það væri vilji guðs. En hann vissi vel, að embætti því fylgdi mikil ábyrgð, og því vildi hann styrkja sig í einrúmi í bæn til drottins án alls yfirlætis og ytri viðhafnar. Fjölmenna biskupsfylgd kvað hann óþarfa; er þó sagt, að hann þægi einn

mann til fylgdar hjá kaupmanni, en sögunni fylgir sú viðbót, að hann hafi látið fylgdarmann sinn snúa aftur, og sagt, að leiðin væri sjer kunn frá skólaárum sínum, og fylgd því óþörf lengra, og kom hann í Skálholt 27. júní um sólaruppkomu. Biskup gekk samstundis til kirkju og kraup niður fyrir háaltarinu og las upphátt „Faðir vor", með heitum tárum og andvörpum. Hann valdi norðurstúkuna, sem áður var kölluð Maríu-kapella, til að vera sitt „Oratorium" (bænarsalur), og frá þessum degi, uns hann lagðist banaleguna, dvaldi hann hvern morgun og kvöld langan tíma á bæn, þegar hann var heima á staðnum og heilsa hans leyfði. Og mörgum árum síðar var það, að tryggasti vinur hans sagði á þessum sama stað, við líkkistu biskups, að ef Norðurstúkan, sem verið hafði hans „Oratorium" frá því hann kom til staðarins og fram til síðustu stundar, mætti mæla, þá mundi hún geta sagt frá hans heitu og hjartanlegu „bænagerð, sem hann daglega úthelti fyrir sínum guði og endurlausnara, hverjar guði einum eru kunnar, og af honum alheyrðar, svo sem Aaronis glóðarker í millum þeirra dauðu og lifenda tendrað"; því að bænin veitti honum starfsþrek og huggun.

Jeg skal þá snúa mjer að því, sem jeg sjerstaklega vildi halda mjer við, en það er um skólann og áhrif biskups á nemendur hans.

Á dögum Odds biskups ríkti mikil óánægja í stiftinu meðal almennings, ekki út af því, hve kenslukraftar skólans voru ljelegir, því bæði var Oddur biskup lærður maður og sá líka skólanum fyrir

góðum skólameisturum, en þess gátu að eins ríkismannasynir notið, því að skólaveran var dýr, bæði á dögum Odds biskups, og eins þau sjö ár, sem Gísli sonur hans var biskup, og um ölmususkóla var ekki að ræða. Sú var trú almennings, að enginn piltur kæmist í skóla, nema foreldrar hans eða vandamenn ættu jarðarpart til að gefa með piltinum. Varð því biskup all-óvinsæll, því margir námfúsir og gáfaðir piltar urðu frá að hverfa fyrir fátæktar sakir.

Þegar Brynjólfur biskup kom til stólsins, ljet hann sjer mest um það hugað, að útvega dugandi kennara og vel mentaða, þar næst að bæta allan aðbúnað skólans. Sjálfur hafði hann alla sína biskupstíð æðstu umsjón skólans, og leit eftir öllu. Því næst gerði hann öllum piltum sem greiðastan aðgang að skólanum, og spurði minna um fjárhag en gáfur og siðferði þeirra, er um skólann sóttu; væri þetta hvorttveggja í góðu lagi, stóð skólinn opinn. Frískóla hafði hann fyrir marga pilta suma vetur, og síðustu árin, sem hann lifði, þegar hann hafði slept öllum umráðum staðarins, hjelt hann ekki færri en 6—10 fátæka pilta í sínum kosti, en með þessu var ekki öllum afskiftum hans af piltum lokið.

Það bar á því strax í æsku, að Brynjólfi var sýnt um að laða að sjer unga menn. Þetta kom og í ljós á skólaárum hans í Skálholti og utanlands. Hann var allra manna lægnastur á að ná trúnaði og trausti pilta, og þegar hann var orðinn biskup, vissi hann ekki einungis um nám og hegðun pilta í skólanum, heldur um allan andlegan þroska þeirra. Það

mun því rjett til getið, að hann hafi verið búinn að ákveða með sjer, hverjir ættu erindi til háskólans, áður en þeir útskrifuðust úr skólanum. En ekki munu þess mörg dæmi, að piltur hafi orðið að verða af utanför sinni í hans biskupstíð fyrir fátæktarsakir, væri hann vel til manns fallinn og siðprúður, enda er það ekkert smáræðis fje, sem hann gaf fátækum piltum.

Meðan Brynjólfur var biskup, ljet hann sjer ekki annað líka, en að allir piltar, sem lærðu í Skálholtsskóla, tækju vitnisburði sína til háskólans hjá honum sjálfum. Gaf hann þá hverjum, sem kvaddi hann jafnan nokkra fjárupphæð, er aldrei nam minna en 6 dölum, og ef fátækir áttu í hlut, greiddi hann stundum allan siglingarkostnaðinn. En ekki nutu piltar þessarar rausnar skilyrðislaust. Fyrst urðu þeir að gefa loforð um guðrækilega hegðun, ástundun við námið, og síðast, en ekki síst, að halda uppi brjefaviðskiftum við biskup. Af þessu stafar það, að svo mörg brjef eru til frá honum til pilta og frá þeim til hans, er finna má í brjefabókum biskups. Og það er þessum brjefum að þakka, að hægt er að kynnast hinu ástúðlega sambandi milli hans og hinna ungu mentamanna á hans tímum. Brjef pilta sem öll skyldu skrifuð á latínu, eru full vináttu og virðingar í garð biskups; geta þeir þess oft, hve mikið þeir eigi að þakka heilræðum hans og föðurlegum leiðbeiningum; geta þá framfara við námið, heilsufars o. s. frv.

Brjef biskups til pilta hafa að geyma fyrirbænir og heilræði. Hann bendir þeim á það, er betur mátti

fara um latínuna á brjefum þeirra og knúðu þau því pilta til þess að auka við þekkingu sína á þessu sviði. En vitanlega ritaði biskup fleira, bæði ráðleggingar og upphvatningar af einu eða öðru tæi. — Stundum fylgja peningar brjefum biskups.

Þegar piltar útskrifuðust úr Skálholtsskóla, en fóru ekki til háskólans, og ekkert embætti var laust, veitti biskup þeim jafnan ritaraembætti, eða sá á annan hátt fyrir ráði þeirra, þar til þeir fengu fast embætti.

Einn var sá hlutur, sem biskup var um strangur og siðavandur við pilta, einkum þá, er ganga skyldu guðfræðis veginn, og það var, að þeir lentu ekki í neinum ástaræfintýrum eða trúlofuðust á námsárum sínum. Trúlofun mátti hann ekki heyra nefnda á undan stöðu; embættið og vígslan fyrst; og yfir höfuð áleit hann öllum ungum mönnum utan skóla, sem í þjónustu hans voru, ósæmilegt að leita ráðahags, fyr en þeir gætu boðið hús og heimili konuefni sínu.

Brynjólfur biskup var hinn mesti ættjarðarvinur, og vildi gagn og sóma Íslands í öllum efnum, og að landsmenn rjeðu sem mestu um sín eigin mál, án allrar íhlutunar frá Dönum. Af skjölum, sem fundist hafa í ríkisskjalasafni Dana, sjest, að hann ásmt Árna lögmanni Oddsyni, barðist fyrir því á Kópavogsfundinum 1662, að landið hjeldi sínu forna frelsi og rjettindum, og þótt þeir yrðu þá undan að láta útlendu ofurefli, þá er þó þeirra sæmd að meiri fyrir viðleitnina. Biskup hjelt jafnan fram rjettindum Íslands alla sína tíð, við hvern sem var

að skifta. Mörgum þótti hann harður og vandlátur í allri embættisfærslu, því hann leið engum presta sinna neina óreglu, vanrækslu eða nýbreytni. Hafði hann mjög strangt eftirlit með siðferði þeirra og allri hegðun. Hinsvegar aðstoðaði hann á allan hátt þá, sem fátækir voru eða heilsulausir, ef þeir voru guðhræddir og góðir kennimenn, og vönduðu embættisfærslu sína og kenningu; reyndist hann þeim þá sem besti faðir; það reyndi Hallgrímur Pjetursson og fleiri.

Það er talið víst, að Brynjólfur biskup hafi verið ríkastur allra Skálholtsbiskupa eftir siðaskiftin, og kunnugur maður, sem ritað hefir um Skálholtsstað á hans dögum, getur oftlega örlætis þess, er fátækum var þar sýnt, enda var kona Brynjólfs biskups, Margrjet, dóttir Halldórs lögmanns Ólafssonar, talin valkvendi og góðhjörtuð við snauða menn. — En þó að Brynjólfur biskup væri mikill auðmaður og hinn mesti hamingjumaður fyrri hluta æfi sinnar, má þó óhætt telja, að enginn biskup þessa lands hafi verið meiri mótlætismaður en hann á efri árum æfinnar; en harm sinn bar hann með dæmafárri stillingu, þolinmæði og trúarþreki.

Hið fyrsta mótlæti, sem mætti honum, er hann tók sjer mjög nærri, var það, er 13 skólapiltar urðu að því uppvísir, haustið 1650, að hafa farið með galdur. Þið þekkið víst öll svo vel sögu 17. aldarinnar, að þið vitið, hvað við slíku lá. Flestir af þessum piltum voru nýsveinar, en margir foreldrar þeirra og vandamenn alúðarvinir biskups. Skólinn var augasteinn biskups, og hegðun pilta ljet hann

sjer sem annast um. Nú stóðu 13 af skólapiltum hans undir brennudómi, ef til hins veraldlega valdsins kæmi. Sagnariturum þeirra tíma ber saman um, að engum yfirmanni kirkju og skóla á þessu landi hafi betur tekist að sameina strangasta rjettlæti og fullkominn kærleika, en biskupi tókst í þessu máli, og fjekk hann alla piltana náðaða af konungi. Skólarefsinguna, þótt hörð væri, mildaði hann, og svo mikinn kærleika auðsýndi hann þeim á eftir, að allflestir þeirra fengu aftur aðgang að skólanum, og náðu trausti, er þeir höfðu iðrast og bætt ráð sitt. Urðu þeir flestir síðar hinir nýtustu menn.

Brynjólfur biskup eignaðist með konu sinni sjö börn, 4 drengi og 3 stúlkur, og um hann, sem föður og eiginmann, var það sagt, að hann á hverjum degi sáði blómi nokkru, sem gróa skyldi síðar meir á lífs- og hamingjubraut konu hans og barna. En öll börn hans sjö gengu til grafar á undan honum, og kona hans síðast. Dóttursonur hans, mesti efnispiltur, er hann hafði tekið sjer í sonarstað, dó ellefu ára. Margar aðrar raunir mættu biskupi, en eigi get jeg hjer fleiri.

Hvernig fjekk jafn geðmikill og tilfinningaríkur maður sem Brynjólfur biskup var borið öll þessi aðköst með ró og stillingu og unnið störf sín, veraldleg og andleg, með ánægju og gleði, alt til síðustu stundar? Þessari spurningu svarar hann sjálfur og þakkar hann þenna kraft sinn sterkri bænartrú, er hann segist, með guðs náð, hafa aukið og þroskað með degi hverjum, en grundvöllinn að þessari bænrækni lögðu foreldrar hans, er hann var

lítill drengur heima. Hann átti sjer bænarsal í litla svefnherberginu sínu; þar baðst hann fyrir á hverjum morgni og ákallaði vernd drottins fyrir hvern komandi dag, og að kveldi dagsins þakkaði hann guði hvern liðinn dag. Sama hætti hjelt hann, er hann var skólapiltur í Skálholti, og sviplíkt þessu var líferni hans við háskólann; þar kyntist hann og öðrum guðhræddum íslenskum námsmönnum, svo sem Þórði Jónssyni, er síðar varð prestur í Hítardal. En bænin veitti Brynjólfi biskupi auðmýkt og starfandi kærleika á meðlætisdögunum, hugprýði og huggun í mótlæti.

Í sambandi við þetta, sem nú er sagt, skal þess getið, að veturinn 1663, þegar Ragnheiður dóttir hans lá banaleguna, og sótt og dauði geisaði á staðnum, þá leitaði biskup ekki gleði og hughreystingar hjá mentamönnum staðarins, þótt þeir væru margir, heldur sendi hann gagngert vestur að Saurbæ til sjera Hallgríms Pjeturssonar. Honum treysti hann best til að veita sínu sorgbitna hjarta huggun og gleði, og hugga með guðs orði Ragnheiði dóttur sína, sem þá háði sitt síðasta stríð. Það sást þá sem oftar, að það var sannleikur, sem einn af hans allra bestu ástvinum sagði: að Brynjólfur biskup sýndi það öllum sínum þjónustusveinum, og öllum, sem á staðnum dvöldu, að hann var heitur í sínum kristindómi og sinni guðrækni. Hann var ekki hálfvolgur, en sannkristinn; ekki „munn-kristinn“. Hann vildi vera gerþektur af guði, en ekki af mönnum; það sýndu bænir hans, er hann daglega flutti, og hann las á degi hverjum, þá er hann mátti því við

koma, þrjá kapítula í heilagri ritningu. Hann hjelt sig svo vel til guðs í bibliulestri og bæn, að djöfullinn gat aldrei smeygt neinni ljettúð inn í hjarta hans, og hann leið heldur aldrei neinum manni ljettúð eða alvöruleysi, hvorki utan kirkju nje innan. Þetta veitti honum hið mikla sálarþrek hans alt til síðustu stundar.

Kona Brynjólfs biskups var jarðsett á sunnudag, og sama daginn vígði hann þrjá presta. Líkkistan stóð í kirkjunni á meðan, og þegar vígslunni var lokið og biskup hafði afskrýðst, byrjaði jarðarförin samstundis.

Eftir að biskup misti konu sína og dótturson, hætti hann algerlega að skifta sjer af veraldlegum málefnum. Allir hans kærustu ástvinir voru nú látnir, kona hans og börn, og hann sagði, að það væri sín mesta gleði og tilhlökkun að vita þá alla geymda og frelsaða hjá guði, og finna þá þar innan lítillar stundar. — Tæpu ári fyrir dauða sinn, mátti Brynjólfur sjá á bak einum af sínum kærustu vinum, sjera Hallgrími Pjeturssyni, sem allra manna mest hafði verið honum til hughreystingar og gleði í ástvina missi hans, bæði með sálmum sínum og orðum. Árið 1662 hafði sjera Hallgrímur sent Ragnheiði dóttur hans handrit af Passíusálmum sínum og tileinkað henni, og spáði þá biskup því, sem rætst hefir, að þeir mundu verða fegursta og traustasta minnismerkið á gröf hennar, og vetri síðar ljet biskup sækja sjera Hallgrím til að dvelja hjá banasæng Ragnheiðar, og hugga hana í dauðastríði hennar.

Nokkru fyrir dauða sinn sendi sjera Hallgrímur biskupi sálminn: „Alt eins og blómstrið eina,“ og er mælt, að biskup hafi gert þá ráðstöfun, að hann skyldi fyrst verða sunginn við jarðarför sína.

Nálægt Jónsmessu 1675 tók biskup sótt, hæga í fyrstu, en smáþyngdi. Ljet hann þá Þorkel prest Arngrímsson, föður Jóns biskups Vídalíns, stunda sig, því hann var talinn læknir góður. Tókst honum vel að lina þjáningar biskups; og beið nú biskiup hugrór og glaður dauða síns.

Brynjólfur biskup hafði mjög elskað fagran sálmasöng og lifði marga glaða stund við að hlusta á hann, og taka þátt í honum. Í banalegunni ljet hann kirkjuprestinn og herbergissveina sína syngja fyrir sjer fagra og hjartnæma sálma. Nokkrum dögum fyrir andlát sitt meðtók hann kvöldmáltíðarsakramentið, eftir fagran undirbúning. Tveir af sveinum hans, er honum voru kærastir, svo og kirkjupresturinn, höfðu vakað hjá honum hverja nótt, frá því hann lagðist, og lesið til skiftis fyrir hann í biblíunni og beðið með honum. Miðvikudagskvöldið 4. ágúst, var biskup með hressasta móti; óskaði hann þá, að allir viðstaddir vildu syngja uppáhaldssálminn hans: „Kristur, eg bið fyrir krosskraft þinn“ o. s. frv. Talaði hann þá með fögnuði um burtför sína, sem hann sagði að nú tæki mjög að nálgast. Óskaði hann, að sitt síðasta orð mætti verða sem hins heilaga Stefáns: „Herra Jesús, meðtak anda minn.“ Og að endaðri bæn, gengu allir út úr herberginu, utan dómkirkjupresturinn og sveinar þeir, er vanir voru að vera hjá honum. Þegar tók að

elda aftur, bað hann þá, mót venju, að leita sjer hvíldar og hátta. Bauð þá dómkirkjupresturinn góðar nætur og fór til herbergis síns. Einn þjónustupiltur biskups, Ólafur að nafni, óskaði að mega leggja sig á bekkinn fyrir framan sængina. Biskup bað hann mjög vel að fara til herbergis síns, því andardráttur hans kynni að standa sjer fyrir svefni; sagði, að þeir skyldu vitja hans, þá er þeir hefðu hvílt sig. Síðan gengu sveinarnir til dyra, og ljetu aftur hurðina, og vöktu fyrir framan hana og hlustuðu vandlega til hans. Var hann þá að ákalla guð sinn og frelsara og fela honum sál sína. Gengu þeir þá hægt til herbergja sinna. Nokkru eftir sólaruppkomu, þegar sveinarnir komu aftur inn í herbergi biskups, lá hann liðinn í sæng sinni. Vöktu þeir þá dómkirkjuprestinn og fleiri, og voru líkinu veittar nábjargir. Sannaðist það, sem biskup hafði áður spáð, að hann mundi um sólaruppkomu andast, um sama leyti árs sem hann kom til stólsins.

Um kistulagning biskups, undirbúning undir jarðarförina og um jarðarförina sjálfa er svo margt að segja, að það væri efni í heilan fyrirlestur, og þess vegna sleppi jeg því hjer öllu, tímans vegna, enda var það ekki ætlun mín að fara út í það mál að þessu sinni. Þess vil jeg þó geta, að líkið var klætt í fullan prestaskrúða, vandaðan mjög, og ofan á brjóstið var lagt eitt eintak af Nýjatestamentisþýðingu Jóns biskups Arasonar, og er nú víst ekkert eintak til í heiminum af þeirri bók. Torfi prófastur, sem gjörst hefir sagt frá dauða biskups og jarðarför, getur þess, að þegar öllum klukkum dómkirkj-

unnar, tólf að tölu, var samhringt í tilefni af láti biskups, þá hafi hin hljómfegursta þeirra rifnað, og telur það merki þess, hve allir hlutir hafi orðið til þess að votta sorg kirkjunnar og þjóðarinnar. Eftir hans sögu er það líka, að jarðarförin hafi verið hin fjölmennasta og tilkomumesta, sem fram hafi farið í Skálholti. Sjálfur hjelt Torfi aðal-líkræðuna og hafði fyrir texta þessi orð Síraks: „Nafn þeirra (heilögu nafnfrægu) mun ei deyja, þeir eru í guði greptraðir, en nafn þeirra lifir eilíflega; fólkið segir af þeirra vizku og söfnuðurinn boðar þeirra lof.“

Enginn þekti betur æskuheimili Brynjólfs biskups en Torfi prófastur, bróðursonur hans; hann var að nokkru leyti uppalinn hjá foreldrum biskups, og stóð síðan fastast allra við hlið hans, bæði í meðlæti og mótlæti. — Það gekk lengi sú saga, að Jón biskup Vídalín, sem þá var ellefu ára gamall, og var við jarðarförina með föður sínum, hefði unnið það heit, þegar hann stóð við gröf Brynjólfs biskups, að taka sjer til fyrirmyndar og eftirbreytni það, sem best hefði verið og fegurst í fari hins látna mikilmennis. En þótt þetta kunni að vera munnmæli ein, þá vitum við, að Vídalín helgaði guði starf sitt og vann fyrir hans ríki alla sína æfi, þjóð vorri og kirkju til ómetanlegrar blessunar.

---

Eigum við ekki í þessu fjelagi að fara að dæmi Jóns Vídalíns, og taka okkur sjálfum til fyrirmynd-

ar það, sem best var og fegurst í lífi Brynjólfs biskups: trúareinlægni hans og bænrækni, og vita svo, hverju við með guðs hjálp fáum áorkað.

---

# Þorraþrælsbylur í Odda eða saga Oddastaðar 1780—1810.

**Fyrirlestur fluttur í st. Bifröst, 29. apríl 1910.**

---

Háttvirtu reglusystkin!

Jeg hefi hugsað mjer að rifja hjer upp nokkrar sundurlausar sagnir um einn merkisstað þessa lands, og af sjerstökum ástæðum hefi jeg valið Oddastað, eða Odda á Rangárvöllum, eins og hann er venjulega kallaður.

Þeir eru þrír staðirnir eða höfuðbólin, sem mest ber á í kirkjusögu þessa lands (að undanskildum biskupsstólunum): Hítárdalur, Grenjaðarstaður og Oddi á Rangárvöllum. En af þeim öllum er þó Oddi lang-frægastur. Oddastaðar er getið í elstu sögum vorum, en frægð hans hefst þó aðallega með kristnitökunni. Þar var snemma reist vegleg kirkja og vígð hinum helga Nikulási. Þar voru mjög snemma hinir frægustu prestar og fræðimenn, svo sem Sæmundur fróði Sigfússon. Þar var skóli í þann tíð og mjög frægur. Þar var uppalinn Snorri Sturluson, og þaðan breiddist út mentun og vísindi um land alt. Þar bjó Jón Loftsson, er mestur höfðingi var á landi hjer um sína daga, og þar tók við hver ágætismaðurinn á fætur öðrum. Þegar helgi staðarins

hófst, drifu að heitgjafir og sálugjafir, svo staðurinn átti hvervetna þau ítök, er best voru í sýslunni, svo sem reka á fjörum, skógarhögg, sauðfjárgöngu; og nokkru síðar leggjast til staðarins önnur hlunnindi, svo sem osttollur, lambstollur, skæðatollur o. fl. Flestir bændur í sumum hreppum sýslunnar voru skyldir að ynna af hendi þessa tolla. Enn fremur fjekk staðurinn tillög frá hinum minni kirkjum, og alt þetta varð að gjaldast í „fríðu“, sem þá var kallað. T. d. má geta þess, að í Næfurholti, sem er efsti bær á Rangárvöllum, var kirkja, og skyldi þaðan goldinn gemlingur, er svo væri fær, að hann gengi niður að Odda vorlangan daginn. Þið, sem eruð kunnug vegalengdinni, sjáið, að sá gemlingur mátti eigi vera illa fóðraður, er þann rekstur átti að þola. Þá var það altítt, að menn keyptu sjer leg að Oddakirkju, sem kallað var, — kusu sjer, að vera þar grafnir. — Í Marteinstungusókn, þar sem jeg er uppalinn, á Oddakirkja enn í dag jörð, er gömul kona gaf til þess að bein hennar fengju leg í Oddakirkjugarði. Hins vegar má sjá í úttektarskrám staðarins frá þeim tímum, hvílíkur feikna-auður hefir verið saman kominn í Odda, bæði ætt og óætt. Þegar þar við bætist, að jörðin sjálf var höfuðból að slægjum sem öðru, og að eins ein kirkja til að þjóna, en tekjurnar geipi-miklar, þá er ekki furða, þótt þangað veldust þeir menn, er fremstir stóðu að mentun sem öðru, enda held jeg, að frá þeim stað komi fleiri biskupar, en frá nokkrum öðrum kirkjustað þessa lands. Það var aldrei svo dauft yfir kirkjulífi landsins, að ekki legði jafnan nokkra andlega birtu

frá Odda, enda var það þetta tvent: auðurinn og mennirnir, sem á staðnum sátu, er gerði Oddastað svo frægan, sem hann hefir orðið í sögu landsins. En svo bættist enn við, að þjóðtrúin tók ástfóstri við þennan stað, og gerði að sínu óskabarni, alt frá því, er Sæmundur fróði var þar, og fram til vorra daga. Sjerstaklega lætur þjóðtrúin kölska gamla verða nokkurskonar „inventarium“ staðarins, en þó ber hann jafnan skarðan hlut frá borði í viðskiftunum, einkum við Sæmund fróða. Raunar er hans hvorki getið í máldögum nje úttektarskrám staðarins, en þegar um er að ræða ýmsa hluti, sem staðnum fylgja, þá er hans getið í sambandi við þá. Það eru til ýmsar myndir af honum bæði í kirkjunni og víðar, og enn í dag eru nokkur örnefni í landareign staðarins við hann kend.

Jeg hefi ekki hugsað mjer að segja hjer í kvöld alla sögu Oddastaðar; það yrði of langt mál, og læt jeg mjer nægja að tala um tímabilið frá 1780 —1810. Það vill líka svo vel til, að um þetta tímabil hefi jeg sannar og áreiðanlegar sagnir frá Odda frá skilríkum manni, Þorsteini Runólfssyni. Honum var komið þangað til menta 10 ára gömlum, 1810, og hann dó nálægt 1890, þá hátt á níræðis aldri. Þorsteinn var bæði minnugur og sannorður.

Vorið 1784 vígðist að Odda Gísli Þórarinsson sýslumanns á Grund í Eyjafirði, og konu hans, Sigríðar Stefánsdóttur frá Höskuldsstöðum. Gísli var hálfbróðir Espólíns og þeirra systkina. Hafði Gísli framast erlendis og tekið guðfræðipróf við Hafnarháskóla með besta vitnisburði. Um hann var það

sagt, að hann væri mjög viðkvæmur í lund, samviskusamur, stöðuglyndur, fáskiftinn og fámálugur. Árið 1786 gekk hann að eiga Jórunni, dóttur Sigurðar landþingsskrifara, er þá var ekkja eftir Einar Brynjólfsson lögsagnara. Var hún kona skapstór mjög og búforkur mikill, harðlynd og undarleg í háttum og fjeglögg nokkuð.

Þar sem jeg ætla mjer að segja frá sjerstökum atburði, er fram fór á þessu tímabili, þorraþrælsbylnum svo kallaða, þá tel jeg nauðsynlegt, að segja frá öllum atvikum, sem standa í sambandi við hann, svo sem mönnum þeim, er þá voru á staðnum, húsaskipun og fleira, er þar að lýtur. Gísli prestur og prófastur var vellauðugur maður og hafði margt hjóna. Hús staðarins voru mörg og stór, og stóðu öll í beinni röð. Í bæjarröndinni austast var hjallur, svo tóku við tvær skemmur, og voru í hinni eystri geymdir þeir hlutir, er minna þóttu verðir, svo sem reipi, amboð og reiðingar, og var skemman kölluð Reiðingsskemma. Í hinni voru geymd ýms matvæli og þess háttar, og var í henni rammgert loft, og læsing fyrir. Næst fyrir vestan hana kom baðstofa portbygð, ákaflega stór. Var hún á lofti og þiljuð í þrjú herbergi með útbyggingu, sem kölluð var Strympa. Undir loftinu var stofa stór og björt og tvö önnur minni herbergi. Þá komu bæjardyrnar og stórt loft yfir. Fyrir framan bæjardyrnar var hella ein ákaflega mikil með laut í miðju á stærð við undirskál; um laut þá var sögð sú saga, að hún hefði komið, þegar Sæmundur fróði ljet kölska bera í burtu allan fjóshauginn frá kirkjudyrunum. Kölski

hafði tekið upp á því óþokkabragði einn páskadag, meðan Sæmundur framdi embættisgerð í kirkjunni, að bera allan hauginn fyrir kirkjudyrnar, svo prestur og söfnuðurinn komst ekki út. En prestur stefndi kölska á sinn fund, og neyddi hann til að bera hauginn á sinn stað. Er þá sagt, að Sæmundur væri svo smámunalegur við kölska, að hann ljeti hann sleikja með kjaftinum helluna, og yrði þá lautin til; er hellan enn til sýnis í Odda til sannindamerkis um þennan viðburð. Fyrir vestan bæjardyrnar tók við vesturbyggingin, er svo var kölluð. Var það stofa, búr, eldhús og skáli mikill. Síðar meir var þar viðhafnarstofa með herbergjum. Stofan með herbergjunum aftur af, var vestast í bæjarröndinni. Lá langur gangur milli þeirra og hennar að útidyrum, er að eins voru opnaðar, þá er heldri menn heimsóttu staðinn. Uppi yfir þessari stofu ásamt herbergjunum var loft, er skift var í þrjú herbergi. Varð stofan og herbergin síðar fræg fyrir reimleika, og mun það hafa haldist alt þar til er byggingunni var breytt. Kirkjan var stór og skrautleg mjög, eftir því sem þá var talið; altaristöflunni þarf ekki að lýsa, því hana getur hver maður skoðað á forngripasafninu í Reykjavík. Ljósahjálmar tveir voru í kirkjunni, annar fyrir 48 kerti, og var að mestu úr kristalli. Hinn var úr kopar með upphleyptum myndum. Sýndi ein þeirra Adam gamla ríðandi á höggorminum. Sá hjálmur brotnaði rjett fyrir jólin 1880. Í kirkjunni var stór mynd (Bíldhöggvara verk) af Nikulási hinum helga, er kirkjan var helguð. Voru þar og myndir af kölska sjálfum, útskornar í trje.

Á prjedikunarstólnum, sem var mesta listaverk, var mynd af kölska og mörgum minni háttar púkum. Þá sögu heyrði jeg, þegar jeg var krakki, að sjera Matthías hefði spurt Pál prest Sigurðsson í Gaulverjabæ, hversu mörg ár hann hefði gegnt prestskap, og hefði sjera Páll átt að svara: „Jafn mörg ár og djöflarnir eru í Oddakirkju.“

Enn fremur var kirkjan auðug af fallegum skrúða, stjökum og mörgu fleira, er til prýðis var. Geta vil jeg þess, að í búri staðarins stóð ákaflega stór skápur, og var máluð á hann mynd af ýmsum vistarverum, bæði í himnaríki og helvíti, og sagði Þorsteinn heitinn mjer, að sú trú eða þau ummæli hefði geymst um skápinn, að Oddastað mundi ekki mat skorta, meðan skápurinn væri þar. Vinnuhjú voru mörg á staðnum. Fyrstan skal telja Jón Magnússon, er var ráðsmaður. Hann var hægur og fáskiftinn, reglusamur og þarfur maður á heimili. Næstur honum var Benóný, er kallaður var hinn sterki. Hann var talinn tveggja til þriggja manna maki að kröftum og var mjög fyrir öðrum húskörlum prófasts. Hann var góður og vinveittur öllum þeim, er minni máttar voru. Órækja hjet fjósakarl staðarins. Hann var ákaflega illa lyntur og forn í skapi. Talinn matmaður mikill enda hafði hann ýms matarforrjettindi fram yfir aðra, svo sem svið af öllum kálfum staðarins, er slátrað var. Nú voru vanalega um tuttugu kýr í fjósi, svo þetta var þó dálítil aukageta. Heyrt hefi jeg að fjósamenn í Odda hafi haldið þessum rjettindum, þegar Ásmundur prófastur var þar, en að líkindum hafa þau nú verið feld niður.

Björn hjet unglingspiltur á staðnum og hafði hann fjárgæslu á hendi. Kátur var hann og fjörmaður mikill, en þótti nokkuð tannhvass, og þó drengur góður. Gísli og Guðmundur hjetu vinnumenn tveir, er þar voru. Fleiri man jeg ekki að telja, þó verið hafi. Griðkonur voru þessar helstar: Katrín, er var ráðskona. Þótti hún undarleg í skapi og ekki aldæla. Guðfinna hjet sú, er fremst þótti allra griðkvenna staðarins hvað dugnað og kjark snerti. Er það talið sem dæmi hugrekkis hennar, að eitt sinn vakti hún með annari stúlku yfir líki í framhúsi. Nálægt miðnætti drapst ljósið, því ljósmat skorti. Fór þá sú, sem með henni vakti í burtu til að sækja á lampann. Þegar hún var farin út, heyrði Guðfinna þrusk mikið þaðan sem líkið var, og sá við tunglsbirtuna, að líkið var sest upp til hálfs; Guðfinna gerði sjer lítið fyrir, hún kastaði sjer ofan yfir það og beygði með afli ofan á líkbörurnar; sótti borðkubb, lagði hann ofan á það og bætti á nokkrum þungum steinum; var þá stúlkan komin með ljósið, en hjelst lítt við fyrir hræðslu sakir. — Enn voru þar Sólveig og Gróa griðkonur, og man jeg ekki að telja fleiri.

Prófastur hafði jafnan marga pilta til kenslu. Þar var Espólín bróðir hans einn vetur. Oft var mannmargt á staðnum, einkum á vetrum. Þar var sofinn rökkursvefn, en vakað mjög lengi. Sagt er að það bæri við eitt sinn að áliðinni jólaföstu, að piltar færu út eftir vöku á undan húslestri til að miða sjöstjörnuna, en þegar þeir komu inn, buðu þeir góðan dag, og var þá slegið í eitt kvöldlestri og morgunbænum. Vinnu-harka var mikil, en viðurgjörning-

ur góður. Talið er, að prófastur og kona hans væru kræsin mjög og hjeldu sig vel, enda minnist Espólín á, að þau væru holdug mjög. Til er smásaga, er sýnir að prófastur muni snemma hafa fengið ístru. Björn sá, er jeg áður mintist á, var kominn af fátæku foreldri sunnan af Bakkabæjum, og hafði alist upp hjá þeim. En er hann hafði aldur til, gekk hann með öðrum börnum til spurninga að Odda; bar þá svo við, að prófastur ynnir einn drenginn: „Hvert er hið mesta mótlæti guðs barna hjer á jarðríki?“ Drengurinn fjekk ekki svarað. Þá gellur Björn við og mælti snjalt: „Það er að hafa ístru.“ Prófastur ljet sem hann hefði ekki heyrt, hvað Björn sagði og hváði eftir. Strákur brýndi þá raustina og hrópaði af öllum mætti: „Það er að hafa ístru.“ Prófastur vjek sjer að honum og skipaði honum í höstum róm að útskýra svarið. Björn mælti: „Það kalla jeg hið mesta mótlæti að bera það á kroppnum, sem honum er til vansa og óhægðar og sem ekki rotnar í gröfinni, ekki rís upp til dómsins og aldrei kemst í himnaríki.“ Ekki er þess getið, hverju prófastur hafi svarað, en um vorið þegar börnin voru fermd, var Björn efstur af drengjunum. Sama vor fór Björn að Odda, og var prófastur honum vel og tók jafnan svari hans, en ekki gekk honum jafn-vel að ná hylli húsmóður sinnar, og galt hann hjá henni orðkeski sinnar og stríðni; mundi hún hafa orðið honum þunghent stundum, ef Benóný sterki hefði ekki borgið honum, og eru til ýmsar frásagnir um viðureign Björns og madömu Jórunnar. Sú er ein, að sumar eitt, er fólk var

komið á teig að vanda, og piltar slógu en stúlkur rökuðu, þá kom stúlka sú, sem vön var að færa litla skattinn, miklu seinna, en hún átti vanda til. Spurði þá ein af stúlkunum hana, hvað töfinni hefði valdið, en henni varð ógreitt um svör. Þá gall Björn fram í og mælti: „Hvað ætli hún hafi verið að gera nema að raða hrosshausunum undir blessaða húsmóðirina og svo hirða sögulaunin og koma þeim fyrir í skónum sínum.“ Að þessu var hlegið dátt, en stúlkan fór heim. Litlu síðar varð einhverjum litið heim til staðarins, og sá, hvar madaman kom sjálf heiman að og stefndi til fólksins, og var nú ærið fasmikil. Benóný var skjótur til ráða og skipaði Birni að slá sem ákafast og líta ekki upp úr og mæla ekki orð, en láta eins og ekkert sje um að vera, því hann segist skulu verða fyrir svörum. Skömmu seinna kemur húsfreyja og kallar alt fólkið saman, og spyr: „Hvert ykkar var það, sem talaði áðan orðkornið við hana Sólveigu?“ „Það var jeg, sem það gerði,“ sagði Benóný og brýndi ljáinn í ákafa. Jórunn þagnaði um hríð, og mælti síðan: „Berðu niður Benóný, og sýndu að eins vel gangi undan ljánum hjá þjer og tungunni.“ „Gert get jeg það, húsmóðir góð,“ mælti Benóný. Sló hann þá af kappi skáraslátt, en Jórunn stóð hjá og ræddi ekki um, fór síðan heim og fjell þetta niður, en Björn slapp með öllu.

Það er sagt, að næsta vetur á jólaföstu bæri það til tíðinda einn dag, að prófastur væri sóttur að skíra barn og var fátt karlmanna heima. Björn kom síðari hluta dags frá fjenu og fjekk þá þau

boð, að húsmóðirin vildi finna hann; var það erindið að senda hann til næsta bæjar, en hann kvaðst vera svangur og þreyttur, enda ærið nóg af kvenfólki, er senda mætti í ekki erfiðari för. Húsfreyja reiddist ákaflega þessum mótmælum hans, en hann jók við mörgum stríðnisyrðum; varð hún að lokum svo æf, að hún þreif hnokkatrjeð úr rokknum og hugði að senda í höfuð honum, en hann vatt sjer fimlega út um dyrnar og misti hún hans, en hnokkatrjeð molbrotnaði; leið nú dagur til kvölds, svo að fátt bar til tíðinda, utan það, að maður kom um rökkurleytið og baðst gistingar. Var hann sendimaður vinar prófasts, mikilsháttar manns í Reykjavík, og var nú sendur til Gísla prófasts í áríðandi erindagerðum. Prófastur hafði komið heim um kvöldið og sat gesturinn á tali við hann og sagði honum að sunnan það, er tíðindum þótti sæta. Undir háttatíma var gestinum vísað til sængur í herbergi því, er vinnumenn sváfu í. Svo hagaði til, að Björn svaf einn í rúmi við gafl og voru minniháttar gestir látnir sofa hjá honum. Næsta rúm var vel uppbúið, þar skyldu þeir sofa, er meira var við haft eða þá er margir voru gestir. Í þessu rúmi skyldi nú gesturinn hvíla. Á vökunni hafði Björn sagt Benóný frá því, er þeim hafði á milli borið, honum og húsfreyju, kvaðst hann óttast hefnd og bað hann ráða nú sem oftar. Benóný lagði honum það ráð, að meðan gesturinn ásamt fólkinu hlýddi lestri, skyldi hann skifta um föt í rúmunum og þegar gesturinn kæmi, skyldi hann sjá svo um, að hann háttaði í rúm Bjarnar, en Björn skyldi sofa fyrir ofan sig og sjá svo, hvernig færi.

Þetta fór eins og Benóný hafði ætlað. Gesturinn fór með öðrum húskörlum í hús það, er alt heimilisfólk hlýddi lestri. Þegar lestrinum var lokið, fór hann til rúms þess, er þeir höfðu ætlað honum, en var reyndar Bjarnar og vel uppbúið, en Björn háttaði hjá Benóný eftir að hafa slökt ljós og vilt öðrum sjónir um það, er til stóð. Lögðust nú allir til svefns og sofnuðu flestir utan þeir Benóný og Björn. Tveir stigar lágu upp á loftið, annar í herbergi stúlknanna en hinn í þetta herbergi, er nú hefir verið lýst. Nálægt miðnætti heyrðu þeir, að komið er upp stigann, er lá upp í þeirra herbergi, og því næst er stigahleranum lokið upp, og þótt dimt væri í herberginu, þóttust þeir þó kenna húsmóðurina sjálfa. Hjelt hún á vendi ærið stórum og gekk hljóðlega að rúmi því, er hún hugði að Björn svæfi í. Rak hún fötin af þeim, er í rúminu svaf, hvíhenti vöndinn og hýddi bæði ótt og títt þann, er þar hvíldist. Gesturinn, sem hafði farið úr hverri spjör, eins og þá var altítt, og af þreytunni sofnað ærið fast, vaknaði við heldur ónotalegan draum, rak upp öskur mikið, kallaði á hjálp manna og heimtaði ljós, því sjálfur djöfullinn hefði ráðist á sig. Það má nærri geta, hvernig gömlu konunni hafi orðið við misgripin, enda hafði hún sig hið fljótasta til vegs, áður en ljósið kæmi, og það var jafn snemma, að gesturinn var kominn í nærfötin. Heimtaði hann að ná fundi prófasts tafarlaust, en hann var sofnaður; var hann vakinn með illum tíðindum, og er mælt, að hann hafi goldið tíu ríkisdali fyrir þetta tiltæki konu sinnar til þess að það kæmist ekki í hámæli.

Ekki er þá getið um fleiri bellibrögð af hendi þeirra Björns og Benónýs, enda stiltist Björn mjög með aldrinum. Hann kvongaðist í Odda rúmlega tvítugur, og var jafnan talinn góður drengur. Óljóst er mjer, hvert hann flutti, eða hverjir eru hans afkomendur, ef nokkrir eru. Benóný var jafnan í hjeraðinu til dauðadags, kvæntist og var fátækur, og reyndist Jórunn honum hið besta; mat hún jafnan mikils verk hans og dugnað og hrósaði þeim.

## Bylurinn.

Nálægt aldamótunum 1800 bar svo til einn vetur í Odda, er fólk var komið á fætur á Þorraþrælsmorguninn, að húsfreyja fjekk kvenfólki sínu ull að vinna úr sjóvetlinga, því karlmenn skyldu fara til vers á fárra daga fresti. Veður var kalt og fjúkandi snjór á jörðu, og hlóð mikið í norðrið og mjög dimt í lofti. Karlmenn voru farnir út að gegna skepnum, en konur settust við ullarvinnu á palli nema Katrín, hún var að skamta mat fram í búri, en Guðfinna að sinna eldhúsverkum. Litlu síðar komu þær báðar inn á baðstofupall, og settist hvor þeirra í sæti sitt og tóku til vinnu. En er þær voru nýsestar, varp Guðfinna öndinni mæðilega, og mælti: „Nú bar það fyrir mig í nótt, sem jeg hefi aldrei fyrri orðið vör við, og mjer verður það því óskiljanlegra, sem jeg hugsa meira um það.“ Katrín greip snögglega fram í og mælti: „Nú kemur þú með einhverja vitleysuna, Guðfinna, og vil jeg, að þú talir fátt um þetta. Það

kom alt eins til að finna mig, eins og aðra.“ Þessi orð mælti Katrín með þjósti, og setti alla hljóða.

Eftir stundarkorn tók húsfreyja til orða: „Þú segir, Guðfinna, frá því, er fyrir þig bar.“ Katrín gekk þá til húsmóður sinnar, og mælti: „Viltu lofa mjer að setjast inn á norðurloft með vinnu mína?“ „Ekki vil jeg það,“ mælti hin; „jeg vil, að fólkið mitt sitji hjá mjer við vinnu sína, en ekki annars staðar.“ Sigríður dóttir hennar, sem þá var 11 ára, gekk til móður sinnar og bað hana mjög að láta þetta eftir Katrínu, og að lofa sjer að vera þar hjá henni, því hún hugsaði sjer að narra Katrínu til að segja sjer sögu. Ljet húsfreyja þetta hvorttveggja eftir dóttur sinni, og fóru þær þangað báðar, en ekki fjekk Sigríður neina sögu, því Katrín sat þar þegjandi og þungbúin, og gat Sigríður ekki togað orð úr henni, en því var ekki vant.

Þegar Katrín var farin, tók Guðfinna til máls, og sagði frá því, að í gærkvöldi hefði hún lokað bænum, eins og hún var vön, og sömuleiðis öllum gangahurðum, og síðast loftshleranum. En þegar allir voru um það bil sofnaðir, þá hefði öllum hurðum verið hrundið upp, og eitthvað hefði komið upp um stigagatið, og farið að rúmi Katrínar, en hún tekið að æpa mjög ógurlega, svo flestir hefðu vaknað, og eins í piltaherberginu; þar hefði Björn smali tekið hníf hárbeittan, kallað upp og sagt: „Þetta skal í þig, ef þú ekki snautar í burtu.“ Eftir góðan tíma hefði þó öllu slegið í dúnalogn og Katrín hætt að æpa, en hún kvaðst hafa sofnað. Ræddu þær um þetta mál fram og aftur, og tók húsfreyja þátt í umræðunum.

Nú er að víkja sögunni að því, er fyrr var frá horfið. Veður fór versnandi, og þegar leið fram um hádegi, gerði ofsahríð með grenjandi norðan stormi og afardimmu kafaldi. Hjer um bil einni stundu eftir hádegi, heyra menn, að bænum er lokið upp, og kemur Benóný inn á baðstofugólfið, kallar til þeirra, er uppi sátu, og segir: „Það mun ráðlegast að mjólka kýrnar þegar í stað, því veðrinu slotar lítið eitt, en seinna í dag verður engum kvenmanni fært út.“ Húsfreyja varð fyrir svörum, og mælti: „Hvað á að segja?“ Guðfinna mælti: „Jeg fer ekki hálft fet í fjósið á þessum degi.“ Þá ansaði Sólveig, og kveðst skyldu fara. Hún og Guðfinna voru mjaltakonur. Húsfreyja mælti: „Ekki vil jeg, að þú farir, Sólveig, og skipa jeg það engum.“ Þetta heyrir Katrín, og kallar fram úr loftinu: „Ekki læt jeg það verða, að kýrnar sjeu ómjólkaðar og missi máls. Jeg skal fara með Sólveigu og mjólka kýrnar. Jeg er líklega yngri en Guðfinna.“ Katrín var þá rúmlega sextug. „Það tekur engu tali, að þú mjólkir, Katrín,“ segir húsfreyja.

Benóný bað þær nú að fá sjer strokkinn, er var ákaflega stór sem vænta mátti á jafn stóru heimili; sagðist hann mundu bera mjólkina heim í honum, en Órækja, karlinn, mjólki og komist fólkið ekki burt úr fjósinu, þá geti það drukkið mjólkina og látið þar fyrir berast. En hann segist þá skulu koma því heim í strokknum, sem eftir verði af mjólkinni. Katrín þeytir frá sjer prjónunum og segir: „Það skal aldrei verða,“ og með það rýkur hún ofan; breytti í engu búningi sínum nje klæddi sig betur, ein-

ungis batt hún þunnan ljereftsklút um höfuð sjer innan undir húfuna. Þegar hún kemur móts við búrdyrnar, fleygir hún búrlyklinum frá sjer inn í göngin með þessum orðum: „Það er ekki víst, að jeg komi aftur.“ Síðan fóru þær Sólveig út með Benóný, en þegar lokið var upp bæjardyrahurðinni, var eins og bærinn ljeki á þræði og hríðina lagði þá inn göngin. Þau áttu undan bylnum að sækja í fjósið, en það var nokkuð langt frá bænum, hjer um bil hundrað faðma tólfrætt og ofan hlaðbrekku að fara ærið bratta. Svo var veðrið mikið, að það sleit konurnar frá Benóný á leiðinni í fjósið og feyktust þær þangað sín í hvoru lagi; þó komust þær í fjósið slysalaust.

Nú leið og beið og kemur enginn heim aftur úr fjósinu og þykir þeim, er heima voru, það fara að dragast. Þegar kominn er miðaftan, heyra menn að bænum er hrundið hart upp og kemur Benóný inn með strokkinn, allur fannbarinn og líkari trölli en manni. Hann mælti: „Er ekki alt fólkið komið?“ En þar var enginn kominn. Hann kvaðst hafa lagt af stað úr fjósinu fyrir hjer um bil tveim klukkutímum, undir eins og hitt fólkið, Jón Magnússon, Björn smali, Órækja, Katrín og Sólveig. Í þessu kemur Jón Magnússon inn í bæinn. Hann vissi ei hvað hann fór, fyr en hann var kominn upp á smiðjuna og datt ofan af henni og áttaði sig þá fyrst. En þegar hann var að klifra upp á smiðjuna, heyrði hann í bylnum skamt frá sjer, að Katrín sagði: „Dett jeg enn.“ Litlu þar á eftir kom Björn smali. Hann hafði rekið sig á brunnausuna og kannaðist þar við, hvert

hann var kominn. Nú vantaði Órækju og báðar konurnar, Katrínu og Sólveigu. Fer þá Benóný aftur út í hríðina, en enginn treystist til að fylgja honum eftir. Gengur hann í öll húsin og hvert kot, og kemur heim í vökulok, jafnnær.

Prófastur ljet setja ljós í hvern glugga og hringja öllum kirkjuklukkum, en alt kom fyrir ekki. Leið nú svo nóttin, að þau komu ekki heim. Morguninn eftir var veður miklu minna, en þó harðviðri mikið. Um fótaferðartíma kemur maður heim á staðinn frá Vindási, sem er nyrst og fjærst allra kotanna, er liggja undir Oddastað. Hann segir, að þar hafi tveir menn fundist í fjósinu hjá sjer, karl og kona, bæði skamm-kalin. Það voru þau Sólveig og Órækja. Þeim hafði lent saman í hríðinni aftur og aftur, þótt veðrið skildi þau öðru hvoru. Fyrst höfðu þau komið að Kumla og vildi Sólveig láta þar fyrir berast, en það vildi Órækja með engu móti, enda átti hann þar ekki friðland og vildi fyrir hvern mun komanst heim. En það fór svo, að þau hröktust í burtu, og komust undir dag að Vindási, og skriðu þar í fjósið. Var Sólveig þá svo máttfarin, að hún varð að leggja tennurnar við járnhespu þá, er fjósinu var lokað með, til þess að ná henni fram af kengnum. Fylgdi þá hespunni skinn alt af vörum hennar og voru það ekki lítil örkuml auk annars. Katrín fanst ei þann dag og ekki fyr en daginn eftir. Hafði hún hrakist austur á rima, langt frá bænum, og fanst þar örend og hræðileg ásýndum. Var hún því næst borin heim og með því hún var svo fyrirferðarmikil, þar eð föt hennar stóðu sem stokkur, komst hún ekki inn um

neinar dyr, nema í reiðingaskemmuna. Fjekst þá enginn til að þíða af henni fötin fyrir sakir hræðslu nema Guðfinna ein. Hún sat þar alein yfir líkinu næstu nótt, og vildi engan hafa hjá sjer. Er það eitt til dæmis um kjark Guðfinnu, að hún þorði að sitja alein yfir svo illa útleiknu líki næturlangt í útihúsi langt frá öllum mönnum, og það líki þeirrar konu, er rjett áður var váveiflega farin af þessum heimi, og í þungu skapi ef ekki haturshug til Guðfinnu.

Þannig lýkur frásögninni af hinum nafntogaða Þorraþrælsbyl í Odda; er hún tekin eftir frásögn Þorsteins Runólfssonar, og enn fremur er hjer stuðst við frásögn Páls Melsteðs, en hann átti fyrir fyrri konu dótturdóttur Gísla prófasts. Segir hann, að tengdamóðir sín hafi verið 11 ára, þá er þetta varð, og munað alt greinlega, og hafi hann skrifað það upp eftir henni. Heimildirnar eru því hinar bestu og áreiðanlegustu.

Vorið 1807 deyði Gísli prófastur, en ekkja hans, Jórunn, mun hafa dvalið í Odda fram til vorsins 1810, er hún flutti suður að Brekku á Álftanesi til Sigríðar dóttur sinnar, er átti Ísleifur Einarsson assessor. Þar dó hún 11. júlí 1837. Það er athyglisvert, að við dauða hennar koma upp hinar alkunnu reimleikasögur Oddastaðar. Geta má nærri, að sumir hafi viljað eigna þær Katrínu, er úti varð í bylnum, en hinir eru miklu fleiri, sem hafa haldið því fram, að það hafi verið Jórunn gamla, sem leitaði austur á fornar stöðvar, og gengi ljósum logum á staðnum, þá er nátta tók.

Þar sem jeg ólst upp, var tvíbýli. Í vesturbænum

var gömul kona, sem Þóra hjet, greind og vel minnug. Hún var hjá Helga biskupi, þá er hún var á 12. árinu. Sagði hún, að það hefði margoft komið fyrir, að gestir, sem áttu að sofa í herbergjum þeim, er reimleikarnir voru mestir í, hefðu flúið um miðja nótt, og komið á nærklæðum einum til vinnumanna og sofið hjá þeim það, sem eftir var nætur. Enn fremur hafði húsmóðirin sjálf og heimamenn fleiri sjeð og þekt gömlu konuna, þar sem hún sveimaði á milli herbergja. Voru nokkrir á staðnum, sem höfðu sjeð hana í lifanda lífi, og bar lýsingum þeirra saman að öllu leyti. Prestur var sá eini, er lengi vel barði alt umtal niður; kvað það sprottið af hindurvitnum og hjátrú. En kvöld eitt, nokkru eftir veturnætur, kom eitthvað það fyrir hann, sem hann vildi þó ekki segja frá, en bannaði öllum stranglega að hafa nokkur ólæti í vesturbyggingunni, og lagði svo fyrir, að aldrei skyldu gestir sofa þar, nema fleiri væru.

Fyrstu prestsskaparár sjera Ásmundar Jónssonar, prófasts, í Odda, var þar eitt sinn gestkomandi mjög merkur maður, er flestir hafa heyrt getið. Þetta var síðla í ágúst, en nótt ekki orðin dimm. Þegar þjónustustúlka sú, er vísaði honum til sængur, var farin, læsti hann herberginu, afklæddi sig og hagræddi sjer sem best í rúminu, en hvernig sem hann reyndi, gat hann ekki sofnað. Þegar komið mundi vera nær miðri nóttu, heyrðist honum gengið eftir ganginum þungt, en þó hljóðlega, og því næst að hurðinni, henni lokið upp, og sýndist honum sem inn á gólfið kæmi há, þrekvaxin kona í ferðaföt-

um. Gekk hún að fótagafli þess rúms, er hann lá í, og þótti honum sem hún þrýsti rúmfötunum fast að fótum sjer; fanst honum þá sem hann yrði allur máttvana, og líkti hann því við það, er ís eða helkalt vatn legðist að fótum sjer. Færðist þetta upp að knjám, og hugði hann þá ekki annað, en að hvert augnablik væri sitt síðasta. Hjer var því annaðhvort að duga eða drepast. Hann gerði alt í einu síðustu tilraun og spratt upp með hljóði miklu; fanst honum þá sem martröð eða þungu bjargi væri af sjer ljett. Hann sá þá sömu sýnina, er hann hafði áður sjeð, líða fram eftir gólfinu, og hverfa út um dyrnar. Hann klæddist þá fljótlega, og með því, að hann vildi ekki gera ónæði, er hann vissi, að allir voru komnir í fasta svefn, gekk hann alklæddur um gólf, það sem eftir var nætur, alt til þess er honum var fært morgunkaffið. En þeir sem þektu skaplyndi hans gátu þess til, að það mundu ekki hafa verið neinar fyrirmyndarbænir, er hann las út af næturgistingu þessari.

Veturinn 1880—1881 voru þrír piltar til kenslu í Odda hjá sjera Guðmundi Helgasyni: Ólafur, Runólfur og Halldór. Halldóri var jeg vel kunnugur, því að við vorum fæddir og uppaldir á sama heimilinu, og áttum jafnan leik saman. En síðar fór hann til Ameríku. Þessir piltar sváfu allir í einu af þessum herbergjum, er jeg mintist áður á, og sváfu þeir saman Ólafur og Halldór, en Runólfur einn í rúmi. Þeim varð oft skrafdrjúgt, og fóru þeir seint að sofa, en varla kom sú nótt, að þeir yrðu ekki einhvers slæðings varir. Jeg hefi ekki tíma til að

geta þeirra sagna, sem hann sagði mjer, en þess má þó geta, að á jólaföstu flutti Runólfur sig til þeirra, svo að þeir lágu þrír saman úr því, þó að þröngt væri, og ljetu marga nótt ljósið lifa, þar til fór að birta.

Þessar og þvílíkar sögur gengu um Odda, alt þangað til er sjera Skúli Skúlason kom þangað, og bærinn var rifinn og timburhús reist.

Vorið 1879 fór piltur að Odda, sem Guðmundur hjet og var Björnsson. Hann var bróðir Halldórs þess, er fór til Vesturheims, og ári eldri en hann; og man jeg þegar hann kom um haustið að finna móður sína og systkini. Þá var ekki um annað talað en dýrðina og draugaganginn í Odda, og báðir brunnum við Halldór af löngun til að sjá þennan nafnfræga stað. Halldóri auðnaðist það um haustið 1880, en mjer 1881. Þá sá jeg Oddastað í fyrsta sinni, og það verð jeg að segja, að fáir eru þeir staðir, er jeg hefði fremur kosið að sjá þá en Odda. Þeir voru þar fyrir, vinir mínir, Guðmundur og Halldór; höfðum við margs að minnast, og var því alt fólk löngu til tíða gengið, er við mundum eftir messu. Ekki man jeg nú lengur ræðu þá, er klerkur flutti. En þó man jeg, að það snart mig hálfónotalega, er prestur beindi þeirri spurningu til vor, sem í kirkjunni vorum, hvort við værum hingað komin af því, að við elskuðum Jesú Krist, eða fyrir sakir forvitni eins og lögvitringurinn, að eins til að freista Jesú.

Eftir messu fjekk jeg að skoða alla kirkjuna, og grafletur, er á veggjunum hjengu, svo og legsteina

í kirkjugarði, og man jeg það, að legsteinninn yfir Skúla lækni bar langt af öllum öðrum.

Helgi vinur minn fylgdi mjer að lokum út yfir Rangá, og er hann sneri heim aftur, og jeg sá hann hverfa fyrir túngarðinn á Helluvaði, var sem því væri að mjer hvíslað, að við ættum ekki framar að sjást.

En 1897 kom jeg að Odda í síðasta sinn, og var þá heldur orðin breyting á: eitt timburhús komið í staðinn fyrir hina tignarlegu bæjarrönd, allur hinn forni staður jafnaður við jörðu; kirkjan bygð upp að nýju og öll „ornament“ farin; hið gamla var horfið, og alt orðið nýtt.

Við, sem hjer erum stödd, höfum sum að minsta kosti alist upp í sveit, og mörg okkar hafa vafalaust sjeð ýmsa merka sögustaði á landi hjer. En nú, þegar við erum sest hjer að, virðist mjer sem það geti verið holt fyrir okkur að heimsækja þessa staði í anda, svona endur og eins, til þess að litast þar um og sjá, hversu þar var umhorfs áður fyr, og bera það saman við það, sem nú er. Og breytingin er mikil, þótt hitt blandist vist fæstum hugur um, að fæstar þeirra sjeu til bóta, þær er gerðar hafa verið á hinum fornu höfuðbólum þessa lands. Nú skapast eigi sögur um þessa staði, svo sem áður, því að öll „hjátrú og hindurvitni“ hafa orðið að víkja fyrir ljósi „þekkingar og menta“. En með angurblíðri tilfinningu hljótum við þó að sakna margs, er við horfum í anda til þessara staða, þar sem áður hjeldust í hendur auður og alls konar rausn. Nú eru horfnir hinir fornu staðir með 10—12 þiljum, bæj-

arröndin, er blasti einhvern veginn svo hlýlega og þó alvarlega við komumanninum, og í staðinn er komið sviplítið timburhús, þegar best lætur. Á slíkum heimilum var jafnan margt hjóna, oft 20—30 manns eða meira. Og er lokið var dagsins erfiði, skipuðust allir í eitt herbergi, og var þar tekið til handavinnu og ýmissa dútlverka, en einn skemti jafnan með rímnakveðskap eða sögulestri, og svo að vökulokum lauk allra störfum með sameiginlegri bæn:

Nú legg jeg aftur augun mín
í guðs nafni og trausti, o. s. frv.

En hvað er nú eftir af öllu þessu? Staðirnir mega heita í eyði af fólksfæð, að eins smá búhokur, og alt niðurnítt, og alt „ólíkt því sem var í fyrri daga;“ sögurnar nálega gleymdar með öllu, og nú má það heita sjaldgæft að hitta nokkurn, er eigi skammist sín fyrir rímurnar. Allir eru orðnir svo mentaðir, að það er síst furða, þótt þeir muni nú fátt það, er áður var haft til skemtana á landi hjer. Dagblöð, göturáp, tombólur, dans og annað af því tæi kemur í stað bóka í kaupstöðunum, og þessi dýrð freistar unga fólksins í sveitunum, og það flýr til þorpanna, svo að bændum þykir „landauðn nema.“

---

Oss ætti öllum að vera helgir hinir fornu merkisstaðir. Þar hefir staðið vagga margra hinna ágætustu barna þessa lands, karla og kvenna. Og þótt nú líti ekki sem best út, er þó vonandi, að sú komi tíð, að mönnum skiljist, hve mikið er í húfi, ef menn

gleyma öllu því, er merkast er og best í sögu og háttum þessarar þjóðar.

---

Og hvers vegna valdi jeg þetta umtalsefni í kvöld? Það gerði jeg vegna þess, að nýlega hjeldu hjer fjölmenna samkomu þeir menn, sem annaðhvort eru fæddir og uppaldir í Rangárvallasýslu, eða hafa dvalið þar langdvölum. Sá maður, sem fyrir áðurnefndri samkomu gekst (Jón Þórðarson kaupmaður), sýndi með því sem oftar, að hann vildi halda uppi sóma hjeraðsins, og hjet jeg því þá, þótt jeg gæti ekki sótt samkomuna, að jeg skyldi segja sögu, er snerti þetta hjerað, við fyrsta tækifæri. Og jeg hygg, að við, sem lífsstraumurinn hefir flutt hingað, gætum haft gott af því að rifja upp fyrir okkur við og við æskulíf vort, og minnast bernskustöðvanna. Það gæti orðið til þess, að sum okkar, að minsta kosti, yrðu ekki eins hrifin af kaupstaðardýrðinni, og að færri leituðu brott úr sveitunum en raun er á orðin.

---

## Sjera Þorvaldur Böðvarsson.

Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. í Hafnarfirði 6. okt. 1916.

---

Heiðruðu fjelagsbræður!

Sigurður Högnason, prestur í Einholti í Hornafirði og prófastur í Austur-Skaftafellssýslu, er fæddur 1654; vígður prestur til Einholtsþinga í Hornafirði 1679 (25 ára gamall); skipaður prófastur í Austur-Skaftafellssýslu 1703, og síðar um nokkurn tíma prófastur í báðum Skaftafellssýslunum. Þegar hann andaðist (1732) 78 ára gamall, hafði hann þjónað sama brauði 53 ár. Síra Sigurður er talinn með fremstu prestum sinnar tíðar, og jafnan getið, þegar upp eru taldir helstu klerkar Skálholtsstiftis. Espólín telur hann merkisprest og barnafræðara góðan. Hann var í báðar ættir kominn af hinum göfugustu mönnum þessa lands. Kona hans, Guðrún Böðvarsdóttir, var einnig vel kynjuð í báðar ættir.

11. ágúst 1693 fæddist þeim sonur, er heitinn var Högni eftir föðurafa sínum. Foreldrar hans komu honum í Skálholtsskóla, þá er hann var 13 vetra (1706). Ári síðar gekk hin mannskæða Stóra-bóla. Högni hefir þá að líkindum verið nýkominn heim, því hann lá mjög þungt haldinn á heimili foreldra

sinna, en batnaði þó, og fór aftur í skólann og útskrifaðist þaðan 1709.

Vildi þá Jón biskup Vídalín, að hann tæki að sjer barnafræðslu, og bendir það til þess, að hann eins og faðir hans hafi snemma þótt vel til þess starfa fallinn. Sagan segir, að hann hafi beiðst undan þessu, enda er líklegt, að faðir hans hafi ráðið honum frá því og ætlað honum annan starfa, því að sumarið 1714 varð hann aðstoðarprestur föður síns, og vígðist sama ár. Árið 1717 veitti Niels Fuhrmann amtmaður honum Kálfafellsstað í Hornafirði, og 1726 Stafafell í Lóni, en ekki tók hann þó við því embætti fyrr en 1727. Árið 1721 skipaði Jón biskup Árnason hann prófast í Skaftafellssýslum báðum. Þjónaði hann prófastsdæminu öllu til 1738, en hálfu til 1750, en þá var honum veittur Breiðabólsstaður í Fljótshlíð. 1748 fjekk hann sjer til aðstoðar Stefán son sinn, og var hann vígður aðstoðarprestur hans 1749, og var síðan með föður sínum að Breiðabólsstað.

Sjera Högni var hinn merkasti prestur og lærður vel. Harboe biskup ljet hann þýða að nýju lærdómskver Pontoppidans, og þótti þýðing Högna miklu betri en sú, er áður var til. Högni var mjög vel að sjer í lögum, og varði eignir og rjett kirkjunnar með odd og egg.

Árið 1751, 25. júní, var hann dæmdur frá kjóli og kalli fyrir húsrof á Hryggvelli, varð af því langt mála og flókið, en lauk þó þannig, að hann hjelt sóma sínum og fullum heiðri. — Árið 1759 misti hann sjónina og mátti ekki lesa á bók, þó embættaði

hann við og við alt til ársins 1762, er hann misti Guðríði konu sína, er jeg mun síðar minnast á.
1763 afhenti hann staðinn Stefáni syni sínum, en hjelt eftirgjaldinu af Sámsstöðum og fleiri jörðum sjer til uppeldis.
Högni prestur andaðist 7. júlí 1770, sjötíu og sjö ára; hafði hann þá verið prestur í fimtíu ár.
Sjera Högni var hinn mesti athafnamaður, og fremri flestum sínum samtíðarmönnum að dugnaði. 1718 kvongaðist hann Guðríði Pálsdóttur, er komin var af Lofti ríka, og stórættuð í báðar ættir. Með henni átti hann 17 börn, er nú skulu talin:

Páll, prestur á Skúmsstöðum, síðar á Torfastöðum.
Halldór, prestur í Meðallandi.
Stefán, prestur á Breiðabólsstað.
Böðvar, prestur á Mosfelli.
Þórður, prestur á Refsstað.
Ögmundur, prestur að Hálsi.
Sigurður, prestur að Ásum.
Árni, prestur að Reykjadal.

Dætur hans voru þessar:

Guðrún, elst; Þórunn, Sólveig, Hólmfríður, Sólveig yngri, Guðrún yngri, Vigdís, Elín og Guðrún, og var sú yngst.

Fyrsta brauðið, er sjera Högni fjekk, var að mati 18 ríkisdalir; annað 30 dalir, og mundu slíkt þykja rýrar tekjur nú á dögum. En með frábærum dugnaði tókst honum þó að menta börn sín öll þau, er úr æsku komust, þótt hann, sem nærri má geta, væri

fátækur, að minsta kosti fyrstu árin; urðu allir synir hans prestar, og mun vera fágætt í sögu þessa lands, að átta bræður verði allir klerkar, enda þótti tilkomumikið, er Högni prestur, með sonum sínum átta, öllum prestskrýddum, var til altaris í Breiðabólsstaðarkirkju. Eftir að hann kom að Breiðabólsstað, græddist honum fje, enda voru þá börn hans flest uppkomin, og sumir af sonum hans orðnir prestar; en samt sem áður hafði hann mikinn kostnað. Hann ljet reisa mjög veglega kirkju á Breiðabólsstað, og sparaði ekkert til, því að rausn hans var frábær og skörungsskapur.

Böðvar sonur hans, sem áður er nefndur, fjekk veitingu fyrir Mosfelli í Mosfellssveit og var vígður sama ár (1753). Hann var talinn kennimaður góður, djarfur og hreinskilinn. Árið 1755 kvongaðist hann Gyðríði Þorvaldsdóttur. Hún var af góðum ættum og talin mikilsháttar kona. Árið 1758, 21. maí fæddist þeim hjónum sonur, er skríður var Þorvaldur, eftir móðurafa sínum. Sveinninn varð snemma þroskamikill og þótti líklegur til náms. Af smásögu er hann segir frá, má ráða, að hann hafi verið minnugur. Sagan er svona: „Þorbjörg amma mín komst hjer suður á land, og andaðist á Mosfelli hjá foreldrum mínum. Þá mun jeg hafa verið á 3. árinu, og er eins og mig ranki eitthvað við henni; og oft var mjer svarað um, hvernig mjer varð við, þegar jeg frjetti látið hennar („hún hættir þá að æa")". Þorvaldur varð snemma læs og næmur á alt, er hann heyrði. Á 6. ári lærði hann Ponta. Kverið var skrifað, fyrstu arkirnar með hendi föður hans, miðjan

með hendi Páls Sveinssonar á Gufunesi, og svo tvær síðustu arkirnar með hendi sjera Böðvars. Þá var hann og látinn læra ýmislegt fleira, meðal annars eitthvað í Söngsaltara sjera Jóns píslarvotts. „Þetta gekk greitt; enda mun tilsögnin hafa verið einhver hin besta, sem auðið er að fá, þar sem móðir mín var.“ Á áttunda ári byrjaði hann að læra undirstöðuatriði latneskrar málfræði, og segist hafa verið sæmilega fær í öllum beygingum latínunnar, þá er hann var níu ára gamall. Tíu ára gömlum var honum komið til kenslu til Þorleifs Bjarnasonar prófasts í Reykjaholti; hjá honum var hann tvo vetur, og segir að fyrri veturinn hafi hann nálega ekki gert annað en skrifa, því áður en hann kom þangað, hafi skrift hans verið með litlu lagi. Þrettánda aldursárið var hann heima hjá föður sínum. Faðir hans hafði sótt um skóla fyrir hann í Skálholti, en ekki fengið vegna þess, að sveinninn þótti of ungur, enda ófermdur. Þenna vetur notaði hann vel, meðal annars byrjaði faðir hans að kenna honum grísku, sem hann segir að hafi orðið sjer að miklu liði síðar meir. Þá fjekst hann og mikið við að yrkja, þenna vetur, og meðal annars sneri hann nokkru af Tímarímu á latínu; segir hann, að faðir sinn hafi hent gaman að skáldskapnum, og hvatt hann til að halda áfram og vanda sig. Að líkindum hefir skólaleyfið fengist sumarið 1772, því þá sendi faðir hans hann austur að Torfastöðum til sjera Páls bróður síns, og ljet ferma hann þar um haustið. Og nokkru síðar var hann til altaris í Hrunakirkju ásamt Jóni Finssyni, bróður Hannesar biskups, o. fl.

Nokkrum dögum síðar kom hann í Skálholtsskóla og varð hinn sjötti í neðri bekk. Gekk honum námið ágætlega, enda var hann vel undir búinn, þó ungur væri. Lestur Nýjatestamentisins á grísku varð honum ljettur, vegna undirbúnings þess, er hann hafði fengið hjá föður sínum, og að líkindum hefir hann verið flestum fremri í þeirri grein þeirra, sem þá voru í skóla.

Skólaveru sinnar og skólabræðra minnist hann ætíð hlýlega. Hann útskrifaðist úr Skálholtsskóla með góðum vitnisburði vorið 1774, eftir tveggja ára dvöl, 16 ára gamall, og fór heim til foreldra sinna að Mosfelli.

Ári síðar (1775) hefir faðir hans brauðaskifti við Jón prest Hannesson í Marteinstungu. Fluttist sjera Jón vestur að Mosfelli, en sjera Böðvar með fjölskyldu sína austur að Marteinstungu, og settist þar að.

Í því prestakalli voru þá, eins og enn í dag, þrjár kirkjur, Marteinstunga, Hagi og Árbær, og var Marteinstungukirkjusókn þá talin nálega eins fjölmenn og báðar hinar til samans. Prestssetrið var í Guttormshaga, en þó bjuggu prestarnir stundum í Marteinstungu. Brauðið var kallað Efri-Holtaþing.

Sjera Böðvar bjó þetta ár í Marteinstungu, en flutti vorið eftir að Guttormshaga, og bjó þar þau fáu ár, er hann var prestur í Efri-Holtaþingum.

Margar sagnir hafa geymst þar eystra fram á þennan dag um vinsældir þeirra feðga, einkum Þorvalds. Hafði þá ekki þótt annar unglingur líklegri til hamingju en hann eða efnilegri; vera má, að

þaðan stafi sú mikla ást, er gamlir menn höfðu þar alment á sálmum hans. (Mjer er óhætt að fullyrða, að þegar jeg var að alast þar upp, kunni flest roskið fólk utanbókar sálma hans, þá er standa í gömlu sálmabókinni; lærði jeg þá flesta, er jeg var ungur og kann enn í dag, og tel þá næsta Passíusálmunum. Það þótti því mörgum heldur skarð fyrir skildi, þegar nýja sálmabókin kom, og flesta sálma sjera Þorvalds vantaði þar í, en aðrir nýjir komnir í staðinn, sem menn höfðu ekki sjeð áður.)

Þótt Böðvar prestur væri reglusamur og kona hans ráðdeildarsöm og dugleg, mun hann hafa verið fátækur, er hann kom austur, og ekki auðgaðist hann þau fáu ár, er hann var þar, enda var brauðið tekjulítið og rýrt, þótt erfitt væri.

Hins vegar var honum mikill styrkur að Þorvaldi syni sínum um öll vinnubrögð, því hann var strax á unga aldri ólatur og mikill verkmaður. Sjálfur segir Þorvaldur síðar: „Jeg var þessi ár vinnudrengur hjá foreldrum mínum,“ og síðar, þegar hann stóð upp á sitt besta, segir hann um sig og Guðmund bróður sinn: „Því við bræðurnir vorum verkmenn ekki í lakara lagi.“ En þótt hann geri eigi sjálfur meira úr dugnaði sínum en þetta, mun hann þó hafa verið í gildasta lagi. Það er sagt til dæmis um dugnað Þorvalds, að hann hafi verið tveggja manna maki við slátt, og svo var um önnur störf. — Væri lærdóm hans eða skáldskap hrósað svo hann heyrði, vjek hann jafnan talinu að öðru, og vildi eigi á slíkt minnast.

Sóknarmenn sjera Böðvars urðu því miður að sjá

honum á bak eftir örfá ár, og var þeim engu síður en vandamönnum hans, hinn sárasti söknuður að fráfalli hans, og það því fremur sem það bar að mjög sviplega.

Sunnudaginn 10. janúar 1779 flutti (las) Böðvar prestur messu í Hagakirkju. Regn var mikið og leysingar. Guttormshaga er skamt í millum og Haga, en lækur einn er þar á milli, er Högnalækur heitir. Prestur var fyrstur frá kirkjunni, og þegar hann kom að læknum, var hann byrjaður að ryðja sig. Prestur stökk út á stóran jaka og ætlaði á þann hátt að komast yfir lækinn, en jakinn brotnaði og fór prestur á kaf. Sagt er að stúlka, er var á heimleið frá kirkjunni, kæmi samstundis að læknum, en fengi ekki að gert, en kona prestsins, er kom að í þessu, gat náð í hann og dregið hann upp úr; var prestur þá með lífsmarki en andaðist í höndum þeirra, og var líkið borið heim að Haga og lagt í kirkjuna. Þetta sviplega fráfall varð öllum hinn mesti harmur, því prestur hafði verið elskaður og virtur af öllum, og var þar að auki á besta aldri (52 ára gamall). Þó var missirinn hvað mestur fyrir Þorvald son hans, er þá var að eins 21 árs gamall, og varð að taka að sjer heimilið og annast móður sína og systkini.

Næsta vor var sjera Ólafi Eiríkssyni veitt brauðið. Hann var búlaus og ókvongaður. Samdist svo með honum og ekkju sjera Böðvars, að hún skyldi búa á staðnum, en hann hafa hjá henni fæði og húsnæði.

Bjó hún næstu ár í Guttormshaga, og segist Þorvaldur hafa verið fyrirvinna hjá móður sinni þau árin. Árið 1781 fluttist hún ásamt börnum sínum að

Breiðabólsstað í Fljótshlíð, til sjera Stefáns Högnasonar, mágs síns.

Það vitni ber Þorvaldur föðurbróður sínum, að hann hafi verið sönn fyrirmynd í trúrækni, guðsótta og allri ráðvendni.

Árið 1782 gekk Þorvaldur að eiga Rannveigu Stefánsdóttur, frændkonu sína, hún var talin fyrirmynd ungra kvenna að fegurð og mannkostum. Fluttu þau þá frá Breiðabólsstað að Flókastöðum, sem er kirkjujörð skamt frá Breiðabólstað, og bjuggu þar fyrsta árið á hálfri jörðinni, síðar allri. Ári síðar varð Þorvaldur aðstoðarprestur hjá tengdaföður sínum, og var vígður annan sunnudag eftir þrettánda (1783). Börn sjera Þorvaldar og Rannveigar voru þrjú, og ljetust þau öll í æsku. Þriðja barnið var lagt í kistu móður sinnar; hún andaðist eftir miklar þjáningar úr bólunni 29. desember 1785, og var jörðuð 4. janúar 1786. Sjera Þorvaldur tregaði konu sína mjög og óskaði að mega fylgja henni í gröfina; en þótt hann væri alt af yfir veikum, kendi hann sjer einskis meins.

Það er gamalla manna sögn, að margir af fegurstu sálmum hans hafi til orðið þenna vetur, og sannar það, ef satt er, „að gullið skírist en bráðnar ekki í eldinum, sje það hreint.“

Sumarið eftir (1786) gekk hann að eiga Guðrúnu Einarsdóttur, er ráðskona hafði verið hjá Þorsteini sýslumanni á Móeiðarhvoli. Guðrún var mannkosta kona, ráðdeildarsöm og vel gefin og minnist sjera Þorvaldur hennar jafnan með ást og virðingu. Ári síðar fæddist þeim sonur, sem Böðvar var heitinn

eftir afa sínum. Hann var elsta barn sjera Þorvalds, er úr æsku komst, og seinna hinn merkasti maður.

Þá um haustið verður sá atburður, að stúlka nokkur, er Margrjet hjet, fæddi sveinbarn, er skírt var Guðmundur, en um faðerni drengsins var ekki getið að sinni, en sá orðrómur ljek á, að sjera Þorvaldur ætti.

Hannes biskup stefndi sjera Þorvaldi fyrir prestadóm, og játaði hann sig vera föður sveinsins, og var hann frá dæmdur kjóli og kalli.

Hann fjekk nú að reyna, að veröldin er jafnan sjálfri sjer lík. Áður hafði hann notið mikillar virðingar meðal stjettarbræðra sinna og almennings, en nú sneru flestir við honum bakinu; nágrannaprestur hans og vinur, sjera Runólfur Jónsson á Stórólfshvoli, hafði verið sækjandi málsins gegn sjera Þorvaldi, er hann misti „prestinn“.

Sjera Þorvaldur er ekki margorður, er hann lýsir högum sínum í þessu mótlæti, en segir þó, að engum vilji hann óska þess, sem hann hafi þá orðið að bera, því að í þesskáttar krigumstæðum komi hver til dyranna eins og hann er klæddur; það hafi reynslan þá sýnt sjer. Þó lætur hann þess getið, hve sjera Gísli Thorarensen í Odda og kona hans hafi ætíð reynst honum trygðavinir og sýnt honum traust og virðingu. Jón Hjartarson í Akurey í Landeyjum og Anna Þorleifsdóttir kona hans slitu og aldrei vináttu við hann; þau tóku Guðmund launson hans til fósturs og ólu upp sem sitt eigið barn; mannaðist Guðmundur vel og varð merkur maður. Sjera Þorvaldur endurgalt þeim síðar þessa góðvild þeirra

með því að taka Hjört son þeirra til kenslu og menta, og varð hann síðar prestur.

Sjera Þorvaldur byrjaði nú þann starfa, er hann að meira eða minna leyti stundaði síðan alla æfi, en það var að kenna piltum undir skóla og sumum allan skólalærdóm. Meðan hann var á Flókastöðum tók hann pilta til kenslu á vetrum, og nafngreinir hann suma þeirra í æfiágripi sínu, svo sem Högna prest og síðar Jón son hans, er báðir útskrifuðust frá honum; Halldór Ámundason, er prófastur varð í Húnavatnsþingi o. fl. Lærisveinar komu til hans hvaðanæva og sýnir það, hver ágætis kennari hann hefir verið. — Þessir og margir aðrir lærisveinar hans urðu síðar hinir merkustu menn. Að öllum líkindum hefir hagur sjera Þorvaldar verið erfiður þau ár, er hann bjó á Flókastöðum embættislaus, enda fjekk hann 1792 Thorkilli barnaskólann, sem þá var stofnaður á Hausastöðum í Garðahverfi og átti hann það að þakka tillögum Páls Þorlákssonar prests á Þingvöllum fornvinar síns, og flutti hann sama ár suður með konu sína og börn. Jörðin Hausastaðir fóðraði fjórar kýr. Launin voru 30 ríkisdalir og 18 rd. með hverjum dreng og 14 með stúlkum, svo ekki voru launin ýkja há.

Fyrsta veturinn hafði hann 16 börn til kenslu; segir hann að fólkshaldið hafi orðið sjer ærið kostnaðarsamt. Það telur hann eitt hið mesta happ, er hann fluttist suður, að hann kyntist þar merkum mönnum, er hann naut styrks af; nefnir hann þá Geir biskup Vídalín, Sigurð sýslumann Pjetursson o. fl., er lánuðu honum nytsamar bækur, er hann kunni

manna best að færa sjer í nyt. Enn fremur komu ríkir og mikils metnir menn sonum sínum til hans; en það sem mestu skifti, var samlífið milli hans og lærisveina hans. Börn jafnt sem fullorðnir elskuðu hann og virtu, því um hann mátti segja, að hann væri „kennari af guðs náð“; eignaðist hann því skjótt marga vini, er bæði voru nemendur og vandamenn þeirra.

Nú reyndu ýmsir að útvega honum uppreist og prestsembætti, er hann þráði mjög að fá aftur, en það fórst fyrir, uns Ísleifur assessor Einarsson ritaði 1802 bænarskrá fyrir hans hönd, og kom svarið 3. júní 1803, með fullri uppreist; var honum þetta hið mesta gleðiefni, sem vænta má, og eigi síður konu hans, er mjög hafði þráð að sjá hann aftur í hempu. En eigi naut hún þeirrar gleði lengi, því að hún andaðist 1803; stóð hann nú uppi einmana með skólann, fimm börn sín og aldurhnigna móður, og var í talsverðum kaupstaðarskuldum, eftir því sem hann segir sjálfur. Að líkindum hefir móðir hans staðið fyrir búinu þann vetur, því hann segir, að sjer hafi verið mikill styrkur að aðstoð hennar, en hún var hinn mesti forkur, og þá vel ern, þótt aldurhnigin væri. Þessar kringumstæður knúðu hann til að sækja um prestsembætti, sem var ljettara og umsvifaminna en skólahaldið. Árið 1804, 9. maí, var hann settur til að þjóna Reynivöllum í Kjós, og fluttist þangað um vorið með alt sitt, en veitingu fjekk hann haustið eftir. Þá um sumarið, 20. júlí, gekk hann að eiga Kristínu dóttur Bjarnar prests í Bólstaðarhlíð; þótti þá ekki annar kvenkostur betri hjer á

landi en hún og þær Bólstaðarhlíðarsystur. Brúðkaupið var haldið í Nesi við Seltjörn. Kristín varð hin merkilegasta kona, eins og hún átti kyn til.

Sóknarmenn hans í Kjósinni tóku honum tveim höndum, og reyndust honum hið besta, enda vegnaði honum vel þau ár, er hann var á Reynivöllum. Hann naut vináttu æðri sem lægri, og sjest það best á því, að þeir bræðurnir Magnús konferensráð og Stefán amtmaður á Hvítárvöllum sendu honum sonu sína til náms og undirbúnings undir fermingu. Hann fermdi þá síðan vorið 1808. Þetta sýnir, hvert álit menn höfðu á honum, enda þótti þá enginn prestur landsins betri barnafræðari en hann.

---

Árið 1808 fjell skriða á Reynivelli, og tók af mestan hluta túnsins, og varð það til þess, að sjera Þorvaldur sótti um Holt í Önundarfirði og var veitt það 1810, og varð þá Böðvar elsti sonur hans aðstoðarprestur hjá honum og vígðist 1811. Þetta sama sumar fluttist hann búferlum að Holti með konu og börn. — Ferðin gekk vel, og kom hann þangað heilu og höldnu 3. júlí 1811. Hann hafði sent bækur sínar, handrit og ýmsa muni með fiskiduggu, er fór til Vesturlandsins, en svo slysalega tókst til, að duggan fórst með rá og reiða, og hefir aldrei til hennar spurst. Þetta var ómetanlegt tjón, því margt af því, sem fórst, einkum handritin, varð aldrei bætt. — Espólín getur þess, að fyrsta árið sem sjera Þorvaldur var í Holti, kæmist hann í lífsháska. Tveir menn fluttu hann sjóveg á báti, en þá skall á ofsa-

rok, svo að margir bátar týndust þar vestra. Bátnum, sem sjera Þorvaldur var á, hvolfdi og druknuðu báðir mennirnir, en hann bjargaðist í sker. Þetta var 11. nóvember 1811.

Sjera Þorvaldur naut virðingar meðal stjettarbræðra sinna, og var kjörinn prófastur í vesturhluta Ísafjarðarsýslu 1817, og hjelt því embætti þar til er hann fluttist suður aftur. Fjárhagur hans mun hafa verið fremur erfiður, meðan hann var í Holti. Þegar hann fluttist vestur, átti hann 5 börn, er öll voru fædd á Reynivöllum, en eftir að hann kom að Holti, bættust 8 við í hópinn; alls átti hann 13 börn með seinustu konu sinni.

Þótt sjera Þorvaldur nyti almennrar hylli og væri vel metinn í söfnuði sínum þar vestra, þá virðist þó svo sem aldrei hafi hann unað þar hag sínum, og jafnan mun hann hafa langað suður. En líklega hefir það þó ráðið mestu um, að hann hugsaði að kona hans með 12 ung börn, yrði illa stödd á útkjálkabrauði, ef hans misti við. Þetta varð til þess, að hann sótti um Mela- og Leirárþing og voru honum þau veitt; hann fluttist þá frá Holti, og settist að á Melum 1822.

Svo segir sjera Þorvaldur sjálfur, að aldrei hafi fjárhagur sinn verið erfiðari, en meðan hann bjó á Melum. Staðurinn var mjög niðurníddur, og varði hann miklu fje til þess að byggja hann upp. Mörg af börnum hans voru enn í ómegð, en hin elstu var hann þá að kosta til náms, svo sem þá Ólaf, Björn og Stefán. En þrátt fyrir fátæktina var hann hverjum manni hjálpsamari, og var hús hans opið þeim,

er til hans leituðu og hjálpar þurftu, einkum námfúsum, fátækum piltum; þannig kendi hann ókeypis Ólafi Pálssyni, er seinna varð prestur í Guttormshaga, og enn tók hann fátækan pilt, er Jón hjet Guðmundsson, úr Reykjavík, talinn skarpgáfaður unglingur. Jón byrjaði að læra undir skóla á Melum hjá sjera Þorvaldi, fór svo í Bessastaðaskóla, en varð að hætta námi sökum veikinda; fór þá til sjera Þorvalds og var hjá honum enn einn vetur og kendi yngstu börnum hans; fór svo síðar í Bessastaðaskóla og lauk þar námi. Hann varð seinna tengdasonur sjera Þorvalds og mjög nafnkunnur maður hjer á landi, bæði stjórnmálamaður og ritstjóri.

Eftir nokkur ár sótti sjera Þorvaldur um Holt undir Eyjafjöllum, og fjekk veitingu fyrir brauðinu; fluttist hann þangað með alt sitt vorið 1827, og telur það hið mesta hamingjuspor æfi sinnar, enda mun honum hafa vegnað yfirleitt mjög vel í Holti. — Börn hans komust nú hvert af öðru úr ómegð, og kostuðu öll kapps um að verða honum til ánægju og sóma. Honum græddist fje, því brauðið var gott og tekjumikið. Hann naut vináttu og virðingar hinna bestu manna, því nú var flestum farið að skiljast, hvílíkt dagsverk hann hafði unnið, og var að vinna fyrir land og þjóð. Sjera Þorvaldur hafði fyrsta árið bú í Holti, en slepti þá staðnum við Stefán tengdason sinn, og tók hann sjer til aðstoðarprests, en áskildi sjer 3 kýr í heyjum, og hálfar allar tekjur prestakallsins sjer og sínum til viðurlífis. Hann var þá orðinn 70 ára að aldri, en þó ern, svo sem ungur væri, og sístarfandi. Nú var

hann laus við búsáhyggjurnar, og sneri sjer því algerlega að bókum og kenslu; tók hann jafnan unglinga til kenslu og ritaði mikið. Hann tók og saman ræður til hvers helgidags, þýddi bækur og samdi ýmsar ritgerðir, sem allar eða flestar eru óprentaðar, enda sást hann aldrei iðjulaus.

Þegar Stefán tengdasonur hans fjekk Kálfafell, 1836, kallaði sjera Þorvaldur, „með leyfi háyfirvaldanna,“ Björn son sinn til aðstoðarprests sjer. Hann hafði þá þjónað Þönglabakka og Flateyjarþingum, en kom þá suður og settist að í Holti. Hugðu þeir nú gott til sambúðarinnar, en hún átti, því miður, að verða stutt. Sjera Þorvaldur hafði verið heilsuhraustur alla æfi, en þá um haustið tók heilsu hans mjög að hnigna. Sótti á hann fótakuldi og höfuðverkur, svo að hann varð stundum að leggjast fyrir, en þó hafði hann ferlivist. Hann steig í stólinn og prjedikaði á sunnudögum, kendi piltum og ritaði. Svo var og síðasta daginn, sem hann lifði, 21. nóvember. Þann dag var hann á ferli fram undir rökkur, og kendi piltum sínum og ritaði þess á milli. Nálægt miðjum aftni lagðist hann fyrir, en fjekk hóstakast, og kvartaði um sárindi fyrir brjóstinu, en sofnaði stutta stund, og kvaðst þá vera hress, er hann vaknaði, og nær albata; settist upp og fór að lesa í bók. Um náttmálabil greip hóstinn hann aftur, og vildu menn þá reyna eitthvað til að stilla hann, en hann kvað það óþarft, því slík hóstaköst væru jafnan undanfari dauðans. Klæddist hann meðan búið var um hann, en gekk síðan að rúmi sínu og háttaði. Börn hans gengu burt, svo hann gæti

sofnað, en Helga dóttir hans varð eftir og hagræddi undir höfðinu á honum. Heyrði hún, að hann sagði skýrt: „Jeg þakka þjer fyrir; það getur nú ekki farið betur.“ Skömmu seinna var hann liðinn. Þetta var um kvöldið, jöfnu beggja náttmála og miðnættis 21. nóvember 1836. Hafði hann þá lifað 78 ár og misseri betur. Hann hafði löngum sagt, að sú iðrun, sem á banasænginni er gerð, mundi ekki koma að miklu haldi, og látið sjer alla æfi um það hugað að áminna þá, sem honum voru handgengnir að breyta svo á heilbrigðum dögum, að þeir þyrftu ekki á henni að halda, er dauðann bæri að.

Sjera Þorvaldur var í hærra meðallagi á vöxt, og mikill um herðar og þrekvaxinn. Hárið jarpt framan af æfinni og fjell með lokkum, en hærðist með aldrinum, og gerðist nokkuð sköllóttur. Höfuðið var í stærra lagi; hann var þykkleitur og lítið eitt rjóður í kinnum, og lágu í hærra lagi kinnbeinin; nefið hátt og liður á; hakan lítil en munnur og varir í meðallagi og ljek jafnan bros um. Hann var ljós-móeygur, augun fjörleg og skarpleg, en þó blíðleg og stillileg. Allra manna var hann bjartastur á hörundslit. Málfæri hans var lipurt og rómurinn þægilegur, ekki hár nje hvellur, en þó hreinn. Engi var hann raddmaður, en þó lagsæll. Meðan hann gekk til vinnu (hann gekk að slætti þar til er hann var sextugur), þótti hann tveggja manna maki, að hverju sem hann gekk, snar, fylginn sjer og þolinn. Fram að fimtugsaldri svaf hann aldrei meira en fjórar klukkustundir í sólarhring; þoldi ferðavolk og vos manna best, djarfari og djarffærnari flest-

um mönnum; skjótráður i vandræðum og ráðsvinnur. Hverjum manni hvatari og ljettari til gangs. Lipur og kurteis í allri framgöngu, og fanst mörgum til, einkum útlendingum, er sáu, hve hann var háttprúður og kurteis og samferða tímanum í öllu.

Sjera Þorvaldur var þríkvæntur, eins og áður er sagt, og var þriðja kona hans, Kristín, komin undir sextugt, er hann andaðist. Konum sínum var hann blíður og ástríkur. Með þeim eignaðist hann 21 barn. (Sjá um afkomendur hans Niðjatal Th. Krabbe).

Öll voru börn hans, er úr æsku komust, vel gefin og gerfileg, og var hann þeim ástríkur og umhyggjusamur faðir, og sparaði ekki það, er hann gat, þeim til mentunar og frama.

Atgerfi sálar hans var frábært, og hafa samtíðarmenn hans, er við hann kyntust, lokið því orði á, að hann hafi verið með hinum gáfuðustu og bestu mönnum þessa lands, er þá voru uppi.

---

Það er ekkert smáræði, sem eftir sjera Þorvald liggur. Í Sálmabókinni, sem út kom 1801, eru um 62 sálmar eftir hann, flestir frumkveðnir. Segir Magnús konferensráð, að ekki sje þess að dylja, að bókin hafi mest ágæti af sálmum hans; og þótt nú sje að eins fáa af sálmum hans að finna í Sálmabók vorri, þá munu þó þeir sálmar, sem þar eru, seint fyrnast, svo sem þessir:

„Dýrð sje guði í hæstum hæðum“ og „Eitt á enda ár vors lífs er runnið“.

Sálmar sjera Þorvalds voru sjerprentaðir 1857.

Ýms kvæði bæði andleg og veraldleg voru prentuð í „Vinagleði“ og öðrum bókum, er þá komu út. Hann þýddi og ýmislegt; er sumt af því prentað í „Hugleiðingar fyrir altarisgöngufólk“, er út komu um 1800. En miklu meira liggur eftir hann óprentað, bæði í bundnu og óbundnu máli, svo og þýðingar, enda veit enginn, hve mikið hefir glatast, er hann misti handrit sín og bækur í sjóinn, eins og fyrr er getið.

Sjera Þorvaldur var vel að sjer í þýsku máli, og það er eftirtektarvert, að hann tók fyrst að leggja stund á þá tungu, eftir að hann kom úr skóla, og sýnir það elju hans og atorku, því oftast var fleiru að sinna en námi.

Sjera Þorvaldur var ekki örgeðja, en hafði fulla einurð á að segja það, er honum bjó í brjósti hverjum, sem í hlut átti, en hafði þó aldrei mörg orð um.

Hversdagslega var hann hægur og jafnlyndur, skemtinn og viðfeldinn, sparneytinn og hófsmaður um alt; hann var óeigingjarn og undi vel hag sínum, hvernig sem kjörin voru, og leitaði ekki á aðra. Hann var sístarfandi og mjög vandlátur við sjálfan sig, guðhræddur og guðelskandi, umhyggjusamur um hag sóknarbarna sinna og vandaði mjög kenningar sínar. Barnafræðari var hann hinn besti.

Á þessa leið lýsa honum samtíðarmenn hans; og að Hallgrími Pjeturssyni undanskildum, er hann talinn besta sálmaskáldið, er Ísland hafði þá eignast, og það er mælt, að fáir, sem ekki hafa komist til

meiri metorða en hann, hafi jafn miklu góðu til vegar komið.

Líklega hafa fáir á þeim tímum átt yfir að líta nytsamara og blessunarríkara starf á æfikvöldi sínu en hann, er hann leit yfir liðna æfi. — — —

Jarðarför hans fór fram 5. desember, og stóðu 12 prestar yfir moldum hans, og fjöldi annara manna utan- og innansveitar, ungir og gamlir, og flutti Tómas Sæmundsson, prófastur, snjalla og góða líkræðu. Textinn var valinn úr Lúk. 23, 28: Grátið ekki yfir mjer! — Jeg tek hjer upp að niðurlagi stuttan kafla úr ræðunni:

„Svo farðu nú í drottins friði, hjartkæri ættbróðir! þangað, sem er land þíns föður; yfir þjer skulum við ekki gráta; því hrygðartími þinn er á enda. Þeir eru framhjá farnir þeir tímarnir, er þú áttir að búa við skort og örbirgð, og lífið lagðist á þig af öllum þunga, og ljet þig kenna á öllum biturleik sínum. Þeir eru framhjá farnir þeir tímarnir, er þú stóðst einmana, er ættmenni þín vildi ekki við þig kannast — þeir tímarnir, er þú varst lítilsvirtur, er fáir urðu til að aðstoða þig, fáir til að hugga þig í hörmungunum. Þeir eru framhjá farnir þeir tímarnir, er þú stóðst grátinn yfir leiðum ástvina þinna. Yfir þínu leiði standa nú þeir, sem þú hafðir kærasta á jörðinni — kona þín og börn, vinir þínir og sóknarbörn — ekki með neinni uppgerðarsorg, heldur til að heiðra minningu þína, til að samfagna þjer: að þú hefir þá aftur fundið, er heim voru kallaðir á undan þjer. Vjer samfögnum þjer, að þú hefir hlotið væran blund, eftir svo fagurt dagsverk — að

þú ert frelstur frá skammdegis-myrkrunum, er þú skín nú sem sól í ríki þíns föður. Þú ert ekki dauður á meðal vor; minning þín lifir; hún lifir hjá vinum þínum; hún lifir hjá þínum mörgu lærisveinum. Já! meðan landið er bygt, skulu rit þín vitna um hjarta þitt og snild þína; kvöld og morgna skulu landsins synir og dætur minnast þín; með þínum orðum skulu þeir á veturna fela sig guði á vald, og á vorin syngja lof skaparans; með þínum orðum skulu þeir syngja um dásemdir sköpunarinnar, og á hátíðunum miklu um fæðingu lausnarans, pínu hans og upprisu; fyrir þín orð skulu þeir finna fegurð og sælu guðhræðslunnar; og við útför þína skulu þau ljóðin hljóma, er þú söngst um dauðann og eilífðina. Alt er það auðkennilegt, sem þín hönd hefir um fjallað — til vitnis um hvað langt þú barst af samöldrum þínum. Þegar jeg fyrst kyntist við þig, varstu aftur orðinn barn; það var auðsjeð, að líkaminn þröngvaði lífi sálarinnar; en aldrei hefir þó neinn fyrir mín augu borið, sem þjer væri líkur, þegar eitthvað bar í tal, sem við vísindin átti skylt — andans fjör lyfti þá líkamanum svo frá jörðunni, eins og hann ætlaði að fljúga upp í himininn. Nú eru brostin fjötur líkamans — hið jarðneska er þjer ekki framar til þyngsla. Svalaðu nú þínum vísdómsþorsta á uppsprettu sannleikans; því skýlunni er frá þjer lyft, sem hylur guðs dýrð fyrir sjónum jarðarinnar barna. Með augunum skaltu líta það, sem þú í andanum sást — nú skaltu öðlast það, er hjarta þitt þráði. Gerðir þínar hefir þú með þjer, eins og menjagrip af fjarlægu landi, svo að ekkert skorti á

sælu þína — svo að þú syngir guði lofgjörð, fyrir alt er hann hefir til þín gert, og vegsamir nafn hans um aldir alda. ....“

---

„Eftir lifir minning mæt, þótt maðurinn deyi.“ Sjera Þorvaldur Böðvarsson er löngu dáinn, en minning hans lifir enn, og mun lengi lifa. Sálmar hans munu lengi halda minningu hans á lofti, og alt var starf hans merkilegt og blessunarríkt. — Drottinn gefi, að Ísland eignist sem flesta hans líka að andlegu atgerfi og mannkostum.

---

## Jón Guðmundsson ritstjóri og alþingism.

Jón Guðmundsson alþingismaður og ritstjóri er fæddur 15. desember 1807. Faðir hans, Guðmundur Bernharðsson, fátækur ráðvendnis- og sómamaður, bjó um tíma í Melshúsum við Reykjavík; var þá skólinn kominn í Reykjavík, og sóttu skólapiltar mjög eftir að koma sjer fyrir hjá honum.

Sex ára gamall misti Jón föður sinn, en mundi hann þó vel; einkum var Jóni minnisstætt, hve hjartanlega faðir hans bað guð fyrir honum oft og einatt. Gjörla mundi Jón og hið síðasta sinn, er faðir hans fór úr Reykjavík, og þau foreldrar Jóns leiddu hann á milli sín fram Melana; þá fór Guðmundur austur í Ölves til skyldfólks síns, og andaðist þar. Eftir dauða hans bjó Ingunn, móðir Jóns, við fátækt í Melshúsum, og var Jón hjá henni, þar til er hann var 7 vetra. Snemma þótti Jón hið mesta efnisbarn, og ávalt var hann að leikum forsprakki hinna barnanna þar í þorpinu, og eignuðu þau honum brekkuna frá Melshúsum og ofan að tjörninni og kölluðu Jónsbrekku.

Svo bar við einu sinni, er Jón var 7 ára, að hann

fór með móður sinni inn í Reykjavík, og komu þau til Bjerings kaupmanns; þar kom kaupmannskonan út með ársgamla telpu á handleggnum; henni leist þegar vel á drenginn, og bauð móður Jóns að taka hann um hálfsmánaðartíma; kvað það rjettast, að Grjeta litla gæfi honum með sjer grautinn sinn, en svo fór, að vistin varð nokkuð lengri, því hjá þeim hjónum var Jón eins og í bestu foreldrahúsum, til þess er hann var 15 vetra. Þau hjónin komu honum í barnaskólann, er þá var í Reykjavík, og Árni Reynistaðamágur hjelt; þar lærði Jón lestur, skrift, reikning og kverið, og var staðfestur á 13. ári af Árna Helgasyni, er þá var prestur í Reykjavík. Alla þá stund, er Jón var hjá Bjering, var hann lítill vexti, en öllum, sem sáu þennan litla pilt, þótti eftirtektarvert, hve ófeiminn hann var og einarður, og hve skorinort og skýrt hann sagði erindi sín, er hann var sendur, og oft hafði Sigurður land- og bæjarfógeti Thorgrímsson talaði um það, að Jón væri líklegt mannsefni, því oft var Jón sendur frá fóstra sínum með skipaskírteini og því um líkt til Thorgrímssons.

Þegar Jón var 15 ára, varð Bjering að sleppa versluninni, og urðu þau hjón öreiga; fór Jón þá til Sigurðar bónda Gíslasonar á Indriðastöðum í Skorradal, frænda síns; voru þeir Jón bræðrungar. Jón fór sjóveg úr Reykjavík upp á Akranes, og var nóttina á Innra-Hólmi, hjá Ólafi sekretera, er síðar var í Viðey, og svaf um nóttina hjá Birni Þorvaldssyni, er síðar varð mágur hans og ástvinur; þetta var um vorið 1822, sama vorið sem sjera Þorvaldur,

faðir Bjarnar þessa, fluttist frá Holti í Önundarfirði suður að Melum. Jón var sumar þetta hjá Sigurði bónda, frænda sínum, er þá þegar fann, að hann mundi betur fallinn til bóknáms en bændavinnu. Hann kom honum því þegar um haustið að Melum til sjera Þorvalds, til að læra undir skóla. Jón kom að Melum 11. okt. 1822, og voru þá öll eldri systkinin í skógi, en Hólmfríður, þá 10 vetra, og Kristín, 9 vetra, hlupu út til að sjá litla drenginn; mintist Jón þess oft sjálfur, hvað sjer hefði þótt merkilegt kvöldið eftir, þegar farið var að lesa húslesturinn, að sjá allan barnahópinn með þessum dökkva augnaumbúningi.

Á Melum var Jón veturna 1822—23 og 1823—24, en á sumrin var hann hjá frænda sínum á Indriðastöðum, er oft ljeði hann sem meðreiðardreng ýmist sjera Jóni Backmann eða sjera Pjetri Stephensen, er síðar varð prestur á Ólafsvöllum, en var um þessar mundi bóndi í Þingnesi í Borgarfirði. Hann fór og margar sendiferðir fyrir ýmsa menn til Reykjavíkur og eitthvert sinn, fóru þeir eina sendiferð saman, Ólafur Pálsson, fóstursonur sjera Þorvalds, og Jón. Þeir voru sendir suður í Reykjavík með kú til sölu, en urðu síðbúnir þaðan um kvöldið, og urðu að liggja úti í Fossárhlíðinni. En áttu þar hina bestu nótt, og höfðu yfir sjer kýrskinnið; mintust þeir þessarar farar með ánægju, þegar Ólafur var orðinn prestur Jóns í Reykjavík.

Haustið 1824 fór Jón í Bessstaðaskóla, og settist þar næstur þeim er neðstur sat, Jóni Brynjólfssyni, síðast presti í Kálfholti. Við miðsvetrarprófið hjálp-

aði Jón Guðmundsson nafna sínum með reikningsdæmi, en fyrir það fór Jón Brynjólfsson upp fyrir hann; en við vorprófið fór Jón Guðmundsson upp fyrir nafna sinn aftur, og hrapaði ekki úr því.

Sumarið þar eftir var Jón lengstum á Indriðastöðum, en mánaðartíma á Melum um haustið, og varð samferða í skólann Stefáni Þorvaldssyni, sem prófastur varð í Stafaholti; var Jón oft angurvær það haust og kvíðinn, og kvaðst mundu deyja um veturinn; og þann sama vetur sýktist hann af meinsemd þeirri, er gerði hann að örkumla manni til æfiloka. Var hann þá fluttur inn í Reykjavík til móður sinnar, og var hjá henni, það sem eftir var vetrarins. Veturinn eftir, 1826—27, tók sjera Þorvaldur á Melum hann, og dvaldi Jón hjá honum vetrarlangt, löngum mjög veikur, og fjekk lítið lært; en til þess var hann þó mest tekinn, að hann gæti haldið áfram skólanámi sínu. Þenna vetur kendi hann yngri dætrum sjera Þorvalds að skrifa, og var Hólmfríði það minnisstætt síðan, að systur hennar voru að stríða honum með því, að hann gæfi Fríðu hvítustu blöðin til að skrifa á. Hún mundi honum það lengi, að einu sinni, er honum voru send epli úr Reykjavík, þá gaf hann henni einni heilt epli, en ekkert hinna systkinanna gat fengið nema hálft, enda kvað þá Björn upp úr, að mikill væri vinskapur Jóns og Fríðu, er hann gæfi henni heilt epli, en þeim hinum að eins hálft hverju. Er þessa því hjer getið, þótt barnalegt sje, að það virðist lýsa því, að snemma hafi hann felt hug til Hólmfríðar, því að það er öllum, sem til þektu, efalaust mál, að þessi

Fríða (Hólmfríður Þorvaldsdótir) er á barnsaldri þáði þakklátlega þessa „velgerninga“ fóstbróður síns, hafi goldið allra kvenna best æskuvinfengið með ævarandi trygð, og er þetta tekið eftir frásögn hennar sem og fleira í þessu erindi.

Vorið 1827 fluttist sjera Þorvaldur að Holti undir Eyjafjöllum; fór þá Jón aftur til móður sinnar, og sótti um að komast í skólann, en var synjað. Var hann þann vetur hjá móður sinni, og hafði ofan af fyrir sjer með því að skrifa almanök og rímur og ýmislegt fyrir fólk. Oft mintist Jón á, að lítið atvik um vorið 1828 hafi valdið hinum mestu breytingum á lífskjörum hans. Hann gekk þá einu sinni sem oftar frá Melshúsum inn í Reykjavík, og lá leið hans fram hjá húsi Sigurðar landfógeta (húsi því, sem Jón Guðmundsson eignaðist síðar og bjó í til dauðadags). Sigurður landfógeti var á leið norður í gömlu biskupsstofuna; en af því að dyr voru luktar, er vissu út að götunni, komst hann ekki inn tafarlaust, og gekk Jón fram á hann og heilsar honum. Sigurður tekur kveðju hans og spyr, hvernig honum líði. Jón segir sjer líði nógu vel, en hafi þó heldur lítið að gera, „en kannske þjer hafið eitthvað handa mjer, sem jeg gæti gert.“ „Þú getur komið á morgun,“ segir Sigurður, og tók Jón því þakksamlega og fór hann heim erindi feginn, en móðir hans og aðrir kunningjar löttu hann mjög þess að fara til Sigurðar, kváðu hann að raunalitlu reka frá sjer fullorðna menn, og það þótt dugandi menn væru; en Jón fór alt að einu, hvað sem hver sagði og var hinn öruggasti. Sigurður tók honum vel, og

fjekk honum eitthvað að skrifa, en segir jafnframt, að ekki fái hann kaup hjá sjer, ef honum líki ekki við hann, enda megi hann þá fara. Er Jón nú hjá Sigurði fram eftir vori. Þá var í Reykjavík kaupmaður sá, er Rist hjet. Hann bað Jón að fara til sín og bauð honum sæmilegt kaup, og það ætlaði Jón að þiggja. En er Sigurður frjetti þetta, segir hann við Jón: „Nú, þú ætlar þá að fara til Rist.“ Jón segir, að hann hefði heitið sjer kaupi, og án þess gæti hann ekki komist af. Sigurður kvað hann mega fara, því síst væri skortur á slíkum mönnum, en spurði, hvort hann hefði heyrt getið um nokkurn mann, sem hjá sjer hefði verið, svo að eigi fengi kaup, ef honum hefði líkað við hann; talaðist þá svo til, að Jón bað Rist um uppgjöf á vistinni, og varð hjá Sigurði, er upp frá því reyndist Jóni hinn tryggasti styrktarmaður, og gekk honum að heita mátti í föðurstað, uns hann dó 1831. Var Jón nú hjá Sigurði til þess er hann komst í skóla aftur, og svo öðru hvoru hjá Úlstrúp eftirmanni Sigurðar. Átti Jón það mest að þakka Sigurði, að hann komst í skólann, því að Jón lektor Jónsson var mjög mótfallinn því, að Jón Guðmundsson næði aftur inngöngu í skólann, af því að hann var hræddur um, að veikindi hans og bilun mundu standa honum fyrir framförum; varð Sigurður áskynja um þetta og útvegaði Jóni læknisvottorð um, að svo mundi ekki verða. Skömmu síðar kom Jón lektor til Sigurðar landfógeta, og barst þá talið að skólavist Jóns. Segir Sigurður við lektor: „Þér eruð því mótfallinn, að Jón litli komist í skóla.“ Lektor kvað það ekki vera

en ljest vera smeykur um, að hann dytti úr stiganum og slasaðist. Út úr þessu varð hörkurifrildi á milli þessara dándismanna, og meðal annars mælti Sigurður við lektor: „Jeg skal óðara útvega læknisattest upp á það, að þér sjálfur getið dottið úr stiganum og hálsbrotnað.“ En hvort sem þeir kýttu hjer um lengur eða skemur, varð sá endir á, að Jón komst í skólann og útskrifaðist 1832.

En er Jón var orðinn stúdent, fór hann að fullu og öllu til Úlstrúps fógeta, og var hjá honum skrifari meðan hann hafði hjer embætti. Árið 1835 fjekk hann svo umboð Kirkjubæjarklausturs, en vorið eftir í apríl var hann af Þórði Sveinbjarnarsyni, settum stiftamtmanni, skipaður til að hafa á hendi land- og bæjarfógetaembættið, og gegndi hann því til haustsins 1836, er hann fór austur að Holti undir Eyjafjöllum, og þá, 26. september, gekk hann að eiga æskuvinkonu sína, Hólmfríði Þorvaldsdóttur. Þann vetur voru þau hjón í Holti, en reistu vorið eftir bú í Kirkjubæ á Síðu, og bjuggu þar 10 ár. Höfðu þau brátt rausnarbú og blómgaðist vel hagur þeirra, enda var þá um langt skeið hið besta árferði, en Jón fyrirhyggjumaður hinn mesti og útsjónarsamur. Varð þeim hjónum þar þriggja barna auðið, sem síðar mun sagt verða. Mörg þau ár fór hann vorþingaferðir með sýslumanni Skaftfellinga, og kyntist þannig vendilega landsháttum þar og högum hjeraðsbúa, og ávann sjer þokka og traust allra, er honum kyntust, svo að hann var kosinn fulltrúi Vestur-Skaftafellssýslu, þegar alþingi var stofnað, og jafnan endurkosinn til þess er aukakosningar fóru

fram 1869. Á þessum árum samdi hann reikningsbók, sem prentuð var í Viðey 1841, og er hún að dómi þeirra, er vit hafa á, mjög hentug lærdómsbók handa unglingum, er tilsagnarlaust vilja nema reikning. Var Jóni til þessa trúandi, því hann var maður vel reikningsfær og þaulvanur reikningsfærslu frá þeim árum, er hann var skrifari þeirra landfógetanna, Sigurðar og C. R. Úlstrúps.

Á þessum árum fór hann þrívegis til Reykjavíkur eftir beiðni Stefáns Gunnlaugssonar landfógeta, til að semja fyrir hann fjárskýrslureikningana.

Það er öllum kunnugt, að hann var þegar á tveim hinum fyrstu þingum, 1845 og 1847, talinn einn hinna liprustu og fjölhæfustu þingmanna. Og árið 1847 ljet hann laust umboðið og fluttist alfarinn til Reykjavíkur.

Tók Stefán landfógeti hann óðara sjer til aðstoðarmanns, og hafði hann þar meir en nóg að starfa. Sumarið 1848 fór hann utan til Kaupmannahafnar, og ætlaði hann vorið eftir að ganga undir próf í dönskum lögum, en það fórst fyrir í það skiftið. Hann hafði útivist harða og langa, og urðu þeir að hleypa inn í höfn í Noregi. Frjettu þeir þar, að 5 Íslendingar væru af konungi kvaddir til fulltrúa á Grundvallarlaga samkomuna, en ekki datt Jóni það í hug, fyr en hann kom til Hafnar, að hann væri einn í þeirra tölu. Vorið eftir fór hann heim á þing, og hafði enn all-langa útivist; komu þeir Jón assessor Johnson og hann ekki til Reykjavíkur, fyr en 7. júlí. Varð hann fyrir því í nokkuð færri nefndum en á fyrri þingum. Þó kom hann nógu snemma til að vera kosinn

í nefnd þá, er semja skyldi frumvarp til kosningarlaga til þjóðfundarins, og annað um undirskrift konungs undir hinn íslenska texta laganna. Þetta sama sumar skipaði Bang dómsmálaráðherra hann til að gegna sýslumannsembættinu í Skaftafellssýslum í þrjú ár. Fór hann því um haustið 1849 eftir þing austur í sýslu sína, og dvaldi þann vetur í Vík í Mýrdal með sjera Benedikt Sveinssyni. Sumarið eftir fór hann aftur utan, og var með honum kona hans og dóttir, barn að aldri; las hann þann vetur undir embættispróf, og tók próf í dönskum lögum vorið 1851. Fór við það út hingað, og var eins og kunnugt er á þjóðfundinum. En það, sem gerðist á þjóðfundinum 1851, er öllum Íslendingum kunnugt, og þó einkum það, sem framfór 9. ágúst, er konungsfulltrúi sagði fundi slitið, og Jón bað um að mega svara konungsfulltrúa nokkrum orðum, en forseti bannaði; stóð þá upp Jón Sigurðsson ásamt flestum þingmönnum, og mótmælti fyrir konungs- og þjóðarinnar hönd atferli konungsfulltrúa, og kvaðst geyma sjer rjett til að bera málið fram fyrir konung. Nákvæm skýrsla um það, sem gerðist þann dag, er í ávarpi því, er þingmenn sömdu og sendu út um land, og prentuð er í Þjóðólfi, 4. árgangi, bls. 290—292. Það má sjá á ávarpi þessu, að Jón Guðmundsson hefir átt í því mikinn þátt með Jóni Sigurðssyni, svo og öðru, er þá var gert, enda gleymdi stjórnin ekki gjörðum hans, sem enn mun sagt verða.

Eftir þenna minnisstæða þjóðfund var Jón Guðmundsson kjörinn ásamt Jóni Sigurðssyni og Eggert Briem til þess að fara á konungsfund með ávarp-

ið, er 36 þjóðfundarmenn höfðu samið, Eggert Briem hætti við förina; allir komust í megna ónáð hjá stjórninni, er nokkuð vildu halda fram rjettindum þjóðarinnar. En þótt Jón væri þá orðinn kandidat í lögum, og vissi vel, hverjar afleiðingar þessi för hans mundi hafa, og að stjórnarvöldin mundu verða ógreið á að veita honum embætti fyrir þessar tiltekjur hans, þá ljet hann það ekki á sig fá, eða aftra sjer frá förinni.

Árangur fararinnar varð enginn, eins og öllum er kunnugt. Íslendingar fengu árið eftir ómjúkt svar, og alt sat við sama keip sem verið hafði um stjórnarfyrirkomulag landsins; en undanfarin ár höfðu svo vakið áhuga landsmanna, að líklegt var, að þeir mundu ekki brátt sofna; og það höfðu reyndar bestu og vitrustu menn landsins sjeð fyrir, að hvað sem stjórnfrelsinu liði, mundi þó í bráð mega að nokkru leyti bæta úr því, sem aflaga fór, með almennum samtökum í landinu sjálfu. Var því talið æskilegt, og það áður en kunnug urðu úrslit þjóðfundarins, að nefndir þær, er í flestum sýslum höfðu verið kosnar til þess að undirbúa stjórnmál vor undir þjóðfundinn, störfuðu áfram, og styddu framkvæmdir nytsamra fyrirtækja í hverri sveit, og skyldi miðnefnd sett í Reykjavík, til að sameina hina dreifðu krafta um þau fyrirtæki, er umfangsmest voru. Í þessa miðnefnd var Jón Guðmundsson að vísu ekki upphaflega kvaddur, en frá því er hann flutti til Reykjavíkur, hafði hann verið hinn ötulasti stuðningsmaður alls þess, er til nytsemdar mátti verða, og með almennum fundarhöldum starfað að því

að örfa áhuga Íslendinga á alþjóðlegum málum, og var þá svo sem auðvitað, að ekki gerði hann það nú síður, eftir að hann kom úr utanför sinni 1852, enda hafði skap hans ekki mýkst í garð stjórnarinnar við þær viðtökur, sem þjóðfundarnefndin, eða þeir nafnar, fengu hjá stjórninni. En aldrei misti hann kjarkinn, eða vjek frá sannfæringu sinni alla sína æfi, hvort sem um stjórnmál var að ræða eða önnur mál, enda gafst honum nú tækifærið 1852, og varð hann lífið og sálin í miðnefndinni og jafnframt beitti hann sjer fyrir flestum framfaramálum þjóðarinnar, og ekki hikaði hann við að nota tækifærið, er það bauðst, þótt hann hins vegar sæi, hvað mikið var í húfi fyrir hann sjálfan. Á Þingvallafundinum 1852, 11.—12. ágúst, var því hreyft og um það rætt, að þeim nöfnum, Jóni Guðmundssyni og Jóni Sigurðssyni, yrði veittur árlegur styrkur af frjálsum samskotum, uns þeim opnaðist einhver atvinnuvegur; var sú uppástunga alment studd á fundinum og fjöldi manna gat þess, að heima í hjeruðum, bæði á fundum og utan funda, hefði þetta komið til tals, og hafi flestir hjeraðsmenn gert að því góðan róm. Var nefnd kosin í málið, og lagði hún fram degi síðar álit sitt, á þá leið, að landsmenn veittu þeim Jónunum árlegan fjárstyrk til sæmilegs lífsuppeldis, meðan hagur þeirra greiddist ekki; og var tillagan samþykt. Skyldi Jón Sigurðsson hafa sjer til styrks, fyrst um sinn þetta árið, þá 700 ríkisdali, sem afgangs væru samskotunum til utanferðar þeirra árið áður og skyldu landsmenn veita jafnmikið Jóni Guðmundssyni, og síðan ár hvert báðum jafnmikið

meðan þess þyrfti við. Í niðurlagi nefndarálitsins var þess getið, að Jón Guðmundsson tæki við ritstjórn Þjóðólfs af Sveinbirni Hallgrímssyni, er verið hafði ritstjóri hans fyrstu fjögur árin. Loks voru kosnir menn til þess að sjá um samskotin, hver í sinni sýslu. Það yrði of langt mál hjer að segja frá því, hvernig þessi samskot gengu og hvern styrk þeir nafnar fengu. Jeg hefi að eins getið þessa hjer til að sýna, að þjóðin og fundarmenn kunnu að meta gerðir þeirra nafna í utanförinni, og baráttu þeirra fyrir frelsi þjóðarinnar, og hafa því talið sjer skylt að launa eftir föngum. Líklega hefir þjóðfundurinn litið svo á, að ritstjórn Þjóðólfs yrði tekjugrein fyrir Jón Guðmundsson framvegis, en það var öðru nær. Jón tók við blaðinu 10. nóvember. og var eigandi og ábyrgðarmaður þess í 21½ ár. Síðasta blaðið sem hann skrifaði er dagsett 18. apríl 1874. En 5. nóvember 1852 sendi hann út ávarp til kaupenda og lesenda blaðsins og er þetta niðurlagið: „Þannig byrja jeg ritstjórn Þjóðólfs að öllu forfallalausu í næsta mánuði, með einlægum vilja mínum á því að leysa hana svo vel af hendi, sem mjer er framast unt, með þeim óbifanlega ásetningi, að spara ekki til þess mína litlu krafta nje minn mikla tíma, þann er jeg hef nú, og með fullu trausti til þess að þjer mínir heiðruðu landar munið auðsýna bæði sjálfum mjer og svo Þjóðólfi á meðan hann ferðast meðal yðar og á stríðið að heyja undir mínum merkjum, alla þá velvild, umburðarlyndi og nærgætni, sem jeg hefi svo fyllilega aðnotið og stuðst við og uppörfast hingað til.“ Og Jón Guðmundsson

lofaði ekki meira í þessu ávarpi, en hann enti alla sína ritstjórnartíð. Hann lagði fram alla krafta sína, og þá eigi smáa, fyrir málefni þjóðarinnar, og það er óhætt að fullyrða, að drjúgt lagði hann til allra framfaramála Íslands, sem til umræðu komu, alla þá stund, er hann var ritstjóri; get jeg hjer t. d. um verslunarmálið, póstgöngur, læknaskipunarmálið, almenn samtök til jarðabóta, er öll voru rædd í Þjóð-ólfi; svo og um þilskipaútveg. Um stjórnmálabaráttu landsins hefir hann og ritað marga og þarfa hugvekju; og það ávanst honum enn fremur, að ekki gat yfirstjórnendum landsins til lengdar haldist uppi að gera eigi almenningi kunn skil ráðsmensku sinnar fyrir alþjóðarfje. Einarðlega átaldi hann og vítti alt gerræði valdsmanna, hvort sem þeir voru æðri eða lægri, og ekki síður afskiftaleysi þeirra og trassadóm, og má nærri geta, hve vinsælt þetta hefir verið, þar sem menn eru jafn hörundssárir og hjer, enda spöruðu ekki sumir þeirra, sem fyrir urðu, að ausa yfir hann allskonar óhróðri og fúkyrðum, og reyndu með öllu móti að gera hann og blað hans óvinsælt. En það efldist ár frá ári, meðfram nokkuð fyrir það, að augljóst var af ýmsu, að blaðið átti ekki góðum byr að fagna hjá sumum æðstu stjórnendum landsins, sem þóttust skyldir til jafnt í einu sem öðru að gera ekki of greiða götu Jóns Guðmundssonar, er stjórnin hafði á honum hina mestu vanþóknun alt í frá 1851. Þannig gat hann með þeim einum kosti fengið Þjóðólf prentaðan í landsprentsmiðjunni, að hann borgaði út í hönd prentun á hverri örk blaðsins, jafnóðum og út kæmi, þar sem

hins vegar blöðum þeim, sem nú voru hvert á fætur öðru að þjóta upp, sum að undirlagi stiftsyfirvaldanna, svo sem: Ný tíðindi og Ingólfur, var veitt sem mest línkind um greiðslu prentkostnaðar, og þegar á brast lenti skellurinn á landsprentsmiðjunni. En 6 árum eftir að Ingólfur hætti að koma út, hófst nýtt blað, er nefndist „Íslendingur“, og hjeldu honum úti 6 nýtustu embættismennirnir í Reykjavík og að auki sjálfur landsprentsmiðjustjórinn; var blað þetta vandað að öllum frágangi og í marga staði hið fróðlegasta. Það kom út í 3 ár, og lá svo í dái um hríð, en þá kom fjórði árgangur, með nýrri ritstjórn að nokkru leyti. Þetta höfðingjablað átti alveg að ríða Þjóðólf ofan, en svo fór, að Þjóðólfur gat gert útfararminningu þessa blaðs, og meira að segja, ritstjóri Þjóðólfs var rúmum tveimur árum eftir að blaðið hafði lognast út af, fenginn til þess að lögsækja útgefendurna, um greiðslu til handa prentsmiðjunni á því, er eftir stóð af prentkostnaði blaðsins, og var það ekki all-lítið fje.

Ekki lýsti það sjerlegri greiðvikni við útgefanda Þjóðólfs, er justitiarius synjaði honum um að fá dóma yfirdómsins til birtingar í Þjóðólfi, þó Jón biði fje fyrir. Ekki átti þó justitiarius sín í neinu að hefna á Jóni, því ávalt hafði hann lokið lofsorði á embættisdugnað hans, reglusemi og stjórnsemi, sem maklegt var, því ekki var Jóni ritstjóra óljúfara að lofa og leggja vel í þökk það, sem lofs- var og þakkarvert; en hann taldi sjer jafnan skylt að víta það, sem miður fór, og þetta er auðsætt af því, sem hann hefir látið ummælt í Þjóðólfi um þá Bjarna rektor

Johnsen, Þórð Sveinbjörnsson og Pál amtmann Melsteð. Hann var laus við það, sem sumum, því miður, hættir við, að vilja ekki sjá kosti þeirra manna, er hann þó vítti mjög í sumu. — Þannig ljet hann ekki liggja í láginni lofsverða reglusemi Hafsteins amtmanns, nje árvekni hans og þrek að framfylgja nauðsynjaráðstöfunum í sínu umdæmi, og hefir Hafstein amtmaður að líkindum síst við því búist, að Jón Guðmundsson mundi verða sá, er djarfmannlegast tæki svari hans, þegar hann var kvaddur utan út af ráðstöfunum sínum í fjárkláðamálinu. Sumir hafa borið Jóni Guðmundssyni það á brýnn, að í fjárkláðamálinu hafi hann verið næsta stefnulaus, og segja, að fyrst hafi hann verið lækningamaður, svo niðurskurðarmaður, og svo sinn daginn hvað. En þetta er alls eigi svo. Frá upphafi til enda var hann lækningamaður, þar sem lækningunni yrði við komið, en þegar það sást, hve óhöndulega og linlega gekk með lækninguna sumstaðar, taldi hann sjálfsagt eina úrræðið, þó neyðarúrræði væri, að beita hnífnum, ef það væri dyggilega gert, en ekki með svikum og undandrætti, eins og sumir sunnlensku niðurskurðarmennirnir gerðu hvað eftir annað, einkum Borgfirðingar, og reynslan er nú loksins búin að sanna, að þetta var hið skynsamlegasta og tiltækilegasta, og í þá átt lutu flestar tillögur kláðanefndarinnar þeirrar, er Jón var skipaður í veturinn 1866, ásamt Árna Thorsteinsson og Magnúsi í Bráðræði, og átti að vera stiftamtmanni til ráðuneytis og aðstoðar í fjárkláðamálinu. Sat nefnd sú í hálft annað ár, en varð lítt ágengt, því ekki fjekst almenn-

ur niðurskurður á kláðasvæðinu og lækningar eigi tiltækilegar þar sumstaðar. En hver sem er eða hefir verið dómur skynbærra manna um blaðamensku Jóns, er það efalaust mál, að nafn hans mun lengi uppi verða fyrir það, að hann hóf fyrstur manna blaðamensku á Íslandi til viðlíka vegs og gengis að sínu leyti og á sjer stað í öðrum löndum.

Af þeim margvíslegu störfum og sýslunum, er Jón hafði á hendi þessi rúm 21 ár, er hann gaf út Þjóðólf, er þess þegar getið, að hann var þingmaður Vestur-Skaftafellssýslu frá 1845—1869. — Á þinginu 1853 var hann í fleiri nefndum en nokkur annar og hafði svo, sem forseti vottar, með stökum dugnaði leyst af hendi framsöguna í vandasömustu og yfirgripsmestu málum á því þingi; voru þau: stjórnarskrármálið, jarðamatsmálið og verslunarmálið. Árið 1855 var hann kosinn varaforseti, og gegndi því oft forsetastörfum með því að forsetinn, Hannes prófastur Stephensen, var oft sjúkur. Þá var hann af alþingi kosinn í nefnd til þess að endurskoða, á milli þinga, jarðamatið 1849—1850. Voru og í þeirri nefnd Jón Pjetursson og V. Finsen. Enn var hann varaforseti 1857, 1863 og 1865. Árið 1859 var hann kosinn í milliþinganefnd með þeim Jóni Pjeturssyni og V. Finsen til að semja frumvarp til vinnuhjúalaga.

Alt fram að árinu 1858, var Jón í „banni“ frá því er hann hafði farið utan 1851, og hafði verið synjað um hvað eina, er heitið gæti embætti eða opinber sýslan. En það ár, 20. júlí, var hann settur málaflutningsmaður við yfirdóminn, og fjekk á ári hverju

250 ríkisdali; var þetta kaup að vísu ekki mikið, en embættið gaf vissar vændir talsverðra aukatekna.

Árið 1862 skipuðu stiftsyfirvöldin Jón í nefnd þá, sem ráðgast skyldi um breytingu á reglugerð latínuskólans; voru í þá nefnd skipaðir af stjórninni Bjarni rektor, Dr. Pjetur Pjetursson, þá forstöðumaður prestaskólans, en stiftsyfirvöldin skipuðu í nefndina, auk Jóns Guðmundssonar, þá Dr. Jón Hjaltalín og sjera Ólaf Pálsson. Jón hafði ávalt látið sjer ant um veg og sóma skólans, og reyndar beggja jafnt, latínuskólans og prestaskólans, enda tel jeg það mjög vansjeð, að honum hefði getað skilist, að það væri sjálfsögð skylda fyrir biskup landsins að láta sjer fyrst og fremst um það hugað að stilla þekkingarkröfunum við prestaskólann svo í hóf, að ávalt væru fáanlegir hæfilegir prestar til rýru brauðanna hjer á landi, því það er mála sannast, að þótt Jón Guðmundsson væri sjálfur ekki framúrskarandi fræði- eða lærdómsmaður, þá unni hann þó öllum góðum fræðum og sannri mentun og virti mikils, og vildi að þeim hlynna á allan hátt.

Árin 1855 og 1861 var Jón forseti alþingis, og leysti það starf ágætavel af hendi, sem við mátti búast af honum, er hann var vanur þingstörfum og stakur elju- og iðjumaður. Þess er fyrr getið, að hann hafi átt sæti á þingi, uns aukakosningar fóru fram 1869; þá höfnuðu Skaftfellingar sínum forna þingmanni, og er ekki laust við, að það sje vottur um talsvert lauslyndi, ef ekki væri hægt að afsaka það með því fyrirkomulagi, sem þá var á kosningarlögunum hjer á landi, og óhafandi var, sem oft

mátti sjá. Svo sem við mátti búast, vildi sveitarfjelagið, er hafði jafn fjölhæfan og reyndan mann í sínu liði sem Jón var, færa sjer í nyt dugnað hans og atorku, og var hann því kjörinn bæjarfulltrúi árið 1856, og gegndi því starfi í 12 ár, og af þeim 12 árum var hann 10 ár oddviti bæjarfulltrúanna. Varði hann af alefli rjettindi bæjarins, og ljet sjer í öllu um það hugað, að ekki væri af valdstjórninni í neinu skertur hinn fyrsti vísir frjálslegrar sveitarstjórnar, er hjer á landi var fenginn í bæjarstjórnarlögum Reykjavíkur.

Á öndverðum vetri 1869 fór Jón Guðmundsson utan, og var ytra þann vetur, einkum til þess að leita sjer hvíldar, því hann var orðinn maður næsta lúinn sem nærri má geta, er annir höfðu sí og æ hlaðist á hann, frá því er hann kom til Reykjavíkur. Því auk starfa þeirra, er þegar er vikið á, var mjög til hans leitað hvaðanæva; átti hann og mikið við málaflutninv, og hafði brjefaviðskifti við menn um alt land.

Fimm árum síðar fór hann enn utan, í erindum verslunarfjelags, er hafist hafði þá fyrir tveim árum í Reykjavík, mest fyrir forgöngu og hvatir hans, enda var hann aðalráðsmaður þess fjelags hin síðustu ár æfi sinnar; komst fjelag þetta vel á legg fyrir umsýslan hans og stóð enn 1881, og þreifst vel, þótt aldrei yrði það umfangsmikið. En meðfram fór hann og þessa ferð til þess að finna dóttur sína, sem þá var fyrir nokkrum árum gift Dr. H. Krabbe; veittist honum þá sú ánægja, að verða guðfaðir dótt-

ursonar síns, Jóns, er fæddist 5. janúar 1874, sama dag og stjórnarskrá Íslands hlaut samþykki konungs.

Þá var Jón og í þeirri nefnd, er kosin var til að hafa á hendi forstöðu og undirbúning þjóðhátíðarinnar á Þingvöllum, og fór sú hátíð fram hið besta, svo sem kunnugt er.

Þess er áður getið, að jafnskjótt sem Jón Guðmundsson kom til Reykjavíkur, fjekk hann nóg að starfa; þó var það einkum eftir að hann 1852 var sestur þar að fyrir fult og alt, að annir hlóðust á hann. Var það þó ekki fyrir þá sök, að yfirvöldin hlyntu að honum eða útveguðu honum atvinnu; þvert á móti. Skipaði þáverandi stiftamtmaður oft alveg ólögfróða menn til málaflutnings til þess að hleypa Jóni ekki að. En traust það og vinsældir, er hann þegar hafði aflað sjer hjá allri alþýðu manna, bættu honum þetta upp. Með frábærri iðjusemi og reglusemi, vanst honum tími til hvers eins, er að honum kallaði, hversu margvísleg og sundurleit sem störfin voru, er á hann hlóðust. Þeir, er ekki þektu til, geta varla trúað því, hversu þolgóður Jón Guðmundsson var við störf dag eftir dag; var það oft, að hann gaf sjer naumast tíma til að matast, og oft svaf hann ekki nema 2—3 stundir í sólarhringnum, og bar lengi vel ekkert á því, að þetta biti á hann, því fjörið og þolið var frábærlega mikið; mundi margur, er tilsýndar sá hann, hafa hugsað, að af honum væri ekki mikils að vænta. En er betur var að gætt, duldist það engum, að hjer var enginn miðlungsmaður á ferðinni, hvorki að viti nje dugnaði, því að elju og þrek, kapp og áhuga átti

Jón Guðmundsson flestum mönnum framar. Vitsmunirnir voru og í besta lagi, skarpur skilningur og skýr greind og samfara þessu öllu var einurð, staðfesta og einbeittur vilji. Jón var vel máli farinn, þótt ekki væru ræður hans að því skapi áheyrilegar sem þær voru oft röggsamlegar; bar það til, að hann var nokkuð stirðmáll, uns honum rann í skap, en þá mæltist honum oft manna best og snjallast.

Svo sem vænta má, er all-mikill munur á því, sem hann hefir best ritað, og hinu, sem lakara er. Ber margt af því, er hann hefir ritað hin síðari árin, vott um þreytu þá og lúa, er þá var farin að sækja á hann.

Þess er áður getið, að árið 1836, 26. september, gekk hann að eiga Hólmfríði Þorvaldsdóttur. Þau áttu 3 börn:

1. Þorvaldur, hjeraðslæknir á Ísafirði, fæddur 3. september 1837.
2. Sigurður, fangavörður í Reykjavík, fæddur 31. janúar 1839.
3. Kristín, fædd 25. maí 1841; gift Dr. H. Krabbe prófessor við hinn konunglega dýralækninga- og búnaðarskóla í Kaupmannahöfn.

Þau hjón, Jón Guðmundsson og Hólmfríður kona hans, lifðu saman alla æfi hinu ástúðlegasta hjónabandi; var heimili þeirra alkunnugt að frábærri rausn og gestrisni, og heimilisbragur hinn besti. Bar ekki síst á þessu, eftir að þau fluttu til Reykjavíkur, enda var þar jafnan saman kominn mesti fjöldi skólapilta og annara ungra manna, sem nutu

þar gestrisni og gleðskapar. Átti kona Jóns ekki minstan þáttinn í því, er hún var mæta vel að sjer, og kunni margt til skemtunar, t. d. kunni hún kynstrin öll af rímum og vísum, og var það oft, að hún kvaðst á við skólapilta, og hafði ætíð betur. Oft voru haldin sjerstök skemtikvöld, og þá sungið, lesið upp og stundum leikin smáleikrit.

Jón Guðmundsson var sæmilegur taflmaður, og tefldi hann oft við pilta, bæði skák og kotru, og stundum einn á móti mörgum. — Skólapiltar, sem „heimavistir“ höfðu, voru þar tíðastir gestir, og þeir sem lásu í sjálfum skólanum, dvöldu á heimili hans öllum stundum, er þeir gátu því við komið; máttu þeir vera utan skólans frá kl. 2—4 daglega, og var þá mikið kapp lagt á að komast sem fyrst heim til Jóns Guðmundssonar, því þeir, sem þangað urðu fyrstir, fengu að nota taflborðið og kotruna þrisvar sinnum í röð, svo þeir, sem næstir komu, og svo koll af kolli.

Það var því síst furða, þótt piltar sæktu á heimili þeirra, og yrðu þar brátt alveg eins og „heima hjá sjer“, enda ljetu hjónin sjer mjög ant um þá að öllu leyti, og ekki síst þá, er snauðastir voru, og fæsta áttu að. Ljet Jón það sannast hjer sem oftar, að hann mundi vel, er hann átti sjálfur við fátækt að berjast, og mintist þess nú, með því að hlaupa undir bagga með þeim, er lítið áttu traust og aðstoð sem hann í æsku.

Á heimili sínu var Jón maður glaðlyndur og jafnlyndur, og sagði oft í gamni við skólapilta, þá er hjá honum voru, að ellin gæti aldrei færst yfir þá,

er einlægt væru í sveit ungra manna. Hann hjelt og mjög til mannfagnaðar, og þótti gaman að söng og hljóðfæraslætti, og ljek enda sjálfur á hljóðpípu. Allra heimila íslenskast var hans heimili talið í Reykjavík um þessar mundir; og þótti hverjum námsmanni, sem til Reykjavíkur kom, hið mesta lán að koma þar og kynnast því. Allra manna var Jón tryggastur og frændræknastur, og taldi sjer engu síður skylda ættingja konu sinnar en sína.

Af þarflegum stofnunum, er á hans dögum hófust, má telja prestsekknasjóðinn, er var stofnaður fyrst og fremst að hans hvötum, og var hann alla æfi hinn ótrauðasti styrktarmaður hans. Þannig ánafnaði hann þeim sjóði 1/40 hluta skuldlausra eigna sinna eða 100 ríkisdali eftir sinn dag, og galt sjóðnum leigu af 100 ríkisdölum á ári hverju frá því er hann ánafnaði honum gjöfina, 26. september 1861, í minningu þess að þá hafði hann verið 25 ár í hjónabandi.

Jafnstóra upphæð ánafnaði hann þá bræðrasjóði latínuskóla Reykjavíkur.

Á síðustu æfiárum Jóns Guðmundssonar tók starfsþol hans nokkuð að láta á sjá, þótt af miklu væri að taka, og hafði hann þá oftar en einu sinni orð á því, að hætta við útgáfu og ritstjórn Þjóðólfs; þó varð ekki af því fyrr en vorið 1874, enda var þá vanheilsa mjög farin að sækja á hann.

18. apríl 1874, í 24. tölublaði 26. árgangs, kvaddi hann Íslendinga sem ritstjóri Þjóðólfs. Sú kveðja lýsir honum svo vel, að jeg tek hana hjer upp, orðrjetta:

„Háttvirtu, ástkæru Íslendingar! Eign minni og útgáfu á blaðinu Þjóðólfi, og öllum umráðum mínum og afskiftum af honum, er nú lokið með þessu tölublaði hans, eins og fyr var sagt, og svo sem blaðsins heiðraði eigandi og útgefandi, sá sem nú er orðinn, hefir boðað í ávarpi sínu til Íslendinga hjer að framan.

Jeg segi yður það fyrir sann, mínir ástkæru landar! jeg legg ekki svo frá mjer starfa þenna, er jeg nú hefi á hendi haft um 22 vetur samfleytt, að jeg sje tilfinningarlaus um þessa skilnaðarstundu. Það var fríviljugt fyrir mjer, — eður af persónulegu „frjálsu fullveldi mínu“ yfir sjálfum mjer, kjörum mínum og allri framtíð, að jeg hafnaði embættisveginum; stóð hann mjer þó opinn sem öðrum, hefði jeg fremur viljað hallast að stjórnarflokknum á þjóðfundinum 1851, heldur en að þjóðernisflokki og þjóðrjettindum Íslendinga. En þetta olli því, að jeg varð ekki embættismaður heldur blaðamaðaur. Eigi var jeg samt þá, nje er enn, svo skyni skroppinn, að ekki lægi ljóst fyrir mjer að embættisstaðan hefði ólíku glæsilegri framtíð í skauti sínu og betri og náðugri daga fyrir mig sem aðra, heldur en hin leiðin. Hefi jeg fundið til þess fyrr og síðar að þessa all-löngu þjónustu mína hjá yður við blaðstarfann hafið einmitt þjer, landar mínir, átt mestan og bestan þátt í að gera þakknæmilegri og þægilegri fyrir mig heldur en jeg og aðrir gátu búist við; og hefir þó eigi verið erfiðleikalaust og án baráttu nokkurrar, eins og ekki hefir leynt sjer.

En óþarft er að fara lengra út í þau mál að sinni;

vitanlegt er, að eigi skapast dugandis þlaðamenn heldur en nýtir menn að öðru, með orðunum einum, og hvorki með heilræðum nje viðvörunum. Hafi jeg staðið nýtilega að nokkru í þessari stöðu minni, hafi Þjóðólfur gagnað að nokkru landi og lýð, þá er það að þakka löndum mínum, Íslendingum yfir höfuð, en þó einkanlega Sunnlendingum, engu síður en sjálfum mjer; þeir hafa lagst á eitt og verið mjer samtaka í því að reisa og styðja Þjóðólf fram á þennan dag. Með þessu, með velvild þeirri, trygð og trausti er allur þorri landa minna þeirra sem nokkurs eru um megnugir, hafa auðsýnt mjer svo ríkulega og staðfastlega, hafið þjer gert mjer blaðamanns-stöðu mína og allan starfa svo margfalt ljettari og viðunanlegri, og lengt hann fram á þau efri æfiárin, er þrek og dugur vill alment bila hvern sem er; hjer var komið meir en mál til, fyrir mig, að hætta leiknum er hann hæðst fram fór.

Þiggið þá að skilnaði, ástkæru landar, mínar hjartgrónar þakkir fyrir alla yðar staðfesta trygð og velvild við mig eins í þessu sem öðru. Drottinn blessi yður alla og haldi sinni mildu verndarhendi yfir vorri kæru fósturjörðu og yfir Íslandslýð, um allar ókomnar aldir.

Reykjavík, 18. dag apríl-mán. 1874.

Jón Guðmundsson.“

Fornt spakmæli segir: „Eigi reynir manninn síður sótt en orusta.“ Þrek manns reyna bæði sótt

og rekkja. Jón Guðmundsson sýndi best, að hann hafði til að bera mikið þolgæði í hinni löngu, þungu legu, er loks leiddi hann til hvíldar. Heyrðist aldrei til hans æðru-orð eða óþolinmæði, og jafnan, er af honum bráði, var hann glaður í bragði og viðræðugóður, en þóttist þó með vissu vita, til hvers mundi draga um sjúkdóminn, og var hann vel ánægður með það. Hann fann, að fjörið og kraftarnir voru á förum, og að dagsverki hans var lokið. Stjórnfrelsi það, er hann í rúm 20 ár hafði barist fyrir í öndverðri fylkingu, var fengið, og á mörgu komin góð lagfæring, er mestra umbóta þurfti við, þegar hann hóf ritstjórn sína, og að öllu því hafði hann stutt með ráðum og dáð. Jón hafði alla æfi verið guðhræddur maður, og því var hann fús að skilja við þennan heim, og það gerði hann með trúaröruggri von sannkristins manns, og það er eftirtektarvert, að síðustu orðin, sem heyrðust til þess manns, sem svo oft hafði lastaður verið fyrir það, hvað hann væri óhlífinn og berorður, voru bænar- og blessunarorð. Síðasta daginn, sem hann lifði, kom til hans sem oftar ein systurdóttir konu hans; var þá svo af honum dregið, að hann þekti hana ekki, en er hann kom því fyrir sig, hver hún var, biður hann guð að blessa hana og alla hennar ætt; litlu síðar kom þar inn barn eitt, sonur systursonar hans og fóstursonar, og við hann mælti hann þessi orð, er síðast skildust: „Guð blessi þig.“

Börnum sínum var Jón hinn besti faðir, og kom þeim öllum til bestu menningar. Hann andaðist 31. maí 1875, og hafði þá lifað 8 ár hins 7. tugar,

en útför hans var gerð 10. júní, og fylgdi honum fremstur meðal magra annara ágætra manna fornvinur hans og samverkamaður að endurreisn íslensks stjórnfrelsis, Jón Sigurðsson, oddvitinn og flokksforinginn, er allra manna ötullegast hafði barist fyrir stjórnfrelsi þessa lands og endurreisn þess á öllum sviðum.

11. júní 1875, í 19. tölublaði Þjóðólfs, stóð dánarfregn Jóns Guðmundssonar, þar sem getið er helstu æfiatriða hans. Í niðurlagi greinarinnar fer ritstjórinn þessum orðum um hinn látna merkismann:

„Á sínum tíma mun æfisaga þessa merkismanns verða samin og seld í hendur landsmönnum hans; hjer er hvorki staður nje stund til þess. — Jóns Guðmundssonar nafn mun ekki verða máð af söguspjaldi hans samtíðarmanna, heldur mun ávalt standa þar ofarlega samhliða þjóðskörungum aldarinnar.

Íslendingar! hinn gamli fullhugi er fallinn, og minning liðinna stríðsdaga ómar til yðar með hans andlátsfregn; nú leiðir sagan þann mann til sætis, sem aldrei vildi úr orustu flýja, heldur jafnan fylgja þjóðmerkjunum, og kaus heldur á knjám að berjast í forvígi, en fara heill á hæli. Ungur og öflugur og snemma dags lagði hann á stað í vort þjóðstríð; hugur, elja og árvekni var æ hið sama, en kraftarnir þurru, og þó síðar en líklegt var; hjer er nú staðar numið. En þjer, sem metið og dæmið það líf, sem hjer er liðið, og bera munuð saman þess kosti og bresti, skoðið ekki hetjuna, þegar hinir

hraustu limir eru orðnir ljemagna og elli og feigð er farin að fletta kappann hlífunum, skoðið hann og metið á meðan hann stendur upprjettur í miðri þraut meðan mest er að vinna, meðan hinn helgi lúður köllunarinnar eggjar manninn í miðjum lífsins blóma, — og þá munu vinir og óvinir dæma hetjuna með sannleik og rjettvísi.“

Þannig farast þáverandi ritstjóra Þjóðólfs orð, þegar hann minnist hins látna merkismanns. Lýsingin er ekki löng, en hún er merkileg og athyglisverð, því hún er sönn lýsing á Jóni Guðmundssyni og lífsstarfi hans, og mun standa óvefengd meðan Íslands saga er sögð og lesin.

---

# Ágrip af sögu Viðeyjar.

**Fyrirlestur fluttur í Viðey 1911.**

---

Þessi frægi sögustaður, Viðey í Kollafirði, eða eins og hún var oft áður nefnd „Viðey í Sundum“, liggur út frá Grafarvogi, hálfa mílu í landnorður frá Reykjavík, og er mjótt sund milli lands og eyjar. Viðey er aflöng, fjórðungur mílu á lengd og rúmlega 300 faðma breið. Hún skiftist í austur og vestur hluta (austur og vestur eyju) og er eiði á milli. Eyjan er hólótt með klappabeltum, og þó grasgefin. Viðey er talin mikil jörð; þar eru landkostir góðir, heyskapur nægur, æðarvarp og eggver.

Uppdrátt gerði Sveinn læknir Pálsson af eynni og virðist hann vera allnákvæmur, en öll nöfn vantar á hann, og er stærð eyjarinnar sýnd þar með tölum. Hann telur austureyna 700 faðma langa og 350 faðma breiða, en vestureyna 300 faðma langa og jafn breiða. Flatarmál allrar eyjarinnar segir hann að sje 262950 ferfaðmar; af þessu lendi ætlar hann 1789650 ferálnir (221 dagsláttu) ræktanlegt land, er muni geta fætt 53 kýr, ef dagsláttan gefi af sjer 10 hesta af heyi að meðaltali, og hver kýr þurfi 30 hesta um 8 mánuði, en 3 hesta jeti hver kýr á túni eða í haga á mánuði, eða 12 hesta í 4 mánuði.

Veturinn 1752—53 gerði Bjarni læknir Pálsson veðurathuganir í Viðey um 9 mánuði; þá gerði hann og tilraunir með sáningu vetrarrúgs, en það mishepnaðist. Þenna vetur var veður stilt og gott í febrúar og apríl, en annars ókyrt hina sjö mánuðina, er hann dvaldist þar. Voru þá oft útsynningar með fjúki, hagli og regni, en stundum landnyrðingar með frosti; og fjell þá mjög útigangspeningur. Fiskveiðar voru þá mjög ljelegar sakir gæftaleysis. Þá er getið um mistur, og sagt, að muni vera roksandur, er fylgi stormi. Í aprílmánuði 1753 voru blóm komin á skarfakál í Viðey, og hjer og hvar farið að grænka. En alt eyddist aftur, er hörð köst komu í maí og júní; en 9 seinustu dagana í júní hlýnaði svo mjög, að grasið þaut upp á skömmum tíma. Stystur dagur í Viðey var 9 st. 33 mín. frá byrjun dagsbrúnar til rökkurloka. Vinnuljóst var þar þann dag 7 st. 27 mín., en sólin var 3 st. 30 mín. yfir sjóndeildarhring.

Jeg hefi til fróðleiks minst á þessar lýsingar þeirra Sveins og Bjarna á stærð Viðeyjar og veðuráttufari. En síðar mun jeg minnast á fjenað þann, sem Viðey framfærði á ýmsum tímum, svo að bera megi saman við það, sem nú er í Viðey.

Af þeim sögum, sem geymst hafa, virðist mega ráða, að allir þeir, sem til Viðeyjar fóru, svo og eyjarskeggjar sjálfir, lentu jafnan á sama stað, niðurundan klaustrinu eða „stofunni“, (sem seinna var kölluð), og þar munu enn í dag flestir lenda, er til Viðeyjar koma. Þegar rent er þar að landi, er sker eitt til vinstri handar, en upp úr miðju skerinu

stóð drangur mjór eða klettur, sem síðar brotnaði í ofsabrimi á jólaföstu á dögum Ólafs sekretera, að því er sagði mjer Ólafur Ólafsson bæjarfulltrúi, er lengi var í Viðey og sjeð hafði klettinn. Stígurinn frá lendingunni og heim á staðinn gæti frá mörgu sagt, ef mæla kynni, því eftir honum hafa margir göfugir menn gengið fyr og síðar. Þá götuna gengu þeir Björn lögmaður og Skúli fógeti. Lögmann þraut gönguna, því hann var holdugur og mæðinn. Varð þá landfógeta þetta að orði: „Skrattans góður smali værir þú.“ „Það væri jeg,“ svaraði hinn, „ef jeg hefði þig fyrir hund.“ Hóllinn til hægri handar, þegar gengið er upp eftir götunni, heitir Líkhóll; saga hans er merkileg og stendur í nánu sambandi við sögu klaustursins, er hjer var lengi.

Þegar klaustrið var komið á fastan fót, kaus fjöldi manna sjer leg að klaustrinu, því það hafði mikla helgi á sjer. Þegar komið var með líkin úr landi voru þau borin upp á hólinn, þvegin þar og að öllu búin til greftrunar. Ef veður leyfði, kom þangað allur kennilýður klaustursins í skrúðgöngu, og tók hátíðlega á móti hinum látna fyrir hönd klaustursins; var líkið síðan heim flutt með mikilli viðhöfn og hátíðlega grafið, með líkhringingu og öllum „serimonium“, er þar til hlýddu. Mýrin á hægri hönd, þegar gengið er upp frá sjónum, heitir Bæjarmýri, og nær hún alt upp að túni. Þegar heim á staðinn er komið, tekur við hin fræga og ramgerva „Viðeyjarstofa“, sem á sínum tíma var talin vegleg-ast og best hús á landi hjer. Skúli landfógeti ljet reisa hana á kostnað stjórnarinnar, og var byrjað

á því verki 1752, en ekki lokið fyr en 1755. Húsið er 36 álnir á lengd, 18 álnir á breidd og 6 álnir undir þak; í því voru 7 íbúðarherbergi, búr og 2 eldhús. Skúli fógeti ljet vanda alla smíð sem best. Til þess að koma í veg fyrir leka, var þakið alt vandilega troðið og bikað og tjaran blönduð sellýsi. Skömmu síðar ljet hann aftur bika það með hálfsoðinni tjöru blandaðri með smásteyttri viðarkolaösku. Gólf og loft var tvöfalt og fylt á milli með deigulmó. Í öllum herbergjunum voru ofnar, og var slíkt sjaldgæft um þær mundir; var allur frágangur hússins hinn traustasti og hvað eina með nýjustu gerð, enda var það ætlunin í upphafi, að þarna skyldi stiftamtmaðurinn sitja. Þegar smíðinu var lokið, kvaddi Skúli menn til skoðunargerðar, og luku þeir miklu lofsorði á, og sögðu, að slíkt hús hefði aldrei fyr sjest á þessu landi. Var það alment kallað „slotið“ í Viðey. Húsið hafði þá kostað 4018 ríkisdali, og er það mikið fje, eftir núgildandi peninga verði. Nú er þetta merkilega hús að mörgu breytt, bæði um herbergja-skipun og annað, en veggir munu enn standa um langan aldur sem óbrotgjarn minnisvarði þess manns, er rjeði byggingunni. Skamt frá Stofunni og þó nokkru norðar, stóð prentsmiðjan, langt og óásjálegt hús; veggir hlaðnir úr torfi og grjóti, með torfþaki; gluggar voru margir og litlir á suðurhliðinni og ekki mundi prenturum í Reykjavík nú þykja sú prentsmiðja vistleg. Vorið 1888, er jeg kom til Viðeyjar, hjekk prentsmiðjan enn uppi að nafninu til, en stórum hættulegt var að koma þar inn. Nú er hún með öllu horfin og jöfnuð við jörðu.

Kirkjan, sem Skúli ljet reisa, stendur allskamt frá Stofunni, og er orðin mjög hrörleg; var hún reist úr efni því, sem afgangs varð Stofunni, og eftir þeirri lýsingu, sem til er af henni, þegar hún var ný, má ætla, að hún hafi verið snotur og allvegleg. Það var þjóðtrú áður, að aldrei færist skip á Viðeyjarsundi, ef kirkjan stæði opin, og lengi mun sá siður hafa haldist að hafa hana opna, en ekki veit jeg, hvort hann er nú lagður niður eða ekki. Kirkjugarður er nálægt kirkjunni; en einkennilegt er, að í honum sjest ekki eitt einasta minnismerki, nema tveir flatir legsteinar með svo máðu letri, að nær er ólæsilegt. Ekki sjest þar heldur eitt einasta leiði sæmilega upphlaðið. Þetta er þeim mun ömurlegra, sem þar eru þeir margir jarðaðir, sem teljast mega meðal merkustu sona Íslands á sinni tíð. Nú veit enginn með vissu, hvar bein hvers um sig hvíla í þessum kirkjugarði. Nú sjest að eins móta fyrir garðlögum og tóftum, en hitt er alt jafnað við jörðu. Spölkorn norðvestur af kirkjunni er hóll, og þó því líkast sem vera mundi upphækkuð dys. Sjest þar móta hjer og þar fyrir steinum, því líkt sumstaðar sem vegglög væru. Og einmitt þar stóð hin nafnfræga klausturbygging. Ólafur Ólafsson bæjarfulltrúi, sem nú er nær áttræður, fór með mjer síðastliðið sumar um alla eyna, og sýndi mjer, hvað klausturbyggingin hefði náð vítt, og mun jeg síðar víkja nánar að því atriði. Nú á síðari tímum hefir íbúðarhúsið (Stofan) verið „endurbætt“ og reistar hjer aðrar byggingar, svo sem fjós, heyhlaða og fleira. Túnið í Viðey er bæði mikið og fagurt, enda

prýðilega hirt. Á austureynni eru hinir svo kölluðu Kvennagönguhólar, og meðfram túninu er klettabelti, sem heitir Heljarkinn. Sagt er, að Heljarkinn hafi nafn sitt fengið af því, að einu sinni heimsæktu klaustrið útlendir ránsmenn, sem ætluðu sjer að ræna það og gera spellvirki. En ábóti sá, er þá rjeð klaustrinu, fór á móti þeim með þeim liðsafla, er hann hafði. Sagt er, að bardaginn hafi byrjað niður á vellinum fyrir norðan beltið, en ábóti látið þokast með mönnum sínum upp að klettunum og hefði þá að baki sjer, en hinir sóktu eftir; þaðan gerði hann svo snarpa árás, að fjandmenn hans biðu ósigur, og flýðu úr eynni þeir, er lífi hjeldu. — Í þessu klettabelti er grastó, sem kölluð er Ábótasæti, og er mælt, að ábótarnir væru vanir að láta flytja þangað tröppu eða stiga og reisa upp við klettana, svo að þeir kæmust með hægu móti upp á tóna; sátu þeir svo þar eða lágu, og horfðu þaðan á verk húskarla sinna. Hinum megin á túninu stendur hinn fagri Skrauthóll, sem er einhver hinn fegursti staður og tilkomumesti bletturinn á þessari ey, ekki síst vegna hins fagra útsýnis, sem þaðan er. Áður fyr stóð á honum fánastöng mikil og há, og sjer þess enn merki. Var það jafnan siður að draga fána að hún alla hátíðisdaga og eins, er fagna skyldi tignargestum innlendum eða erlendum, er til Viðeyjar sóttu. Flatir þær er liggja niður frá Skrauthól, hjetu Skólapiltavöllur, því bæði skólapiltar frá Reykjavík og Bessastöðum vitjuðu til Viðeyjar og dvöldu sumir þar tímum saman, þegar færi gafst. Reyndu margir

þeirra fangbrögð og aðrir íþróttir á velli þessum, og hefir völlurinn síðan verið við þá kendur. Nesið eða tanginn sem gengur þar fram í sjóinn, heitir Hrossanes. Er sagt, að hestur hafi hrapað þar til dauðs af klettasnösinni. Þegar gengið er vestur eyna frá Skrauthól, vestur á Eiðið, sjest, að öllu er landinu skift niður í reiti, þar sem slegið er. Ástæðan til þessa er sú, að áður var sá siður víða hjer á landi að mæla hverjum sláttumanni vinnuvöll til sláttar, og var það kölluð dagslátta. Sá siður hjelst í Viðey á dögum Ólafs sekretera, og ef til vil lengur. Vestur undir Eiðinu standa hinir svo kölluðu Eiðshólar. Þegar vestur á eyna kemur, er fátt af örnefnum, því að þar hafa litlar byggingar verið, enda sá hluti eyjarinnar mest notaður til slægju og hagbeitar. Þar eru og fá kennileiti, alt kargaþýft og hæða- eða hóla-laust; samt sjest þar á einum stað móta fyrir tóftum, þar sem sagt er, að Skúli landfógeti hafi haft fjárhús sín. Öll er eyjan mjög grasgefin.

Það er hvorttveggja, að Viðey er vel löguð til ræktunar, enda hefir þar á ýmsum tímum verið stunduð mikil og margvísleg jarðrækt, að minsta kosti má ráða það af sögunum, að þar hafi verið kornrækt í fornöld, og á síðari tímum má sjá, að Skúli ræktaði þar korn, allskonar kálmeti, hamp og hör, og fjekk oft full-sæmilega uppskeru. Á hinn bóginn er eigi því að leyna, að sumar af tilraunum hans mishepnuðust, einkum trjáræktin og vetrarrúgur, og enda fleira.

Nú hefi jeg þá reynt að lýsa þessum stað, svo vel

sem föng voru á, og liggur þá næst að minnast á sögu hans frá elstu tíð fram til þeirra tíma, sem við nú lifum á. Saga Viðeyjar er löng og merkileg, þótt eigi sje hún öll sem glæsilegust, og eigi munu þeir staðir allmargir í grend við Reykjavík, er eigi sjer viðburðaríkari sögu en Viðey. Það verður ekki með vissu sagt, af hverju Viðey dregur nafn sitt. Sumir hafa getið þess til, að þar hafi vaxið viður í fornöld, en það verður ekki sannað, og ekki verður heldur vitað með vissu, hvort þar hafi verið bygð þegar á landnámstíð, eða rjett þar á eftir. Í Njálu er minst á Engéy og Laugarnes, en ekki getið Viðeyjar. Það virðist því sennilegast, að einhver hinna auðugu landnámsmanna hafi átt hana, og notað hana á líkan hátt og menn notuðu venjulega eyjar þær, er lágu undir stórbúin á landi uppi. Í eyjunum höfðu þeir nokkurs konar selstöð, en ekki fastan bústað. — Árið 1143 er komin bygð í eyna; þá var sá prestur á Gufunesi, er Ásgeir hjet og var Guðmundsson; hann gerði samning við Viðeyjarbúa, er snerti skipauppsátur, upprekstur og ýmislegt fleira. Í jarteinabók Þorláks biskups segir frá því, er biskup gisti í Viðey; var þá svo mikill músagangur í eyjunum, að stórtjón gerði akuryrkju og annari nytsemd. Þorlákur rjeð strax bót á þessum vandræðum; setti hann allar mýsnar niður í andnes eitt á eynni, og kvað hann þær engum að meini mundu verða, ef ekki væri sá blettur yrktur, eða við honum hreyft. Þessi spádómur biskups hjelst langan tíma. En að líkindum hefir einhver orðið til þess að brjóta þessar varúðarreglur biskups, því seinna komu mýsnar við

sögu Viðeyjar, en þó hefir síðar tekist að eyða þeim, því 1777 er þar músalaust með öllu, og þakkar Skúli Magnússon landfógeti það lundavarpinu; segir hann, að þær flýji fyrir lundanum og eyðileggist með öllu.

Nálægt 1200 er kirkja komin í Viðey, og þjónar henni þá prestur sá, er Bjarni heitir, og býr hann í eyjunum. Enn fremur er þess getið, að þar sje eggver mikið og akuryrkja, og virðist allur búskapur standa þar með miklum blóma. En það er fyrst árið 1223 að hin eiginlega saga Viðeyjar hefst, og liggja þar til þau rök, er nú skal greina.

Þorvaldur Gissurarson í Hruna, faðir Gissurar jarls, var talinn með fremstu höfðingjum sunnanlands fyrir margra hluta sakir. Hann var þá gamall orðinn, og tók það ráð að helga guði líf sitt, og ljet efna til klausturs í Viðey, er hann hafði þá keypt í því augnamiði. Hann fjekk Hallveigu Ormsdóttur til þess að gefa til guðsþakka allan hinn mikla auð, er hún hafði erft eftir frænda sinn, Kolskegg auðga í Stóradal; var það feiknafje í löndum og lausum aurum. Árið 1223 ljet hann byrja á klaustursmíðinni, og var henni lokið vorið 1226; sama ár vígði Magnús biskup í Skálholti klaustrið og fimm bræður undir Ágústínussreglu og Þorvald bróður sinn þann sjötta og setur hann þar prior.

Klausturkirkjan var helguð Guði, sælli Maríu, Jóhannesi postula, st. Pjetri, st. Páli og Ágústínusi. En enginn ábóti var skipaður eða vígður þangað, og stóð svo um hríð. Með vígslu klaustursins hefst vegur og virðing staðarins. Biskup gefur klaustrinu á vígsludegi þess allar biskupstíundir á milli Botns-

ár og Hafnarfjarðar. Árið eftir fær biskup því til vegar komið á alþingi, að almenningur játar að gefa osttoll á milli Botnsár og Reykjaness, síðan drífa að klaustrinu hvaðanæva heitgjafir og sálugjafir, því margir kusu líkama sínum leg í klausturkirkjunni, og gáfu með sjer mikið fje í legkaup, enda varð Viðeyjarklaustur ríkast allra klaustra á Íslandi og átti 110 jarðir þegar það var lagt niður, auk annara auðæfa, sem síðar mun sagt verða. Með því að vegur og gengi Viðeyjar er dugnaði þeirra manna að þakka, sem klaustrinu veittu forstöðu þann tíma, sem það stóð, tel jeg rjett að minnast hjer með nokkrum orðum hinna helstu, er höfðu þar völd á tímabilinu 1247—1539. Á því tímabili voru alls 17 ábótar og skal jeg nú geta nokurra þeirra.

Þorvaldur Gissurarson var hinn fyrsti yfirmaður klaustursins, eins og áður er sagt. Þótt hann væri ekki vígður ábótavígslu, hafði hann þó sömu völd í öllum framkvæmdum sem ábóti væri, og fór hann vel með þau völd, og þótt hann væri þá orðinn gamall maður, var dugnaður hans og kjarkur óbilandi, enda þurfti þess við, þar sem klaustrið var þá að komast á fót og við mikla erfiðleika að stríða. Þorvaldur Gissurarson deyði 1235, og ber öllum saman um það, að hann hafi verið einn hinn merkasti og göfugasti höfðingi síns tíma, og við lát hans sjest, að hann hefir verið búinn að auðga klaustrið mjög, bæði að löndum og lausum aurum. Viðey er þá talin alfrjáls, undanþegin öllum þeim ítökum, sem Gufunesingar höfðu áður gert tilkall til, og

klaustrið á þá mikil ítök um Kjalarnes, Mosfellssveit, Grindavík og Suðurnes.

Næstur Þorvaldi verður Styrmir prestur hinn fróði prior. Jeg hygg, að hann sje öllum ykkur svo kunnur fyrir mentun sína og fróðleik, að auðsætt sje hve mikils það var um vert hinu nýstofnaða klaustri og andlegum vexti þess, að sá maður tók þar við stjórn, einmitt um þetta leyti. Þá munu og flestir ykkar vita, hvað íslenskar fornbókmentir eiga honum mikið að þakka, enda hefst með komu hans til Viðeyjar nýtt tímabil í sögu klaustursins. Nú tóku ungir menn að sækja þangað til náms og fluttu þaðan síðan mentun og fróðleik út um landið. Styrmir fróði andaðist 20. febrúar 1245 og hafði hann þá verið yfirmaður klaustursins í 10 ár, en ekki tekið ábótavígslu.

Árið 1247 er hinn fyrsti reglulegi ábóti vígður, Arnór Helgason; var hann þá orðinn fjörgamall maður, enda naut hans við skamma stund, því hann dó tveim árum síðar, og er hans að litlu getið. — Næstur honum kemur Runólfur ábóti Ólafsson, og er hann talinn hinn mesti merkis maður, enda stýrði hann klaustrinu með veg og sóma alla sína ábótatíð. Á hans dögum var landbúnaður stundaður á klaustrinu með miklum dugnaði, og af gömlum skjölum sjest, að hann heldur uppi rjettindum klaustursins út á við um reka og önnur ítök og átti því í nokkrum deilum, en bar jafnan hærra hlut. Runólfur deyði 1299.

Árið 1335 var Helgi Sigurðsson vígður ábóti til Viðeyjar. Hann var talinn vel lærður klerkur, og

af brjefi, sem útgefið er í Björgvin í Noregi í hans tíð, viðvíkjandi bróður Þorvaldi úr Viðey, má sjá, að Helgi ábóti hefir látið sjer ant um lærdóm munkanna, því að bróðir Þorvaldur er í brjefinu talinn lærður maður, er geri klaustrinu sæmd. Þá má og ráða af brjefi þessu, að klausturlifnaður hafi um það skeið verið í góðu lagi um mentun og siðferði.

Árið 1344, 21. mars, varð sú breyting á reglugerð klaustursins, að Jón Sigurðsson Skálholtsbiskup aftekur Ágústínussreglu, sem upphaflega hafði verið sett, þegar klaustrið var stofnað og haldist hafði til þessa tíma, en setti þá aftur Benediktsreglu og sama dag vígði hann fimm bræður undir Benediktsreglu, og Sigmund prest Einarsson príor yfir klaustrið. Ekki er hægt að segja, hvað honum muni hafa gengið til að gera slíka nýbreytni, og ekki verður heldur sjeð, að hún hafi verið vinsæl, því Gyrðir biskup Ívarsson aftók hana 1352 og setti aftur Ágústínussreglu og hjelst hún upp frá því, uns klaustrið var lagt niður.

Árið 1367, 19. maí, setti Oddgeir biskup Þorsteinsson máldaga Viðeyjarklausturs eða endurnýjað annan eldri, og með því að máldagi þessi sýnir, hvernig hagur Viðeyjarklausturs hefir þá staðið og að nokkru leyti líka, hvernig búskapurinn þá hefir gengið í Viðey, set jeg hjer sýnishorn af nefndum máldaga, en tel þó að eins upp lifandi pening klaustursins. Skýrslan verður þá á þessa leið: Hálfur sjöundi tugur geldinga tvævett og eldra með 4 hrútum. Hálfur áttundi tugur veturgamalt. Ásauður hálfur þriðji tugur annars hundraðs. Geldnaut þrevetur og eldri

20; tvævetur og veturgömul 60; kálfar 31; kýr 50. Hestar rosknir 18 og 2 tvævetrir. Merhryssi roskin 12 og fjögur tvævetur og eitt veturgamalt. Eftir því sem mjer skilst, hefir þessi fjenaður heyrt til Viðey, þegar máldaginn er saminn. Hinsvegar er líklegt, að bæði hafi einhverju af fjenaði þessum verið komið til göngu á landi uppi og líka heyja aflað úr eyjum þeim, er næstar lágu klaustrinu, svo og af næstu jörðum á meginlandinu, því að þegar klaustrið átti flestar jarðir, þá töldust þær 110, sem fyr segir. En auk alls þessa átti og klaustrið auð fjár í gulli, silfri, dýrgripum og öðrum þarflegum munum.

Jeg hefi áður getið þess, að mentun og lærdómur fluttist til Viðeyjar með Styrmi presti hinum fróða, og eftir hans daga hjelst þetta við á klaustrinu.

Þess má geta, að 1380 er sá ábóti í Viðey, er Páll hjet og hafði drengi til kenslu og lærði þá vel; urðu sumir þeirra síðar prestar, og má því ætla, að skóli hafi verið haldinn í klaustrinu, og vel get jeg trúað því, að Viðeyjarklaustur hafi lagt sinn skerf til íslenskra bókmenta á móts við önnur klaustur landsins, en við vitum, að klaustrunum eigum við mikið að þakka okkar fornbókmentir. Í klaustrunum hafa þær vafalaust hafist og blómgast og síðan varðveist. En þetta mundi þó betur sjást, ef við ættum nákvæma sögu um bókmentastarfsemi klaustranna á landi hjer frá þeim tíma, er klaustur voru stofnuð og til þess er þau voru lögð niður.

Árið 1444 er sá ábóti í Viðey, er Steinmóður heitir, og þótti vera einn hinna fremstu presta þeirra, er þá voru uppi sunnanlands. Naut hann

mikillar virðingar og taldi Þorleifur hirðstjóri hann meðal hinna fremstu ábóta á Íslandi. Hann stýrði klaustrinu með miklum skörungsskap til dauðadags, 1481. Eftirmaður hans var Jón Árnason, orðlagður fyrir karlmensku og hugrekki, og er mælt, að hann lenti í deilum við Englendinga suður í Hafnarfirði árið 1490;* vildu Englendingar ræna þar skreið ábóta, og er sagt, að þeir næðu henni á sitt vald. En þenna yfirgang þoldi ábóti ekki, og lagði hann til orustu við þá en liðsmunur var svo mikill, að sagt er, að ábóti hefði að eins 30 menn (einvalalið) en hinir 300. En þótt liðsmunur væri mikill, vann ábóti frægan sigur; rak Engla á flótta, og náði skreiðinni, og misti hann fátt manna, en Snjólfur sonur hans fjell þar og var bættur þrennum manngjöldum. Af Englum fjell mikið lið. Varð Jón frægur um alt land af framgöngu sinni, en 4 árum síðar andaðist hann, 1494, og þótti verið hafa hinn mesti afreksmaður.

Tveimur árum síðar verður Árni Sveinbjarnarson ábóti í Viðey, og auðgar mjög klaustrið að löndum og lausum aurum. Gáfust klaustrinu í hans ábótatíð miklar sálugjafir: Engey gefur Hólmfríður Vigfúsdóttir fyrir sálu foreldra sinna, en Hest í Borgarfirði gefur Halldóra Guðmundsdóttir sömul. fyrir sálu foreldra sinna; þá gefur og húsfrú Guðrún í Brautar-

---

* Það sem hjer er sagt um viðureign Jóns ábóta við Englendinga, mun eigi vera rjett. Er vafalítið, að það sje Steinmóður ábóti, sem átti orustu þessa við Englendinga, því Snjólfur sá, er fjell, var sonur hans; hefir því bardagi þessi orðið milli 1470 og 1480, en ekki 1490, eins og Espólín segir.

holti Klausturhóla í Grímsnesi fyrir sálu Vigfúsar bónda síns og Erlends sonar síns, og þá á klaustrið nálega öll ítök alt frá Botnsá til Reykjaness, svo og í Grindavík og Herdísarvík. En eignir klaustursins náðu lengra, því að ábóti keypti jarðir alt austur í Rangárvallasýslu. Þess er getið, að 12. maí 1503 kaupir hann Ölvatnsholt (Ölversholt), er liggur í Marteinstungusókn í Rangárvallasýslu, af Þorvarði Erlendssyni, og geldur honum fyrir 20 hundruð í fríðum peningum. Sparaði hann ekkert til að auka veg og gengi klaustursins, enda er hann talinn einn af hinum mestu athafnamönnum, er þar hafa verið. Hann dó 1515. Árið 1516 verður Ögmundur Pálsson, er síðar varð biskup, ábóti í Viðey, og eins og allir vita, er lesið hafa sögu Íslands, var hann hinn mesti atkvæðamaður; var hann ærið framkvæmdasamur á klaustrinu, bæði inn á við um húsagerð, og út á við í jarðakaupum. Er líklegt, að í hans ábótatíð hafi vegur klaustursins staðið með mestum blóma. Hann var bæði stórhuga og rausnarlegur í gjöfum og veitingum. Sumarið 1519 varð sá atburður þar, er hann tók sjer nærri. Stefán biskup heimsótti klaustrið á yfirreið sinni, og tók ábóti honum tveim höndum og sló upp veislu mikilli; var óspart veitt og að líkindum drukkið fast. Frænda biskups, Erlend Þorvarðsson (sem seinna varð lögmaður), henti þá það slys, að hann varð saklausum manni að bana, er Ormur hjet. Ormur sá var systursonur Ögmundar ábóta, og var vígið talið klaustursaurgun. Gerði biskup alt, sem unt var, til að breiða yfir spjöllin, og meðal annars er mælt, að hann hafi þá

kosið Ögmund ábóta fyrir eftirmann sinn á Skálholtsstól. Þess var líka stutt að bíða, að Ögmundur settist í sæti hans, því biskup andaðist næsta haust, á Andrjesarmessu. Var þá Ögmundur sóttur til þess að jarðsyngja biskup, og veita embættinu forstöðu. Eftir daga Ögmundar í Viðey, kveður lítið að þeim ábótum, er þar sitja; helstur þeirra mun vera Alexíus Pálsson, er síðar mun hjer getið. Á árunum 1520 til 1535 gengur alt sinn vanalega gang, hægt og rólega, svo að ekki sætir stórtíðindum, því ófriðaröldur þær, sem siðaskiftin höfðu annars staðar í för með sjer, náðu enn ekki til hins friðsæla klausturs. Einu frjettirnar, sem klaustrinu hafa að líkindum borist um þetta efni, er hirðisbrjef Ögmundar biskups, er hann ljet lesa upp við hverja einustu kirkju í Skálholtsstifti. Í því brjefi varar hann alla alvarlega við villu þeirri, er grámunkur einn suður á Þýskalandi hafi fundið upp, og áminnir alla að forðast hana en halda fast við kenningu þá, er kirkjan hafi frá alda öðli kent sem hina einu sönnu sáluhjálplegu trú. Jeg tel víst, að brjef þetta hafi verið lesið upp í Viðeyjarkirkju, eða á annan hátt verið birt munkunum og heimamönnum klaustursins. Eftir því sem biskup í þessu brjefi lýsir siðaskiftum Lúthers og viðtökum þeim, er þau hafa fengið, má ætla, að munkunum hafi ekki komið til hugar, að trú þeirra eða klaustrinu stæði hin minsta hætta af þeim. Síst af öllu gat þeim dottið í hug, að jafnhliða þessu væri að draga upp þá ófriðarbliku, sem úr skyldi steypast það flóð, er kollvarpaði hinu veglega og rambygða klaustri og jafnaði

alla dýrð þess við jörðu, og það svo vendilega, að vart sæi þar til húsa framar, og að þeir sjálfir mundu verða húsviltir og hælislausir. En þó stóð nú þessi skapadómur klaustursins nær, en nokkurn þeirra grunaði þá, því um þessar mundir dregur upp ófriðar- og óhamingjublikuna sem óðast suður í konungsgarðinum, Bessastöðum, og þar eru þau ráð ráðin, sem verst og óþörfust hafa verið Íslandi og íbúum þess á því tímabili, sem hjer er um að ræða.

Kláus hinn þýski var nú orðinn höfuðsmaður, en umboðsmaður hans var Diðrik af Mynden. Sóknarprestur þeirra var Einar prestur Ólafsson í Görðum, hinn merkasti maður. Samkomulagið á milli Garða- og Bessastaðamanna var í hans tíð ekki sem allra best, og þeir kirkjubændurnir á Bessastöðum ekki híbýlaprúðari en svo, að Diðrik flaug margoft á prest, þegar hann var kominn þangað til að embætta; ganga ófagrar sögur af þeim viðtökum, er presti voru veittar, en þess hefi jeg annars staðar getið nánar, og minnist því hjer þess eins, að Einar kveður þá Diðrik hafa öfundast mjög yfir auði Viðeyjarklausturs; kveðst Einar hafa hlustað á þá ráðagerð þeirra, 1535, að ræna klaustrið, en sá hængur var á þeirri ráðagerð, að afl skorti til framkvæmda, þótt eigi vantaði viljann. En þá fór sem oftar, að „Íslands óhamingju verður alt að vopni.“ Íslendingar urðu til þess sjálfir að leggja til þann manninn, sem verst og svívirðilegast ljek Viðey og íbúa hennar, en þessi maður var Pjetur Einarsson frá Stað á Ölduhrygg („Gleraugna-Pjet-

ur“).* Nokkru fyrr en hjer er komið, hafði Pjetur komið frá Þýskalandi fjelaus, og leitaði þá á náðir Ögmundar biskups, er tók honum vel, og ætlaði Pjetur sjer trúan og hollan. Er þar skjótast af að segja, að þegar Pjetur sá sjer færi, rauf hann trúnað við biskup og gekk í flokk Bessastaðamanna, sem hann vissi, að voru svarnir óvinir biskups og kirkjunnar. Tíundaði hann fyrir þeim eignir klaustursins, enda mun hann hafa verið sannfróður um hagi þess, er hann var nýkominn úr þjónustu biskups. Það er sagt, að hann hafi fastlega eggjað þá til stórræðanna, en við nánari rannsókn reyndist þeim, að ekki mundi eins auðvelt að ræna klaustrið og þeir ætluðu í fyrstu. Ábótinn, Alexíus Pálsson, var talinn margra manna maki að afli, og hafði marga húskarla hrausta og ókvalráða, svo sem Núp verkstjóra og fleiri. Bessastaðamenn urðu því að bíða uns tækifæri byðist, og það bauðst von bráðar, enda voru þeir þá ekki seinir að grípa það. Vorið 1539 fór ábótinn austur í Grímsnes að innheimta landsskuldir klaustursins, og meðan hann var fjarverandi, á sjálfa hvítasunnunótt, tók Diðrik sig upp frá Bessastöðum með sveina sína. Hann var þá umboðsmaður Kláusar, er um þær mundir dvaldi erlendis. Diðrik hjelt með flokkinn frá Bessastöðum laugardagskvöldið fyrir hvítasunnu áleiðis til Viðeyjar. Þeir komu í eyna á hvítasunnumorgun, þá er sól rann upp. Fólkið var þá enn í svefni; tóku þeir hús á mönnum, og ljeku þá ærið hart, börðu suma og særðu aðra. En þeir leituðu til lands, er

* Sjá þó bls. 209 hjer að framan, neðanmáls.

því máttu við koma, og forðuðu sjer undan á „Thumaskollinum“ (en svo hjet stórt skip, sem klaustrið átti). Diðrik settist í klaustrið og rændi það-an 20 nautum, 100 sauðum og 7000 fiska, auk annars.

Lítill vafi leikur á því, að „Gleraugna-Pjetur“ hafi verið í þessari Viðeyjarför,* og að minsta kosti átti hann mikinn þátt í, að hún var farin. Sjest það með-al annars á brjefi, sem Ögmundur biskup gefur út þetta sama sumar út af ráninu í Viðey, og kærir Pjetur um eiðrof við sig og um ránið, og hótar hon-um banni hinu mesta.

Eins og kunnugt er, dró konungur undir sig allar eignir klaustranna á Íslandi, fastar og lausar, og þar sem Viðey var langríkasta klaustrið á landinu og allþægileg til afnota sjálf, þá var svo sem auð-vitað, að ágirndin, sem komið hafði af stað ráninu í Viðey, mundi ekki láta þar staðar numið. Enda er það eitt hið sorglegasta í sögu siðaskiftanna, hve sumir virðast sakir ágirndar hafa snúist gegn fóst-urjörðu sinni, fótumtroðið rjettindi kirkjunnar, stofnað sjálfstæði þjóðarinnar í voða, og verið um leið ótrúir konungi sínum. Gleraugna-Pjetur fjekk Viðey hjá konungi til ábúðar, og hefi jeg áður get-ið þess, hvern minnisvarða hann reisti sjer þar í húsagerð og öðru framferði sínu. (Sjá bls. 201 o. s. frv. hjer að framan). Danir tóku, sem kunnugt er, allar jarðir Viðeyjar, pening, dýrgripi og hvað eina. Sem dæmi þess, hve mikils virði allir dýrgripirnir hafa verið, má geta þess, að einn einasti hátíða-

---

* Sjá bls. 209 hjer að framan, neðanmáls.

kaleikur, sem seldur var, var virtur á 800 silfurs, eftir sögn sjera Einars Ólafssonar, sem sjeð hafði þennan dýrgrip. Nú var alt tekið, dautt og lifandi, og staðurinn rúinn af erlendum og innlendum ránsmönnum. Þó var eins og rofaði til um augnablik 1550, er Jón biskup Arason fór út í Viðey og rak þaðan Lárus Mula og fylgifiska hans, hreinsaði til, eins og þar er að orði komist. En það stóð stutta stund, því Jón Arason var líflátinn sama haustið og með dauða hans hvarf hin síðasta von um endurreisn kaþólskunnar og klausturlifnaðar hjer á landi.

Með ráninu 1539, og þá einkum eftir siðaskiftin, gerist saga Viðeyjar næsta óljós. Viðey verður nokkurs konar selstöð frá Bessastöðum. Hún er gerð að spítala eða hæli fyrir gamalt og örvasa fólk. Niðurníðslan verður þar æ meiri og meiri, og árið 1600 lýsir Oddur biskup Einarsson Viðey á þá leið, að þar hafi áður verið mætast klaustur á Íslandi, en sje nú ekki utan rofin og tóftirnar og dálítill hrörlegur kirkjukofi; engin ornamenta, „nema moldirnar og sex eða sjö ölmusukerlingar.“ Árni Magnússon lýsir Viðey þannig, að þar sjeu tún mikil, en yfirleitt slæm; engi mikið, ef ræktað væri; eggver kveður hann verið hafa gott, en sje nú að mestu leyti eyðilagt; og seinna lýsir Eggert Ólafsson Viðey þannig, að tún og engjar sjeu í mestu niðurníðslu, eggverið eyðilagt, húsin flest fallin og þau sem uppi standi sjeu mjög hrörleg. Þótt þessar lýsingar sjeu ekki fallegar, eru þær líklega því miður alveg rjettar.

Danir þeir, sem dvöldu hjer á landi um þetta leyti og höfðu hjer völd, hugsuðu um alt annað en

jarða- og húsabætur, enda ber konungsgarðurinn sjálfur, Bessastaðir, þess ljósan vott; og þar sem heimastaðurinn sjálfur var ekki vel setinn, var þess ekki að vænta, að Viðey, sem auðvitað var skoðuð sem hjáleiga frá höfuðbólinu, ætti upp á háborðið.

Árið 1750 hefst nýtt tímabil í sögu Viðeyjar. — Hinn ötuli og framkvæmdarsami sýslumaður Skagfirðinga, Skúli Magnússon, fær landfógetaembættið, og litlu síðar Viðey til ábúðar, og flytur þangað. Tekur hann von bráðar að endurreisa alt á eynni, bæði hús og annað. Jeg hefi þegar minst á íbúðarhúsið og kirkjuna, sem hann ljet reisa; en hann ljet gera fleira enn. Skoðunargerðin, sem fram fór í Viðey 25. apríl 1781, sýnir það best. Auk hússins og kirkjunnar, sem áður er getið, er þar gefin skýrsla um þessi hús: Stofa í 7 stafgólfum og 7 álna breið; skáli 12 álna langur og 7 álnir á breidd; hús í 4 stafgólfum og 7 álna breitt; bæjardyr í 4 stafgólfum og 6 álnir á breidd; móhús 22 faðmar ummáls; kálhús 7 faðmar ummáls og var þakið tekið af á sumrum, en sett á á vetrum; fjós handa 30 kúm; annað fjós handa 9 kúm eða 10 ungneytum; nautafjós og hesthús. — Garðarnir voru þessir: Girðing um þvera eyna út í sjó báðum megin, og var hún 395 faðmar á lengd; önnur girðing frá kálgarði út í Naustabrekku, 55 faðmar; kirkjugarður 25 faðmar; kálgarður 130 faðmar; heygarður við fjósið 28 faðmar; annar við hesthúsið 10 faðmar; þriðji við nautafjós 12 faðmar; en öll þessi hús og garðar voru í besta ásigkomulagi og vel haldið við.

Auk þess, sem hjer er talið, ljet hann reisa fjár-

hús á vestureynni. Í jarðabótum ljet hann ekki minna til sín taka. Því hefir þegar verið að nokkru lýst, í hvaða ástandi Viðey var, er hann kom þangað; en nokkru eftir að hann er þangað kominn, þykir Viðey best setinn jörð í allri sýslunni. Í túninu sljettaði hann mikið, enda hjelt hann jafnan 10 góða vinnumenn. Kálgarða hafði hann feikistóra og ræktaði mikið af grænkáli. Korn- og trjárækt stundaði hann og tók stórar spildur til sáningar; þreifst kornið betur hjá honum en annars staðar, því ekrurnar voru vel hirtar og ekkert sparað. Skúli hafði erlendan mann til umsjónar við ræktunina, og mun oft hafa verið um 40—50 manns heimilisfast hjá honum. Fyrir framúrskarandi dugnað í jarðeplarækt fjekk hann frá landbúnaðarfjelaginu danska stóran verðlaunapening úr silfri árið 1776. Þó er ekki minst um það vert, hvernig hann bætti æðarvarpið. Þegar hann kom til eyjarinnar, sást þar varla fugl, en ekki leið á löngu, áður hann hafði friðað svo fyrir æðarfuglinum, að hann tók að hreiðra sig með sjó fram. Eftir skýrslu frá hans dögum, fengust á ári 9700 egg og 80—90 pund af hreinsuðum dún; og svo var æðarfuglinn spakur, að í sjálfu túninu voru stundum talin 500 hreiður, en úti um eyna varð ekki tölu á komið. Árið 1781 hafði hann 28 kýr auk ungneyta, talsvert af sauðfje og nokkuð af hrossum, enda stóð búið með miklum blóma flest búskaparár hans. Skúli fógeti andaðist 21. nóvember 1794.

Jeg hefi minst á byggingar og jarðabætur þær, sem gerðar voru á dögum Skúla til að sýna, að

Viðey var flestum stöðum betri til þess að gera á henni ýmsar tilraunir um jarðrækt og akuryrkju, og að hún endurgalt að sínu leyti þann sóma, er henni var sýndur; og gleðiefni hlýtur það að vera hverjum sönnum Íslendingi að kynnast sögu Viðeyjar, koma þangað og sjá, að enn í dag hlífir henni hinn sami huldi verndarkraftur, sem blessað hefir frá fyrstu tíð starf allra þeirra, sem í Viðey hafa verið og þar unnið henni til prýði og fegurðar, og sjálfum sjer til gagns og sæmdar.

Sá, sem næstur bjó í Viðey eftir Skúla fógeta, var Ólafur Stephensen stiftamtmaður. Hann hafði um tíma æðstu völd hjer á landi, og var höfðingi mikill; en eftir því sem ráða má, hefir hann ekki setið Viðey eins vel og Skúli, og ekki unnið mikið að húsabótum eða jarðabótum, og mikið er æðarvarpið minna á hans dögum en áður var hjá Skúla, meðan alt stóð í blóma.

En sagður var Ólafur höfðingi mikill heim að sækja, og ljúka erlendir ferðamenn miklu lofsorði á rausn hans. Skulu nú því til sönnunar tilfærðir nokkrir kaflar úr ferðasögu Hookers, sem var enskur grasfræðingur og heimsótti Ólaf Stephensen sumarið 1809, en þar að auki lýsir sagan ýmsu, er snertir Viðey, og því hefi jeg tekið hana upp hjer, þótt hún sje nokkuð löng: „27. júní 1809. Þriðjudagur. Þessi dagur var ætlaður til að heilsa upp á gamla stiftamtmanninn, Ólaf Stephánsson, sem hefir geheimeetazráðs nafnbót, og áður var landsstjóri á ey þessari. Herra Phelps, herra Jörgensen og jeg stigum á hádegi í íslenskan siglingarbát, með átta

manns undir árum. Það voru hjer um bil 4 mílur (enskar) þangað sem stiftamtmaðurinn bjó, en það er á yndislegri ey, sem heitir Viðey. Þegar við nálguðumst eyna, sáum við húsið. Það stendur all-lágt, millum tveggja hæða. Þegar all skamt var eftir vegarins, leit það út sem mikið álitlegt aðsetur, og var það stærra hús og að ytra áliti nokkru tígulegra, en nokurt annað hús, er jeg hafði enn sjeð á Íslandi. Það er úr sementlímdum steini og fjalaþak á, og er með fjölmörgum glergluggum. Þegar við lentum og komum nær, sáum við samt, að hjer var sorglegur skortur á trjesmiðum, múrurum og glermeisturum. Glerið í þeim gluggum, sem annars voru enn þá heilir, var eins og alment gerist, en flestar rúðurnar voru brotnar. Þó að það væri að utan breitt yfir það með trjehlerum, svo það sæist ekki. Útidyr voru á miðju húsinu. Það var ofboð ljelegur súlnagangur úr trje, og voru dyr út úr beggja vegna. Hefði súlnagangur þessi verið í betra standi, þá mátti hann vel vera til skjóls fyrir köldum vindum, en nú er hann svo hrörlegur, að hann er hvorki til gagns nje prýði. Jeg get ekki líkt súlnagangnum fremur við annað en svínstí setta þarna við vegginn, en heldur í hærra lagi. En þótt það væri ekki neitt meistarahandbragð utan á húsinu, þó bjó eigandi þar, sem tók oss svo vel og veitti oss svo frábærlega, að slíkt vekti traust á forstjóra hvers lands, sem enn væri í embætti, og því meira á þeim, er lagt hefir niður völdin, og er þetta þess vert, að fara um það nokkrum orðum frekar. Mjer er líka því nær skapi að fjölyrða þetta nokkuð svo, að þetta er í fyrsta skifti, sem

jeg hefi haft tækifæri að sjá hætti nokkurs Íslendings, er kunni sig, og á betra mann var varla hægt að hitta. Þegar við áttum nokkur hundruð álna að húsinu kom stiftamtmaðurinn á móti okkur að bjóða okkur velkomna til landsins og til ennar litlu eyjar sinnar. Yfirbragðið var sljett og hraustlegt og hann var andlega ósljófgaður með öllu, og var þó á áttunda vetri yfir sjötugt. Í samræðu var hann ákaflega lipur og fjörugur. Hann var í þetta skifti í öllum einkennisbúningi, sem stiftamtmaður á Íslandi, nema hann hafði ekki sverð á hlið. Hann var í skarlatsfrakka; var hann gullvíraður og græn uppslögin; brækurnar voru úr bláu klæði með gull-leggingum; hálfleggja-skó hafði hann á fótum með gullböndum og skúfum í. .... Við vorum strax leiddir í gegn um súlnaganginn og urðum við að beygja okkur í dyrunum, en komum strax í mikinn sal með stórum trjestiga; þaðan gengum við í gegnum mikið og hátt hebergi inn í svefnherbergi stiftamtmanns. Þar fjekk jeg honum meðmælabrjef, er jeg hafði til hans og bækur, er herra Joseph Banks sendi honum. .... Á meðan við vorum að tala saman, var okkur boðið romm og tvíbökur, norrænar, og því næst gengum við dálítið út um eyna, sem var varla meira en 2 mílur enskar ummáls, og er einhver frjósamasti blettur á Íslandi, gott sauðland, ágætt fyrir kýr og hross, mótak gott og vatnskostir góðir.“ — Stiftamtmaður sýndi þeim æðarvarpið, sem var í miklum blóma, og stóð þá æðardúnspundið í 3 ríkisdölum og af Viðey fengust 20 pund. Hooker getur þess, að Ólafur Stephensen hafi ekki einungis ver-

ið ágætur maður sem yfirvald, heldur einnig mesti lærdómsmaður.

„Jeg hefi sjaldan, ef það hefir annars nokkurn tíma komið fyrir mig, sjeð, jafnvel í þeim löndum þar sem vísindin standa á hæðsta stigi, svo mikið safn af sæmdarskjölum og heiðurspeningum, eins og í þessum afskekta krók eins hins afskektasta lands í allri Norðurálfunni. .... Við vorum naumast komnir svo langt sem við ætluðum, þegar þjónustumaður kom og sagði að miðdegisverður væri á borði; við urðum því að hverfa heim og hefðum þó viljað ganga lengur, því það var enn snemma dags og hallaði laust af hádegi og við vorum búnir að fá okkur hressingu og vorum því ekki svangir. Borðið var sett fram í hinn mikla sal, sem jeg þegar hefi getið um. Gólfið var allgott og veggirnir höfðu einu sinni verið hvítir. Húsbúnaður í herbergi því var borð, fimm borðstofustólar, tvær dragkistur miklar, og stóðu á þeim ýmsir munir, er helst virtust vera úr postulíni, og sumir af þeim ætla jeg og hafi verið það. Tvennum stofudyrum var og lokið upp og kom æði mikið af ágætum silfurdiskum. Tveir speglar og báðir miklir og í fornum stíl stóðu á millum glugganna, en neðan við þá stóð marmaraborð og giltir fætur undir, en brotnir voru þeir svo, að borðin stóðu næsta hall-fleytt. Eitthvað 60 myndir pentaðar og prentaðar, sumar í umgjörð og þó gler fyrir fáum af þeim, huldu nokkurn veginn nekt veggjanna. Því verður ekki neitað, að mestur hluti þeirra var að prentun ekkert fram yfir það, er alment gerist. En af því margt af þeim voru pentmyndir af

vinum stiftamtmanns eða prentmyndir af konungum og öðru stórmenni í Danmörku höfðu þær gildi sitt, og nöfn manna og titlar þeirra voru þuldir yfir okkur mjög nákvæmlega með auðsjáanlegri ánægju. Safn þetta er víst hið besta safn á landinu af máluðum og prentuðum myndum. Þegar við settumst til borðs kom svolítið babb í bátinn, því það brotnaði stóllinn, sem stiftamtmaðurinn hafði sest á, en það lagaðist fljótt af því að einn stóll var afgangs. .... Á borðdúknum var ekkert annað en diskar, hnífar og gafflar, vínglas og flaska með klaret fyrir hvern gest, nema hvað á miðju borði stóð mikill og fagur glerbjór fyrir sykur og skrautlegur silfurtoppur á. Íslendingar drekka hvorki maltöl nje vatn og ekki hafa þeir heldur salt með mat. Diskar eru bornir inn hver fyrir sig; fyrst kom á borð skál mikil með súpu, en það var uppáhalds áauki miðdegisverðar hjá hinu ríkara fólki; er hún búin til úr viðgrjónum (sago), klaret og rúsínum og soðin í mauk. Það var ausið upp á tvo fleytifulla diska af súpunni og átum við það án þess að vita, hvort við fengjum meira; en óðara en súpan var borin út komu inn tveir laxar miklir, soðnir og skornir í stykki og þar með fylgdi brísmjer, sem líktist olíu og var blandað í það ediki og pipar, en það var samt gott og rembdumst við að klára af diskunum og vonuðum af alhug, að þar með væri miðdegisverðinum lokið, en ekki varð okkur að því, því að þá var borinn inn rogafull skál af kríueggjum harðsoðnum og voru tólf látin á disk handa hverjum okkar. .... Við beiddum mikillega að afsaka að við

gætum ekki etið eggin upp af diskum okkar, en það þýddi ekki mikið. „Þið eruð gestir mínir,“ sagði stiftamtmaður, „og þetta er í fyrsta skifti, sem þið hafið sýnt mjer þann sóma að heimsækja mig, því verðið þið nú að gera svo sem jeg vil; þegar þið komið eftirleiðis til mín, þá megið þið gera eins og ykkur líkar.“ Hann afsakað með elli sinni að hann gæti ekki borðað með, og gátum við ekki haft neitt á móti því.“ Streyttust þeir þá við að koma í sig eggjunum og hjeldu þá að alt væri búið, en þá kom inn hálft sauðarkrof, steikt vel og sætar og soðnar vallarsúrur með. Stiftamtmaðurinn hroka-fylti hjá þeim diskana með kjöti og sósu, og þýddi ekkert fyrir þá að færast undan. En þar með var ekki alt búið, því þá kom inn diskur mikill með grindabrauði (vöfflum) og kvaðst stiftamtmaður gera sig ánægðan, ef hver þeirra æti 2 kökur af því. Norrænar kökur voru á borði og skorið rúgbrauð. Úr flöskunum varð hver að klára. Eftir borðhald kom kaffi, og segir Hooker, að það hafi verið frábærlega gott. Þegar því var lokið kom inn gríðarmikil kolla með „rommpúnsi“ og var það borið ört á í stórum glösum og jafnan drukkið þeim til við hvert glas. „Baron Banks“ var viðkvæðið hjá stiftamtmanni, þegar tæma skyldi glösin, svo að þeir gætu látið í þau aftur og drukkið heilsufull hans. Loksins gátu þeir þó sloppið og enduðu þessa „óvenjulegu veislu“, segir Hooker, með þremur bollum af tevatni. Komu þeir til Reykjavíkur kl. 10 um kvöldið. Síðar meir voru þeir allir staddir saman heima á Englandi hjá herra Jóni Stanley: Hooker sjálfur, herra Joseph

Banks og Bright, og höfðu þeir heimsótt Ólaf Stephensen og mintust þá þess dags, hver um sig, með mikilli ánægju. Þremur árum seinna andaðist Ólafur stiftamtmaður, 11. nóv. 1812, þá rúmlega áttræður.

Árið 1813 fluttist Magnús konferensráð, sonur Ólafs stiftamtmanns, búferlum frá Innra-Hólmi að Viðey. Hann var mesti atorkumaður og keypti eyna 1816, og varð hún þar með aftur eign innlends manns. Magnús fjekk prentverkið til Viðeyjar, og var þar prentsmiðja 1816—1844. Sparaði hann hvorki fje nje fyrirhöfn til þess að koma þeim bókum á prent, er hann áleit að landsmönnum mættu að gagni koma. Varð nú Viðey aftur sá staður landsins, sem efldi og útbreyddi mentun og fróðleik um alt land. — Magnús andaðist 6. mars 1833. Sonur Magnúsar, Ólafur sekreteri, hjelt prentverkinu áfram með miklum dugnaði. Hafði hann í Viðey bú mikið og lagði mikla stund á að auka æðarvarpið, enda blómgaðist það prýðilega um hans daga. Árið 1861 ljet hann flytja hjera frá Færeyjum og ætlaði, að þeir mundu þrífast vel, en það brást, enda skemdu þeir varpið, og varð að drepa þá eftir stuttan tíma.

Mikið orð fór af því, hversu Ólafur tók höfðinglega á móti þeim gestum, er að garði hans bar. Er gömlum mönnum minnisstætt, hve margir fjölmentu úr Reykjavík inn í Viðey á sumrin, einkum á sunnudögum, þegar þar bar að messa. Sjera Magnús Grímsson var prestur að Mosfelli árin 1845—1850. Hann þótti klerkur góður. Viðey lá þá, eins og enn, undir Mosfellsprestakall, og bar sjera Magnúsi að messa þar vissa sunnudaga eftir því, sem tala rann

til. Var það jafnan á sumrin, þá er hann messaði þar og veður leyfði, að svo mikið fjölmenni kom úr landi til Viðeyjarkirkju, að kirkjan, sem reyndar er lítil, rúmaði minstan hluta þess safnaðar. En öllum, sem til kirkju komu, voru heimilar góðgjörðir að aflokinni messu, því kirkjubóndinn, Ólafur sekreteri, var ekki matsár við hjú sín eða gesti. Sló hann margoft upp veislu, og dvöldu kirkjugestirnir oftlega hjá honum fram undir kvöld og sumir lengur, og hjeldu svo heim glaðir og ánægðir fyrir gestrisni hans og góðar viðtökur. En það áttu fleiri leið til Viðeyjar á öllum tímum ársins, meðan hann rjeð þar húsum. Skólapiltar dvöldu þar í jólaleyfi sínu, og margur taldi það sína mestu ánægjuferð að hafa komið í Viðey, og heilsað þar upp á húsbóndann, eins og hann var oft kallaður; skoðað eyna og þáð þar margvíslegan beina, er hann veitti svo rausnarlega; og rausn sinni hjelt hann til dauðadags, 4. apríl 1872. — Saga Viðeyjar frá 1872 og til þessa tíma, er svo kunn, að jeg finn ekki ástæðu til að halda lengra, þar sem jeg hefi fáu við að bæta, nema því einu, sem allir vita eins vel og jeg, nema betur sje. Að lokum vil jeg geta þess, að Viðey er með sögurikustu stöðum á landi hjer. En þeir staðir, er eiga sjer langa sögu, þá er sumt ánægjulegt, en sumt dapurlegt. Og svo er og um Viðey; þætti mjer ekki ólíklegt, að einhver sá, er fyrsta sinni kemur til Viðeyjar, hugsaði líkt og Byron forðum, er hann stóð á Maraþonsvöllum:

Hló mjer í leiðslu hugarsjón,
er hugði jeg frjálsa Grikkjaþjóð,

því þræll gat jeg ei þókst með hnjóð,
þar sem jeg Persa grafir tróð.“

Og hann mun þá jafnframt óska þess, að drottinn sendi þessum merka sögustað Íslands, Viðey, bæði nú og á komandi tíma, þá menn, er eigi sjeu lakari að dugnaði og hæfileikum þeim mönnum, er bestir hafa í Viðey búið, svo nútíðar- og framtíðarsaga Viðeyjar verði skrifuð með ljósari og jafnfegurri litum, en sumir kaflar fortíðarsögu hennar.

---

# Bessastaðir.

**Fyrirlestur fluttur í K. F. U. M. 6. mars 1916.**

---

Heiðruðu tilheyrendur!

Eigi veit jeg fyrir víst, hvort Bessastaðir eru landnámsjörð, en fyrst hefi jeg sjeð þeirra getið í Sturlungu.

Páll lögmaður Vídalín getur þess í Skýringum sínum yfir fornyrði lögbókar, að Bessastaðir hafi upphaflega verið eign Snorra Sturlusonar, svo og Eyvindarstaðir. Húsaði Snorri jörðina vel; en við lát Snorra, 1241, kastaði Hákon konungur eign sinni á Bessastaði, því hann taldi sjer alt fje Snorra, fast og laust; eru Bessastaðir þannig meðal hinna fyrstu fasteigna, er falla í eigu konungs; en þeir urðu því miður ekki síðasta „jörðin“, er þá leiðina fór.

Það er líklegt, að konungsmenn hafi mjög snemma fengið augastað á Bessastöðum sem æskilegum bústað, þá er konungsvaldið tók fyrir alvöru að aukast hjer á landi.

Þess er getið, að kirkja væri snemma reist á Bessastöðum, þótt ekki væri hún að upphafi svo vegleg sem síðar varð, er höfuðsmenn og umboðsmenn þeirra, voru sestir á staðinn fyrir fult og alt.

En fyrst framan af virðast hirðstjórar hafa haft skammar setur á Bessastöðum, einkum þó þeir, er íslenskir voru. Mun jeg nú geta nokkurra þessara „dándismanna“, er að einhverju leyti hafa komið við sögu Bessastaða.

Árið 1354 hjelt Ívar Hólmur, sem þá hafði hirðstjóravald yfir öllu landinu, all-fjölmenna samkomu á Bessastöðum; var það á langafrjádag; dæmdi hann þar dóma og gjörði ýmsar samþyktir með ráði hinna vitrustu manna.

Árið 1348 dó Holti Þorgrímsson hirðstjóri; en 1352 er þess getið, að Brynhildur ekkja hans hafi gefið Bessastaðakirkju miklar eignir og ágætar.

Einn af hinum merkustu hirðstjórum dönskum var Diðrik Pining. Hann sat á Bessastöðum, og þótti vera stjórnsamur, og reyndist landsbúum vel í mörgu. Við hann er kendur Pinings-dómur, all-þörf rjettarbót, eins og þá var högum háttað. Diðrik mun hafa látið af embætti 1490, og má þá kalla, að settist köttur í ból Bjarnar. Fram að þessu höfðu all-margir hirðstjóranna verið nýtir menn, en þótt útlendir væru sumir hverjir. En nú skiftir um. Eftirmaður Pinings, Ambrósius Illiquod, vann fátt það, er landslýðnum mætti að gagni verða, og er hann kunnastur fyrir það eitt, hve hann ásamt Ólafi Rögnvaldssyni biskup, gekk val fram í því að kúga eignirnar af Hvassafells-Bjarna og koma þeim undir kirkju og krúnu. Að öðru leyti er fátt markvert frá honum að segja.

Á árunum 1495—1502 eru 4 hirðstjórar á Bessastöðum, og kveður lítið að þeim öllum.

Þá kemur Ljenharður fógeti til sögunnar, en ekki varð hann mikil híbýlaprýði konungsgarði, og því síður landsmönnum happ að komu hans. Það orð ljek á löngum, að hann væri djarftækur til fjár og kvenna, og má geta nærri, hvílíkur nágranni hann hefir verið, enda færði hann sig bráðlega upp á skaftið, og fór ránsferðir austur yfir fjall. En Torfi Jónsson í Klofa gerði enda á yfirgangi hans, og tók hann af lífi á Hrauni í Ölvesi; lauk svo hans stjórn hjer á landi.

Skömmu eftir 1500 urðu hirðstjórar, Týli Pjetursson (1517—1520) og Hannes Eggertsson (líklega 1521—1524). Á stjórnarárum þeirra má kalla, að fremur sje agasamt í sjálfum konungsgarðinum. Hvorugur þeirra kemdi hærurnar í embættinu. Týli var drepinn, en Hannes mun hafa farið utan til Þýskalands 1525, eða þar um bil.

Um 1537 kom út hingað Klaus von Marvitzen. Setti hann umboðsmann sinn Diðrik von Mynden. Það má segja, að oft hafi í konungsgarðinum verið misjafnir húsbændur, og landsmönnum örðugir og óþarfir yfirmenn, en vart munu þeir þó öðru sinni verri hafa verið, en á meðan þessir sátu að völdum, enda eru þeir kunnastir fyrir ránsskap og yfirgang. En þótt hvárgi væri góður, var Diðrik þó talinn verri, ef til vill af því að hann dvaldi hjer lengur, því að Klaus var hjer að eins skamma stund.

Að Bessastöðum var í þá daga og er enn útkirkja frá Görðum. Um þessar mundir var prestur í Görðum. Einar Ólafsson, þrekmaður mikill og klerkur hinn besti. Hann lýsir kirkjubóndanum á Bessastöð-

um eitthvað á þá leið, að hann (Diðrk) væri kvennamaður mikill, drykkfeldur og ofstopi hinn mesti við vín. Sveinar hans bættu ekki hemilisbraginn heldur. Það ræður að líkindum, að siðavandur klerkur væri ekki ánægður með slíkt framferði sóknarbarna sinna. En áminningum prests tók Diðrik á þann veg, að hann flaug oftsinnis á hann blindfullur, og sigaði sveinum sínum á hann. Slíkar voru viðtökur þær, er prestur fjekk, er hann kom til Bessastaða í embættiserindum. En að vísu kom Diðrik ekki að tómum kofunum þar, sem prestur átti hlutinn að, því að bæði var hann harðger sjálfur, og átti hrausta sonu. Kom þó svo að lokum, að honum leiddist þóf þetta, og hótaði Diðriki að lesa upp æfisögu hans við Þingvallakirkju, er fjölmenni væri þar sem mest. Er svo að sjá, sem Diðrik hafi ekki getist mjög að þeirri ráðagerð prests, því að hann vitkaðist svo við hótun þessa, að klerkur gat þaðan í frá framið guðsþjónustu tálmunarlaust á Bessastöðum.

Svo sem kunnugt er, var Diðrik bannsunginn af Ögmundi biskupi og nokkru síðar drepinn með sveinum sínum, og þótti það hin mesta landhreinsun.

Á árunum 1540—1559 sátu margir hirðstjórar á Bessastöðum, hver eftir annan, auk umboðsmanna, er þeir settu fyrir sig. Sumir þeirra reyndust landslýðnum næsta óþarfir, svo sem Kristján skrifari. En hitt er þó hörmulegra, að sumir þeir, sem íslenskir voru, og með völdin fóru, voru enn verri en hinir erlendu, svo sem Pjetur Einarsson (Gleraugna-Pjetur). Árið 1559 var Páli Stígssyni veitt höfuðsmannsembættið; var hann rjettlátur talinn og

stjórnsamur. Hann bætti og vandaði um siðferði manna. Að vísu þótti sumum hann ærið refsingasamur, en þó ólíku nýtari fyrirrennurum sínum. Páll andaðist 1566, og var honum reistur fagur minnisvarði, sem enn má sjá í Bessastaðakirkju.

Sá hjet Hinrik Krag, er næst honum varð hirðstjóri á Bessastöðum; sat hann þar að eins árlangt, og er fátt frá honum að segja. Sama máli gegnir um eftirmann hans, Kristofer Walchendorph. Hann var að eins 2 ár, og þótti lítið að honum kveða.

Árið 1570 varð Johann Bucholt hjer höfuðsmaður, og þótti bæði harður og fjegjarn. En kunnastur er hann hjer fyrir óvild þá, er upp kom milli hans og Guðbrands Hólabiskups, og var það ætlun manna, að Jón lögmaður hafi mjög blásið að þeim ófriðareldi, því að þá var mikill óþokki milli lögmanns og biskups. Og eigi er það ólíklegt, að höfuðsmaður hafi átt sinn þátt í því, hve illa biskup varð úti í hinu svo kallaða morðbrjefamáli; því að sagt er, að höfuðsmaður hafi afflutt biskup mjög við konung. Johann ljet af embætti 1598 eða 1599.

Þá vil jeg með fám orðum minnast á þær viðtökur, er helstu menn hjerlendir fengu oft, er þeir heimsóttu höfuðsmanninn á Bessastöðum. — Það mátti segja um Bessastaði á þessum tímum, líkt og sagt var um höll Kaifasar, að þar væri rúmt inngöngu en nokkru þrengra útgöngu.

Það þótti sjálfsagt, er nýr höfuðsmaður kom í embætti, að flestir æðri embættismenn landsins tækjust ferð á hendur til Bessastaða til þess að heilsa upp á höfuðsmann. Síðar, þegar umboðsmenn komu

til sögunnar, urðu þeir auðvitað að mæta þar til þess að gera reikningsskap ráðsmensku sinnar. En svo gat og höfuðsmaður stefnt á fund sinn hverjum, sem hann vildi.

Eftir Bucholt mun Herluff Daa hafa orðið hjer höfuðsmaður, og kom út 1606. Hann gerðist brátt mikill óvin Odds biskups Einarssonar. Sagt er, að Oddur biskup kæmi til Bessastaða, eftir að óvinátta hófst með höfuðsmanni og honum; var þá slegið upp veislu, og óspart drukkið, en er menn fóru að gerast ölvaðir, var tekinn upp kóngsbikar; drakk Herluff Daa af, og síðan var skenkt á hann af annari könnu handa biskupi. Mælt er, að smásveinn höfuðsmanns hafi varaði biskup við að drekka af bikarnum, því eitri væri blandað. En biskup tók bikarinn, helti af nokkru í silfurskál, er hann hafði með sjer, og mælti yfir þessi orð: „Þótt þeir drekki nokkuð banvænlegt, þá mun þeim það ekki granda,“ og drakk af síðan, og hnje litlu síðar í ómegin. Hann var færður til tjalds síns og lá þar nokkra daga, uns hann hrestist. Varð nú fullur fjandskapur með biskupi og höfuðsmanni, og málaferli mikil, er lauk á þá leið, að Árni sonur biskups, er síðar varð lögmaður, vann öll mál föður síns fyrir hæstarjetti, en höfuðsmaður misti öll völd, „og gjörðist snauður. Var hjer 13 ár höfuðsmaður og fjekk stirt mannorð af mörgum.“

Jeg hefi áður minst á óvild þá, er milli var Guðbrands biskups og Jóns lögmanns, þótt þeir sættust reyndar að nafninu til. En grunt mun þó hafa verið á því góða milli þeirra, því þegar Herluff

Daa kom til Bessastaða, reið lögmaður þegar að finna hann; var honum tekið hið besta, því að jafnan hafði hann hylli höfuðsmanna. Um kvöldið var drukkið fast, og heyrðist lögmaður oft mæla þessum orðum: „Nú skal Gutti setja ofan.“ En það var óvirðingarnafn, er hann hafði valið biskupi. Seint um kvöldið var honum fylgt til tjalds dauðadrukknum. Snemma morguninn eftir gekk dönsk kona, sem á staðnum var, út að kirkjugarði, „þar sem tjald lögmanns stóð. Hún leit inn í tjaldið, og sá, að lögmaður lá liðinn í sæng sinni, en sveinar hans sváfu umhverfis hann í tjaldinu. Sagði hún tíðindin; var þá lík lögmanns tekið og jarðað við hlið Páls Stígssonar.“

Einn hinn merkasti höfuðsmaður, sem á þessu landi hefir verið, var Hinrik Bjelke. Hann var maður hámentaður og vandur að virðingu sinni. Þótti alþýðu stundum ærið vandasamt að haga sjer svo, að honum líkaði. Þess er getið, að nálægt 1650 átti Hallgrímur Halldórsson á Víðimýri erindi til Bessastaða til að jafna misklíð, er á var milli hans og lendseta hans í Skagafirði, er kært höfðu fyrir höfuðsmanni. Hallgrímur var umboðsmaður Reynistaðarjarða. Höfuðsmaður tók honum vel, og ljet hann sitja að miðdegisverði með sjer og öðrum heldri mönnum á staðnum. Undir borðum bárust sakargiftirnar í tal. Höfuðsmaður var ekki sterkur í íslensku máli, og Hallgrímur því síður í dönsku; átti hann því erfitt með að láta höfuðsmann skilja ýmislegt, er hann hafði að segja, og tók því það ráð að spretta fingri að konu höfuðsmanns til skiln-

ingsauka. En höfuðsmaður brást við hinn reiðasti, og þótti sjer gerð hin mesta svívirða; brá hann sverði og komst alt í uppnám. En Hallgrími lagðist það til, að á staðnum var þá Hákon sonur Orms í Eyjum í Kjós. Hann gat með naumindum komið Hallgrími óskemdum á hest; hjelt Hallgrímur þá hið skjótasta á burtu, og þótti fótur sinn fegurstur að sleppa. Síðar gengu á milli báðir biskupar og fleiri góðir menn, og náðust þá sættir við höfuðsmann um síðir.

Henrik Bjelke var hjer höfuðsmaður frá 1649—1683; og þótt hann væri nytsemdarmaður, kom það lítt í hald, því að hann fór að dæmi margra fyrirrennara sinna, og sat lengst af í Kaupmannahöfn, en hafði hjer umboðsmenn. En ekki þótti alþýðu stjórn ladsins batna, og því síður heimilisbragurinn á Bessastöðum við veru sumra umboðsmanna hans. Meðal umboðsmanna Bjelke var Tómas Nikulásson. Hann settist að á Bessastöðum 1654, og er kunnastur fyrir grimd, ágirnd og hroka. Sá sveinn hans, er næstur honum gekk að virðingu, er nefndur Mikeal og kölluðu Íslendingar hann „skögultönn". Tómas Nikulásson og sveinar hans urðu brátt illa þokkaðir af öllum landslýð nær og fjær. Harðast urðu þeir þó úti, er næstir honum bjuggu, og eru margar ljótar sögur sagðar af viðskiftum hans við þá. Sú er ein, að hann tæki hest af bónda einum þar á nesinu; vildi hann reyna hestinn, og hleypti honum á skurð einn breiðan. Hesturinn komst yfir, en hrasaði á bakkanum hinum megin. Barði hann þá hestinn svo, að bæði augun lágu úti á kinn. Þetta

gat eigandinn ekki þolað orðalaust, og ljet þá Nikulás grimd sína bitna á manninum, og barði hann til óbóta, en maðurinn varð að þola þessa meðferð bótalaust.

Siðferðið á Bessastöðum um hans daga, má nokkuð marka af því, að þá er Tómas kom frá Höfn, hafði hann með sjer tvo kvenmenn, er hann hjelt sem eiginkonur sínar. Auk þess heimti hann konur til sængur, þar, sem hann fór um landið á yfirreiðum sínum. Frá því er sagt, að hann væri eitthvert sinn í embættisferð um Suðurnes og kæmi um hánótt að Stafnesi, berði bóndann miskunnarlaust upp úr rúminu og gengi sjálfur í sæng hjá húsfreyju hans. Sveinar hans sömdu sig mjög að háttum hans í þessu sem öðru. Árið 1665, fyrsta sumardag eftir Trinitatis druknaði Tómas með mörgum mönnum fram undan Akranesi, og varð víst fám harmdauði, sem nokkuð má ráða af því, að fátæk ekkja, er átti tvo sonu sína á skipinu, mælti, er henni voru sögð tíðindin: „Guð almáttugur gefi, að þessi frjett sje sönn.“ Hún vildi heldur láta báða sonu sína, en hlýða slíkum húsbónda, sem Tómas Nikulásson var. Meistari Brynjólfur sagði, er hann frjetti lát Tómasar, að nú hefði drottinn gert góða landhreinsun hjer á landi. Ummæli þessi ættu að sýna hversu þessi valdsmaður var þokkaður hjá æðri sem lægra.

Það er sagt um orm Herkúlesar, að þótt eitt höfuðið væri höggvið af, yxi annað fram jafnharðan. Sama mátti segja um höfuðsmennina á landi hjer

og umboðsmenn þeirra: þótt einn rýmdi landið, kom önnur blóðsugan jafnharðan í staðinn.

Árið 1667 kom Otto Bjelke. Hann var miðlungi þarfur hjerlandsmönnum, og lagði þunga skatta á landsfólkið (Otta-gjald). Ekki þótti honum sjer sama að kvænast, en hjelt sem frillu Herdísi dóttur Eyjólfs bónda á Brunnastöðum. Mælt er, að margt gengi óskipulega til á Bessastöðum um daga Ottós.

Árið 1686 varð Heidemann æðsti valdsmaður (landfógeti) á landi hjer; rakaði hann saman á stuttum tíma svo miklum auði, að þá er hann flutti til Danmerkur eftir 1690, eftir fárra ára dvöl hjer, hafði hann með sjer, að sögn, 4 skrín full af peningum, og væri hvert þeirra þyngsta hestklif. Setti hann það í kjöthálftunnu við Eyrarsund, eins og formenn hans höfðu jafnan gert fyrir hann, er þeir höfðu auðgast á hjerlandsmönnum, en vildu eigi láta verða of hljóðbært.

Árið 1688 kom hingað til lands Kristian Müller amtmaður. Hafði hann hjer fult konungsvald í 19 ár, eða til 1707, en upp frá því bjó hann í Höfn, og hafði hjer umboðsmenn, uns hann dó 1720. — Hann var sagður óvitur maður og talhlýðinn. Það er mælt, að hann væri mest óþokkaður allra valdsmanna, er hjer hafa verið, og er þá langt til jafnað. Það jók og lítt á vinsældir hans, að hann var maður hjegómagjarn og hrokafullur, og þótti vera ærið grimmur í skapi. Um þessar mundir var verslunareinokun Dana hjer í fullum blóma með öllum þeim þjösnaskap, óhagræði og pindingum, er henni fylgdu. Var refsingum ærið óspart beitt hjer um daga Mül-

lers, og er því líkast, sem hann hafi haft hina mestu ánægju af að sjá menn hýdda og kvalda, þótt ekki væri fyrir stórsakir, eins og þegar Hólmfastur varð að láta húð sína í viðurvist amtmanns fyrir þá eina sök, að hann hafði selt nokkra fiska í Keflavík, er kaupmaður hans í Hafnarfirði hafði eigi viljað taka. Um daga Müllers amtmanns gátu landsmenn varla minst Bessastaða svo að eigi færi hrollur um þá og kvíði, því svo þótti sem staðurinn væri roðinn blóði og vættur tárum margra saklítilla eða saklausra manna. Varla munu „Bessastaðir“ í annan tíma hafa látið ver í eyrum landsins barna en einmitt um hans daga, nema ef vera kynni á dögum Kristjáns skrifara og Diðriks von Mynden.

Þá er Müller amtmaður dó (1720), má svo kalla, að saga Bessastaða fari að verða heldur skaplegri, og fari nú ætíð hóti batnandi, eftir því sem tímar líða fram, uns valdsmenn hætta að eiga þar heima.

Niels Fuhrmann amtmaður, sem sat á Bessastöðum frá 1718—1733, var maður mjög samviskusamur og að mörgu ólíkur Müller. Hins vegar máttu landsmenn, meðan danska valdið sat á Bessastöðum, kenna þaðan margra kaldra ráða, að því er tók til íslensks frelsis, og þangað lágu allar götur með alla þá fjármuni, sem af landsfólkinu var hægt að reita áður en þeir yrðu fluttir utan til Danmerkur.

Þegar jeg les sögu Bessastaða, finst mjer sem óhamingjudís Íslands hafi tekið sjer þar bólfestu jafnsnemma konungshirðstjórunum. og eigi víkur hún þaðan, fyr en hinn síðasti valdsmaður dönsku stjórnarinnar flytur þaðan á burtu alfarinn.

Jeg hefi þá í þessu stutta og sundurlausa ágripi viljað sýna, að Bessastaðir er sá bletturinn hjer á landi, sem á falla einna flestir og ægilegastir skuggarnir; þar fór fram fjölmargt af því, sem landi og þjóð var til hins mesta tjóns og óheilla, bæði í andlegum og veraldlegum efnum. En á hinn bóginn er og á þessum stað sáð þeim frækornum í íslensk hjörtu, sem fegurstan ávöxt hafa borið landsins börnum, því að hjer fengu ungir íslenskir námsmenn, þótt síðar yrði, þann undirbúning undir æfistarf sitt, er gerði þá hæfa síðar meir til að leysa það svo af hendi, að þjóðinni og þeim sjálfum yrði til sæmdar og blessunar.

## II.

Vafalaust má telja það eftir atvikum viturlega ráðið, að latínuskólinn var fluttur úr Reykjavík að Bessastöðum 1805, og skal jeg ögn drepa á þær orsakir, er til þess leiddu.

Þótt skólunum í Skálholti og á Hólum væri ef til vill ábóta vant í sumu, þá virðist þó oft hafa verið þar fjörugt mentalíf, og kennarar margir hámentaðir og skylduræknir menn, er gerðu sjer alt far um að læra drengina sem best og hafa sem hollust áhrif á þá í einu og öðru. Þá er og líklegt, að á slíkum stöðum hafi verið mikil áhersla á það lögð, að glæða trúarlíf þeirra. Enn var og það, að skólunum var þannig í sveit komið, að varla gat hjá því farið, að hugsunarháttur pilta hjeldist íslenksur í anda og sniði, en það mundi aftur verða drýgst til hamingju landsins börnum, að embættismenn þeirra

væru sem íslenskastir í hugarfari; því þótt þeir færu síðar utan til frekara náms, var varla hætt við, að þeir gleymdu því er íslenskt var, er grundvöllurinn að mentun þeirra var áður lagður í íslenskum sveitaskólum. Biskuparnir voru og hinir mestu mentamenn, margir hverjir, og einlægir ættjarðarvinir. Hið andlega loft á biskupsstólunum var því svo holt, sem verða mátti, og þar gat varla verið uf mikil erlend áhrif að ræða. Þegar nú skólinn var fluttur til Reykjavíkur, varð mikil breyting á þessu, og ekki til batnaðar. Skólahúsinu á Hólavelli er lýst á þá leið, að nú mundi leitun á því varningshúsi, að jafn óvistlegt sje sem það; þá voru og rúm og rúmfatnaður pilta svo slæmur, að næsta er óskiljanlegt, hvernig þeir gátu haldið heilsu, og vafasamt þykir mjer, hvort nokrum mundi nú boðinn slíkur aðbúnaður í nokkurri sjóbúð, sem þeir urðu að hlíta þar. Fæði og annar viðurgjörningur var og eftir þessu. Mælt er, að þeir piltar þættust vel haldnir. er fengu eina sæmilega máltíð á dag. Kjötsúpa þótti þeim torgætur dýrindis rjettur um þær mundir. Algengasti maturinn var harður fiskur og súrt smjör. Flatkökur sáust því að eins, að mikið skyldi við hafa.

Og hvernig voru svo hin andlegu áhrifin, sem piltar urðu fyrir? Lærdómi sumra kennaranna er lýst á þá leið, að varla mundi drengur í efsta bekk barnaskólans hjer nú vera talinn neitt framúrskarandi að þekkingu, þótt við þá jafnaðist, enda kom það ósjaldan fyrir, að piltar, sem lært höfðu undir skóla hjá einhverjum sveitapresti, gátu rekið kennarann í vörðurnar í latínu og öðrum námsgreinum.

Um samlíf var ekki að ræða milli kennara og pilta, því öll skilyrði vantaði til þess, að piltar gætu borið virðingu fyrir þessum „lærifeðrum“ sínum.

Hvernig leið svo trúarlífinu hjer í bænum og grendinni í kring um aldamótin 1800?

Aldamóta skynsemistrúin svo kallaða hafði þá allvel hafnað sig hjer í Rvík og átti öflugan styrktarmann þar sem var Magnús gamli konferensráð; og fleiri voru honum líkir hjer syðra um þessar mundir. Hins vegar mun þessi skynsemistrú þá enn hafa verið lítið kunn út um sveitir landsins. Það sannaðist, a. m. k. hjer í Reykjavík þá sem oftar, að „hvað höfðingjarnir hafast að, hinir ætla sjer leyfist það.“ — Kvöld eftir kvöld voru hjer í bænum haldnar kappræður um það, hvort Kristur hefði verið til, og ef svo hefði verið, hvort hann hefði þá í nokkru borið af samtíðarmönnum sínum. Og hversu sljettar, áferðarfagrar og viturlegar sem þessar ræður kunna að hafa verið að öðru leyti, þá virðist mjer sem þær hafi varla getað borið vott um sterka eða innilega trúarsannfæringu, og víst hafa þær ekki orðið til þess að opna hugi og hjörtu æskulýðsins fyrir sannindum og fegurð kristindómsins.

Þá átti móðurmálið ekki upp á pallborðið hjer í Reykjavík eða hjá ýmsum öðrum leiðandi mönnum þjóðarinnar, og hafa „Islandske Maaneds Tidender“ verið höfð að dæmi. En um þau er það að segja, að þau munu þó vera rituð á sæmilegri dönsku. En bækur Magnúsar Stephensen konferensráðs og reyndar fleiri bækur, er þá komu út, voru máli voru miklu háskalegri, því að margar þeirra eru ritaðar á mesta

hrafna máli, bjagaðri dönsku og íslensku. Það var um þær mundir, sem Sveinn lögmaður Sölvason kvað upp úr með þann dóm, að íslenskunni bæri að „dependera af dönskunni", og væri þá rjett, að allar bækur væru ritaðar á þá tungu.

Í „höfuðstaðnum" var tæplega talað íslenskt orð óbjagað. Allir bæjarstjórnarfundir fóru fram á dönsku. Það er í frásögur fært, að fundur var þá boðaður á íslensku, sem nokkrir embættismenn voru við riðnir. Svo fágætt var þetta þá. Fyrstu fundarbækur barnaskólans hjer eru og ritaðar á dönsku. Út af þessum ísl. fundi varð all-mikill úlfaþytur hjer í bæ, því að nokkrir oddborgarar töldu það hina mestu óhæfu gagnvart hinu opinbera danska valdi að auglýsa fundinn á íslensku. Og það var gengið enn lengra. Það þótti jafnvel mikil fremd að breyta málrómnum, svo að kokhljóðið heyrðist, og var það upphaf Reykjavíkur „R"-sins, sem síðar varð nafntogað um land alt. Um þjóðernistilfinningu og ættjarðarást var yfirleitt ekki að ræða. Það tvent mun verið hafa óþekt í höfuðstað Íslands um aldamótin 1800.

Klæðnaði og fatasniði hefir Sigurður Guðmundsson málari lýst svo ágætavel, að jeg sleppi að minnast á það hjer, enda þykist jeg vita, að þið kannist öll við ritgerð hans í Nýjum fjelagsritum.

Það er víst lítið efamál, að aldrei hafi vantraustið á framtíð Íslands og fyrirlitningin á öllu því, er íslenskt var, verið meiri en þá, einkum hjer í Rvík. Reykjavík var þá ekkert annað en einskonar selstöð danskra eða dansklundaðra kaupahjeðna, er inni-

lega fyrirlitu íslenskt mál og menningu, og yfirleitt alt, sem íslenskt var. Landið okkar var eyðisker í augum þessara burgeisa, og landslýðurinn ánauðugir þrælar. Þeir voru hjer fæstir lengur en þeir þurftu. Þeir hurfu hjeðan, jafnskjótt og þeim hafði græðst nægilegt fje, og hjeldu þá til Danmerkur, þar var fyrirheitna landið, þangað stefndi hugurinn, enda var svo um eitt skeið, að litlu munaði, að allir Íslendingar yrðu fluttir til Danmerkur og settir niður á Jótlandsheiðum.

Tómas Sæmundsson kallar Reykjavík eitraða verstöð danskra verslunarokrara.

Það ætti að vera vandalítið að sjá, hver áhrif bæjarbragur sá, er jeg hefi nú drepið á stuttlega, hlýtur að hafa haft á hina ungu námsmenn, er þeir komu ungir og óreyndir úr kyrð og ró sveitaheimilanna í slíkt endemi sem Reykjavík var. Það varð og svo, að andlega loftið reyndist ekki að sínu leyti hollara, en hinn líkamlegi aðbúnaður, er piltar sættu hjer.

Þetta skildu og játuðu líka vitrustu og bestu menn þessarar þjóðar, og því var það ráð tekið að flytja skólann til Bessastaða 1805, og þá urðu skjót umskifti, og þau góð. Þaðan kom nú hver maðurinn öðrum merkilegri, og get jeg hjer að eins fárra: Baldvin Einarsson, Tómas Sæmundsson, Bjarni rektor, Brynjólfur Pjetursson, Konráð Gíslason, Oddgeir Stephensen, Jónas Hallgrímsson, Jón Sigurðsson, Páll Melsteð, Jón Pjetursson, háyfird., Jón Thóroddsen, og enn mætti nefna marga fleiri. En hversu mátti það nú verða, að þjóðin fengi slíka menn frá Bessastaðaskóla?

Margir hafa talið, að sú væri aðalástæða þessa, hve kennarar Bessastaðaskóla voru nýtir og duglegir menn, og vafalaust er þetta einhver mikilvægasta ástæðan. En jeg ætla þó, að fleiri stoðir renni hjer undir, en þessi eina, og víst er um það, að ekki var það fjöldi námsgreinanna, er þessu fengi til vegar komið. Námsgreinar voru fáar, sjeu þær bornar saman við það, sem lært er nú í hinum almenna mentaskóla þessa lands. En hjer var nú ekki lengur kotbæjarbragur Reykjavíkur til að glepja fyrir og spilla. Kennararnir voru eins og áður er sagt, hver öðrum merkilegri. Allir þekkjum við Dr. Sveinbjörn Egilsson svo vel af verkum hans, að óþarft er að lýsa honum nánar hjer. Og eigi var Dr. Hallgrímur Scheving lakari að sínu leyti. Þá var og samlífið milli pilta og kennara miklu nánara, en þá stund, er skólinn var í Reykjavík, og það eitt, að vera samvistum við slíka menn, sem þessa og Björn Gunnlaugsson og hina kennarana vel flesta, hlaut að hafa hin víðtækustu og bestu áhrif á alla þá, er yfirleitt gátu betrast af því, sem fagurt var fyrir þeim haft. Þá gátu kennarar og haft eftirlit með piltum og tekið meiri þátt í athöfnum þeirra og leikum, er allir voru á einum stað, en þetta verður erfiðar miklu, er svo má kalla, að hver búi í sinni áttinni.

Bessastaðapiltar iðkuðu og allmikið íþróttir þær, er karlmensku þurfti við, svo sem sund og glímu, og var Dr. Hallgrímur jafnan nærstaddur, þá er glímt var, því að hann hafði verið íþróttamaður og karlmenni í æsku, og hafði enn gaman af að horfa á tuskið; og jafnan þótti honum svívirðing í, ef skólasveinn fjell fyrir

utanskólapilti. Þetta alt hvað með öðru varð til þess, að efla þrótt og atorku pilta. Ekki voru þá heldur kaffihús þar syðra til að sitja í á síðkvöldum, eða svefnloft hlýjuð áður en til rekkju væri gengið. En væri piltum kalt, gátu þeir farið í kapphlaup úti á túni, eða kastað klæðum og velt sjer í snjó, ef þeim var hitinn að meini, og þótti að minsta kosti Dr. Scheving slíkt karlmenska; voru og margir Bessastaðamenn allmiklir íþróttamenn um sund og glímu, og þóttu harðfengir og þrekmiklir.

En þótt skólinn virtist vel settur á Bessastöðum, hefir yfirvöldunum vafalaust litist annað, því eins og kunnugt er, var hann aftur fluttur til Reykjavíkur skömmu fyrir miðja öldina, sem leið, og — lýkur þá að kalla má sögu Bessastaða.

Jeg valdi að segja þetta ágrip af sögu Bessastaða hjer kvöld af því, að við allir fjelagar, yngri sem eldri, vitum það og skiljum, að við erum stríðsmenn Jesú Krists, og eigum að vinna að eflingu guðsríkis, hver í sinn stað, landi voru til gagns og sóma. Þegar við því komum til eða heyrum frá sagt þeim stöðum í landi voru, þar sem stórviðburðir hafa gerst, er af hefir leitt ilt eða gott fyrir þessa þjóð, þá eigum við fyrst og fremst að þakka guði trúfesti þá og vernd, er hann hefir jafnan sýnt fósturjörð vorri og þeim, er hana byggja, bæði í mótlæti og meðlæti. En endurminningarnar hrópa líka hátt og skýrt til vor allra hjer, og minna oss á skyldur vorar við guð og föðurlandið, sem oss ber að ynna af hendi með auðmýkt og trúmensku hver í sinn stað. Tök-

um oss því hina góðu til fyrirmyndar, en höfum hina að lifandi viðvörunardæmi, og þá mun oss öllum vel farnast að lokum.



# EFNISYFIRLIT

# LAGFÆRINGAR.

Bls. 7, 4. l. a. n. allmiklu málið les: *allmiklu máli.*
— 12, 13. l. a. n. bróður einn les: *bróður sinn.*
— 20, 11. l. a. o. fólsklega les: *fólslega.*
— 21, 13. l. a. o. var boðið vatnið les: *var borið vatnið.*
— 24, 1. l. a. n. hann hefði les: *hann hafði.*
— 35, 5. l. a. o. allir menn les: *aðrir menn.*
— 38, 3. l. a. n. en margir les: *og margir.*
— 45, 11. l. a. o. og þeirra lýsingu les: *og þeirri lýsingu.*
— 56, 6. l. a. o. fylgiskonungur les: *fylkiskonungur.*
— 61, 8. l. a. n. virðingu les: *virðing.*
— 61, 7. l. a. n. má áætla les: *má ætla..*
— 62, 15. l. a. n. þessu minnast les: *þessu næst minnast.*
— 62, 14. l. a. n. kristnninnar les: *kristinnar.*
— 63, 9. l. a. o. Inga gamla les: *Ingimundar gamla.*
— 63, 9. l. a. n. tóku við við les: *tóku þau við.*
— 71, 4. l. a. n. fjárránsdóm les: *fjeránsdóm.*
— 75, 10. l. a. o. gengið hafa les: *gengið hafið.*
— 83, 9. l. a. n. um eina merkilega les: *um hina merkilegu.*
— 84, 14. l. a. n. og er til arfs les: *og til arfs.*
— 88, 15.–14. l. a. n. útlendra þjóðhöfðingja les *útlenda þjóðhöfðingja.*
— 102, 3. l. a. n. námu sambandi les: *nánu sambandi.*
— 175, 8. l. a. o. ágreðist les: *ágerðist.*
— 222, 14. l. a. n. Árið 1508 les: *Árið 1507.*
— 229, 1. l. a. o. lýsing les: *lýsingar.*
— 272, 3. l. a. n. Skúla les: *Þorláks.*
— 277, 15. l. a. o. Þorláks les: *Þorkels.*
— 281, 12. l. a. o. Islandae les: *Islandiae.*
— 285, 5. l. a. n. samið er til les: *samið til.*
— 290, 7. l. a. n. Árið 1540 les: *Árið 1538.*
— 321, 9. l. a. n. 13. sálm- les: *23. sálm-.*
— 366, 15. l. a. n. hvíhenti les: *tvíhenti.*
— 376, 3. l. a. o. Helgi les: *Halldór.*
— 379, 5. l. a. n. föðurafa sínum les: *föðurföður sínum.*
— 434, 1. l. a. o. og aðrir íþróttir les: *og aðrar íþróttir.*